# DIPLOMATARIUM ISLANDICUM.

# ÍSLENZKT FORNBRÉFASAFN,

SEM HEFIR INNI AÐ HALDA
BRÉF OG GJÖRNÍNGA, DÓMA OG MÁLDAGA,
OG AÐRAR SKRÁR,

ER SNERTA

ÍSLAND EÐA ÍSLENZKA MENN.

GEFIÐ ÚT
AF
HINU ÍSLENZKA BÓKMENTAFÉLAGI.

ÞRIÐJA BINDI
1269—1415.

KAUPMANNAHÖFN.
Í PRENTSMIÐJU S. L. MÖLLERS.
1896.

# Formáli.

Það eru þrjú ár síðan II. bindi Fornbréfasafnsins var lokið, en þá var einnig lokið við prentun á öllum texta þessa bindis, sem nú kemr hér síðasta hepti af. Að það hefir ekki orðið fyrri, kemr af ýmsum ástæðum, sem óþarfi er hér að greina frá. Frá hinu vildi eg heldr skýra, að registr við þetta bindi er gert á svipaðan hátt og hin fyrri registr, og að sömu mennirnir hafa unnið að því og registrinu við II. bindið. Hefir Ólafr cand. phil. Davíðsson safnað alveg til hluta og orða registrsins og hefir alla ábyrgð á tilvitnunum þar, en eg hefi gert registrið yfir staðanöfn og manna, og sett alt registrið í þá heild, sem það er í. Það sem helzt hefir verið breytt til frá fyrri registrum er í því fólgið, að nokkrum nýjum deildum hefir verið aukið við (t. a. m. húsgagn, húsbúnaðr, húsakynni, klæði, klæðnaðr ofl.), og er það á minni ábyrgð; ennfremr að ýms orð hafa ekki verið tekin upp, nema þar sem þau hafa einhverja ákveðna og sérstaka þýðingu að efninu til, og hefir það verið Olafs verk að ákveða það um leið og hann safnaði tilvitnunum; það er hið þriðja, að sumar deildir registrsins, er minni háttar eru, hefi eg ekki sundrliðað, en engri tilvitnan er þar fyrir slept, svo að alt er að því leyti jafnfult (sjá t. d. bænhús). Er þetta gert fyrir stuttleika sakir, og til þess að komast hjá óþarfakostnaði.

Um registr þessa bindis skal þess enn getið, að ártöl þau, sem eg hefi víða sett í svigum aptan við mannanöfn, tákna að jafnaði, að þeir menn komi fyrir í Fornbréfasafninu á þeim árum, sem til eru færð. Þó er sumstaðar, en ekki alstaðar, frá því vikið, ef frekara er kunnugt um mennina eptir annálum eða öðru. Vera má að einhver smáósamkvæmni kunni að finnast í registrinu í rithætti og um tilvísanir frá einu orði til annars, þótt eg vænist þess, að þær sé ekki bagalegar til muna[1]), enda vildi eg afsaka alla slíka miskviðu með því, að registrið hefir verið samið af mikilli skyndingu, að miklu leyti á þessu ári jafnhliða því, sem eg hefi og gert tvö önnur nokkuð illvíg registr um leið: við Ártíðaskrárnar sem prentað er, og við IV. bindi Fornbréfasafnsins, sem prenta á næsta ár. Það er sjálfsagt, að það mun ekki vera kallað mjög andríkt starf að semja registr, en svo vildi eg þó kveðið hafa, að einginn gerir það sofandi, né með höndurnar í vösunum. Meiri níðvinnu getr varla, og í slíku registri sem þessu, kemr svo mart fyrir vafasamt, að þar við þarf allan athuga, einkum við manna- og staðanöfnin. Að greina rétt í öllu milli allra manna, er samnefnt eiga, eða sjá hverir af þeim er einn og sami maðr, sem koma fyrir í þessu safni, er svo vandasamt, að eg þori einganveginn að ábyrgjast, að mér hafi tekizt það, en sú er þar bót í máli, ef bót skal kalla, að það getr einginn, nema þeir, sem þora að staðhæfa alt það um forn tíðindi, sem þeim dettr í hug. Staðanöfnin eru þó ennþá viðsjárverðari. Þar stendr maðr opt uppi alveg ráðalaus, því að einginn landsuppdráttr, jarðabækr né nafnaskrár hrökkva neitt til, en hinsvegar getr maðr altaf átt á hættu, að kunnugir menn á hverjum einstökum stað út um alt land reki mann í vörðurnar. Það, sem

[1]) Eg skal geta þess, að nöfnum, er að eptirnafni hafa Sigurðsson (—arson), Guðmundsson (—arson) eða því um líkt er raðað með vilj saman, hvort sem eignarfallsendingin er *ar* eða *s* í bókinni.

skást hefir dugað mér, eru sóknarlýsingar prestanna, sem nú eru í safni Bókmentafélagsins, og þó ekki til hlítar. Það er svo mart smátt bæði í bréfum og máldögum, að eingir geta þekt það, nema gagnkunnugir menn á hverjum stað, fjármenn, rekamenn og ábúendr jarðanna, ef hin fornu örnefni annars haldast. Biskupinn á Íslandi gæti gert mart, sem óþarfara væri en það, að gangast fyrir því við klerkadóminn, að fá nákvæmar skýrslur um öll örnefni í kirknamáldögunum, sem svo væri lagðar við skjalasafn biskupsdæmisins. Það væri ekki einungis fróðlegt fyrir staðlýsing landsins, heldr og hagfelt fyrir alla staðarhaldara síðar meir.

Um fráganginn á Fornbréfasafninu þarf eg ekki mart að segja, en þess vænist eg, að útgáfa þess sé áreiðanleg í öllu því, sem verulegt er og máli skiptir og því mega allir hlíta. En að láta sér detta í hug, að ekki finnist í því einhverjar stafvillur, er óvitum einum ætlandi, enda hefi eg aldrei hugsað mér svo hátt, því það hefir eingum tekizt enn, það eg veit til, í slíkum ritum, og það er því síðr hugsanlegt hér en annarsstaðar sem hraði mikill hefir verið heimtaðr á útgáfunni, en ritið hins vegar krefr meiri tíma og rannsóknir til undirbúnings en nær nokkurt annað rit, því að heimildirnar standa svo dreifar, að einginn veit hvenær alt er rannsakað eða fundið, sem til er. Mart hefi eg og orðið að láta prenta eptir afskriptum annara manna bæði í þessu bindi og hinum, sem út eru komin, og sum handrit, sem ekki eru hér við hendina, en mikið hefir verið úr prentað í safninu, bæði í þessu bindi og hinum, hefir mér ekki verið léð svo leingi, að eg hafi getað borið prófarkir saman við þau. Hvorutveggja verðr og hver sá að hlíta, er þetta safn gefr út; hjá því verðr ekki komist. Enn er sumt í þessu bindi, sem eg hefi orðið að lesa prófarkir af á meðan eg var í öðru landi, og gat því ekki borið saman við frumrit hér í prentuninni. Eingu að síðr hefi eg þá von að

minn frágangr á safninu sé hér um bil eins vandaðr í heild sinni og á öðrum samskonar söfnum, t. a. m. á Fornbréfasafni Norðmanna, sem Íslendingum stendr næst og merkilegast er allra útlendra Fornbréfasafna fyrir Ísland. En svo vandað sem það er í alla staði, held eg mér sé þó óhætt að segja það, að þau brét sé teljandi, sem í því standa og eg hefi látið prenta og átt kost á að bera saman við frumritin, að ekki finnist í þeim einhverjar smástafvillur, en vitanlega flestar svo sem þýðingarlausar. Alveg hið sama er að segja um fyrsta bindi af íslenzku Fornbréfasafni, sem Jón Sigurðsson gaf út. Það er áreiðanlegt í öllu því, sem verulegt er, en í því smáa og óverulega, svo sem stafsetningu, er ýmsislegt ósamkvæmt handritunum, þó hann hafi annars ætlað sér að fylgja stafsetning handritsins í því og því skjalinu, auk þess sem hann hefir alveg búið til rithátt á sumum skjölunum. Mæli eg þetta hvorki honum til vanza né mér til afsökunar, heldr til þess að ljóst mætti verða, að hver skynsamr maðr leggr í slíku riti sem þessu mesta áherzlu á það, sem verulegt er, og heldr stafsetningu frumritanna að svo miklu sem þarf, án þess að úr því verði stafsetningarhégómi, og þeim hætti mun eg fylgja, hvort sem eg á leingr eða skemr við þetta safn hér eptir.[1])

Það er ekkert tiltökumál þótt öllum þorra á Íslandi þyki

---

[1]) Eg mun sjálfr einhvern tíma síðar meir birta í einhverju bindi þessa safns leiðréttingar þær við það, sem eg hefi gefið út af safninu, er mér virðist þörf á. Í þetta skipti vil eg geta þessara: II, $58^4$ þeir l. þeim; bls. $226^4$ »biskupsvigslu og« á að falla niðr; bls. $718_3$—$719^2$ á að leiðrétta á þá leið, að frumritið að Leiðarhólmskrá vitnar ekki í samninginn $^{30}/_{6}$ 1337, en afskript Jóns lögmanns (AM. 240. 4to) gerir það þar á móti, þótt mér hafi sézt yfir það, þegar þetta var ritað. — Af »gefnu tilefni« skal eg geta þess, að prentari Fornbréfasafnsins, J. V. Möller, hefir gefið frágangi mínum á handriti því að safninu, er hann hefir frá mér feingið til prentunar þenna vitnisburð:

Fornbréfasafnið nokkuð þurt ákomu, en á hinu átti eg síðr von, að flestir skynsamir og mentaðir menn skildi ekki, hvað þýðingarmikið það er að fá það gefið út. En þó hefi eg heyrt einmitt ýmsa af hinum svo kölluðu lærðu eða latínuskólageingnu mönnum mæla svo, að þeir vissu ekki til hvers það væri, og gæti eg bezt trúað því, að skynsamir alþýðumenn skildu það betr. Eg skal nú ekki hafa langan formála um það, að koma mönnum í skilning um þetta, en hins skal eg geta, að allir menn, sem nokkuð skynja, vita það, að það er ekkert rit til, sem er eins áríðandi fyrir sögu landsins á fyrri öldum í öllum greinum, að gefið sé út eins og Fornbréfasafnið. Á meðan fornskjölin liggja óprentuð, er alveg ómögulegt að vita eða skrifa nokkuð til hlítar um hag landsins eða sögu langt fram eptir öldum. Jafnvel hinir lærðustu menn hafa um einstök efni misstigið sig af því þeir gátu ekki þekt þær heimildir allar, sem til eru, vegna þess þær voru ekki prentaðar. Og af hverju öðru kemr, að menn, sem annars eru vel að sér og nota það, sem til er prentað, rita þó svo um þá kafla úr sögu landsins, sem safn þetta er ekki enn prentað fyrir, að gagnlaust er til frambúðar? Jafnóðum og safninu miðar fram, birtir svo yfir liðnum öldum, að þar verðr skýr vegr, sem áðr var varla ratljóst, og þoki safninu það fram, sem því nú hefir gert um hin síðustu ár, getr hver miðlungsmaðr um miðbik næstu aldar vitað það heima hjá sér fyrirhafnarlaust, sem hinir lærðustu menn nú vita alls ekkert um. Á hina hliðina hefir safnið hina mestu þýðingu fyrir fasteignir um alt land, bæði opinberar og þær, sem einstakir menn eiga. Um íslenzkt mál hefir og safn þetta hina mestu þýðingu, ekki einungis til fróðleiks, heldr má

---

»Handrit það, sem þér hafið látið okkur fá til prentunar af íslenzku Fornbréfasafni, hefir verið skýrt skrifað og gott að setja eptir því.«

— þótt sumt sé að varast — af því læra mart, sem notagott mætti vera þann dag í dag í höndum þeirra, sem með kunna að fara, einkum þó fyrir lagamálið nú á dögum, sem enn vantar mikið á að sé búið að ná sér aptr eptir þá meðferð, er það hefir feingið á hinum síðari öldum; og fallegri er dómsályktunar forsögnin forna: »Því er það vor (minn) dómur o. s. frv.« heldr en það form, sem nú tíðkast: »því dæmist rétt að(!) vera«, því að það er rangt mál með öllu, og ætti að vera, skyldi því halda: »því dæmist, að rétt sé«.

Eg þarf hér hvorki að nefna þau söfn né einstaka menn, er greitt hafa enn fyrir mér við safn þetta, því það kemr alt í sama garð og við II. bindið, þótt nokkurra minnist eg fleiri, en þakkað vildi eg hafa þeim öllum. Sérstaklega verð eg þó að geta þess, að bæði Carlsbergssjóðr og Kenslumálaráðuneytið danska veittu mér hér um árið styrk til að rannsaka ýms handritasöfn, svo sem á Einglandi, sem bar æðimikinn árangr fyrir Fornbréfasafnið, og sér þess nokkur merki bæði í þessu bindi og hinu IV., sem þegar er prentað að texta til.

Kaupmannahöfn á gamlaársdag 1896.

*Jón Þorkelsson.*

## Röð og efni bréfanna.

[1]) Röð bréfanna hefir haggazt svo í útgáfunni, að hlaupið er yfir

377, en 390 er tvisvar, svo að tala bréfanna verðr rétt ei að síðr, en Nr. 378—390 á að færast fram um eitt set hvert.

# DIPLOMATARIUM ISLANDICUM.

1. [1269].

MÁLDAGI Pétrskirkju í Dal undir Eyjafjöllum [er Arni biskup Þorláksson setti].

Árið 1269 setti Árni biskup Þorláksson Magnús bróður sinn á Dal. (Bps I, 716); kynni þessi máldagi að vera frá þeim tíma. AM. 263. Fol. bls. 30 skr. 1598 og er áfast við brot af Oddamáldaga frá 1270 og er ekki ný lína; fyrirsögn við hvorttveggja í sameiningu er «Gamall maldagi». Þessi máldagi er víst eldri en sá frá 1332.

Þetta er partur af dalsmaldaga[1]).

......prestur annar skal sýngia heima huern loghelgann dag. allar tijder. enn annar prestur skal syngia j brautt loghelga daga. þar skal vera messa huern dag a xij manudum oc allar tijder. suo at alldrege skal missa ne einnar. tuær messur skulu vera vm langa fostu drottins daga a mille. oc vigilia defunctorum. oc annan huern dag vmm iola fostu hid siallnazta. oc vmm imbrodaga alla. oc iafnann er vigilia messa er gior til. þadan skal syngia tolf salumessur j hinn nædra dal a xij. manudum. kirkia a oblæta jarn tuenn. guduefiar pell oc margar lausa bækur.

þadann skal syngia i hina yzto mork huern dag helgann oc giallda .iiij. merkur preste oc xl vetta heÿs oc færa j dal. a þorgeirsstodum skal syngia tolf messur or dal oc giallda preste halfa mork vadmala. j midmork skal syngia tolf salu messur oc giallda xviij. aluer bonda þeim sem byr j dal. ecki er skyllt ad fæda prest med þessum messum.

[1]) á spássiu.

2. [um 1270].

Rekaskrá staðarins í Skálholti á norðrströndum.

Landsb. 268. 4to bl. 155a skr. 1601. Þessi skrá er áðr prentuð í Dipl. Isl. II, 24, en þar er þessi afskript ekki notuð; þykir því réttast að prenta hana hér, af því að hún er elzt þeirra afskripta sem nú eru til af skránni. Í bréfabók Gísla biskups Oddssonar eru ein tvö eptirrit af þessari skrá, en ekkert kemr þar nýtt fram.

Þessa reka oc hualvonir [a stadrinn] j skalhollti.

[þria hlu]te j þistilsfirde fra steine þeim er stendur j vidiar[vik]rar(!) ose oc til sualbardzær oss fiordungur j h[ual] huort hann er fluttur eda rekur hann oc gardz reka fra dalnum vestasta oc til saurneisnalækiar(!) attungur j hual med sama mote j millum saurveisnalækiar oc stodvlzlækiar oc allar hualvoner j mille stodulslækiar oc gotuvijkur aull fluttning fra gotuvijk vestanverdri oc til sandær oss. þria hlute j halfum hual med þessum ollum hualvonum æ hann skipan æ huðlum vtan landeigande æ eirnn skurd oc vj vætter j blashual(!) j millum holknær oss. oc hafralonz ær er fimtunga skipte æ hual skal þrimur fimtungum skipta j vij stade. enn þrir af vij lagu til gunnarzstada oc æ stadurinn þä iij halfa oc rada fyrir skotmans hlut ad helmingi. halfann fluttning j millum laxarossens fornna oc hafralonzær. j þria stade skal skipta hual j millum toftær fra sandzenda oc hafralonzær liggur eirnn þridiungur til kirkiunnar æ saudanese. oc annar til hallgeirsstada tueim hlutum huals þeim er epter eru skal skipta j þridiunga æ stadurinn þann eirnn hlut oc sæ er vid hann æ. þessa reka æ(!) fra husatoft þessi oc til fossær fiordung j hual oc þui minna ad stadurinn at mukaþueræ. æ halfann atiauda partt fra steini j lambanese fyrir loni oc j millum [deildarskeria oc grapstiarnar[1]) halfur hualur suo sem til tekst millum deilldarskeria oc grapstiarnar: tolftungur ur þridiungi fiordungur ur þridiungi. . . . . . . . . . . . . . .[2])

---

[1]) [strykað út í handritinu; [2]) hér vantar í máldagabókina.

3. [um 1275].

MÁLDAGI Maríukirkju í Krýsuvík.

JSig. 143. 4to bls. 365 á pappír c. 1600 (Garðabók). Máldagi Krýsuvíkr er áðr prentaðr í safni þessu (II, 193) og heimfærðr til 1307; er sá máldagi fyllri, en að mestu eru þeir samhljóða í því, sem báðir hafa. Þessi mun því vera frá dögum Staða-Árna.

Krysevijk.

Mariukirckia j krijsuvijk a heimaland alltt. Herdijsarvijk. ix mæla land a þorkotlustödum. halfann hualreka j Raunnese[1]) millum Rangagiogurs og marckz vid Bedstædinga. og einga[2]) grasnautn med. þria blute hvalz. enn videyingar fiordung. Enn frä mijgande grof til kirkiufiðru eiga stader j skalhollte og krijsevijk. helming hvalz oc vidar oc alla grasnautn. Krijsuvijk ä allan Reka ä kirkiufioru. enn frä kirkiufiðru og til markz vid Herdijsarvijk ä stadurinn j skalhollte helmijng vidar. vid Krijsuvijk. þridiung hualreka eigu bader stader saman til markz vid strandarmenn. enn fiordung hvals vid stadarmenn til vogz. halfann tolftung hvalz j krijsuvik j [stadar hlutum[3]).

---

4. [um 1285].

REKASKRÁ Grundar í Eyjafirði um Tjörnes.

Landsb. 122. 4to bls. 15—16 á pappír skrifað af séra Vigfúsi Jónssyni í Hítardal nál. 1770. Á undan þessu stendr í bókinni «Hólamáldagi» frá 1296 (Dipl. Isl. II, 161). Veit eg þessa skrá nú hvergi finnast nema í þessu pappírshandriti, og tók eg fyrst eptir henni sumarið 1889, sem eg var á Íslandi, og sá strax að hún mundi vera forn. En einginn hægðarleikr er þó að árfæra hana með vissu, heldr að ágizkan. Jón lögmaðr sá sem hér er nefndr mun án efa vera Jón lögmaðr Einarsson. Hann var lögsögumaðr 1267 og 1269—70, og lögmaðr 1277—94 og er skrá þessi sett hér miðjavega á það tímabil. Örnólfr sá, sem hér er getið um, hygg eg muni vera Örnólfr Þorvarðsson í Miklagarði, sem þar er getið 1253 og hefir líklega lífað fram um 1280—90. En Hallr lögmaðr Jónsson er alt óvissara hver er, því að ekki þekkist nú neinn lögmaðr með því nafni. Er því annaðhvort, að þessi maðr hefir verið kallaðr lögmaðr að auknefni (sbr. athgr. séra Vigfúsar), ellegar þá að þetta er Hallr Jónsson af Möðruvöllum — um annan getr ekki verið að tala sem verið hafi lögmaðr eða lögsögumaðr — og hafi hann þá verið lögmaðr eða lögsögumaðr svo sem eitt ár, þó að

---

[1]) Rumnese (!) hdr.; [2]) eingia, máld. 1307 (sbr. Dipl. Isl. II, Nr. 193); [3]) [strandar hluta, máld. 1307.

það sé nú ókunnugt. Hallr á Möðruvöllum var á lífi 1262, en fyrir 1274 virðist hann vera dáinn. Kaup þeirra Jóns lögmanns og hans hefði því átt að fara fram fyrir 1274, en bréfaðr gat kaupgjörningrinn verið löngu síðar. En líklegast er að Hallr sá, sem hér er nefndr hafi verið að auknefni kallaðr lögmaðr.

þessa Reka æ Grund i Eÿiafyrde æ Tiörnnese sem hier seger.

Fyrer Hringvers jordu fiordung i vidreka og i hualreka. og betra er ad hafa en ân ad vera.

J Tungureka ytre helming hvalz. hvort sem helldur er fluttur edur rekur med ollum gôgnum og skotmanns hlut.

allan Reka og flutning fyrir Hallbiarnarstodum med ollum gôgnum og skotmanns hlut. nema alnar kefle.

Firer Isolfsstodum attung i hvalreka og vidreka med ollum gôgnum.

Fyrer Hole âttung med ôllum gôgnum og i odru lage tveir hluter attungs med ollum gôgnum og skotmanns hlut og vidreka.

J Kalvijk og i Diupavijk halfa flutninga og so hvalreka og vidreka med skurdum og skothlut.

. . . . . vijk og skipavijk fyrir Hole. fiordung i hvalreka og vidreka og flutningar með skurdum og skothlut.

J furuvijk helming oskerdann. er Jon logmann hafde af ørnolfe og halfan helming og fiordung ur fiordunge med ôllum gôgnum og skotmanns hlut og vidreka.

J sandholareka halfan flutning og halfur hvalreke og vidreke med skurdum og skothlut.

Hafde Eg Jon logmadur þessa Reka alla med kaupe af Halle Jonssyne lôgmanne[1]).

[1]) Athugs. séra Vigfúsar. «NB. Hallr Jónsson finst ekki í lögmannatalinu og því er þetta rangt, nema þessi Hal·r hafi að aukanafni verið kallaðr lögmaðr eins og Kolbeinn jarl í Árna biskups sögu cap. 12 og Borgarkirkjumáldaga fyrir norðan. Eðr hver skyldi þessi Jón lögmaðr vera? Ekki Jón Jónsson eðr Jón Sigurðsson, þar þeir áttu aldrei með Grund, og ei veit eg hver þessi Jón lögmaðr hafi verið. En þessa lögmenn með Jóns nafni hefi eg fundið í fyrri tíð:

Jón Einarsson 1269 til 1300.

Jón Þorsteinsson 1340.

Jón Guttormsson skráveifa 1360 eðr 61 og

Jón Sigmundsson 1510».

5. [um 1290].

Ættartala Hauks lögmanns Erlendssonar og Steinunar konu hans, samin af Hauki lögmanni sjálfum.

AM. 281. 4to á pappír bls. 205—206, og er án efa tekin eptir Hauksbók, skr. c. 1680. AM. 738. 4to bl. 29—30 á pappír c. 1680 eptir Hauksbók. Aptan við ættartölu Hauks stendr hér: «Haukur Erlindsson seigist skrifad hafa þessa ættartölu». Kafli úr þessari ættartölu er í AM. 115. 8vo með hendi Björns á Skarðsá og að nokkru í AM. 415. 4to.

Ættartalan[1]).

Adam var first skapadur allra manna j verölldinne. hann uar skapadur i dalnum Ebron og nidur settur. þa er hann var burt rekinn vr paradijsu. hann ātti xxx sona oc xxx dætra adra enn Cain. Abel og Seth.

hann var fader Enos.
fodur Cainan.
fodur Mahalael[2]).
fodur fareth[3]).
fodur Enoch.
fodur Matusalem.
fodur lamech.
fodur Noa. [honum baud gud ad giora ørkina[4]).

hans son var Japhet. er hlaut þennann þridiung veralldar er nu byggium vier. þa er þeir brædur skiptu med sier epter Noa fødur sinn. Japhet bygde austur [j] Rucia[5]). þar sem heiter[6]) kiænugardur[7]). fra honum er mannfolk[8]) komid. allt þat er bygger þennann[9]) veg Gricklandshafs.

hans son var javan.
fadir zekim[10]).
fodur Ciprus[11]).
fodur Cretus.
fodur Chelius.
fodur Saturnus i krit.
fodur jupiter.

---

[1]) Nockud lijtil ættartala 738; [2]) Malaleel 738; [3]) Dareth 738; [4]) [sl. 738; [5]) Ruscia 738; [6]) heita 738; [7]) kiænugardar 738; [8]) margt folk 738; [9]) þann 738; [10]) Zekuu, 281; Rekun 738; [11]) Ciprur 738.

fodur Dardanus.
fodur Erconij[1]).
fodur Eroas.
fodur ilus.
fodur laomedon[2]).
fodur Priamus. høfudkonungs i Troio fodur þeirra Ectors.
Munon edur menon hiet kongur i Troio. hann ätte Troian[3]) dottur Priami høfudkonungs.
þeirra son var Tror. er vier køllum þor.
hann var fader loritha.
fodur Hericedei[4]).
fodur vingeþor.
fodur vingenir.
fodur Moda.
fodur Magi.
fodur Sescep.
fodur Bedvig.
fodur Athra.
fodur Heremeth[5]).
fodur skialld[un. er vier kollum skiølld[6]).
hans sonur var Biaf er vier kollum Biar.
hans sonur Gudolfur.
hans sonur finnur.
hans sonur frialafur. er vier kollum fridleif.
hann atti þann son er Vaden hiet. þann[7]) køllum vier Odinn.
Skiolldur var sonur Odinz.
fodur fridleifs.
[fodur fridfroda[8]).
fodur herleifs.
fodur[9]) havardz handrama.
fodur froda.
fodur vermundar hinz vitra.
fodur Olofar.

---

[1]) Exconij 738; [2]) Laomenon 738; [3]) Trioanu 738; [4]) Heriredej 738, [5]) Neremeth, 281, 738; [6]) [ar 738; [7]) hann 738; [8]) [sl. 738; [9]) fader, 281.

modur froda fridsama.
fodur fridleifs.
fodur froda hins frækna.
fodur Jngiallds starkadarfostra.
fodur Hrærekz slaungvanbauga.
[fodur froda.
fodur Haldanar.
fodur Hrærekz hôggvanbauga[1]).
fodur Haralldz hilldetannar.
fôdur Solga[2]).
fodur Rolfs fra am[3]).
fodur Biarnar.
fodur Eivindar austmannz.
fodur Helga hins magra.
fodur Jngiallz.
fodur Ejulfs Rugu[4]).
fodur Vijgaglums.
fodur Vigfus.
fodur Bergs.
fodur Steinunar.
modur þorsteins Ranglatz[5]).
fodur Gudrunar.
modur Hollu.
modur flosa.
fodur Valgerdar.
modur herra Erlends.
faudur Hauks[6]).

Annar son Haralldz hilldetannar var Hrærekur fadir þorolfs [vaganefs[7]).

fodur [vemundar ordlokarz[8]).
fodur Valgardz.
fodur Rafns hinz heimska.
fodur Jôrundar goda.
fodur Vlfs aurgoda.
fodur Svartz.

---

[1]) [sl. 738; [2]) Hôlga 738; [3]) äne 738; [4]) Ruggu 738; [5]) Ranglata(!) 738; [6]) hér bætir 738 við: «Haukur Erlindsson seigist skrifad hafa þessa ættartôlu»; [7]) [sl. 738; [8]) [gardars 738.

fodur Lodmundar[1]).
fodur Sigfus.
fodur Sæmundar froda.
fodur Loptz.
fodur Jons.
fodur þeirra Pals biskups og Sæmundar og Orms Breidbælings[2]) oc Sigurdar.
fodur Jons.
fodur Salgerdar.
modur Steinunnar konu Hauks.

---

## 6. 3. Oktober 1308. í Hvammi.

Máldagi Hvamms kirkju í Hvammssveit, er Árni biskup Helgason setti, þá er hann vígði kirkjuna.

Landsb. 268. 4to bl. 32a—b skr. 1601. sbr. Vilchinsmáld. Árni biskup Helgason vígir samkvæmt annálum Hvammskirkju um haustið 1308.

Huammur j huammzsueit.

Kirkian j hvamme er helgud gudi allzvalldannda oc sælli gudz modur marie. johanne baptista. petri oc johanne postulum. olafi konungi oc þorlaki biskupi. marie magdalene oc ollum gudz helgum monnum.

kirkiann a lannd a akre oc efra huamm oc enng j äsgardz lanndi.

vj kugilldi. hesta ij. ccc. voru.

þetta ä hvn jnnan sig. kluckur iiij. krossa ij. annann buinn. enn annann smelltann. messuklædi oc kalek. slopp oc kantara käpu. iij. alltaraklædi. märiuskript. peturz skript johannis baptistę. glerglugg. xij. mannada tijda bökr. oc þo eigi eptir skipan. fonntklædi. elldbera. mvnnlogar ij. kerttistikur iij glodaker. biarnnfell. merki ij. messijnngarker ij. bialla lijtil. lijka kräk tiolld vmhuerfis kirkiu. baksturjarnn sæmilig.

---

[1]) Godmnndar(!) 738; [2]) Breiddælings 281, 738.

þa er herra arnne biskup vÿgdi[1]) kirkiu j huamme iiij nottum eptir michaelzmessu lagde hann til kirkivnnar iiij. bæi. ketilzstadi oc hol. rädbardaholtt oc teig. skylldu þeir menn sem ä þessum fyrr nefndum londum hua greida j huamm tijunnd oc tolla oc allar naudsynniar æfinnliga. þeir[2]) sem af kirkiu skulu veitast oc suo sonngur thil hænhusa. lagde jon bondi sueinsson[3]) skylld j lannd sitt glerarskoga. ost[t]oll fiordung ostz eda eyre oc vndir þvij nafnne gafu adrir bønndr osttoll thil kirkiunnar. þeir ed landeigendur voru jnnann þijnnga sem jon gaf. jätte jon herra biskupe tueggia kennemanna skÿlld eptir þuij sem verid hafdi fyrr j huamme. prestz oc diäkns[4]).

---

7. 23. Juni 1309. á Skörðum.

Tveir prestar votta um úrskurð Guðmundar lögmanns Sigurðarsonar um landamerki milli Vatnshlíðar og Vatnsskarðs í Skagafirði eptir eiðfestum vitnisburðum gamalla manna.

Eptir afskript einni á pappír, er eg hefi í höndum, eigi allgamalli; er aptan á hana skrifað: «Samhlioda orginalen Testerar
Thorleifur Briniulfsson Claus H. Jonsson
Profastur j Skagafirdi».

Nafnið Jakob, sem kemr fyrir hér í bréfinu, mun hafa verið fágætt á Íslandi um 1300, en bréfið er þó víst óyggjandi; á orðfæri þess eru og eingar þær misfellur, sem ekki mætti hugsa sér að stöfuðu frá því að haggazt hefði gegnum afskriptir; þó er orðið velnefndr hér dálítið kynlegt, en það getr verið mislestr eða misritan fyrir fyrir nokkuð annað, svo sem fyrrnefndr, eða títtnefndr. Þetta bréf er elzt allra íslenzkra bréfa, sem er dagsett og árfært og vér enn þekkjum, og þekti eg það ekki er eg ritaði það, sem stendr í Dipl. Isl. II, 372. Páll prestr Þorsteinsson, sem hér er nefndr, þekkist frá góðu bréfi 1311 (Dipl. Isl. l. c.). Þar er nefndr Haraldr Sigurðarson og kynni það að vera sami maðr og sá, sem hér er nefndr Haraldr Sigmundarson.

Aullum mønnum [þeim] sem þetta brief siæ edur heira. senda paull prestr þorsteinsson oc jon prestr ormsson Quediu Guds oc sijna. kunnugt giörandi at sub anno gracie Millesimo trecentisimo Nono. nærsta dag fyrir jons Messo baptistæ æ vatnskardi oc vatnshlijd æ skördum á areidarstefnu med tilnefndum grönnum. fyrir Gudmundi lögmanni. vorum vit hiæ. at

---

[1]) 1308 samkv. annálum; [2]) þeir, hdr.; [3]) Jón Sveinsson dó 1355 (ann.) og hefir hann því orðið gamall maðr og búið leingi í Hvammi; [4]) hér kemr í handritinu viðbót frá dögum Gyrðs.

nefndr lôgmadr tok sofallinn eýd af joni þorvallds[s]yne. Haralldi Sigmundarsýni. Oddi jakobssyni oc þorkôtlu sistur hans. sem ôll voru med forelldrum uppalin og sijdan hôfdu greindar jardir setid um siotier ara hlaup. at su væri landeign vatnsskards til thessar[a] ummerkia. at austan. milli fialls oc vatnskards. stendur Raudkolluholl æ argilsbarminum æstan sneiding þann er liggur upp ur lestahuammi. at holinum upp i Rafnakletta. þæ riettsýn[i]s upp Dyaskalar barm eystri sionhending æ fellit. ræda þa leiningadrôg ofan i Skardsæ. at vestan rædr lækr sæ merkium. sem fellur ur litla krokskardi milli vatnskards og vatnshlidar. at nedan rædr vatnskardsæ vestr ad læk er kiemr ur vatnshlydar vatni og fellr i vatnskardsæ.

Enn landeign vatnshlijdar Ræda lestagaut[u]r vestur med vatnenu allt vestr ifir arnarvatnslæk i so kallat storagriot. þæ siondeilldarstefna vestur i kalfatiôrn. þadan sem vôtn renna vestur i læk er fellr nordann ur storakrokskardi og sijdan sem vôtn addraga nordr ur þvi. og ofan eptir Reikiaskardi giegnt ædr sôgdum merkium mots vit litla; krokskard. at so fôllnu profi dæmdi velnefndr lôgmadr Gudmundr þetta obrigdanlega eign jardanna vatnskards og vatnshlijdar eptir þvi sem svarid var. Og til sanninda hier um setium vit ockar jnnsigi fyrir þetta brief æ sama stad ari oc degi sem fýr hermir.

---

## 8. [um 1310].

ÆTTARTALA Pétrs Jónssonar og Þorleifs ens haga Eyvindarsonar.

AM. 748. 4to bls. 26, aptan við brot af Eddu, skb. frá 14. öld. Prentuð að nokkru leyti í Sturl. Oxford. II. 399—400.

Adam var fadir seth.
fodvr enos.
fodvr kainans.
fodvr Malalie.
fodvr phared.
fodvr enon.
fodvr matvsalem.
fodvr lamech.
fodvr noa.
Noe var fader jafeds.
[fodvr] iaphans.

fodvr zechimms.
fodvr ciprvs.
fodvr cretvs.
fodvr celivs.
fodvr satvrnvs i krit.
fodvr iupiter.
fodvr dardanvs.
fodvr erikonij.
fodvr ereas.
fodvr jlivs.
fodvr lamedon.
[fodvr] priami havfvdkonvngs i troio.
fodvr þeirra ectoris oc alexandri.

Mvnon edr mennon het konvngr einn i troio hann atti troam dottur priami konvngs.

þeirra son var tror er vær kavllvm þor.
hann var fadir lorika.
hans son het eredei.
hans son vengeþor.
hans son var vingener.
hans son meda.
hans son magni.
hans son sesep.
hans son bedvic.
hans son attra.
hans son trinam.
hans son eremeth.
hans son skialldvn. er vær kavllvm skiolld.
hans son Biaf er vær kavllvm biar.
hans son Godolof.
hans son finnr.
hans son frialaf. er vær kavllvm fridleif.
hans son odinn.
hans son skiolldr.
fadir fridleifs.

fodvr fridfroda er red fyrir danmavrkv þa er kristr var borenn.

frodi var fadir herleifs.

fodvr havars handrama.
fodvr froda ens frækna.
fodvr vermvndar vitra.
fodvr olofar.
modvr froda fridsama.
fodvr fridleifs.
fodvr froda frækna.
fodvr ingiallz starkadarfostra.
fodvr hræreks. slavngvandbavga.
fodvr froda.
fodvr halfdanar.
fodvr hræreks hnoggvandbavga.
fodvr harallz hillditannar.
fodvr hræreks.
fodvr þorolfs voganefs.
fodvr vemvndar ordlokars.
fodvr valgards.
fodvr hrafns heimska.
fodvr iorvndar goda.
fodvr vlfs avrgoda.
fodvr svartz.
fodvr lodmvndar.
fodvr grims.
fodvr svertings.
fodvr vigdisar.
[Modvr] s[t]vrlv j hvammi.
fodvr snorra froda i reykiahollti.
fodvr þordisar.
[Modvr stei]nvnar[1]).
Modvr ingibiargar[2]).
Modvr jons[3]).

---

[1]) Árni Magnússon og Guðbrandr Vigfússon lesa Gnðrúnar, en það er tæplega rétt. Jón frá Grnnnavík les: Sigríðar, sem einnig er rangt. Jón Sigurðsson vill lesa eins og hér er gert. Faðir Steinunar mun hafa verið Oddr Ólason á Söndum, svo að hún hefir verið hálfsystir herra Rafns. Steinunarnafnið er einmitt í þeirri ætt; [2]) Pétr var maðr Ingibjargar, en hver faðir hennar var er óvíst; [3]) séra Jón Pétrsson átti Hallkötln dóttur herra Rafns. Þeirra börn Pétr, herra Sturla og Steinnnn, er Guðmundr átti Þorsteinsson, Skeggjasonar.

fodvr petvrs.

Hvamstvrlv son var oc sighvatr oc þordr oc sveinn oc dætr helga oc vigdis.

helga var ɱ[odir] þeirra egils solmvndar sonar oc gydv.

vigdisi atti Geller at brianslæk.

þeirra d[ottir] var þordis er atti Gisli markusson oc þorvnn er[1]) atti eyvindr p[restr] þorarinsson f[adir] þorleifs ens haga[2]).

[stvrla j] hvami.
fadir [helgv.
ɱodvr] gydv [solmvndardottvr].
ɱodvr [helgv.
ɱodvr herra] ketils[3]).

---

[kvelldvl]br v[ar
fadir skall]agrims.
[fodvr egils].
fodvr þor[steins.
fodvr h]riflv.
[fodvr skvla].
fodvr þor[dar.
fodvr] bavdvars.
[fodvr gvdn]yiar.
ɱodur [sighvats oc] snor[a].

---

9. [1312].

Fjarðatla á Íslandi.

AM. 415. 4to bl. 1b—2a, skinnbók rituð hér um bil 1312; þar með er afskript Arna Magnússonar; rifið er úr skinnbókinni, svo að fylla verðr út það sem vantar í fjarðaskrána eptir yngri afskriptum, (AM. 731. 4to með hendi Björns á Skarðsá). Fjarðatal þetta er gefið ágætlega út í riti Dr. Kålunds Bidr. til en hist.-topogr. Beskr. af Island II, 359—72 og er hér fylt það sem

---

[1]) Það sem nú kemr er ritað á spássíu hægra megin; [2]) Þorleifr hagi dó 15. Maí 1315. Það sem nú fer eptir er ritað á spássíu vinstra megin, og er hún nærskorin mjög; [3]) herra Ketill Þorláksson dó 7. Okt. 1342. Mýramannaætt, sem hér er rakin niðr til Sturlunga, er þrædd á sama hátt og í Hauksbók.

vantar í skinnbókina á sama hátt og þar er gert. Það er einnig prentað í Sturl. Oxf. 1878 II, 474, en ekki fylt til fulls. Það kann að vera nokkru eldra en skinnbókin, en valt er að geta á hvað gamalt það kann að vera.

[Þessi ero fiarðanǫfn a jslandi.
J austfiǫrðvm.
Finna fiǫrðr.
Miðfiǫrðr.
Vapnafiǫrðr.
Borgarfiǫrðr.
Loðmvndarfiǫrðr.
Seyðarfiǫrðr.
Miovafiǫrðr.
Norðfiǫrðr.
Hellisfiǫrðr.
Viðfiǫrðr.
Gerpir.
Eskifiǫrðr.
Reyðarfiǫrðr.
Faskrvðsfiǫrðr.
Stǫðvarfiǫrðr.
Breiðdalsfiǫrðr.
Berofiǫrðr.
Alptafirðir. ij.
Lonafiǫrðr.
Papafiǫrðr.
Horn.
Skarðsfiǫrðr.
Hornafiǫrðr.
Þessir ero j svnnlendinga fiorðvngi.
Stakks fiǫrðr.
Hafnarfiǫrðr.
Kollafiǫrðr.
Hvalfiǫrðr.
Grvnna]f[iorðr].
[Borgar]f[iorðr].

[Þess]ir fir[ði]r ganga af borgarfirði ok [hverfa j vestfirðinga fiorðvng.

Stravmfiðrðr.
Hafrsfiðrðr.
Stravmsfiðrðr.
Snæfellsnes.
Breiðifiðrðr
Kirkiofiðrðr.
Grvndarfiðrðr.
ǫnv]ndarf[iorðr].
[V]rthvalaf[iorðr].
kolgrafaf[iorðr].
hrǫn f[iorðr].
Miova f[iorðr].
Vigra f[iorðr].
Alpta f[iorðr].
hvams f[iorðr].
Gelld f[iorðr].
[Gils] f[iorðr].
[kro]gs f[iorðr].
[þ]orska f[iorðr].
divpa f[iorðr].
Gvfo f[iorðr].
kolla f[iorðr].
kvigindis f[iorðr].
Skalmar f[iorðr].
Vattar f[iorðr].
kerlingar f[iorðr].
kialka f[iorðr].
Valtz f[iorðr].
Vaðill. Barð.
patrex f[iorðr].
Talkna f[iorðr].
fors f[iorðr].
Reykiar f[iorðr].
Trostans f[iorðr].
Geirðiofs f[iorðr].
Arnar f[iorðr].
dýra f[iorðr].
Avnvndar f[iorðr].
Svganda f[iorðr].

Skvtils f[iorðr].
Alpta f[iorðr].
Seyðis f[iorðr].
hestz f[iorðr].
Skotu f[iorðr].
Miova f[iorðr].
Vatz [fiorðr].
Reykiar f[iorðr].
Jsa [fiorðr].
kallda lón.
Jokvls [fiorðr].
Leiro [fiorðr].
Rafns [fiorðr].
Lóna [fiorðr].
Rangali.
Veiðilausa.
Norð f[iorðr].
horn.
Fvro f[iorðr].
þ[ar]alatr f[iorðr].
Reykiar f[iorðr].
Biarnar f[iorðr].
drangar.
Eyvindar f[iorðr].
Ofeigs f[iorðr].
Jngolfs f[iorðr].
Norð f[iorðr].
Trekyllis vik.
Reykiarf[iorðr].
Veiðilaus.
Biarnar f[iorðr].
Steingrims f[iorðr].
kolla f[iorðr].
Bitro f[iorðr].
Rvta f[iorðr].
Þessir ero i norðlendinga fiorðvngi.
Mið f[iorðr].
Vatna f[iorðr].

Skaga f[iorðr].
Siglo f[iorðr].
Heðins f[iorðr].
Olafs f[iorðr].
Eÿia f[iorðr].
þorgeirs f[iorðr].
Sk[ialfandi fiorðr].
O[xar fiorðr].
þ[istils fiorðr.
Langanes].

---

10. [1312].

Tylftatal umhverfis Ísland.

Tylftatal þetta er til í mörgum afskriptum og er áðr prentað í Dr. Kålunds Bidr. til en hist.-topogr. Beskr. af Island II, 373—75, og lætr hann þá skoðan uppi, að þessi skrá kunni að stafa að einhverju leyti frá söfnum Hauks lögmanns Erlendssonar, og það tel eg ekkert efamál að þetta er mjög fornt, þótt óvíst sé að árfæra. En tylftatalið árfæri eg því hér til 1312 að það er alveg af sama tagi og fjarðatalið og að sínu leyti mjög svipað skattbænda skránni frá 1311 (Dipl. II, 205), svo að vel má það vera að þetta stafi að einhverju frá sama fróðleikssafnara. Að öðru leyti verðr þetta að eiga sig, og getr hver haft um það þá skoðun, er honum sýnist, og má vera að þetta sé enn eldra, en hér er sett.

A.

AM. 194. 8vo bl. 27b skb. c. 1380; AM. 281. 4to bls. 189 á pappír c. 1680.

Or noregi fra stadi er iiij dégra sigling til féræyia. ænn þadan þriGia til [jsland]z [j] austfiordu til horns.

[Sua er sagt at vmhvuerfis jsland se vij [dægra] sigling ath [h]raudum byr oc skiptiz sua sem þ[ar]f. [þvi at eigi] ma eitt vedr hafa[1]).

Dægr sigling fra h[orn]i til hiorléfs haufda.

ônnur til reykian[ess].

---

[1]) [Þetta stendr í 194 á öðrum stað, en á auðsjáanlega í raun réttri hér heima. 281. sl. hingað að.

þridia til bardz.
fiorda til horns hins v[estara].
[fimta] til skaga.
setta til langanes.
si[aun]da til horns[1]).
Vm endilangt jsland ero taldar xx daglæidir a sumarsdegi ænn iiij vm þuert.
Siau dægra sigling er fra jslandi til noregs mids[2]).

---

**B.**

AM. 193. 8vo á pappír skr. c. 1620. Rithætti handritsins er hér eigi haldið; hann er sýndr áðr í Dipl. Isl. II, 205.

Fra horni fyrir avstan er kôllvð tylft siavar oc til vestmannaeyia.

ij. a reykianes.
iij. a snæfellsnes.
iiij. vndir barð.
v. a hornstrandir.
vj. a vatnsnes.
vij. a skaga.
viij. a siglvnes.
ix. a latr.
x. a tiðrnes.
xj. a langanes.
xij. æstr vndir [horn j norðfirði].

---

**C.**

AM. 67. 8vo bl. 19—20 skr. 1664 á pappír. Þar á spássíu hefir Árni Magnússon lagt saman viknafjöldann (132).

---

[1]) ÁM. 281. 4to bætir hér við: og eru ij tilfter i dægur sigling. 14 tilfter hafa nockrer reiknad vm hverfis Jsland riettleidis ad sigla fyrer hvert nes; [2]) þá kemr um vegaleingdir erlendis.

Tilftter i krijngum jsland.

1. fra horne i hornafyrde oc j Jngolfzhofda oræfen xij vikur siofar.

2. fra Jngolfzhofda til hiorleyfshöfda a mille Allttavers[1]) oc myrdals xij vikur.

3. fra hiorleyfshofda oc j þiossar oz xij. vikur.

4. fra þiossaros oc ad drypttarsteine[2]) a Reykiarnese xij vikur.

5. fra drypttarstejne[2]) oc ad ondverdarneze vndir snæfells jokle xij vikur.

6. fra øndverdarnese oc [ad] straumzneze fyrer nordan raudasand xij vikur.

7. fra straumznese oc ä hornstrander xij vikur.

8. fra hornstrondum oc ä vatznes xij vikur.

9. fra vatznese oc vnder vlfdalafioll[3]) xij vikur.

10. fra ulfdalafiollum[2]) oc a langanez xij vikur.

11. fra langanese oc a horn j nordfyrde [xij vikur].

[12. fra Horne j Nordfirde og til Hornafiardar xij vikur].

oc er þa farid vmm kryng.

---

## D.

AM. 281. 4to bls. 207—8 á pappír skr. c. 1680. Þó að þetta sé ekki hið eiginlega tylftatal, er það þó samkynja og læt eg það því fylgja hér.

So seigia vitrer menn ad vr Norege fra stadi sie vij dægra sigling til Horns ä austanverdu Jslandi.

enn fra sniofellsnese iiij dægra sigling til hvarfsins a Grænlande.

af Norege skal jafnan sigla j vestur til Hvarfs ä Grænlandi. oc er þa siglt fyrir nordan Hialtland þvi ad eins ad allgod sie siofarsýn. enn fyrir sunnan færeyar. so ad sior er j midium hlijdum. enn so fyrir sunnann Jsland ad hafa af fugl oc hval.

fra Reykianese ä sunnannverdu Jslandi er þriggia dægra haf til alldublaups ä jrlandi j sudur. enn fra langanese ä nordanverdu Jslandi er iiij dægra haf til Sualbarda. nordur j

---

[1]) Allttaness(!) hdr.; [2]) = Dýptarsteini; [3]) Í handritinu stendr Ulfalldafjöll(!).

hafsbotn. enn dægursigling er fra kolbeinseý nordur til Grænlandz obigda[1]).

11. [1312].

Biskupatal í Niðarósserkibiskupríki hið forna.

A.

[Biskupatal Hauks],

AM. 415. 4to bl. 11b skinnbók skr. að vísu c. 1312; AM. 258b. 8vo afskript Árna Magnússonar af 415. Þvi sem stendr í hornklofum hef eg bætt við.

Þesser hafa verit archibiskupar i niþarosi.

Sigvrðr[2]) [1022—1031].
Grimkell[3]) [1015—1032].
Jon[4]) [c. 1035—c. 1049].
Rvðolfr[5]) [c. 1050—1052].
Ragnarr [c. 1052—1060].
ketill [c. 1060—1070].
asgautr[6]) [c. 1070—c. 1090].
sigvrðr [c. 1090—c. 1110].
aðalbrikt [c. 1110—c. 1120].
Simon [d. c. 1140].
Jvar[7]) [skrauthanzki Kálfsson hins ranga, verðr

[1]) Þessi athugasemd fylgir í handritinu:

þenuanu gamlann Jslendskann Re[i]kning 96 viknr vudau Snæfellsjokle og til Hvarfsins å Grænlandi(!), þo Eiriksstefna se mikln stittre, enn vppa hvarfid ad sigla er ohættast lyka hiedan sem vr Norege vtan vegna oknnnngleika ad hallda styst nær Eirekzstefnn et cetera.

[2]) Signrðr biskup riki (Jón Sigurðr) var hirðbisknp Ólafs könnngs Tryggvasonar 995—1000, og hafði Ólafr konnngr haft hann með sér frá Englandi; eptir fall konnngs fór hann til Sviþjóðar og var þar leingi kristniboði. Hér mun þó varla vera átt við hann, heldr muu þetta vera Sigurðr hirðbisknp Ólafs konungs helga; getr hans fyrst 1022, og á lífi er hann enn 1031 (Flat. II, 189, 369, 373); [3]) Grímkell biskup var systursou Sigurðar bisknps ríka, og hirðbiskup Ólafs konnngs helga; haun var enn á lífi í Aug. 1032 (Flatb. I, 516; II, 375); [4]) Jón biskup hefir verið bisknp á dögum Magnús konungs góða. Í Flatb. I, 516 er haun talinn fjórði bisknp i Þrándheimi, og er það rétt, þegar Signrðr ríki er taliuu með; [5]) Roðúlfr bisknp var á Íslaudi c. 1030—1049 (Islb. kap. 8; Bps I, 65). Hann dó 1052.

[6]) Flateyjarbók (I, 516) segir Ásgant systnrson Grímkels bisknps, og fær það vel staðizt. Hitt getr ekki staðizt, er segir á sama stað, að hann hafi verið þriðji biskup í Þrándheimi. Ásgautr hefir augsýnilega verið á dögam Ólafs konungs kyrra; [7]) Íslendingr. Hann virðist ekki vera orðinn biskup 1139 (sbr. Hkr. Ungersútg. bls. 374—35; Mork. 219);

biskup c. 1140].
Reiþar [d. 1151].
Jon [Birgisson 1152—1157].
Eysteinn [Erlendsson 1161—1188].
Eirikr [Ivarsson 1188—1205].
þorir [hinn víkverski 1205 -1214].
GvtHormr [1215—1224].
petr [Brynjólfsson 1225—1226].
þorir [þrænzki 1227—1230].
Sigvrðr [tafsi Erlingsson 1230—1252].
Savrli [1252—1254].
Einar [Gunnarsson 1255—1263].
hakon [1265—1267].
Jon [rauði 1267—1283].
Jorvndr [1288—1309].
Eilifr [korti Árnason 1309—1332].

xxv.

i biorgýn.
Biarnarðr[1]) [eptir 1070].
Sveinn [c 1100].
Magni[2]) [d. c. 1130].
Ormr[3]) [c. 1130—c. 1139].
Sigvrðr [c. 1139—1156].
Nikoláss[4]) [Pétrsson 1156—c. 1161].
Pall [1156—1194].
Marteinn [1194—1216].
havarðr [1217—1224].
arni [1226—1256].
petr [1256—1270][5]).
Narvi [1278—1304].

xij.

j stafangri.
Reinallr [d. 1135].

---

[1]) Bjarnharðr biskup var á Íslandi c. 1051—1070 (Islb. kap. 8; Bps. I, 65); [2]) Sbr. Hkr. Ungersútg. bls. 679, 701; [3]) Hin biskupatölin nefna hann Óttar, og á hann að hafa verið Íslendingr (sbr. B og Keyser den norske Kirkes Hist. I, 169); [4]) Nikulás var meðbiskup Páls biskups til c. 1161; [5]) Hér er hlaupið yfir Askatin 1270—1277.

Jon [Birgisson 1135—1152][1]).
Petr [1152—c. 1160].
amundi [c. 1160—c. 1172][2]).
Eirikr [Ívarsson skrauthanzka c. 1172—1188][3]).
Niall [1188[4])—1207].
heinrekr [1207—1225].
askell [1226—1254].
þorgils [1254—1276].
arni [1277—1303].

x.

i avslo.
asgautr [c. 1075].
þorolfr [c. 1080].
aslakr [c. 1090].
Geiraldr [c. 1100].
kolr islenzki [þorkelsson c. 1100—c. 1120].
petr [c. 1120—c. 1140].
Vilhialmr [c. 1140—1157].
þorsteinn [1157—1169].
Helgi [1170—1190].
Nicholass [Árnason 1188—1225][5]).
Ormr [1226—1244].
Ragnar [1244—1247].
Hakon [1248—1265][6]).
Andres [1267—1287].
Eývindr [1288—1304].

xvi.

i hamri.
arnhallr [varð biskup í Hamri 1152].
Ormr [orðinn biskup 1164].
Ragnar [d. c. 1189].
þorir [orðinn biskup 1190, d. 1196—97].
Jvar [skjálgi 1197—1221].
hallvarðr [1221—1231].

---

[1]) Jón varð erkibiskup 1152; [2]) Ámundi biskup dó 1183; [3]) Eirikr varð erkibiskup 1188; [4]) Flatb. II, 633; [5]) Flatb. II, 633; III, 83; [6]) Hákon varð erkibiskup 1265.

Pall [1232—1251].
Petr [1253—1260].
Gillibert [1263—1277].
þorfinnr [1278—1285].
Jorvndr [1286—1288][1]).
þorsteinn [1288—1305].

xij.

i kirkiovagi.
Vilhialmur [hinn gamli; varð biskup c. 1102, d. 1168.
Vilhialmr [1168—1188].
Biarni [Kolbeinsson, d. 1222].
Jofreyr [1223—1246].
Heinrekr [1247—1269].
Petr [1270—1274].
Dolgfinnr [1286—1309].

vij.

j færeyiom.
Gvðmvndr [c. 1120].
Mathevs [d. 1157].
Sveinn [d. 1212].
Savrkvir [1216—1237].
Bergsveinn [d. 1244].
petr [1246—1266].
Gavti [1267—1268].
Erlendr [1269—1308].

viij.

j skalahollti.
Jsleifr [Gizurarson 1056—1080].
Gizvr [Ísleifsson 1080—1118].
þorlakr [Runolfsson 1118—1133].
Magnvs [Einarsson 1134—1148].
Klæingr [þorsteinsson 1151—1176].
Thorlakr [hinn helgi þorhallason 1178—1193].
Pall [Jónsson 1194—1211].
Magnvs [Gizvrarson 1213—1237].
Sigvarðr [þéttmarsson 1238—1268].

---

[1]) Jörundr varð erkibiskup 1288.

arni [þorlaksson 1269—1298].
arni [Helgason 1304—1320].
xj.

at holvm.
Jon [hinn helgi Ögmundarson 1106—1121].
ketill [þorsteinsson 1122—1145].
Biorn [Gilsson 1147—1162].
Brandr [Sæmundarson 1163—1201].
Gvðmvndr [góði Arason 1203—1237].
Botolfr [1238—1246].
heinrekr [Kársson 1247—1260][1]).
Jorvndr [þorsteinsson 1267—1313].
viij.

a grœnlandi.
Eirikr [1112—1121][2]).
haraldr [1124—1150][3]).
Jon kvarr [1150—1187][4]).
Jon smyrill [1188—1209].
Helgi [1212—1230].
Nicholas [1234—1242].
Olafr [1246—1280].
þorðr [1288—1314].
viij[5]).

---

## B.

Biskupatal Stokkhólmsbókar.

Stockholm. Isl. 5. Fol. bl. 59a—b. skinnb. c. 1360 og er þetta alt ritað með einni hendi. A virðist að vísu ekki liggja til grund-

---

[1]) Hér er hlaupið yfir Brand biskup Jónsson 1263—1264; [2]) Landnáma (Isl. s. I, 331) nefnir Ólaf Grænlendingabiskup c. 1060; [3]) = Arnhallr. Hann fór til Noregs 1150 og vildi eigi fara aptr til Grænlands. Hann varð biskup í Hamri 1152; [4]) Annálar kalla hann Jón kút; [5]) Hinumegin á blaðinn þar sem biskupatalið stendr (bl. 11a), er þessi klansa með hendi c. 1400:

Hann magni er nockut malngur til sinna yfirbodara ok alldra. er ongnm heill ok eci sier sialfum.

vallar fyrir þessu biskupatali, en þau eru bæði gerð alveg samtíða, svo að bezt fer á að láta þau fylgjast að. Biskuparöðin í Niðarósi geingr leingra fram í A ogendar þar með Eilífi korta (1309—1332), en hér með Jörundi [1288—1309]. En Óslóar biskupar ganga hér leingra fram og endar röðin með Helga (1304—1322), en þar með Eyvindi (1288—1304); sömuleiðis ganga hér Stafangrs biskupar leingra fram og endar röðin hér með Katli (1304—1317), en þar með Árna (1277—1303).

J þrandheimi var fyrstr lyðbiskup. sigurdr.
þa Grimkell.
þa jon.
þa Rudulfr.
þæ Ragnarr.
þa ketill.
þæ asgautr.
þa sigurðr.
þa sigurdr monacus[1]).
J Nidarose var fyrstr. adalbrict.
þæ simvn. hann kom fyrst tiund æ noregh[2]).
hreidarr var hinn fysti eRkibiskup j noreghs konungs Riki. hann kom æigi til stols sins. þviat hann andadiz j sudrlondum. þa er hann for heim fra ui[g]slu.
Jon var fyrstr eRkibiskup j nidarose.
þæ eysteinn.
þæ eirekr.
þa þoreR.
þa Guthormr.
þa petr.
þa þoreR.
þa sigurdr tafse.
þa saurli.
þa EinaR smiorbackr.
þa hokon.
þæ jon Raudr.
þa jorundr [1288—1309].
J oslo uar fyrstr asgautr biskup.
þa þorhallr[3]).

[1]) Þessum sleppir A; [2]) hér hleypr skinnbókin yfir Ívar skrauthanzka Kálfsson; [3]) Þórólfr, A.

þa aslackr.
þa geirarðr[1]).
þa kolr.
þa petr.
þa vilhiælmr.
þa þorsteinn.
þa helgi.
þa Nicholæs.
þa ormr.
þa þorckell[2]).
þa hakon.
þa andres.
þa eymundr[3]).
þa helgi [1304—1322].
J seliu var fẏrstr Biarnardus biskup.
þa magnus[4]).
þa sveinn[5]).
þa ottar jslendingr[6]).
þa sigurdr.
þa Nichulæs.
[J] Bẏorgẏn uar fẏrstr pæll biskup.
þa Marteinn.
þa halluardr[7]).
þa arni.
þa petr.
þa ascatinn.
þa arni[8]) [1305—1314].
þa narfui [1278—1305].
J stafangri var fyrstr Reinhallr biskup.
þa jon.
þa petr.
þa amundi.
þa eireckr.
þa niæll.
þa heinrekr.

[1]) Geiraldr A; [2]) Ragnarr A; [3]) Eyvindr A; [4]) A hleypr yfir Magnús en setr eptir Svein: Magna; [5]) sum önnur biskupatöl hlaupa yfir Svein; [6]) Ormr, A og er rangt; [7]) Hávarðr A; [8]) hér er röðin skökk og á Narfi að standa á undan Árna. A hleypr yfir Ascatin.

þa ascell.
þa þorgils.
þæ arni.
þa ketill [1304—1317][1]).
J færeÿium var fyrstr Gudmundr biskup.
þa Matheus.
þæ hroi.
þæ sueinn.
þæ sorckuir.
þæ Bergsueinn.
þæ petr.
þæ Gauti.
þæ erlendr [1269—1308].
J orckneyium var fyrstr vilhiælmr[2]).
þa iofreÿrr.
þa hiorfi[3]).
þæ heinreckr.
þa petr.
þæ Dolgfinnr [1286-1309].
A Grænlandi var fÿrstr Eireckr biskup.
þæ arnhalldr.
þa jon.
þa helgi.
þa nicholas.
þa olafr.
þæ þorðr [1288—1314].

[1]) Hamarsbiskupar eru ekki taldir í skinnbókinni; [2]) hér er hlaupið í skinnbókinni yfir Vilhjálm annan d. 1188 og Bjarna Kolbeinsson d. 1222; [3]) = Herui í biskupatali Björns á Skarðsá (1350), og er hans ekki getið annarstaðar.

12. [1312].

ÁBÓTATAL á Íslandi hið forna (Hauks lögmanns).

AM. 415. 4to bl. 11b skb. c. 1312 og kemr þetta beint á eptir Biskupatalinu[1]).

Þessir hafa abotar verit.
at þingeẏrvm.
Vilmvndr þorolfsson [1133—1148].
Asgrimr. [d. 1161].
þorbiorn. [varð ábóti 1162].
karll jonsson. [1169—1181, 1187—1207].
kari Rvnolfsson. [1181—1187].
þorarinn Sveinsson. [1207—1255].
Vermvndr nialsson. [1255—1279].
Biarni. [Ingimundarson 1280—1299].
haꝍskvldr. [1300—1309].
at mvnka þvera.
Nikvlass hallbiarnarson. [d. 1159].
Biorn glvmsson. [1161—1181].
hallr Ram[n]sson. [1184—1190].
Einaʀ nialsson. [d. 1196].
Ormr skeggiason. [d. 1222].
ketill hallzson. [d. 1229].
arni hialltason. [1229—1252].
Eyiolfr branzson. [1254—1293].
liotr. [1293—1296].
þorir haraldzson. [1298—1323].
i þykkvabæ i veri.

---

[1]) Hér kemr eptir ábótatalið í skinnbókinni konungatal á norðrlöndum og þar með fylkjatal i Noregi (sbr. Dipl. Isl. II, 532), og læt eg það fylgja hér neðanmáls.
Ragnar loðbrok.
Sigurðr ormr i avga.
Aslaug. Sigurðr hiortr.
Ragnildr.

THorlakr hinn helgi. [príor 1168; ábóti 1170—1175].
Gvðmvndr bialbason. [1178—1197].
Jon loptzson. [1197—1224].
hallr Gizvrarson. [1225—1230].
arnor avzvrarson. [1232—1247].
Brandr Jonsson. [1247—1262].
Rvnolfr Sigmvndarson. [1264—1307].
loðmvndr. [1307—1313].

i viðey.

ARnoR helgason. [1247—1249].
Rvnolfr Olafsson. [1250—1299].
andreas dreingr. [1305—1325].

---

noregs konvngar.
Haralldr harfagri.
Eirikr bloðøyx.
Hakon goði.
Haralldr grafelldr.
Hakon jarll enn Riki.
Olafr tryggvason.
Eirikr jarl. Sveinn jarl ok hakon jarl.
Olafr hinn helgi. haralldzson.
knvtr hinn Riki.
Sveinn alfivuson.
Magnus Riki Olafsson.
haralldr hinn harðraði.
Magnns hinn goði.
Olaf[r] hinn kyRi.
Magnns berfættr.
Hakon þorisfostri.
Signrðr jorsalafari. Eysteinn. Olafr.
Haralldr gillí.
Magnns blindi.
Jngi. Signrðr. Eysteinn.
Hakon herðibreiðr.
Magnns erlingsson.
Sverrir Magnusson.
Hakon.
Jngi. erlingr. steinvn philipns.
[Hakon galinn.
Hakon vngi*).
Magnns hinn goði.
Eirikr Magnns.
Hakon Magnns. [1299—1319].

[Fylkiatal].

Hreinafylki.
Vingvlmork.
Vestfolld.
Egðafylki
Rygiafylki.
Havrðafylki.
Sygnafylki.
Firðafylki.
Svnnmærafylki.
Ravmdælafylki.
Norðmærafylki.
Orkndælafylki.
Gavldælafylki.
Steindælafylki.

---

*) [þannig

at helgafelli.
avgmvndr kalfsson. [d. 1187].
þorfinnr þorgeirsson. [1187—1216].
ketill hermvndarson. [1217—1220].
hakell[1]) Magnvsson. [1226—1244].
olafr hiorleifsson. [1258—1302].
Gvðmvndr þorvarðzson. [1305—1308].
þorðr Gvðmvndarson. [1308—1324].

---

Stiorndælafylki.
Skavnafylki.
Verdælafylki.
Spárbyggiafylki.
Eynafylki.
Navmdælafylki.
Haleygiafylki.
Ravmariki.
Hringariki.
Heinmork.
Gvðbrandzdalir et cetera.

þessir ero danakonvngar.

Ragnar loðbrok.
Sigvrðr ormr i avga.
Havrða knvtr.
Gormr hinn gamle.
haralldr.
Sveinn tiygvskegg.
Knvtr. Riki.
havrða knvtr.
Magnus Riki Olafsson.
Sveinn Vlfsson.
haralldr. hein S[veins]s[on].
knvtr. helgi S[veins]s[on].
Olafr S[veins]s[on]. viij. ar.
Eirikr eygoði S[veins]s[on]. viij. ar.
NicHolass S[veins]s[on]. xxx. [ar].
Eirikr eymuni .iij. ar.
Eirikr lamb. v. ar.
Sveinn Sviðandi. viij. ar.
Valdemarr. xxv. ar.
knutr. xx. ar.
Valdemarr. xxxix. ar.
Eirikr. ix. ar.
Abel. iij. ar.
Cristoforus.
Eirikr.
Eirikr Eiriksson [1286—1319].

---

Ragnarr loðbrok.
Biorn jarnsiða.
Eirikr biarnarson.
Eirikr Ræfilsson.
Emundr ok Biorn at havge.
Eirikr emvndarson.
Biorn sonr hans .l. ara.
Eirikr sigrsæli ok Olafr,
Olafr sænski.
Avnvndr jakob.

---

[1]) þannig skinnb. og hleypr yfir Hall Gizurarson 1221—1225.

læxæroose vm. xxx. ærα framan til þess er ormr biskup leth hæfuæ nema þeir sem αf greiniadarstadær formonnum helldu.

Þessi er soghn berghuæls þorleifssonar æt hann visse enghan vm. xl. vetra hæfuæ ne ser kællæ netia dræth ne læxæ stônghun[1]) nemæ æf þeim sem æf greniadarstodum helldu j læxærose til þess er ormr biskup leth hæfuæ.

Þesse er soghn einars hermundærsonar. æt hann visse enghan hafua. ne ser kællæ æ xxx vetra netiæ veide ne laxæ stonghun[1]) j læxær ose framan til þess er ormr biskup hæfde. nema þæ. sem greniadarstαdα menn leýfdu.

Þesse er soghn hælgeirs þorgilssonar at hann visse enghan hæfuæ. ne ser kællæ. æ hælfum fiordæ thighe vetra netia dræth ne læxæ stonnghun[1]) i læxær oose. nema þeir sem æf greniædærstædær formonnum hôfdu orlof til. til þess er ormr biskup léth hæfuæ.

Nu at opinheradre þessaræ suærennæ vætthæ framsoghn. ok nefndr illughi epter frettr æf okkr saghdezst huarke villdu mothe kæstæ þessum vitnhum ok eigi helldr þeirræ vithnisburdum. gerdum mit[2]) yfuer fyrr soghdu male. millim siræ Bôduærs. ok illughæ. so fallenn endileghan doom. ok orskurd. ok in skriptis fram horenn sem her fylghir.

Jn nomine Domini amen.

Sæker þess at siræ Boduær þorsteinsson sem nu æ greniadarstade téde fýrer okkr eiulfue preste hrandzsyne koorshrodr j nidarosi | ok hrodr eysteini æsgrimssyne Reghlu heilaghs augustini af helghisethri visitatoribus islandie. i dome at laxæ stonghun[1]) ok netiæ veidr j laxar ose. er foorn eighn greniadarstada kirkiu. en þu illughi þorsteinsson hefr j later[3]) fara sægdæ veide ok til þin tekit þæ læxæ sem ueidder hæfuæ verit hedi ædr ok sidan siræ Boduar fyrerbaud þer gefuande þer sôk æ. ok laghdi uid retth sinn ok kirkiunnar ok hefuer soo uthæn dooms geingit inn j fæstα eighn ens heilaghα martini α greniadarstodum ok kallat bolα kirkiu eighn. enn til meirα þunghα. uit þessα kirkiunα. þij dému uit fýrr nefnder visitatoress medr þij αt þu hefuer huarke fyrer þer héfd ne eighnar vithni her um þik skylldughan ad ferα heim til

[1]) staungun, apogr. (AM.); [2]) uid, apogr. (AM.); [3]) latid, apogr. (AM.)

greniadarstada innan manadar soo mikit laxa uerd sem þu vill leggia vnder eid þinn at þu hafuer eigi later[1]) til meira gooz veida. i sagdre ueidestöd ok her a ofuan fullretthi kirkiunne epter lagha domi. Jtem her til demu uit þik illughi epter statuto vilhelmi cardinalis sabenensis legata pauans til til noreghs fallen i pauans bann af sealfuu verkinu fyrirbiodande þer samneythi kristinna manna þar til sem þu lýdnazst ok yfuer böther uit heilagha kirkiu.

uar þessi okkar domr gerr ok fram borenn a einars stodum en siaunda dagh nouembris manadar badum ykkur loghlegha fyrer stefndum morghum godum monnum hia verandum anno Domini M° ccc° l° vij°. ok til sannenda. her um settum mit[2]) okkr insighli fyrer þenna dom er gerr uar j sogdum stad deghi ok are sem fyrr seghir.

---

## 86. 19. Juli 1358. i Skálholti.

Samningr, er Eyjólfr Brandsson kórsbróðir í Niðarósi og bróðir Eysteinn Ásgrímsson gerðu á milli Gyrðs Skálholtsbiskups og lærðra manna eins vegar og leikmanna annarsvegar um ýmsan ágreining, er þeim bar á milli.

AM. Nr. 135. 4to bls. 222 skinnbók, þetta skr. c. 1500; AM. 161. 4to bls. 346—48 skinnb. skr. 1561—1565, en hér vantar allan innganginn; AM. 211c. 4to bls. 195—96 á pappír, skr. c. 1700, vantar og innganginn; IBfél. 125B. 4to á pappír skr. c. 1670—80 (nr. 59), vantar og innganginn; Ny kgl. saml. Nr. 1847. 4to (A) bl. 109b bók séra Guðbrands í Vatnsfirði skr. 1669, vantar inngang; auk þess eru hér á bl. 7b. og 9b einstakar greinir úr þessari gerð og árfærðar til 1352 og 1353. Kriegers safn 1. 4to bls. 78 á pappír skr. c. 1730 (gott). Prent. í F. Joh. Hist. Eccl. Isl. I, 527—29.

vm bref[3]).

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia edur heyra senda

---

[1]) latid, apogr. (AM.); [2]) uid, apogr. (AM.); [3]) Domur um kyrkiu Tynnder og presta mille kyrkiunnar valldz og leikmanna Anno 1358, 211; Samþykt biskupa og lærðra manna í Skálholts stipti um tíundargjald, 125; Samþykt um kirkju og presta tíundir á milli kirkjunnar valds og leikmanna, 1847; eingin fyrirsögu í 161.

eÿiolfur prestur brandzson korsbroder j nidarosi oc broder eÿsteinn canonicus regularis [de sancta sede uisetatoris[1]) islandie. Q[uediu] guds ok sina kunnigt gerandi. [anno domini[2]) ᗰ°. ccc°. l°. viij°. j ockare uisitacione j skalhollz biskupsdæmi[3]) fundu vid at nockurar misgongur uoro millum lærdomsins ok leikmanna[4]) vm þa suma hluti ok articulos. sem millum bar fornra landzins uana ok [nÿgerdra[5]) orskurda biskupanna[6]).

Ok sua sem wid budum ockur til a laugþinge at veita ok gera þat er almuganum þætti rett[7]) vera. vid kirknanna formenn at þui traustare samþykt mætti[8]) halldazt mille krununnar ok kirkiunnar. saugdu leikmenn opinberliga huat þeim þot[t]i at vera. ok skipudu þa til[9]) sinna uegna tuo heidarliga menn iwar uigfusson ok biorn olafsson sina almenniliga[10]) vmbodsmenn jatandi[11]) at hafa þat ok hallda[12]) statt ok staudugt sem þeir samþÿktu firi almugan. þann sama dag sem uirduligur herra[13]) Gÿrdr med guds nad biskup j skalhollti hefir sig til iatad at [tracteraz skÿlldi næsta dag[14]) firi thorlaks ᗰesso. sua oskaddr wæri at aullu konungsins heidr j norege. ok þegnanna rettur[15]). sua eigi sidr vm sig sæmd ok roksemd kirkiunnar.

[16]) Nu j settan [tima ok[17]) dag j skalhollti merkiligum prestum biskupsins til [komnum[18]) eptir sattgiarnligt [sattmal ok[19]) samtal allra vor j mille. samþÿcktum ok stadfestum ath obrigduliga skÿlldi standa j skalhollts biskupsdæmi þessa articulos sem her fylgia. þar til sem konungur ok erkibiskup med b stu manna radi j rikinu uilia adra skipan a gera[20]).

1. Jn primis at huer madr sa sem kirkiu eign[21]) helldr

---

[1]) [sanctæ sedis visitatores, Hist. Eccl.; [2]) [at snb anno gratiæ, Hist. Eccl.; [3]) a Islande, b. v. Hist. Eccl.; [4]) mannanna, Hist. Eccl.; [5]) [med giörra, Hist. Ecc.; [6]) oc skipana, b. v. Hist. Eist., [7]) rettliga, Hist. Eccl.; [8]) opennberlega, b. v. Hist. Eccl.; [9]) á, b. v. Hist. Eccl.; [10]) oc serliga, b. v. Hist. Eccl.; [11]) samþyckiliga, b. v. Hist. Eccl.; [11]) sem, b. v. Hist. Eccl.; [13]) herra, b. v. Hist. Eccl.; [14]) [þessir lntir skylldu tracterazst. sem var næste dagr, Hist. Eccl.; [15]) oc, b. v. Hist. Eccl.; [16]) hér byrjar 161; [17]) [sl. 161, Hist. Eccl.; [18]) [kaulludum og nefndum umbodsmonnum almngans til komnm 161, Hist. Eccl.; [19]) [sl. 161, Hist. Eccl.; [20]) Hér byrja 125, 211, 1847; [21]) jörð 125.

taki heima kirkiutiund sina ok presttiund upp a rettan reikning[1]) vid heilaga kirkiu af aullu sinu goze fostu ok lausu huar sem huer[2]) stendr epter [landzins uana[3]) ok forn cristinn rettur ok nýr segir[4]).

2. Jtem at þeir bændur sem utkirkiur hallda taki heima tiunder sinar af ollu sino godze ok lýsitolla [allra[5]) heimamanna sinna[6]). sem at fornu hefer uerit. sua þo ath þangat leggiz eigi tiund af fleirum bæium j sokninne[7]). vtan þær [liggi[8]) allar til soknarkirkiu.

3. [9]) Jtem ath þuilikt offur lukistz prestum [af vtkirkium[10]) sem þeir syngia til. en eigi framar.

4. Jtem ath prestar edur bændr halldi kirkna godz. eptir jardar magne[11]).

5. [12]) Jtem at menn megi frialslega [taka fe med[13]) jordum þeim sem menn kavpa. þo at þar komi eigi biskups skipan til. sua framt sem þeir ero fullvedia [wid kirkiunnar goz[14]).

6. Jtem at þat sattmal. sem erekr noregs konungur godrar[15]) minningar ok jorundr erkibiskup oc[16]) arni biskup af skalhollti [[giordo sin j mille stande obrigdeliga [huer ad[17]) suo uottar ord epter ord sem hier seiger[18]).

---

## 87. 1358.

Máldagi kirkjunnar í Reykholti, er Gyrðr biskup Ívarsson setti.

Landsb. 268. 4to bl. 44b—45b skr. 1601.

---

[1]) reikningskap 125, 211, 1847; [2]) hnad 161; huert 125, 211, 1847 Hist. Eccl.; [3]) [þui sem landzins vane 161, 125, 211, Hist. Eccl.; [4]) vottar 125; [5]) [sinna 1847; oc sinna 161, Hist. Eccl.; [6]) sl. 161, Hist. Eccl.; [7]) soknum Hist. Eccl.; [8]) [vtan þær skulu liggia 161; leggist 125; [9]) § 3 er sérstök að auk í 1847 bl. 9b og árfærð til 1352; [10]) [nt af kirkiunni (kirkium HE., kirkiunum 1847 sérst.) 161, Hist. Eccl., 1847; [11]) óvart gleymt úr 135; [12]) § 5 er sem sérstök grein að auk í 1847 og árfærð til 1353 bl. 7b; [13]) [kirkna fie til sin taka 161; hallda kirkna fé og taka 125; [14]) nid kirkiurnar 161; med kirkinrnar, Hist. Eccl.; fyrir kirkiunni 125, 211, 1847, og enda þau hér; [15]) agiætrar 161, Hist. Eccl.; [16]) sl. 135; [17]) [oc, Hist. Eccl.; [18]) [[vantar í 135; hér eptir kemr sættargerðin frá 2. Maí 1297 í 135 og 161 (sjá Dipl. Isl. II, Nr. 167).

Reÿkholltt.

Anno domini ꝏ°. ccc°. l°. viij°. suo sem herra gÿrdur var j visitacione var þessi maldagi gior kirkiunnar j reykiahollti.

ad hun ā heimalannd allt. breidabolzstadi bāda. nordurreyki. hāf. hæginndi. kiolvararstadi. hrijs hālf. gejtland allt. med skogi. peturz skog j nordārdal[1]) millum stackagils oc klofasteina. selfor j kjorr med skogi. afreit a rutafiardarheidi. torfskurd j steinþorsstada lande. tueggia mānada beit j faxadal. vnndir ÿtra felli a stronndum halfann vidreka oc þridiung hualreka oc halft landid vr jnnra felli fiordunng hualreka og slijkt j āgoda sem vndir ytra felli. þridiung huortt. A munnadarnesi fiordung hualreka. ad kambi fiordung j hualreka. j býrgis vijk fiordung j hualreka.

xx. kyr. siotijgi asaudar. iij naut veturgomul. gridungur tuævetur. xij veturgamlir saudir ok rut tuævetrann. sex ross.

atta hunndrud og xx j metfie.

kirkian ā jnnann sig xxx boka oc iij bokur vjrdar fyrir x. c. ellefu manna messuklædi oc hokul lausann. dalmatiku eina. balldikinns kapu. pellzkāpur iij. oc eina ābreidz[ls]kāpu. sloppa iiij. alltarisklædi v. af pelli oc ij ønnur. brijkarklædi ij. alltarisduck glitadann oc annann siriduk. kaleka iiij. kerttistikur vj. vijgdur vatzketill. sacrarium. munnlog. kirkiukolu. glodaker. oc elldbera. messufata kistu. iiij kluckur. obrotnnar og vpphalldzklucka oc ij rifnar og eina er af eru lyckiurnar.

---

88. [1358].

Máldagi Ólafskirkju í Bæ í Borgarfirði [er Gyrðr biskup Ívarsson setti].

Landsb. 268, 4to bl. 45a—46b skr. 1601.

Bær j Borgarfirdi.

Olafskirkia j bø a Stedia lannd. kālfanes. mulalannd. afreit j Svarfartunngur. veidi j flokadālzā ad helmijnngi vid Varmm-

[1]) þannig, hdr.

lækijnnga medann lannd þeirra liggur vid. enn ein vpp þadann. afreit j Suannga j skorradal. tuæuetrum nautum oc yngrum. a flokadalzheidi.

hun a xiij kŷr. sextijgi asaudar. hross fimm.

hun ã ij smellta krossa og er annar smãr. mariuskript. sex manna messuklædi at aullu oc iiij. hocklar lausir og alltaris klædi. fimm med dukum. kanntara kapur ij oc j slopp. kaleka iij. kerttistikur ij. texti silfurbuin. og alltaris stein silfurbuinn. merki ij. glodaker. sacrarium munnlôg. brijkarklædi ij. iiij kluckur oc biollur iij. fontz vmmbunad.

þetta gafst til kirkiunnar sijdan þeir brædur komu.

iij kŷr. hunndradz hestur oc hunndrad voru. sex hunndrad j bokum.

þar skal vera ij prestar oc diakn.

þangad liggia ãtta bæir ad tijunndum oc lysitollum.

---

89. [1358].

Máldagi Nikuláskirkju á Fitjum í Skorradal [er Gyrðr biskup Ívarsson setti].

Landsb. 268. 4to bl. 46a—b skr. 1601.

Fitiar.

Nicholas kirkia ã fitium j Skorradal ã þridiung j heima lanndi.

sio kŷr.

jon bonndi lagdi thil c [til] adbota.

Tiolld slijk sem eru. kalek. brotinn kross med lyknneskium. nicholas skript. messufot ein. slopp oc kanntara kãpu. kerttistikur ij. lysikolur ij. alltarisklædi ij. oc annad med hlôdum. alltarisstein silfurbuinn. alltarisblæiu. vatzketil. kluckur iiij oc ein brotin. merki. x. aura lag j fornnbokum. sacrarium munnlôg.

þanngat liggia vij bæir ad tijunndum oc lysitollum.

þar skal vera heimilisprestur.

---

90. [1358].

MÁLDAGI Maríukirkiu á Hvanneyri í Borgarfirði [er Gyrðr biskup Ívarsson setti].

Landsb. 268. 4to bl. 46b—47a skr. 1601.

Hvanneyre.

Mariukirkia a huanneyre a xij hunndrada lannd er hejtir j tunngu oc þar til fiðgur kugilldi. oc hest hid fimmta.

liggia þar thil atta bæir og xx ad tijunndum oc lysitollum.

þriu hunndrud voru vird.

Skal þar vera heimilisprestur oc skal taka fiorar merkur arliga.

kirkian a kelldnna einngi. og hälft kirkiuhollt. Torfskurd i asgardz lannd. selfor j eindrida stada lannd. arnnarholmm allann.

tuenn messuklædi med hoklum oc eirnn hokull løs. alltaraklædi ij oc glitadur dukur oc aunar med týppijnng. mariu skript. olafs skript. þorlaks skript. smelltur kross oc þrijr adrir. kerttistikur ij. med kopar oc ij med jarnn. lectarar þrijr. oc einn dukur til. kanntara kapu oc slopp. merki. kalek. vijgdz vatzketill. fiorar kluckur oc smäbiollur iij. psalltarar iij. aspiciensbøkur ij fornnar. messubok ad pistlum oc euangelijorum vmm sumar tijma de tempore. graduale. tiolld vmmhuerfis kirkiu oc helldur styttri. þelahogg. brijkaklædi. sacrarium. munnlög. fontz vmmbunijngur. elldberi. glodaker. paxspialld.

Jtem gafst med lijki orms arason[ar] hundrad.

Jtem gaf sijra arnne hunndrad.

---

91. [1358].

MÁLDAGI kirkjunnar á Grjóteyri í Borgarfirði [er Gyrðr biskup Ívarsson setti].

Landsb. 268. 4to bl. 47a skr. 1601. Úr því að þessi máldagi stendr hér meðal Gyrðs máldaga, sýnir það, að eg hef ekki farið vilt í því að Árni biskup sá, er setti máldaga Grjóteyrar kirkju fyrst, hafi verið Árni biskup Helgason (sjá Dipl. Isl. II, Nr. 222).

Grioteÿre.

Kirkia ä grioteÿre hefur þennan mäldaga eptir skipan arnna biskups af skalhollti. ad bondi sa er þar býr take heima hälfa tijunnd sijna oc heima manna sinna oc lysitolla hälfa. enn half tijunnd oc halfir lysitollar lvkist thil huanneÿrar.
a kirkian ij kugilldi oc eina a ÿfir framm.

---

92. [1358].

Máldagi Nikuláskirkju á Söndum í Dýrafirði [er Gyrðr biskup Ívarson setti].

Landsb. 268. 4to bl. 95b skr. 1601. Árið 1358 urðu Sandar staðr; gæti þessi máldagi verið frá þeim tíma eða nokkru síðar.

Sandar.

Nicholas kirkia a sonndum a heima land allt oc galltardal allann. skipzhofnn a skaga.
hun a ix kýr. asaudar kugilldi. þriu hundradz hross.
þar ä sijra gudmundur ad luka kirkiunni hunndrad fyrir tijunnda partt.

---

93. 4. September 1358. i Skálholti.

Gyrðr Ívarsson biskup í Skálholti samþykkir þá skipan Jóns biskups Sigurðarsonar, er hann hefir skipað jörðina Svínafell í Hornafirði undir kirkjuna í Hoffelli.

AM. 259. 4to bl. 39—40, 125b, skr. 1592 (máldagabók Odds biskups).

Hoffell.

Vier girder med gudz nad Biskup j skalholltti heilsum ollum godum monnum. þeim sem þetta bref siä edur heyra med kuediu gudz og vorri kunnigtt giörande ad vier hofum heÿrtt og yferlesid opid Bref virdulegs herra. herra jons hiskups Sigurdarsonar godrar minningar vors firirverara j hveriu hann hafde skipad jördina ad suinafelli under kirkiuna j Hof-

felli. med þeim skilmala ad þar sie bænhus og lukist presti vj. aurar enn bonde j Hoffelli. luki prest iiij merkur heima og hafi alla eignn Suijnafellz sier til nýtia. enn sakir þess ad oss sýndist þesse hans giörd og skipan mega vel standa. þui samþýckium vier hana og stadfestum med þessu voru brefi. og til sanninda hier umm setium vier vortt jnnsigli firir þetta bref er giörtt var j skalholltti þann. iiij. dag septembris anno Domini Mccc[l]viij.

---

94. 24. Oktober 1358. á Kviabekk.

Skeggi Oddsson handleggr þorsteni bónda Eyjólfssyni jörðina Reppisá í Kræklingahlíð með gögnum og gæðum til æfinlegrar eignar upp í skuld til Þorsteins.

AM. orig. dipl. Fasc. II, 8, frumbréfið á skinni. Innsigli séra Erlends er dottið frá, en brot er eptir af innsigli séra Þóris.

[1]) Ollum monnum þeim sem þetta bref séa ædr heýra sennda ærlænndr halldorsson ok þorir þorkelsson prestar q[vediu] guds ok sina kunnikt geranndi at sub anno gracie M° ccc. l° octavo a odinsdagin nesta firer festum simonis ok jude a þorodzstodvm j olafsfirdi worum vid j hia at skæggi oddzson handlagdi þorstæini boonda Eýulfssyni land at Reppiss aa til æfinligrar æignar. Medr ollum þeim gognum ok giædum sem hann vard æiganndi at ok þui hefer fýlkt at fornu ok nýu. þui at nefndr skeggi vidr kenndizst at hann var sua mýkils godz æda meira skýlldugr med logum sem jordin ær verd fyRnefndum þorsteini eppter Riettum Reikningi at beggia þeirra samþýkt ok þa var opptnefndr þorsteinn honum æinkiss skýlldr firer adr nefnda jord. Ok til sanz vittnisburdar sættum wid okkr jnnsigli firer þetta bref er gortt var at kuiabekk a fyR sogdu áári ok dægi.

---

[1]) Fyrirsögn er eingin aptan á bréfinu.

95. 23. April 1359. í Skálholti.

Skipan Gyrðs biskups Ívarssonar um ljóstolla, heytolla, prestastefnu samþyktir, messuklæði klerka, lausung og sundrgerð klerka, um það að prestar siti að sóknarkirkjum sínum, að klerkar ríði eigi með sýslumönnum í aðrar sveitir, að prestar hafi eigi messuklæði né kaleik í þing orlofslaust, að þeir taki krisma, vín og hveiti í Skálholti, um skyldu bónda að fæða fylgdarmann með presti og um matgjafir.

AM. 351. Fol. bl. 126b skb. skr. c. 1360 (Skálholtsbók forna); AM. 350. Fol. bl. 144—45 skb. skr. 1363; AM. 354. Fol. bl. 31b—32a skb. c. 1400 (Skálholtsbók yngri); AM. 175A. 4to bls. 59—60 skb. c. 1400 (virðist vera bein afskript afskript af 350); AM. 688C. 4to bls. 2—3 skb. skr. 1479 (önnur greinaröð en í hinum handritunum); AM. 136. 4to bls. 270—72 skb. c. 1480 (Skinnastaðabók); AM. 186. 4to bls. 93—94 skb. c. 1480—1500 (Hvanneyrarbók); AM. 456. 12mo bls. 183—86 skb. c. 1480—1500 (virðist vera bein afskript af 688 og hefir sömu greinaröð); AM. 42A. 8vo bls. 219—20 skb. c. 1480—1500 (hér er að eins § 2, § 6, § 7, § 8, § 10, og virðist vera afskript af 351.). Pappírsafskriptir eru allmargar til af þessari statútu, en lítið er á þeim að græða. Skipan þessi er prentuð í F. Joh. Hist. Eccl. Isl. II, 112—14 með latínskri þýðingu (eptir AM. 354). Sbr. skipan Jóns biskups Sigurðarsonar frá 26. Júlí 1345 (Dipl. Isl. II, 513).

Skipan herra gyrdz biskups[1]).

Jn nomine domini amen.

sub[2]) anno gracie ꝍ⁰. ccc⁰. l⁰. ix⁰. þriðia dag j paskum j skalhollti in sinodo skipaði virðuligr herra herra Gyrðr [með Guðs náð biskup j skalhollti[3]) þersa articulos. [sem her fylgia[4]) [med samþykt presta[5]) þeirra sem þar[6]) voru til[7]) kalladir[8]).

1. Jn primis ef lýsitollr er eigi lokinn at paskum. take sa eigi guds likama. ok stande vtan kirkiu. þar til er hann lýkr. ok luke halfua mork. halft huart þeim er kirkiu helldr ok profaste[9]).

2. Jtem[10]) at heytollr se lokinn at Mariu Messo sidare[11])

[1]) 351; Skipanarbref Gyrdz biskups 350; statuta gyrdz 354; statuta gyrdz biskups 175; Vm skipan 136; s[tatuta] gyrds biskups 186; Gyrdur biskup 456, 42; [2]) at sub 350, 175; [3]) [sl. 350; [4]) [sl. 350, 175; [5]) [sl. 136; [6]) þa 186; [7]) saman 186; [8]) [354, 136, 186; hin sleppa; [9]) § 1 vantar í öll, nema 354, 136, 186; [10]) 354, 688, 136; hin: Jn primis; [11]) a sumarit b. v. 688.

en sa prestr[1]) sem æigi vill taka j millum [Messodaga[2]) lôgliga til boðinn hafi eingan ok se sektalaust a þui ære. En sa sem æigi vill luka j settan tima gialldi presti þeim [er halldit er[3]) firir. iij. aura.

3. Jtem at [huerr profastr[4]) kalli saman alla presta[5]) þegar [þeir koma[6]) heim af sinodo ok opinbere[7]) firir þeim greiniliga[8]) alla þa articulos sem a prestastefnu waro skipaðir ok fai [þeim[9]) ollum[10]) in scriptis.

4. Jtem at huerr prestr innan fursta ars sins prestzskapar. skal eiga kórkapu. en[11]) slopp jnnan tueGia ára ella luki halfa Mork. firir huart sem missir. en Messoklæði [ok[12]) kaleck[13]) [ok allar tiðabækr innan. v. ára. ella luki. xij. alnar firir bok hueria er missir. sua ok[14]) firir huart Messoklæði ok kalek[15]) ok misse officium sacerdotale sua leingi sem hann a æigi.

5. Jtem at prestar ok diaknar sýni enga lausung[16]) eðr leikaraskap j klæðaburði sinum beri huarki stickhnifa ne tósk[u]r. ne dreglahwfur opinberliga. hafi æigi breiðari[17]) hettu struta en tueggia[18]) fingra ok æigi siðara en alnar. ella se vpptækt af biskups vmboðsmanni innan manaðar [siðan a er minnt[19]).

6. Jtem at engi profastr taki nockurn prest til Reiðar með ser brott or sinni kirkiu sokn. ok at huerr prestr siti[20]) at sinni kirkiu ok fari þui at eins fra[21]) at[22]) full nauðsyn beri til ok þo með sins formanz Raði[23]). ok se þa annar j hans stað skipaðr a meðan.

7. Jtem at diaknar [ok prestar[24]) Riði æigi[25]) með sýslu-

---

[1]) sl. 354, 136; [2]) [Mariu mesna 354, 136; [3]) [sem hann helldr 350, 364, 175, 688, 136, 186; [4]) [huerr prestr sa sem profastdôme helldr 354; [5]) þa 136; i sinu umbodi b. v. 350, 354, 175, 136; [6]) [hann kemr 350, 175, 688, 136; [7]) upp beri 175; [8]) einkanliga 136; [9]) sl. 351; [10]) sl. 350; alla 175; [354, 688; [11]) eðr 351; med 688; [12]) sl. 350, 175, 136; [13]) [sl 351; [14]) sl. 351; [15]) [sl. 688; [16]) aa sier b. v. 688. 136; [17]) miora 350, 175; miorre 354, 136; minna 688, 456; meire 186; [18]) 354, 688, 136, 186; ijia 350, 175; miðia 351; [19]) [fra þvi er þeir ero amintir 350, 354, 175, 688, 136; [20]) heima b. v. 354, 688; [21]) henni b. v. 354; [22]) vtan 351; [23]) orlofi 350, 175, 688, 136; [24]) [sl. 354; [25]) hvorki 136.

manni[1]) [ne med bondum[2]) j aðrar sueitir fra þeim kirkium sem þeir eru til skipaðir vtan með orlofi. ella missi vistar sinnar[3]).

8. Jtem at engi prestr hafi ꟽessoklæði eðr kalek[4]) j þing vtan með þess orlofi sem kirkiu varðueitir[5]). [ok leɢi firir halfa ꟽork[6]) [ef hann hefir[7]).

9. Jtem at huerr profastr taki ut crisma[8]) vin ok hueiti af skalhollti. ok skipti þui[9]) med prestum heima[10]). [enn fai ongum odrum[11]).

10. Jtem at huerr bonde er skylldr at fæða mann með presti iafnuel þo hann se ʀiðandi fra ꟽichaels ꟽesso ok[12]) til krossꟽesso ꜳ varit. en prestr skal skylldr at hafa þann mann at honum se full fylgd j ok hann se betr fæʀ en aðr. ok sa þioni j messu. en heima bondi fai mann til þa er maðr fylgir æigi presti.

11. Jtem at huerr bondi. sua prestar sem leikmenn. luki matgiafir fur ǫll sin hiun. þau sem þeir hallda ꜳ sinum kosti. iafnuel á sumar sem ꜳ uetr [þa er skyllt er at uatnfasta. ok hon[13]) stendr ýfir[14]). eptir þui sem cristinn ʀettr bydr. ella luki þa sekt sem þar liɢr vid[15]). [et cetera[16]).

---

[1]) syslumonnum 350, 354; [2]) [354, 136; [3]) sl. 351; [4]) kirkna b. v 350, 175; [5]) helldr 354; [6]) [sl. 350, 354, 175, 688; [7]) [186; [8]) sl. 350, 175; [9]) huer 354; [10]) i sino vmbode 354; i sinu vmdæmi 688, 136; [11]) [nema odruvis faist 186; sl. 354; § 9 vantar í 351, [12]) framan b. v. 350; [13]) [þa er skylldu vatnfasta 186; [14]) [sem skylldir eru til vatnfostu 136; [15]) til 175; [16]) [sl. 688, 136, 186; § 11 vantar í 351 354. Greinaröðin í 688 og 456 er þessi § 1 (þar) = § 3 (hér); § 2 = § 4; § 3 = § 6; § 4 = § 7; § 5 = § 8; § 6 = § 9; § 7 = § 10; § 8 = § 2; § 9 = § 11.

Í pappírshandritinu Ny kgl. saml. 1847. 4to A bl. 43a skr. 1669 eru klausur nokkrar, sem kallaðar eru skipan Gyrðs biskups um ljóstoll og heytoll 1450(!) og eru þar teknar upp í greinar úr ljóstolla samþyktinni fornu frá 1265 (sbr. Dipl. Isl. II, 12), en það mun þó eitthvað fara á milli mála, að Gyrðr biskup hafi ítrekað þær. Í sama handriti á bls. 45—46 eru einnig »Skikkanir Gyrðirs biskups Anno»(!) og er þar enn sem á fyrra staðnum blandað saman þessari skipan Gyrðs og þeirri frá 1354. 30. Júli, en aptan við eru þar tvær greinar, er svo hljóða.

Jtem ef ei er lukt vax í lióstoll lúki tólf merkr smérs fyrir mann fyrir sunnan og v[estan], enn þrettán merkr fyrir n[orðan] og a[ustan].

96. 15. Mai 1359. að Asgeirsá.

Gizur bóndi galli Bjarnarson handleggr Jóni skalla biskupi á Hólum alla þá reka parta, sem hann átti á Vatnsnesi.

AM. Fasc. II, 9. Frumbréfið á skinni. Öll innsiglin (fjögur) eru dottin frá bréfinu, og eru þveingirnir einir eptir. Í þveingina hefir verið rist niðr annað frumrit þessa bréfs, og má lesa mikið úr því enn á ræmunum.

Vm reka er gizsor galle gaf jone biskupe[1]).

Ollum monnum þeim sem þetta bref sea edr heÿra senda einarr haflidason. gudmundr einarsson prestar. kolbeinn benedik[ts]son. einar gilsson leikmenn g[uediu] G[uds] ok sina kunneght gerande at þa er lidet var fra hinghat burd vaars herra jehsu christi þushundrat þriu hundrat fimtigher ok níu aar vorum vier j hia at aasgeirsaa j videdal tueim nattum epter halluardz messo at gizsorr bonde galle biarnarson handlaghde vaarum virdulegum herra. herra jone biskupi a hoolum til eighnar reka partta þa alla sem hann aatte aa vattnese er forn skra[2]) þar um gor vaattar. til motz vidr stein bonda at asgeirsaá ok þingeyra menn firer seaytean londum. ok til sannynda her vm settum wer fyrr nefnder menn vaar jnnsighle firer þetta bref er gort var j sogdum stad are ok deghi.

---

97. 31. Mai 1359. á Þingeyrum.

Jón skalli Eiríksson biskup á Hólum staðfestir bréf Orms biskups frá 9. Marts 1353 um Gilјá (Nr. 31 hér að framan).

---

Eyrir á að gjalda presti að syngja yfir danðnm manni, en tíu alnir i legkaup eptir unga og gamla.

Þessar greinir munn vera teknar eptir Búalögnm.

[1]) Aptan á bréfinn með annari, þó fornri, hendi. Með enn annari og einnig fornri hendi er skrifað aptan á bréfið: bref at gizor galli handlagdi herra joni reka partta a vatns næsi firer seautian londum til motz med asghæirsaa. Orðréttri klausu, sem þessari, er hnýtt aptan við rekaskrána fornu (1296), nema hvað þar er bætt framan við »Jtem«.

[2]) Sú skrá þekkist nú ekki.

AM. 280. 4to bls. 153 («Liber copialis Bessastadensis» með hendi Hákonar Ormssonar c. 1640); AM. dipl. afskrr. Nr. 479 (eptir AM. 280. 4to). Prentað í F. Joh. Hist. Eccl. II, 206.

Giliar Breff 1359.

Vier Broder Jon medur Guds myskun Byskup ä Holum kunngiörum godum mönnum þeim sem þetta breff siä edur heira. ad vier höffum sied og yfferlesid breff virduleghs herra Orms Biskups godrar minningar þad sama sem hier er medur bundit. huort vier stadfestum og styrkium i öllum sijnum Articulis vm so langann tijma sem herra Arngrimur er äbote ä þingeyrum. huort er oss synest þar sijdar aff ad giöra. Og til sannenda hier vmm settum vier vaart jnnsigle fyrer þetta breff. er giört var a Thingeyrum in festo Petronellæ virginis. anno Domini $\mathrm{M}^{0}$. ccc$^{0}$. l$^{0}$. nono.

---

98. 3. Juni 1359. i Hvammi.

Jón biskup skalli úrskurðar klaustrinu á Þingeyrum alla laxveiði í Laxá fyrir Hjaltabakka landi.

AM. Dipl. afskr. Nr. 451, í transcripto frá 8. Aug. 1371, sem Árni segir sé skrifað «ex transcripto monasterii Thingeyrensis accuratissime». Afskriptir eru í AMagn. 277. 4to bls. 17—18; AM. 280. 4to bls. 156—68; Landsb 115. 4to bls. 13—15. Prentað í F. Joh. Hist. Eccl. Isl. II, 207—208.

Ver broder jon med guds næd biskup a holum. sendum allum monnum þeim sem þetta bref sea edr hæýra. q[uediu]. g[uds] oc væra. kunnight gerandi. at herra arngrimr aboti aa þingæýrum kom firi oss a hauskulldzstodum. oc kærdi firi klaustrid. vm laxuęidi i laxaa firi hialtabacka. epter þui sem vattar. forn kirkiunnar bok aa holum. oc ei sidr kirkiubok nefndz klaustrs. hueria adrgreinda laxuęidi. er haft hafdi vm tima baardr arason. en sýndi oss ekki skilriki þar firi þat er framaʀ gæingi. en fyrr sagdar kirkiubækr. holastadar oc þingæýra klaustrs. þuj dęmdum ver med fullu doms atkuedj. fýrrsagda uæidj. klaustrinu til vendaligrar eignar. hedan j fra epter þuj

sem oppt nefndar kirkiubękr vaatta. vtan fyrrnefndr baardr. fai þat skilriki. at framar gangi honum til æignar. ok til sannynda her vm settum wer vartt jnnsighli firer þetta bref. er gort var. j huamme j laxaardal manadaghinn næsta. epter festum petronille virginis. þa et lidit var fra. hegatburd vars herra iehsu christi. þushundrat. þriuhundrat. fimtiger. oc niu aar.

---

99. 4. September 1359. á Illugastöðum.

Jón biskup skalli úrskurðar að netjadráttr og laxastangan í Laxárósi skuli vera frjáls og óbrigðileg eign kirkjunnar á Grenjaðarstöðum (sbr. Nr. 85 hér að framan).

AM. Dipl. afskrr. Nr. 117 «ex originali Greniadarstadensi accuratissime»; innsiglið var dottið frá; frumbr. var með krókóttri norskri hendi. Önnur afskrift eptir transskr. frá 1393 er í AM. Dipl. afskr. Nr. 118, einnig gerð «accuratissime», og var transskr. með norskri hendi.

Broder Jon medr gudzs miskunn bisknp aa hoolum sennder allum monnum þeim sem þetta bref sea edr heyra q[uediu]. G[uds]. oc sina kunnight gerande at sub anno domini. ꝍ°. ccc°. quinquagessimo nono sem wer vaarum j vaarri visitacione. komo wer aa greniadarstadi j reykiadal tyrsdaghin nôsta epter festum bartolomei apostoli aa liitandi oc epter skodanndi firer prof oc skilrijkra manna soghn huart greniadarstada kirkia mundi eigha netia draatt oc laxa staanghan j laxaar oose hueria er vm tima leet hafua ormr biskup aagietrar minninghar oc kallade myrarlanndi fylgia eigha er þa var ordit eighn hoolastadar eptir rettum landz laghum so vaattanndum at huerr madr aa vautn oc veidistod firer sinni jordo utan med laugum see fra komit. huat oss var teeth firer margra skilrijkra manna vitnisburd at einghinn hafdi haft saghda laxveidi meir en vm fioratighe vetra framan til dagha herra orms biskups wtan af greniadastada formanni oc þat med at myr var laxveidarlaus vird herra ormi biskupi. þi stadfestum wer oc vrskurdum netia draatt oc laxastaanghan j laxaar oose. wera kuitta. frealsa. lidugha. aakierolausa oc vbrigdeligha forna

eighn greniadastada kyrkiu hedan af sem her til. þi firerbiodum wer hueriom manni saghdri kyrkiu nokkurn aagha edr vnaader at gera j þerse sinne veidistaud eda ser at kalla. nema huer sem þat gerer viti sik sliku sekan sem loghin vaatta aa þann sem geinghr jnn j fasta eighn heilaghrar kyrkiu eda kallar ser. ok til sannýnda her vm settum wer vaart jnnsighle firer þetta bref er gort var aa jllhughastodum j nioskadal in translatione cuthberti aa fyr skrifuado aari.

---

100. [um 1360].

Skrá um reka Böðvars prests Þorsteinssonar.

AM. 276. 4to bl. 12 skb. skr. 1386; Biskupsskjalasafn Íslands 26. 4to skb. skr. 1386. Þessu er hnýtt aptan við rekaskrá Hólastaðar hina fornu (sjá ár 1296 Dipl. Isl. II, 161).

Þessa reka keypte síra boduar þorsteinsson af jngeride. huspreiu a saudanesi.

fiordvng i hualreka fra staur i holme ok til steins. i. lons ose.

fra foss a ok til toftar a sandz enda fiordungr i hual. huart sem rekr eda er flutr ok allar hualvaaner at helmingi vid breckur.

fra toft til hara lons ar oss ens forna halfr en sextande hlutr ok halfr en atiande hlutr.

Mille holkn aar ok sand aar huart sem rekr eda er flutr fiordungr. i. hual.

fra saur ueisna steck til vald. dals ens vestazsta halfr hualr huort sem rekr eda er flutr.

fra sualbardz aar ose til þufu a hafua bergi attungr i hual huort sem rekr eda er flutr.

fra þufw til steins. i. vidiar výkr ær ose fiordungr i hual huort sem rekr eda er flutr.

fra steine i vidiar vikr ær ose til forvada þess er nestr er kolla vik firer. austan. fiordungr i. hual huort sem rekr eda er fluttr en þadan til saudær halfr attungr oc slikt meira sem reiknast vid hola stad.

Þena reka gaf ormr i holum[1]) sira boduare. fra salt ness

[1]) Það mun vera Presthólum.

garde ok vt til klappar ær oss fiordungr i hualreka ok halfvan vidh reka. flauta fels reki fra grimu vik ok til stauduls lekiar halfr hual[reki] huart sem rekr eda er flutr ok allr vidreki.

---

101. [um 1360].

Skrá um reka Vatnsfjarðarkirkju fyrir austan Geirhólm, er átt hefir frú hertoginna [Ingibjörg Hákonardóttir].

AM. 234. 4to bls. 538—39 skr. um 1600 eptir bréfabók Árna Gíslasonar á Hlíðarenda. Jón Sigurðsson hefir gert þessa athugasemd við skrána: «líklega frú Ingibjörg, dóttir Hákonar háleggs, móðir Magnús smeks, f. 1301, d. c. 1360», og mun það vera svo.

Rekaskrā watzfiardar kirkiu.

Þessa reka partta a kirckiann j vatzfirde. fyrer austann Geyrholm. er ætt hefur fru herttuginna.

Fyrst a Biarnarnese. tolftungur j hualreka oc j Reykiarvijk ad Bruaræ. attungur j hualreka.

J Asparvijk siettungur ur audrum helmijnge. Enn attungur ur audrum.

Ad eyum fiordungur j vidreka oc fiordung j hualreka og eyna adra. og þridiung ur audrum helmijnge. oc halftt Eyrarland hid nyrdra.

Ad kleyfum fiordungur ur helmijnge j hvalreka.

J millum kalldbakz oss og kolbeinzār. tolftungur j hvalreka.

J Byrgizvijk fiordungur hualreka oc þridiung j vidreka oc j jordu xl alner annarz hundradz.

Ad Kampi fiordungur j hualreka.

fiordungur j hualreka j Reykiarfirdi. j millum svijna kleyfar og merkizlækiar.

Ad Rifsteinum fiordungur j hualreka.

J millum Knararness oc lækiar þria hluti ur helmijnge j hualreka.

J millum Ruteyakleyfar oc merkihamarz attungur j hualreka.

J millum Ruteyakleyfar oc Dranganez halfann hualreka.

Fra Beriadalzä[1]) oc til Viebiarnarness allur vidreke.

Hälfur vidreki millum Beriadalzär og Eyvindarfiardar är.

Millum skierz og æross j Drängavijk allur vidreke.

Hälfur vidreki a Dränga urd. millum skumhelliss oc sygnyar gotu.

Þridiungur hualreka oc vidreka millvm Dranganess og Biarnarfiardar är.

Ella[2]) skiallda Biarnarvijk Bædi ad Grausum og Reka.

---

102. [um 1360].

Afhending staðarins og kirkjunnar í Reykjaholti, þegar Magnús afhenti, en Einar prestr Kolskeggsson tók við.

Landsb. 268. 4to bl. 45b skr. 1601.

Reÿkholltt.

Þessa hluti greiddi magnus kyrkiunni j reÿkiaholti. enn sijra einar kolskegg[s]son tok med.

Jn prijmis atti kirkian jnnan sig bøkur xiij oc xx virdar fyrir x hunndrud.

Jtem x manna messuklædi. brestur j einum hanndlijn. lindi oc dukur.

Jtem einn hokul lausann.

Jtem dalmatikur ij.

Jtem käpu med balldikinn oc iij pellz käpur oc iij slitnar käpur oc eina äbreidzls käpu.

Jtem iiij sloppar oc alltarisklædi fimm af pelli og silki oc ij onnur.

Jtem brijkarklædi.

Jtem alltarisduk glitadann oc siriduk.

Jtem korporalia fernn.

Jem kaleka fiora.

Jtem kerttistikur. [vj].

Jtem vijgd[s] vatzketil.

---

[1]) skr. upphaflega Broddadalsá, en úr því gert: Berjadalzä; [2]) Svo.

103. [um 1360].

LANDAMERKI Breiðabólstaðar á Skógaströnd og Langadals.

ſ = AM. 264. 4to skr. 1606 bls. 1—2. Breiðibólstaðr varð seint staðr og aðalkirkjan var leingi fram eptir á Eyri í Alptafirði (Narfeyri).

Þesse eru landamerke millum Breidabolstadar og Langadals.

A halse millum Langadals oc Swijnafells ad lækur fellur ur halsinum vestan til undan hamri einum.

þadan er sionhending j fuglastapa.

þrijr standa fuglstapar þar huer sudur fra audrum. oc er sionhending huer j annann. enn ur hinum ýnsta sudur j sātu.

Enn ur hamri þeim er lækurinn fellur undan er sionhending j Borg þa er stendr a fiallinu. enn ur Borginne j stein þann er stendur aa halsinum. en af halsinum eigu þad huorir er votn falla ad til merkegils botnz.

Enn ur Botnenum. þa geingur hriggur ur fiallenu fyrer vestan Valadal.

Sijdan fellur gil ur Valadal oc ofan millum Hamarz skogz oc klifs skogs. sa lækur rædur allt ofan til veturgautuskarda.

Vr veturgautum hinum nedrum eru sionhending j raudaflag. enn þadan af rædur Hrafnsa allt ofan j sio.

Eiga Lang[dælir] huerke lond ne skog i þessu takmarke.

Selfaur eigu Drangamenn hia middeigiz gile.

þa stendr Stape j lambahlijd. enn sionhending ur þeim stapa j annan. Enn þadan j klofasteina.

Ad heimilu eiga þeir beit epter hlijdine til motz vid Langadalzmenn medan þeir eru j sele. oc beita huerke eingiar nie haga breidabolstadarmanna. Skulu þeir hafa elldevid j Ormzstada skoga medann þeir eru j sele.

[1]) Samstadaskog aa Stadarkyrkia halfann. enn Helgafellz stadur halfann. oc land under aullum skogie. Ef annar aa skog enn annar jord þa skal ei ræta vid enn hauggua firi ofan jaurd.

Hamars skog j Drangalande aa Helgafells stadur og aull hrijs þau sem þar ad ganga.

[1]) Þessar tvær greiuir, sem eptir fara, leika dálítið lausu við í handritinu og eru líklega nokkru yngri en hitt.

104. [um 1360].

BRÉFSÁGRIP um jörðina Indriðastaði í Skoradal og eystri Eyri.

AM. 264. 4to bls. 15 papp. skr. 1606. Bréfið veltr á árunum 1352—79.

Jn nomine Domini amen.

Var suo fallid kaup þeirra herra Asgrims abota ad Helgafelle og Narfa Jonssonar. ad herra abote selur Narfa halfa jaurd ad Eindridastaudum j Skoradal oc alltt land ad eystre Eyre undir Draga.

---

105. [um 1360].

BRÉFSÁGRIP um jörðina Hrossholt í Eyjahrepp.

AM. 252. 4to bls. 5 papp. skr. c. 1660 (Jón Steindórsson); AM. dipl. afskrr. Nr. 1557. Bréf þetta veltr á árunum 1352—1379.

Jtaka Brieff Hrossholltz.

Halluardur Oddzson sellde clôstrinu a Helgafelle og Asgrijme abota jôrdina Hrossholt. med ôllum þeim gôgnum og giædum sem þar a ad filgia. ad tiltôldum sierliga skogie þeim er stendur firer sunnann ana firer nedann modruskala hollt. og eingi j Sôdullzholltz jôrdu. sem Brieff þar vm giôrst[1]) vottar.

---

106. [1360].

BRÉFSÁGRIP um jörðina Bakka (í Helgafellssveit).

AM. 252. 4to bls. 51, skr. c. 1660; AM. 430. 4to bls. 11, séra Jón Haldórsson c. 1730; AM. dipl. afskrr. Nr. 1578. Á þessu ágripi mun vera bygt það, sem stendr í F. Joh. Hist. Eccl. Isl. IV, 71 um að Arngrímr hafi heitið ábóti á Helgafellí 1460, en þetta er einungis, að eg hygg, farið aldavilt og ábótanafnið misskrifað í 252.

[1]) þannig.

Backe[1]).

Biarni Jørundsson sellde abota Asgrijme[2]) og clǫstrinu ad Helgafelle jǫrdina Backa firer lausafie kuiktt og daudtt Anno 1460[3]).

---

107. [um 1360].

SKRÁ um landamerki milli jarðanna Hraunskarðs og Gufuskála á Snæfellsnesi.

Gufuskálar er æfagömul klaustrjörð á Helgafelli, (sbr. máldagana frá 1274 og 1280). Hraunskarð er seinna komið undir klaustrið. En í máldaga Helgafellsklaustrs, sem er ef til vill frá 1378, er það talið með jörðum klaustrsins; gæti þessi skrá því verið að minsta kosti frá hér um bil 1360; víst er það að hún er forn.

---

A.

AM. 264. 4to bls. 20 papp. skr. 1606; AM. 252. 4to bls. 38 skr. c. 1660; AM. dipl. afskr. 1606 og 1656 og 1658 (frá Sigurði skáldi Pálssyni í Skógarnesi d. 1715); Landsb. 108. 4to bls. 119. Afskript frá Þórkatli presti Eyjólfssyni á Staðastað gerð og staðfest 24. Feb. 1887 eptir afriti, sem liggr við Staðastaðarkirkju hefir og verið höfð til samanburðar. Það sem hér er kallað A er forna skráin. B er seinni skrá, sem í 108 og 1658 er áföst við A.

Landamerke a mille Hraunskardz og Gufuskala[4]).

Þesse eru landamerke j mille Hraunskardz oc Gufuskala. ad steinn stendur j krossavijk sionhending ur marksteine þeim hinum efra j fuglastapa þann er stendur firi vestan Akurgierde æ hraunenu. vr þeim foglstapa er j Arnarstein. þadan er sionhending j stapa þann er stendur æ hraune firi ofann gøtur[5]) þadan j mýkluborg. þadan j sionarhol. þadan j jokul sem graus ganga. Hraunskierdingar eigu netlaug æ skiertanga þann er liggur firi austan seliatiaurnn[6]). þeir eigu oc jtak j Gufuskala land.

---

[1]) 430; [2]) asgrijme, 430; Arngrijme 252; [3]) ártalið mun eiga að vera 1360; [4]) 252; Hraunskardsmáldagi 108; [5]) gǫtu 252; [6]) selatiǫrn 252.

beit lxxxm gamalla sauda. oc suo nautum sijnum. oc heimilltt ad fie renne um alltt land. Hraunskardzmenn eigu ad giæta fiar sijns vid stackagardi. Beit hefst þa er vj vikur eru til vetrar. oc er til þess er vj vikur eru af sumre. Hraunskardzmenn eigu ei[g]i nattbol utar fie sijnu enn under jraklette[1]) [þar æ . . .[2]).

---

**B.**

Landsb. 108. 4to bls. 120—22; AM. dipl. afskr. 1658 (frá Sigurði í Skógarnesi). Þetta er miklu yngra (gert eptir 1550) að samningi en A, en því er ekki auðmarkaðr bás, og þótti því réttast að láta það fylgja hér með, því að það er fornt að efni að mörgu leyti.

Jtem ábóta skickun á Helgafelle um Hraunskardz jardar jtök og máldage med byskupanna ráde af Skálhollte.

Svofelldan máldaga hafa ábótar Helgafells med ráde og samþicke biskupa Skalhollts Sticktes giort og stadfest á medal þeirra jarda, sem liggja i Neshrepp.

Í fyrstu Þrándarstader. Kjalvegr og Ingjalldshóll eiga fjórar búdir og iiij skipa uppsátr í Hraunskardz jörd, Kjalvegr á Breckum búd og uppsátr, Þrándarstader búd á Hjöllum og innsta Naust. Hóll sínar búder í Gerdum. Hier á móti skal Hraunskard eiga í greindar jarder sölvafjöru frá Hvalsá og undir Badstein og tíu tyger alna einge á Malabrúnum og xij kúgilda beit í Sneckiu mánud um sumar og selstödu vid Blágil. Hraunskardzjörd á móskurd í Saxhamra í Þæfusteins lande fyrir bud og uppsátr er þæfusteinn á á Hjöllum. Skard skal eiga búd og uppsátr fyrir áttæring í Hraunskardz jörd. þar fyrir giallda Skardzmenn Hraunskardzmönnum skyrtunnu med gillt skyr árlega. Vallstacksheide skal med frelse hafa einn bát og vetrlæga búd í Hraunskardzjörd þar sem Hraunskerdingar tilseigia, hier ímót á Hraunskard xl alna einge árlega þar sem Vallastacksheidarmenn tilseigia.

---

[1]) Hér endar 252; [2]) [Svo og stendr i þrandarstada jardar maldaga ad Hraunskardzmenn eige slatt a Alamyre. Og af þvi Arnarstapans bok var roten vard ei framar ur henne skrifad um jordena Hraunskard, þvi þad [vard] þa ei vel lesed 108.

Fossmenn eiga búd og uppsátr í Hraunskards jörd, en Hraunskard á þar «igien» einge til x aura og skal þad einge veria huer sem á Fosse býr og láta virda þá sláttr hefst. Svo um Vallstacksheide, Hól og Kjalveg sem Þrándarstade. skal einginn beita né beita láta sögd einge frá því vi vikur eru af sumre og til vi vikur eru til vetrar.

Gufuskálamenn meiga hafa hjallastæde á Breckum og uppsátr þegar þeim á liggr eda geta ecke heima lendt; skulu Hraunskerdingar þessu uppehallda og vatna Gufuskálaland fyrir hrísrif og fjárbeit um vetr. Eige eiga Hraunskardzmenn ad beita Gufuskála jörd hia stackgördum frá því vi vikur eru af sumre og til þess vi vikur eru til vetrar. Ólafsvík á ad hafa skipsuppsátr og búd í Hraunskardz jordu, öll þesse ítök um buder á vetr. Ólafsvíkrmenn eiga ad taka vid Hraunskardzskipum og mönnum ef naudreker á koma og veita skipum naust, enn mönnum hiálp sem vid þurfa fyrir ónýtan pening.

Máahlíd á búd med uppsátre í Hraunskardz jörd enn Hraunskerdingar eiga x aura fódr af þeim í Máahlíd edr búsetuna í Svarbakafelle.

Jtem gáfu ábótar Helgafells huer efter annan med rádum byskupa jördunne Hraunskarde frí kolatak í Hrísaskóg og raptvidarhögg í jördunne til uppheldis. viij búder fylgja Hraunskarde þær sem upp eiga að vera gerdar af kongsins vide, enn annist við ábúanda um grasnautn þeir sem ítaksbúdernar hafa.

Jörden Hraunskard á Snæfellsnese [er] xvi hundrud ad dyrleika til tijundar, enn ad fornu fare haldin xx. hundrud, því Helgafellzklausturs jarder hafa verid felldar ad fimtunge til tijundar sem úrskurdarbréf byskups Stephans út[vísar] skrifad á Stad ä Ølldubrigg a dogum herra Narfa abóta ad Helgafelle. Efter Hraunskard gelldst xviij vætter fiska árlega í landskulld og er þad hennar gömul leiga, því þa datum skrifadest Mcccc var leiga efter hana vi hundrud fiskar og fylgdu þa eingen leigukugillde. Hraunskardzmenn eiga beit í Gufuskala jördu og selafyrirhlaup á Kópatjörnum. Hraunskardzmenn eiga og sláttu á Álamýri í hálfan mánud fyrir tvo menn.

Hítardalskyrkjujörd Hella á Snæfellsnesi á tveggja skipa uppsátr í Hraunskardsjördu um vetr. hier á mót á jördin

Hraunskard í Hellujördu torfstungu og ristu til húsa og heyja og garda umbóta sem Hraunskerdingar þurfa.

Þetta máldagabref er riett utskrift efter Hraunskardzmäldaga brefe ä kalfskinne rotnu nedarlega þo læselegu ad vitne profastsens Sr Sæmundar Oddssonar. Finns Jonssonar og Gisla Jonssonar er þad samanläsu i Hytardal Anno 1684 þann 9 Decembris.

---

108. 1360.

Dómr um rétt og ráðspjöll kvenna.

IBíél. 104. 4to bls. 143 á pappír skr. c. 1770. Það kann að geta þótt dálítið grunsamlegt, hvort dómságrip þetta sé svo gamalt, sem hér segir, en ártalið er skýrt í handritinu, sem er vel skrifað. Rithætti þess er hér ekki haldið. því að hann er eins og þá tíðkaðist, er það er skrifað.

Domr vm rett ok radspioll [ꝏ°. ccc°. lx°.[1])

J fyrstv dæmdiz at rettr kvenna skylldi dæmaz eptir þvi. sem sa er madr til. er misbrotid er vid. nema hann standi mann a konv sinni eda dottvr. þa fari eptir þvi. sem stendr j. ij[2]. cap. ꝏannhelgar. enn vm radspioll fari eptir þvi sem gamall vani er til. ok gangi alldrei leingra edr hærra fram. enn stvlkvnni ma gefaz tilgiöf vr svo myklv. sem almenniliga legz a moti hennar heimanmvndi j landi vorv.

---

109. 2. Januar 1360. á Holum.

Jón biskup skalli selr Brandi bónda Ásgrímssyni og Guðnýju Sölmundardóttur konu hans jörðina Holtastaði fyrir jörðina Flugumýri.

AM. Fasc. II, 10. Frumbréfið á skinni. Prentað í F. Joh. Hist. Eccl. II, 210—11.

---

[1]) [1360, hdr.; [2]) 2., hdr.

bref vm jordina fluguMyræ[1]).

Jn dei nomine amen

gerdist so fallit kaup mille virdulighs herra jons med guds miskunn biskups aa hoolum ok brandz bonda asgrimssonar ok gudnyiar solmundar dottur.

j fyrstu at herra jon biskup selldi fyrnefndum hionum brandi ok gudnyiu jordina aa holltastodum med allum þeim gognum ok giædum rekum ok jtokum sem þar hafua til legit at forno ok at nyiu. skolo her til leggiazst iardir þeer allar sem þar hafua aadr fylgt ok so jtala su sem jon benedikzson gaf kirkiunni aa holltastodum j jordina at geitaskardi ok slykt meira sem herra hiskup vill [her til leg[g]ia[2]).

jtem skal þar vera einn prestr hedan af ok[3]) hafua allan songh sem forn er vani til.

Jtem skal þar ok vera einnar neetr gistingh biskupi huenar sem hann gister.

Jtem skolo þaangat liggia tiunder ok lysistollar af so morgum beeum sem vani er til.

Jtem her [a] mot gafuo nefnd hion herra joni biskupi jordina aa flughomýri med allum þeim lutum ok lunnindum sem þar hafua fylght sidan þau urdu eighandi at ok kirkian aa hoolum aadr firer þeim.

Jtem skal þar at frealso efter vera vpp fra fardoghum aa flugomyri hey og feenadr.

Jtem vill þetta nokkurr epter komandi biskup riufua þa skolo optnefnd hion taka so marga peninga af godzse hoolastadar sem her verdr brestr j.

ok af þi at wer broder jon med guds miskunn biskup aa hoolum kennomzst þetta kaup vidr fyrgreind hion settum wer waart jnnsighli firer skrifuadan kaupmaala ok her firer settum mit firnefnd hion brandr ok gudny ok[k]ur jnnsighle saam wer þorleifr bergþorsson jon gizorrarson paall helgason prestar þorsteinn steinmodzson hallr nikulaasson magnuss jonsson leikmenn þetta kaup ok hanlagh fram fara sem her er skrifuat ok þi settum wer firi waar jnnsighli greint kaup er gertt var aa

---

[1]) Aptan á bréfinu með annari, en þó fornri, hendi; [2]) [yfir línunni; [3]) tvískr.

hoolum in octaua steffani prothomartiris anno domini. ꝏ°. ccc°. lx°.

Öll innsiglin (níu) eru dottin frá, nema hvað brot er eptir af innsigli Jóns biskups, Brands og Magnúsar Jónssonar.

---

110. 12. Mai 1360. í Bjarnarhöfn.

Ásgrímr ábóti á Helgafelli selr Snorra Andréssyni öll lönd að Seljum fyrir Akurey með öllum skerjum og hólmum, sem í fjarar, en Snorri selr ábóta Fáskrúf fyrir fjögur kugildi.

AM. 252. 4to bls. 35—36 skr. c. 1660; AM. 430. 4to bls. 23—25, séra Jón í Hítardal c. 1730; AM. dipl. afskrr. Nr. 1544.

Kaupbrief firer Akureyium.

Jn Nomine Domini Amen.

War þetta kaup þeirra herra Asgrims[1]) abota og Snorra Andriessonar med samþicke Sigrijdar huzfreyiu Snorra. og Conventu brædra ad Helgafelle. ad herra abote selur Snorra øll lönd ad Selium med þuij øllu sem stadurenn vard fremst eigandi ad. og þeim a ad filgja ad fornu og nýu. Hier a mote gaff Snorre Akureý alla med þeim skerium og hoolmum sem j fiarar. og eyunum a ad fylgia ad fornu og nýu og eýunum filger selfôr j land ad Seliahôffda medur torffe til seliagiordar. og tolff kugillda beit eff þeir eigu so til er þar bua. enn taka ecke til aff ødrum. huôrtt fleira sem þeir vilia asaud edur kýr millum hagagarda vtann eýnge so leinge sem þarffnast: enn Snorre slae þad first. eff hann vill eige til beitar leggia. Skal fie Snorra eiga jaffnheimila beytt allzkonar epter þuij sem hann skipar. og þeirra manna sem hann bigger. a myrum Gudnýarstôdum og Biarnarhôffn. Riste ad frialsu heytorff hia Seliahôffda effter [þui sem] Akureýingar vilia. Hier med sellde Snorre herra abota Faskruff firer iij kugillde. verde nockur brigd a ødrum huôrium jôrdunum skilur huôr sier aptur þa jôrd sem adur heffur att. epter þui sem kaup þeirra var adur. War þetta kaup

---

[1]) Asgeirs, 252; rétt í 430; [2]) sl. 430.

þeirra j Biarnarhöffn jn festo [Nerei et Achillei[1]) Anno Domini 1360[2]). þessum monnum hiauerande sira Jone Halldorssine. Marteine bonda þorleifssine. Helga Brandzsine. Magnuse Jllhugasine og Fiallgeire Einarssine. Gudmunde Sueinsine. þorgrijme Runolffssine. Gudmunde sigurdzsine og mørgum ødrum godum mönnum.

---

## 111. 20. Juli 1360. i Skálholti.

Gyrðr Ívarsson Skálholtsbiskup og Jón Eiríksson Hólabiskup semja með sér, að Gyrðr biskup skili Jóni Hólabiskupi gullkaleik þeim, sem sé eign Hólakirkju, en Ormr biskup hafði gefið Jóni Skálholtsbiskupi Sigurðarsyni, gegn því að Jón Hólabiskup greiði Gyrði biskupi þau tuttugu og þrjú hundruð, er Ormr biskup fékk að láni af Skálholtsstað.

AM. Fasc. II, 11. Frumbréfið á skinni. Prentað í F. Joh. Hist. Eccl. Isl. II, 208—10.

Forlijkun a mille schalholts biskups og Jons Hoola biskups um gullkaleik[3]).

Jn nomine domini amen.

anno domini ↀ⁰ ccc⁰ lx⁰ sua sem virduliger herrar ok anndaliger fedr herra gẏrdr med gudzs naad biskup j skaalahollte ok herra jon med samre naad biskup aa holum tauluduzst medr winaattuliga j biskups stofuunni i skaalhollte jn translacione sancti thorlaci hia verandum merkiligum prestum af huarutueggia biskupsdæminu ok reiknuduzst vidr vm kiærlig ok brodurlig fiarskifte biskupanna sinna foruerara herra jons ok herra orms biskups godrar minningar talade herra jon efter gullkalik þeim sem herra ormr hafde gefuit herra joni sÿgurdarsyni ok hann kallade eiga kirkiuna at holum er stendr vart tuær merkr ok hann villde hann ei missa hversu sem føre annarr reikningr þeirra j millum edr kirknanna. jtem heimte herra gẏrdr aftr af hola kirkiu þau þriu hundrat ok tuttugu sem herra ormr hafde tekit j laan af skaalhollzstad ok þa vaaro

---

[1]) [mariæ og Achilli(!) 252; sl. 430; [2]) ↀccclx, 430; [3]) Aptan á bréfinu með hendi frá 17. öld.

sem þui suarar ok uane er til godra manna j millum. Enn þeir sem jarder eiga þar sem bænhus ero nidr fallin se til skylldader af kirkiunnar umbodsmonnum aptur at giora innan a nefndz tima. finnizt ok nockurer þeir er eigi uilia þessar uorar skipaner giora biodum ver skyllduliga profostum uorum at þeir fare fram j mote þeim med makligre stridu epter heilagrar kirkiu logum. Enn saker þess at þat er eigi heyrilegt at þar skere nockur sem hann sar ecke til viliu uer at prestarner sege at heimilis kirkiunne atta messur firir huert bænhus þat sem nidr er fallit ok fae sialfer uax til þo at þeir uile eigi sem a bænhusjordum bua til sækia eda sinn kost til leggia ok odlizt prestarner suo fullt ofur eptir þui sem bænhus skylldinni suarar.

Ok til sanninda hier um settum [uer] uort jnncigli firir þetta bref skrifat at skarde septem jdus augusti. anno domini m° ccc° lxx° quinto.

---

## 247. 17. August 1375. i Hitardal.

Urskurðr Oddgeirs biskups Þorsteinssonar um ómagavist í Hítardal.

AM. 260. Fol. bls. 131—32 skr. c. 1650, (skotið inn í Vilchinsbók eptir Kalastaðamáldaga); Landsbókasafn Nr. 101. 4to bls. 361 skr. c. 1730.

Ollum monnum sem þetta brief sia edr heyra heilsum vier otthgeir med Gudz nād biskup j skalhollti med Gudz kuediu og vorre.

Sakir þess ad ymisligur flutningur hefr komid firir oss vm omaga vister j Hitardal hverium til bæri rettligast ad hafa. enn nv eru vier at sannri frett komner ad til annarar vistarinnar stenndur fremmst af karllegg tilkominn Olafur þorlaksson ā vegna Arna skilgietins sonar sijns eptter þui sem sira Jon Hallsson oc Biorn Jonsson barv fullnadar vitni vm hans ættartolu teliandi mann firir mann fra þorleifi hreim er firstr eignadist omaga vistina af Katli presti fodr sinum so ad þar hefer alldri kuennknie j mille komed vtan hver lāngfedga tekid epter annann. þui skipum vier fyrrnefndum Olafi þa sömu omaga vist j Hitardal. sem þorlakur hanz fader Jsleifsson hafdi

vm sijna daga so ad olafur skal taka vtlykt af so mykla sem vani er til æ huerium xij manudum eda skipa þann omaga j sem ei er þýngri enn kirkiunnar maldagi vottar ad ver[a] æ. Skal þessi vór skipan standa obrigdiliga so leingi sem ei verdur annad prof sannara leitt eptir logum vm optgreinda omaga vist.

Og til sanninda hier vm setium vier vor[t] jnsigli fyrer þetta bref. skrifad j Hitardal in octava sancti Lavrentij Anno Domini ϖ°. ccc°. lxx°. qvinto.

Ættartala Hítdæla í bréfinu er án efa þessi:

Ketill prestr Þorláksson, d. 1273.
|
Þorleifr hreimr, d. 1289.
|
Ísleifr Þorleifsson.
|
Þorlákr Ísleifsson.
|
Ólafr Þorláksson, á lífi 1375.
|
Árni Ólafsson, 1375.

---

248. [1375].

MÁLDAGI Hvammskirkju í Norðrárdal, er Oddgeir biskup Þorsteinsson setti.

AM. 260. Fol. bls. 72, Vilchinsbók cxlvj, en er auðsjáanlega Oddgeirs máldagi.

Hvammur.

Mariukirkia j Hvammi j nordrardal a ij oc xx kugilldi oc iij hesta.

Hun a land a Hole oc Froda eingi.

Kluckur iiij. kertistikur ij. glodarkier. tiolld vmmhverfis sig. fonts vmbunad . werkfære ad grafa lyk med. munnlaugar ij. alltarisklædi ij. kaleikur. alltaris steinn. corporale. glergluggur einn. Mariæ skriptt. þollaks lykneski. merki. skyrnar kietill. Gudspiallabok oc ein bok de sanctis.

Jtem vygdz vattz kietill. sloppur oc kapu(!) oc bok de sanctis a sumarid.

Jtem eitt. c. vöru.

Þar liggia til viij Bænhvs. takast vj aurar af hveriu.

þar skal vera heimilisprestur.

Epter Hall Kolbeinsson gäfust v^c til kirkiunnar.

xiij^c j portionem reiknadist sydann herra Gyrdur kvittade Hall þar vm.

Jtem kross sæmiligur med lykneskium oc alltarisbryk er þordis lauk j Testamentum Halls virdt allt saman fyrer iiijc.

Portio ecclesie reiknadst þa er herra otthgeir var j hinne firstv visitatione[1]).

249. [1375].

MÁLDAGI Nikuláskirkju í Haffjarðarey [er Oddgeir biskup Þorsteinsson setti].

JSig. 143. 4to bls. 192—93 skr. 1607 eptir Hítardalsbók (cx).

Nichulas kirkia j haffiardarey a heimaland allt [med] gognum og giædum. hola land allt. eingiar mille blafens og bugskelldu. stackskurdur j torfvoge og j seliagrofum. saudhofn j hausthusa jord. selveide j gnupär ose. half j haffiardarose. half i þoresose.

Hun a iij kyr. ijc vadmala. ij kertestikur. skrijn lijtid. Nichulas lijkneske forntt. messuklæde vond. kanttara kapu. alltaraklæde med pell og tuo onnur vond og einn duk.

þangad liggia xj bæer ad tijundum og lysitollum. og er þar fimm bænhus. iiij kluckur og bialla lijtil.

þar skal vera heimilisprestur.

250. [1375].

MÁLDGI Hofstaðakirkju í Miklaholtshreppi [er Oddgeir biskup Þorsteinsson setti].

JSig. 143. 4to bls. 192 skr. 1607 eptir Hítardalbók (cix).

Kirkia a hofstodum a xij kugildi. enn sialf jordin er til leiguburdar fyrir fimm hundrut. melur fyrir iij merkur og rekinn ad auk. lauganes fyrir þriar merkur. hrijsdalur enn aude fyrir xij aura.

þesse maldage er af madur j vilchins.

251. [1375].

MÁLDAGI Jónskirkju að Kvennabrekku [er Oddgeir biskup Þorsteinsson setti].

Landsb. 268. 4to bl. 98b—99a skr. 1601. Þetta virðist vera Oddgeirs máldagi og sýnist vera sami máldagi og staðið hefir í Hítardalsbók (cxxv).

[1]) Hér kemr á eptir:
máldagi Jóns Gerrekssonar 1432, og Stefáns biskups þar eptir (frá 1508).

KuennaBrecka.

þessi er maldagi jonz kirkiu postula ad kuennabrecku ad hun a allt heima land. krijnglu oc [litla skog[1]). skogar spottur j nordrar dal.

vj. kyr. ij kugilldi asaudar. ij hross. cccc voru. [xl alnnar bafnnarvodar oc half mork[2]). ker j jordu.

messuklædi. einn hokull vandvr oc stola oc handlijn. aspiciensbok fra jolafostu thil paska. onnur aspiciensbok fra niju vikna fostu oc til paska. ij. messubækur med fornnann hatt. bok de sanctis fra anndresmessu thil paska. alltara klædi ij med einum duc. kross med ij lijkneskium. kerttistikur ij. paxspiolld ij. ij lectarar. merki. fonntz vmmhunyngur. skijrnar sar oc lijkakräkur. glergluggvr brotinn oc kalekur.

þessir bæir liggia vndir kirkiuna at tollum [oc] tijunndum. harrastadir tuennir. þorsteinnsstadir. kolldukinn. midskogur. litle[3]) skogur. krijngla. sualhardi. suijnahuoll. þufa. odzstadir. kolstadir. af þessum ollum bæium skal lvkast osttollur thil kuennahrecku. vtann af harrastodum eÿstrum.

kirkian a selfor j gelldijnngadal oc hann allann.

kluckur fiorar.

þar skal vera heimilisprestur.

---

252. [1375].

Skipan Oddgeirs biskups Þorsteinssonar um vín og messur presta á aðalkirkjum og útkirkjum.

AM. 175A. 4to bls. 40 skb. skr. c. 1400, Prentuð í F. Joh. Hist. Eccl. Isl. II, 128—29. Finnr biskup virðist vilja heimfæra þessa skipan til 1375 eða fyr (Hist. Eccl. II. 126 í nótu). Hún þekkist annars ekki í fullri mynd.

Vær odgeir et cetera.

af þui ath vijn hefir ecki et cetera.

þui er þath vór skipan. med godra manna radi. atb huer soknar prestur sa sem hefir tuær soknar kirkiur at hallda syngi sinn sunnudag at huorre. en logbelga daga þa sem her sunnudaga j millum. syngi til vtkirkna þeirra sem ligia j huorum tueggium þingunum. at iafnadi eptir til tôldu. vtan stærstu hatidir þær sem j sextan daga halldi erv. þa skulu þeir syngia

[1]) [Eystra skóg, Vilch.; [2]) [sbr. Hítardalsbók (við ár 1367); [3]) litla, hdr.

at soknar kirkium. En þeir sem eina soknar kirkiu hafa. syngi annann huern sunnudag at soknar kirkiunni en Messodaga adra ok hatidir sem fyrr greinir[1]).

---

## 253. 5. Mai eða 15. September 1376. á Kirkjubæ.

Vitnisburðir fjögurra manna um rekamörk milli Húseyjarsands og Sleðbrjóts sands fyrir Héraðsflóa.

AM. dipl. afskrr. Nr. 5495 «Epter Transscripto a pappir», frá 1635: «Svo latande skrifud ord ä kalfskinnz bref skrifad. hvorke med jnsiglum nie underskriptum. hofum vid under skrifader menn sied og yferlesed a Eyolfstodum 6. Junij 1635. — Pæll Biornsson med Eygenn hand. — þordur bryniolfsson eigen hand».

Rekamarck ä millum Huzeÿiar sandz og sledbriotz sandz.

Þessi er sogn ketilz steinssonar vppa eid sinn suarenn. at sira sæbiorn. sem þa hiellt kyrckiubæ. og adrer gamler menn sogdu honum þetta rekamark millum huzeyiar sandz og sledbriotz sandz. at stor þufa stendur ein samann. er þeir sogdu heita nasamel. austur vndann melnum skamt. og þä ad stadid er j flædarmäle. skal bera skermsla äs. þar sem hann er hæstur vtannverdur yfer þufuna. og þetta mark hielldu sledbriotz menn og hofdu vidu af firir vestann enn Sæbiorn þar firir austann. þa tolf vetur er hann var hia Sæbirni. og hofdu huorer ätolulaust ad hanz vite. og ecj veit hann framar j þessu mäle.

Þessi er sogn Hrolfs Einarssonar vppa eid sinn suarenn. at sira sæbiorn sem þä hiellt kyrckiubæ og adrer gamler menn sogdu honum þetta rekamark millum huzeyiar sandz og sledbriotz sandz. at standa skal j flædarmäli at flode siafar. þä skal bera vtannverda oxlina a skermsla äsi ÿfer nasamel. þar sem hann er hæstur. er þessi melur vestur vndann þeirri einstaka þufu. er stendur vpp af kÿrckiu rekanum og þessi morck lietu sier nægia sledbriotzmenn. og hofdu atolulaust. huer vmm sig ad þijnv viti. sledbriotzmenn firir vestann. enn kirckiubær firir

---

[1]) Hér kemr á eptir brot á latínu úr skipan Eilífs erkibiskups hinni miklu (Dipl. II, Nr. 355 A).

austann. þat er ä kom. meir enn xl ära oc ecj veit hann sannara eda framar j þessu mäle.

Þessi er sogn Sigurdar Hrafnzsonar vppa eid sinn svarenn. at sira sæbiorn og adrer gamler menn sogdu þier þetta rekamark. mille huzeyar sandz og sledbriotz sandz. at standa skylldi vt vid flæde. og þä skal bera skermsla äz. þar sem hann er hæstur yfer nasamel. er þad einstaka þufa er so var kollud austur vndann melnum. hofdu sledbriotzmenn firir vestann storvidu ätolulaust at þijnv vite. meir enn xl. ara. og ecj veit hann framar hier vmm.

Þessi er sogn markusar arnorssonar vpp a eid sinn svarenn. at sira Sæbiorn og þorvardur pälzson sogdu honum þessi rekamorck. mille Huzeyar sandz og sledbriotz sandz at standa skal j flædarmäle. og þä skal bera vtannverda oxlina ä skermsla äsi yfer nasamel. þar sem hann er hæstur. er þessi melur vestur vndann einstaka þufu þeirri er stendur vpp af kÿrckiurekanum og þessi rekamork lietu sier nægia sledbriotzmenn og hofdu huorer vm sig. sliedbriotzmenn firir vestann. enn kÿrckiubæar firir austann. þat er a kom atolulaust svo at þu visser xl. ära. og ecj veit hann hier vmm framar.

Og til sanz vitnissburdar vmm þessa proftoku sira pälz. setti stulli prestur ormzson. hallur prestur jonzson. kollgrijmur steinmodzson og biarne jonsson sijn jnnsigle med jnnsigle sira päls firir þetta brief. er giort var ä kyrckiubæ mänudag epter krossmessu Anno ꝏ°. ccc°. lxxvj°.

---

254. [1376].

Skrá um biskupa á Grænlandi og Íslandi eptir Rímbeglu.

AM. 731. 4to bl. 16 á pappír með hendi Björns Jónssonar á Skarðsá c. 1640, sem stafa mun frá skinnbók af Rímbeglu, er send var Brynjólfi biskupi. AM. 730. 4to bls. 71 afskript af 731 gerð fyrir Árna Magnússon. Önnur afskript af 731 er í AM. 251. Fol. bl. 13. Skrá þessi er prentuð í Rímbeglu Hafn. 1780 bls. 320—22.

Þesser hafa Biskupar verid. a Grænlandi j Gordum.

Eyrekur. [1112—1121].

Haralldr [= Arnaldr 1124—1150].
Jon knare. [1150—1187][1]).
Jon smyrill. [= Jón Sverrisfóstri 1188—1209].
Helgi. [1212—1230].
Nicholäs. [1234—1242].
Oläfur. [1246—1280].
Þordur bokki. [1288—1314].
Arne. [1314—1343][2]).
Alfur. [1365—1378].
Þesser hafa verid ä jslandi j skälahollti.
jsleifur. [Gizurarson 1056—1080].
Gizur. [Ísleifsson 1082—1118].
þorläkur. [Runólfsson 1118—1133].
ɱagnüs. [Einarsson 1134—1148].
Klængur. [Þorsteinsson 1151—1176].
Þorläkur. [Þórhallason 1178—1193].
Päll. [Jónsson 1194—1211].
ɱagnus. [Gizurarson 1213—1237].
Sigvardur. [Þéttmarsson 1238—1268].
Arne. [Þorláksson 1269—1298].
Arne. [Helgason 1304—1320].
Jon Halldorsson. [1322—1339].
Jon Jndridason. [1339—1341].
Jon Sigurdarson. [1342—1348].
Gẏrdur. [Ívarsson 1349—1360].
Þorarinn. [Sigurðarson 1363—1364].
Oddgeiʀ. [Þorsteinsson 1366—1381].
Þesser ad Holum.
Jon. [Ögmundarson 1106—1121].
Ketill. [Þorsteinsson 1122—1145].
Biðrn. [Gilsson 1147—1162].
Brandur. [Sæmundarson 1163—1201].
Gudmundur. [Arason 1203—1237].

---

[1]) = Jón knútr; vigðr «Jon Biskup kotir 1180» (Björn á Skarðsá AM. 258b. 8vo); [2]) Hér er hlaupið yfir Jón skalla Eiríksson, sem var biskup á Grænlandi 1343—1356.

Botholfur. [1238—1246].
Heinrekur. [Kárason 1247—1260].
Brandur. [Jónsson 1263—1264].
Jorundur. [Þorsteinsson 1267—1313].
Audunn. [rauði Þorbergsson 1313—1322].
Laurencius. [Kálfsson 1323—1331].
Eigill. [Eyjólfsson 1332—1341].
Ormur. [Ásláksson 1342—1355].
Jon. [skalli Eiríksson 1358—1391][1]).

---

255. [1376].

SKRÁ um ábóta á Íslandi eptir Rímbeglu.

AM. 731. 4to bl. 16—17 með hendi Björns á Skarðsá c. 1640; AM. 730. 4to bls. 71—73 afskript gerð eptir 731. Önnur afskript af 731 er í AM. 251. Fol. bl. 13. Skrá þessi kemr beint á eptir Biskupatalinu og er prentuð í Rímbeglu Hafn. 1780 bls. 322—23.

Þesser hafa abotar verit at Mukaþverā.
Nichulās. [d. 1159].
Biǫrn. [Gilsson 1161—1181].
Hallr. [Rafnsson 1184—1190].
Einar. [d. 1196].
Ormur. [Skeggjason d. 1222].
Ketill. [Hallsson d. 1229].
Arne. [Hjaltason 1229—1252].
Eyulfur. [Brandsson 1254—1293].
Liotur. [Hallsson 1293—1296].
Þorir. [Haraldsson 1298—1323].

---

[1]) Á spássíu við biskuparöðinu ritar Björn á Skarðsá: »merk her hvenar þessi Rijmbeglu smidur verid hefur». Árni Magnússon reiknar svo á lausum seðli framan við 730:
»6575
5199
1376. um þetta leite hefur author lifad. vide et pagg. 71. 72. 73 þar lifa þeir sidstu mennerner circa 1370—76».

Bergur. [Sokkason 1325—1334,[1]) 1345—1350].
Haflidi. [1350—1370].

Þesser ad þingeyrum Abotar.

Vilmundur. [Þórólfsson 1133—1148][2]).
Asgrimur. [Vestliðason d. 1161].
Hreinn. [Styrmisson 1166].
Þorbiǫrn.
Augmundur.
Karl. [Jónsson 1169—1181, 1187—1207].
Käre. [Runólfsson 1181—1187].
Þorarinn. [Sveinsson 1207—1255].
Vermundur. [Njálsson 1255—1279].
Biarne. [Ingimundarson 1280—1299].
Hǫskǫlldur. [1300—1309].
Gudmundur. [1310—1338].
Biǫrn. [Þorsteinsson 1340—1341][3]).
Stephän. [1345—1350].
Arngrimur. [Brandsson 1351—1361].
Gunnsteirn. [1363—1385].

Þesser äbotar hafa j videý verid.

Arnor. [Digr-Helgason 1247—1249].
Runolfur. [Ólafsson 1250 (vígðr 1256)—1299].
Andies dreingur. [1305—1325].
Helgi. [Sigurðarson 1325—1343][4]).
Biǫrn. [Auðunarson 1353—1364].
Jon. [1364—1369].

---

[1]) hér hleypr skráin yfir Björn ábóta Þorsteinsson 1334—1339 og Stephán ábóta 1339—45; [2]) það mun vera algerðr misskilningr, að eptir Vilmund hafi komið nokkur Nikulás ábóti á Þingeyrum Sæmundarson eins og Finnr biskup (Hist. Eccl. Isl. IV, 30—31) og eptir honum Sveinbjörn Egilsson (Edda Rvík 1848) og séra Janus Jónsson (Tímarit VIII, 183) hafa ætlað. Annálar munu eiga hér við Nikulás ábóta á Þverá. Í sumum annálum stendr: »Andaðist Nikulás ábóti ok Eyjólfr prestr Sæmundarson» og þaðan stafar misskilningrinn með föðurnafnið; [3]) hér er ekki getið Þorgeirs príors, sem var fyrir klaustrinu 1341—44 og ekki heldr Eiríks ábóta bolla 1344—45; [4]) hér er ekki getið Sigmundar príors Einarssonar 1344—52.

J vere þesser.
Þorlákur hinn helgi. [príor 1168; 1170—1175].
Gudmundur Biälvason. [1178—1197].
Jon Loptsson. [1197—1224].
Hallur Gizorarson. [1225—1230].
Arnor. [Össurarson 1232—1247].
Brandur Jonsson. [1247—1262].
Runolfur Sigmundarson. [1264—1307].
Lodmundur. [1307—1313].
Þorläkur Loptsson. [1314—1354].
Eyiulfur. [Pálsson 1354—1377].
Ad Helgafelli þessir.
Augmundr. [Kálfsson d. 1188].
þorfinnur. [Þorgeirsson 1187—1216].
Ketill. [Hermundarson 1217—1220][1]).
Hallkell. [Magnússon 1226—1244].
Olafur. [Hjörleifsson 1258—1302].
Gudmundur. [Þorvarðsson 1305—1308].
Þordur. [Guðmundarson 1308—1324][2]).
Þorkell. [Einarsson 1328—1344].
þorsteirn bollottur. [Snorrason 1345—1353].
Asgrimr. [Jónsson 1353—1378].
Gudmundur. [Arason 1379—1390].

Lambkar. [Þorgilsson d. 1249].
Runolfur. [Sighvatsson d. 1237].
þessir voru lauser hiä.

---

256. 13. Januar [1377].

Einar Þorláksson selr klaustrinu á Helgafelli jarðirnar Botn og Þóristaði í Helgafellssveit gegn því að ábóti láti kenna syni hans til prests.

AM. 252 4to bls. 51, skr. c. 1660; AM. 430, 4to bls. 11. séra Jón Haldórsson c. 1730; AM. dipl. afskr. Nr. 1545 og Nr. 1633.

---

[1]) Hér hleypir skräin úr Halli Gizurarsyni 1221—25; [2]) hér hleypir skräin aptr úr Þorsteini Þorvarðssyni 1324—28.

Botn og þorustader[1]).

Eýnar þorlakzson sellde klaustrinu og abota Azgrijme jördina j Botňe og þorestödum. enn herra abote skal lata kienna sine hans til prestz. Datum 8[2]) epiph. 1377[3]).

---

257. [1377?].

Snorri Andrésson selr Asgrími ábóta á Helgafelli jörðina Horn í Helgafellssveit með gögnum og gæðum og tilgreindum landamerkjum, og skilr sér æfinlegt framfæri á klaustrinu.

A.

AM. 252. 4to bls. 28—29 skr. c. 1660; AM. 430. 4to bls. 22—23, séra Jón í Hítardal c. 1730; AM. Dipl. afskrr. Nr. 1554 og Nr. 1648 eptir pappírsblöðum frá séra Guðmundi Jónssyni við Hellna. Þar er ártalið 1460. og er það rangt. Finnr biskup heimfærir bréfið til 1377 (Hist. Eccl. IV, 69).

Kaupbrief firer Horne j Helgafellssueijt.

Jn nomine domini. amen.

war þetta kaup þeirra herra Asgrims[4]) abota og Snorra Andriessonar. ad Snorre selur abotanum jörd ad Horne med øllum þeim gögnum og giædum sem þuij landi a ad filgia. og hann ward fremst eigandi ad. og þeirri jördu eigu ad filgia til fiordungs og fimm hundrud ed sira [Tumas Snorrason[5]). gaff til stadarinz j sitt testamentum. og þar til bok er Koolumbum er köllud. og leiguburd aff halffre Akurey[6]). med tueggia kugillda leigu. eru þesse mercke ad mitt Hrönskard vt fra þorustada firde. millum Horns. selia og Kotbröns[7]). skillde huör sier afftur þad sem att heffde. eff nöckur lagariptijng geinge a. Voru þesser vottar uid. sira Jon Halldorsson[8]). sira Snorre þordarson. Halldor Jonsson. Eýnar Gudmundsson. og marger adrer goder menn.

---

[1]) 430; [2]) octavum 430; [3]) ártalið vantar í hdrr., en er svo í Hist. Eccl. Isl. IV, 69; [4]) Asgeirs 252; 430 hefir hið rétta; [5]) [Snorre 430; [6]) NB. Snorri seldi klaustrinu Akurey 1360 (Dipl. Isl. III, 110); [7]) þannig; [8]) Hallsson 430.

**B.**

AM. 252. 4to bls. 51; AM. 430. 4to bls. •11; AM. dipl. afskrr. 1553.

Horn[1]).

Snorre Andriesson selur klôstrinu og abota asgrijme jordina Horn sier til æffennlegs framfæres a klôstrinu.

---

258. [1377].

Ásgrímr ábóti að Helgafelli kaupir jörðina Hamar af Snorra Andréssyni gegn æfinlegu uppeldi af staðnum.

AM. 252. 4to bls. 55, skr. c. 1660; AM. 430. 4to bls. 16, séra Jón í Hítardal c. 1730; AM. dipl. afskrr. Nr. 1555.

Hamar[2]).

Asgrijmur abote a Helgafelle keipte af Snorra andriessýne jôrdina Hamar[3]). og gaff hônum firer æffennlegtt vpphellde a stadnum.

---

259. [1377].

Þorgils Guðlaugsson gefr klaustrinu á Helgafelli hálfa Keflavík átta hundruð að dýrleika gegn því að ábóti láti kenna syni hans til subdjákna.

AM. 252. 4to bls. 50, skr. c. 1660; AM. 430. 4to bls. 10—11, séra Jón Haldórsson c. 1730; AM. dipl. afskrr. Nr. 1556 og Nr. 1637.

Half kieflavijk[4]).

Þorgýlz Gudlôgsson gieffur klôstrinu halffa Kieflauijk viij[c] ad dyrleika a dôgum asgrijms abota. þar a mote loffar herra abotinn ad lata kienna sýne hans. suo hann take subdiakna vijgslu þetta skiede Anno[5]). [1377].

---

[1]) 430; [2]) 430; ártalið vantar í hdrr., og er sett hér eptir ágizkun; [3]) = Stakkhamar?; [4]) 430; [5]) ártalið vantar í hdrr. 252, 430, en stendr í Hist. Eccl. Isl. IV, 69.

260. [1377].

Ásgrímr ábóti á Helgafelli kaupir jarðirnar Hóla í Helgafellssveit og Grunnasundsnes af Kolbeini Benediktssyni fyrir ganganda fé og lausafé.

AM. 252. 4to bls. 52 skr. c. 1660; AM. 430. 4to bls. 13, séra Jón í Hítardal c. 1730; AM. dipl. afskrr. Nr. 1551 og Nr. 1635. Ártal þessa bréfs (1377) stendr í F. Joh. Hist. Eccl. IV, 69. Það er því líklegast að Kolbeinn sá, sem hér er nefndr, sé ekki hinn alkunni Kolbeinn Benedikttsson, sem eptir annálum er veginn í síðasta lagi 1376, heldr sé þetta einhver ókunnr maðr í Helgafellssveit.

Holar og Grunnasundsnes[1]).

Herra Asgrijmur abote a Helgafelle. keÿpte aff Kolbeine Benedictussÿne Hola j Helgafellzsueit. og Grunnasundznes. ad frateknum jtökum þeim adrer menn eiga i skogarhögg. Hier a mote gaff herra abote x hundradz hesta. halffann siounda tug skreidar firer x^c. sextan hundrud j silffre. xxvij^c wadmala og ij^c. j hual.

---

261. [1377].

Orækja Sturluson selr Ásgrími ábóta á Helgafelli jarðirnar Ingjalldshól og Kjalveg en ábóti geldr í vaðmálum.

AM. 252. 4to bls. 53–54 skr. c. 1660; AM. 430. 4to bls. 14, séra Jón í Hítardal c. 1730; AM. dipl. afskrr. Nr. 1552 og Nr. 1636. Ártalið er í Hist. Eccl. Isl. IV, 69.

Jngialldshuol og Kialvegur[2]).

Orækia[3]) Sturlason selur abota Asgrijme jördina Jngialldzhuol og Kialueg firer halffann þridia tug wadmala og halffann þridia tug hundrada j vadmalum.

---

262. 15. Marts 1377. á Hólum.

Jón Hólabiskup Eiríksson selr Gísl bónda Gíslasyni jörðina að Höfða, en Gísl leggr í mót jarðirnar Lambanes og Reyki.

AM. Fasc. III, 7. Frumbréfið á skinni.

---

[1]) 430, nema að þar stendr: Hrunnasundsnes(!); [2]) 430; [3]) Oræke 252.

bref vm jordhina lambanæs ok baufda[1]).

Jn dei nomine amen.

Gordizst sua felldr kaupmæli millum wirduligbs berra. herra jons hoola biskups af æinni bælfu. medr samþýcki ok Rædi. sira þorstæinss jonssonar Ræðs mannz. oc Gisl bonda Gislasonar af annarri ath nefndr herra jon biskup selldi honum jordina ath bǫ́fda med ollum þeim goghnum ok gięđum til fiallz ok fioru sem henni attu atb fýlgia ok þeim samlǫgum ok jtolum sem hun áá wid adrar jarder. ok adrar wid hana. medr þeim skilmæla at nefndr Gisl skal sagda jord huarki selia ne gefua nema stadnum. Her j mot gaf adr nefndr Gisl jordina j lambanesi ok adra ath Ræýkium medr ollum þeim gǫgnum ok gięđum sem þæim attu ath fylgia. Enn þau atian hundrad er stódu j Ræýkium ok Gisl gaf til legbs sier læýsti hann or sagdri iordu. tiu kugilldi er standa medr fyir[2]) sogdum jordum. ok jordina j saurbæ j sighlufirdi. ok þar med tuau kugilldi. Riptizst jordin. þa er opt nefndr Gisl skýlldughr hoola kirkiu sex hundrud j þridiungharfie. fór þetta kaup fram hæima a hoolum þridia dagh in passione domini. þessum monnom hia werandum. joni þordarsyni. þorstæini þorfinnzsyne Bergi þorstæinssyni. prestum. þorstæini hallzsyni. halfdani loptzssyui. ok Gudmundi suæinssyni. læikmonnum. buerir sin innzsighli settu med biskupsins innzsigbli ok sira þorstæins Rædzmannz firer þetta bref. Gort j sogdum stad ok degbi. anno domini ꝍ⁰. ·ccc⁰. lxx⁰. septimo.

Fyrir bréfinu hafa verið átta innsigli; tvö þeirra eru enn þá heil og brot er eptir af innsigli Jóns biskups, en hin fimm eru dottin frá.

---

263. 5. Mai 1377. að Mánaskál.

Valgarðr bóndi Loptsson selr Brynjólfi bónda Bjarnarsyni jörðina Mánaskál í Húnavatnsþingi, en Brynjólfr selr Valgarði jörðina Syðstu-Vallá á Kjalarnesi.

AM. Fasc. III, 8. Frumbréfið á skinni. Sbr. bréf frá 9. Júlí 1380.

---

[1]) Aptan á bréfinu með annari, en fornri hendi. þar stendr og «Num. 427»; [2]) þannig, skbr.

bref vm manaskal[1]).

Jn dei nomine amen.

Var þetta kaup þeirra brýniolfs bonda biarnarsonar af annari halfu en af annari ualgardz bonda loptzsonar at nefndr ualgardr selldi brýniolfi land at manaskal med þeim ǫllum ummerkium sem hann uard eigandi at. undan teknum þeim fornum uidi sem ualgardr hafdi or stofunni tekit en bryniolfr skilldi eiga fiora asa ok atta stafi ok fiogur þuertre ok tuęr syll[u]r ok allan fornan uid þann er þa uar j rafri stofunnar. Her j moti selldi bryniolfr þrattnefndum ualgardi land a kialar nesi uall a hina sýnztu med ollum þeim ummerkium sem hann uard fremst eigandi at af sueini grimssýni med þeim itǫlum sem uallæ a ok ǫnnor lǫnd eiga þagat jtǫlur i med lǫgum ok slika sambeit sem uerit hefer at fornu millum iardanna. Skilldi bryniolfr gefa ualgardi j millum nefndra iarda þau kugilldi[2]) er standa med iordunni en luka j laxardal þat er j brýsti þar nęr ser ok .ccc. uǫru. cc j hafnaruad ok dugganda hest ok luka a ǫdrum fardǫgum. sagdi ualgardr til[3]) bęnhus skylldar at manaskal. handlagdi sigridr kona ualgardz bryniolfi frialst ok lidugt þetta nefnt iardar kaup. skilldi huarr firir sig abýrgiaz laga riptingar a þeirri iordu er selldi en huartueggi hallda sinni iordu til laga. Voru þessir uattar uid kaup þetta hiallti gislason jon palsson teitr bergsson simon arnorsson ok otkell ok fleiri dugandi menn. for þetta kaup fram at manaskal þridia dag nęsta firir uppstigningar dag a ǫdru äri ok xx. rikiss uars uirduligs herra herra hakonar med guds nad noregs ok suia rikis kongs. Ok til sannenda her um settum uęr fýr nefnder menn uar innsigli firir þetta bref giort ok skrifat at stad j reýnisnesi a sama ari sem fyr segir.

Þrjú innsigli hafa verið fyrir bréfinu, enn eru nú öll dottin frá.

---

## 264. 4. Juni 1377. á Reykjum.

Benedikt Gizurarson selr Sigurði Þorleifssyni jörðina Lýtingsstaði í Skagafirði gegn Hofsjörðum að undantekinni kirkjujörð að Giljum.

---

[1]) Aptan á bréfinu með sömu hendi og sjálft bréfið; [2]) hér hefir skbr. þau, sem er ofaukið; [3]) sýnist standa •i• í skbr.

Bréfið er prentað eptir pappírsafskript, að því er virðist, með hendi, sem er svipuð hendi Gísla Konráðssonar. Neðan við stendr: »Að hins vegar og hér að ofan sé rétt útskrifað eptir transskriptarbréfinu vitna Jón Jónsson, A. Jónsson«. Transskript bréfsins er gert í Glaumbæ 18. Okt. 1500, en þar utan yfir vidisse gert á Hólum 14. Febrúar 1557. Ritháttr bréfsins sýnist vera fyrndr nokkuð sumstaðar, en er annars í góðu lagi.

Jn nomine domini amen.

Þetta er kaup þeirra benedicts Gizurarsonar oc Sig[u]rðar þorleifssonar. at Benedict selldi Sig[u]rði lýtingsstaði með aullu því fornu oc nýiu sem hann varð fremzt eigandi at. oc þeirri jörðu átti at fylgia. með þessum ummerckiom. garðr ręðr fyrir utan. sá er gengr upp í eggiar oc ofan í svartæ. Enn úr garðstaðnum austur í jökulsæ. Enn fyrir sunnan steinn sá rаðr er stendr á boltinu fyrir sunnan saulvanesmanna torf oc réttsýne upp í marckdæle. oc þaðan réttsýne í vörðuna á háfahrаni. Ræðr háfahraun suðr eptir jafngegnt raufarbergi. oc þá réttsýne austr í raufarberg. Sagði benedict at saulvanes ætti torfscurð í lýtingsstaða jörðu. enn lýtingsstaðir ætti þar í móti geldfiárrekztr í saulvanesfiall sagði hann kirkiu eiga á lýtingsstauðom þar í jörðunni hálft átta hundrat oc tuttugu. Hérmeð gaf benedict sig[u]rði fimm kýr nú í vor. en at auðru vori fimm hundrut í flytianda eýri. halft hvert uaurv oc hafnarvoðar leigulaust. skildi benedict af sér kirkiu fyrnd á lýtingsstöðum sva lengi sem hann hefr búit oc sva portionem ecclesie. Hér [í] mót gefr sig[u]rðr allar hofiarðir nema kirkiu jörð at Gilium. eptir því sem hann varð eigandi at meður þessum ummerckium. gengr garðstaðr fyrir stað sunnan hlíð neðan úr suartá oc í fiall. Enn ór Garðstaðnom réttsýne oc uppá fiall oc austr í þæfumýrar oc keldudal austr at Jǫkulsá oc þaðan suður undir jökla. Skyldi hvorgi ábyrgiaz við annan. þott ei[gi] yrði jarðir sua víðar til ummercia sem þeir höfðu áðr reiknað. yrði þær meiri eður víðari oc prófaðiz þat. þa skyldi þat hver med þeirri jörð sem keypti eiga. Scildi Sig[u]rdr af sér kuitt um ítaulu blíðarmanna. Skildi Sigurðr af sér fyrnd oc ábyrgð á kirkiu á hofi oc aullu því innan kirkiu var oc allom hennar eignum sva lengi sem hann hafði búið. Suo oc ei síðr portionem ecclesie. profvaðizt oc nockuð þat at kirkia á hofi ætti meira góðz. enn Sig[u]rðr hefði tekit. skyldi hann þar í ei abyrgiaz þott þat yrði meira. enn bene-

dict hafa hanz vmboð til eptirtaulo. ef hann yrði scyldaðr til af biskupi. laugðo Bauðuar oc Solveig börn benedicts med handabandi alla sina peninga ór fyrrnefndri jörðu lýtingsstaðum oc í hofzjarðir. suo ok ei síðr lagði Guðrún húsfrú Sig[u]rðar mála sinn ór hofsjörðum oc upp í jörðina á lýtingsstöðum sua micit sem hun svaraði. en þar sem jörðin tæki ei til. lagði Sig[u]rðr upp í bú oc bestu eign sína með handa bandi. voru þessir vottar við. hallr andrésson. þorualldr magnússon. þióðúlfr arnorsson prestar. dalkr Einarsson. huer eð var forsagnarvottr til tekinn af huerum tueggia Benedict oc Sig[u]rði. Daði bryniolfsson. Magnús þorualdsson. brandr pálsson. bessi jónsson. andrés þorgilsson. páll Grímsson. Oc til sannenda hér um setium vér fyrrnefndir menn vor jnnsigli fyrir þetta bref giört at reykium i tungusveit in octaua corporis christi anno domini m°. ccc°. lxx°. septimo.

## 265. 13. Juni 1377. i Vatnsfirði.

Úrskurðr Jóns ábóta í Viðey officialis í Vestfjörðum um hvalreka Vatnsfjarðarkirkju á almenningum.

AM. Dipl. afskrr. Nr. 893 („ex orig. Vatzfiord. accurate"). Innsiglið var skaddað. AM. Dipl. afskrr. Nr. 896, transskr. frá 1461; Árni hefir skrifað upp nokkurn orðaman úr því, en það er alt afbakanir; í AM. Fasc. LXVI. 11 er forn afskript af þessu bréfi aptan á bréfi frá 1544, en letrið er nú mjög út skafið; Bisk. Fasc. Skalh. XIV, 10 (transskr. 22. April 1605). Prentaðr í F. Joh. Hist. Eccl. Isl. II, 126—27.

Þeim goodum monnum sem þetta bref sea edr heyra sender broder jon med Gudz miskun aboti j videy quediu guds oc sina.

Saker þess at minn virdulighr herra herra othgeir med guds nad biskup j skalhollti skipadi mer vmbod yfuir ollum heilagrar kirkiu malefnum þeim sem ei eru serligha profostum skiput j uestfirdinga fiordungi medan ek færi j hans erendum til vestfiarda framm oc aptr. en einarr boondi eireksson kierdi fyrer mer at honum þickir kirkian j vatzfirde vanhalldin vera af hualskiptum þeim sem gior hafua uerit a huolum þeim er komit hafua a almenningar nu j vaar oc fyrri medr þi at

bændr þeir sem fyrstir koma til huals taka fyrst sinn lut af oskiptu suo mikinn oc þar af hualnum. sem þeim likar en setia kirkiuna j sidarzsta skipti þuert j moti þi sem logh vætta ok medr þi at suo er lætandi kirkiu mældaghi j uatzfirdi at hun æ fioratighi vetta j huerium hual þeim sem kemr æ almenningar en ein samt ef minna er þa seghir ek j mins herra biskupsins vmbodi med lagha vrskurdi at kirkian j uatzfirdi æ fyrst af ollum oskiptum hual þeim sem æ almenningar komit hefuir eda koma kann hedan af fioratighi vetta j sinn lut oskerdan oc eingi ma retligha nockurn part fyrri ser eigna edr undan skiota rettu jafnadar skipti en vitath er at kirkian hefuir ædr sinn lut fullan vtan huerr sem odru uiss gerir vili suara sliku sem heilagrar kirkiu logh seghia þeim æ hendr er kirknanna godzs gripa edr aflogligha vndir sik dragha. Ok til sannenda setta ek mitt jnzsigli fyrer þetta bref skrifuat j uatzsfirdi in prefesto sancti basilij anno domini ꟾᴅ°. ccc°. lxx°. septimo.

---

## 266. 29. Juni 1377. i Vatnsfirði.

Oddgeir biskup í Skálholti staðfestir máldaga Vatnsfjarðarkirkju (Dipl. Isl. II. Nr. 380) og úrskurð Jóns ábóta um hvalreka á Almenningum frá 13. Júní 1377 (sjá næsta bréf á undan).

AM. Dipl. afskrr. Nr. 894 «ex orig. Vatzfiord accurate»; bréfið var með norskri hendi; innsiglið var dottið frá; AM. Dipl. afskrr. Nr. 896 með hendi Arna, eptir transskr. frá 1461, og tilfærir Arni orðamun úr því, og úr «Copiuquerinu Vatzfiardar kirkiu 4to membrana». Bisk. Skalh. Fasc. XIV, 10 (transskr. $^{22}/_{4}$ 1605). Prentað í F. Joh. Hist. Eccl. Isl. II, 127—28.

Aullum godum monnum þeim sem þetta bref sea edr hæÿra heilsum wer othgeirr med guds nad biskup j skalhollte med guds q[uediu] oc varre.

af þi at wer höfum glöggligha skÿniat oc yfuer seed mældagha kirkiunnar j vatzfirde jnsighladan med herra thorarins skalholltz biskups godrar minninghar værs forerara jnzsighle[1]) sua vættande at kirkia j vatzfirde æ fiora tighi vetta af ollum huölum þeim sem koma æ almenninghar. enn ein ef minna kemr. oc saker þess at oss sÿnizt eigi annat rett ne skynsamlight enn kirkian j vatzfirde

[1]) Sbr. Dipl. Isl. III, Nr. 112 og 169.

eighi furst sin part vskerdan. at hafua at øllu ðdru vskiptu medr þi at eighi ma vita fyrer vist huart meira er enn hennar lutur er afreiddr. þi stadfestum wer oc stýrkium med þessu væru brefui þat sama herra jons æbota bref sem hann hefuer j væru serlighu vmbode wt gefuit oc her er þessu waru brefui med bunndit biodannde skýlldulegha at þat se vbrigdiligha halldit oc einkannligha sakir þess at eptir gamalla manna flutninghe hefuer sua at fornu skipt verit oc til sanninda her vm settum wer vært jnsighle fyrer þetta bref skrifuat j vatzfirde tercijo jdus. julij anno domini ꝏ° ccc° lxx° septimo.

---

267. 8. August 1377. á Svinavatni.

Jón biskup skalli úrskurðar þá parta í Hafnarlöndum, er Kolbeinn bóndi Benediktsson gaf klaustrinu á Þingeyrum, æfinliga eign þess.

AM. Dipl. afskrr. Nr. 453 «ex originali monasterii Thingeyrensis, accuratissime» (AM.) «Sio innsigle hafa fyrrum vered fyrer þessu brefe» (AM.) Árni lýsir innsiglunum. «Brefed var i settara lage skrifad af sinne tid. imo so ad seigia med settre skrift. ad frateknum nockrum bökstofum. Er og i betra lage skrifad» (AM.). Afskriptir eru í: AM. 277. 4to bls. 7—8; AM. 280. 4to bls. 167—69; Landsb. 107. 4to bls. 24—26. Prentað í F. Joh. Hist. Eccl. Isl, II, 215-216.

Domur firi hafnarlandi.

Brodir jón med guds nad biskup a hoolum. sendir aullum monnum þeim sem þetta bref sea edr heýra. kuediu guds oc sina kunnikt giorandi ath sub anno gracie millesimo trecentesimo septuagesimo septimo laughardaghinn hinn næsta firer laurentius messu ath svinavatne komu a stefnu firer oss herra gunnsteinn aboti fra þingeýrum af einne halfu en biarne kolbeinsson oc hallotta palsdottir modir hans af annarre laugliga firer stefnd. J þann sama dag oc stad oc medr þui ath þat var fram sagt af jone biarnarsyne en suarit af sira þorsteine gunnarssyne oc juare kolbeinssyne ath þar uoro þeir j hia heima a audkulustoodum þa er kolbeinn boondi benediktzson ætladi ath rida til austfiarda oc var a bak kominn hesti sinvm. lysti hann þui firer þeim ath hann gaf klaustrinv ath

þingeyrum. sua mikinn part sem hann atti j hafnar lôndum a skaga. til obrigdiligrar eignar oc her til gaf hann handlag. adr nefndum sira þorsteine j hônd sem þa var hans skriptafadir oc þingaprestr lŷsti hann oc þui ath þessi giof skilldi vera hans testamentum stodukt oc eighi heŷrdu þeir hann þat til skilia. ath hann skilldi þessa giof sidarr megha aptr taka þui j guds nafni amen. saugdum wer med fullum lagha orskurdi ath þessu profui teknu. j doms sæti sitiandi med rædi oc samþŷkt beztu manna er þa hia oss voro fyrrsagdan part j hafnarlôndum a skaga med aullum hlunnendum sagdrar jardar vbrigdiliga eign kirkiurnar oc klaustrsins at þingeŷrum. æfuinligha wpp fra þeima deghi oc auðxto af taka þann sama argang landskŷlld oc huat annat sem a kynni bera þuiat þat var suarit af fyrr nefndum vattum. ath sagda eign skilldi þingeyra klaustr epter andlazt dag kolbeins eignazk. Ok til sannŷnda her um settum wer firer þetta bref vart jnnsigli ok medr þvi. at wær einar prestr haflidason Marteinn þiodolfsson oc þorsteinn jonsson prestar þorsteinn steinmodsson oddr einarsson oc þorsteinn hallzson. leikmenn. samþŷktum þenna orskurd herra jons biskups þui settum wer var jnnsigli med hans jnnsiglum firer þetta bref er giort var j saugdum stad deghi oc ære.

---

268. 13. Oktober 1377. á Helgafelli.

Hrafn Snorrason selr staðnum að Helgafelli jörðina Saxahvol með gögnum og gæðum fyrir Vatnsholt í Staðarsveit.

A.

AM. 252. 4to bls. 23—24 skr. c. 1660; AM. 430. 4to bls. 20–22, séra Jón í Hítardal c. 1730; AM. dipl. afskrr. Nr. 1550. Nr. 1626; Landsb. Nr. 115. 4to I. bls. 96 (bréfabók séra Jóns Haldórssonar).

Kaupbrief wm Saxahol og Vatnsholt mille abota asgrijms og Hrafnz Snorrasonar [anno 1377[1]).

Jn Nomine Domini Amen.

War þetta kaup þeirra herra Asgrijms abota med samþicki con-

[1]) [b. v. 430.

ventubrædra. og Hraffns Snorrasonar. ad Hraffn Snorrason selur stadnum a Helgafelle land ad Saxahole. med øllum þeim gögnum og giædum. sem hann vard fremst eigande ad. og þessu landi eigu ad filgia ad fornu og nyu. med þessum jtökum skipshofnn a Ønduerdarnese. onnur j Beruijkur garda. tueggia stacka skurd j Hau myre. Hier j mote gaf herra abote land ad Vatnshollte. med gögnum og giædum sem stadurenn vard fremst eigande ad. frateknum øllum Reka sem stendr j maldaga skra stadarinz. skipstodu ad Budum. og laxueide j Lysu badum meigen so langt sem jördenn Vatnshollt geingur ad ødrumeigenn. hier til þrettan kugillde. tuð hundrud ad höstlagie. sex hundrud j vadmalum. hundradz hross. ketel og lerept firer þriu hundrud. skillde huðr hallda þeirre jörd til laga sem keypt heffur. enn huðr ganga aptur ad þui Gottze sem att heffur epter Riettum Reiknijnge. Var þessu keiptt[1]) med samþicke husfreiu Hraffnz. for þetta kaup fram ad Helgafelle jn crastino sancti Calixti pape et martiris Anno Domini M. ccc lxx vij. þessum monnum hiaverande sira Jone Halldorssine. Snorra andriessine. Birne Jonssine. þormode Jonssine. Eýnare Jonssine og mörgum ødrum godum monnum.

---

B.

AM. 264. 4to bls. 18 papp. skr. 1606; AM. dipl. afskrr. Nr. 1657.

Greiu ur kaupbrefi um Saghsahuol.

Jn nomine Domini amen.

Var þetta kaup þeirra herra Asgrijms med samþýcke conventubrædra. oc Hrafnz Snorrasonar. ad Hrafn Snorrason selur stadnum ad Helgafelle land ad Saxahuole med aullum þeim gaugnum oc giædum sem vard fremst eigandi ad oc þessu lande eigu ad fylgia ad fornu oc nyiu med þessum jtaukum.

skipshofn a Aundverdarnese. aunnur j Beriavijkur garda. tueggia stacka skurd j hagmýre.

Hier j mot giefur herra abote laud j Vatnzhollte med

[1]) kieptt, 252.

gaugnum oc giædum sem staðurinn vard eigandi ad. ad frateknum aullum reka suo sem stendur j stadarens skræ.

Skipstada vid Buder oc laxaveidur j Lýsu badu meigin suo langtt sem jaurdinn vatnzhollt geingur upp audrumeiginn.

Actum Anno cio ccc lxx septimo jn crastino sancti calixti papæ et martýris.

---

269. [1377].

Máldagi Laurentíuskirkju í Holti í Önundarfirði [er Oddgeir biskup Þorsteinsson setti].

Landsb. 268. 4to bl. 93—94 skr. 1601. Þessi máldagi gæti verið Oddgeirs, því Oddgeir biskup hreinsar kirkju í Holti 1377. Er auðsjáanlega eldri en Vilch., því þar eru taldar jarðir og mörg ítök, sem hér eru ekki nefnd.

Hollt j onundarfirdi.

Kirkia hins heilaga laurentij j onundarfirdi a heimalaund allt arnnkelzbreckn[1]). vadla oc þorolfsstadi. siettung j hualreka ä saudanesi. siettung hualreka j keflavijk. enn tolftunng j reýkiarfirdi bædi j vídreka oc hualreka med grasnautnn allt thil huanneyra. skog j dyrafiardarbotnni. a medal gilia tueggia fyrir ofan þijnngmanna riodur a hina vinstri hond er a glämu rijdur. fimm kugillda hofn j nesdal[2]). beit j hiardardal hinn jdra fra þui er vr seli er komid til tuijmanadar. j ofrijdu sex hunndrud. kirkian ä xij kýr. Gylltu þreuetra med þrimur grijsum. ij ross. kalf eirnn. ij veturgamlir saudir. gelldfiarkugilldi oc ross veturgamallt. drepstedie. stendur þridiunng hinns fiorda fiordvnngz. kirkian a jnnann sig v manna messuklædi. alltarisklædi ij. kanntarakapur iij. ein med pell. onnur med bastard. þridia skijnandi. fiorda med vef. silfurkalek eirnn. lorencijus lijkneski oc mariu skript. krossa ij. kluckur vj. biollur ij. eirnn sloppur oc steind brijk yfir alltari. kerttistikur iij. glodaker sacrarium munlog. fontklædi. tydabækur miog xij manadi. biarnnfell. paxspialld steinnt. þanngad liggia vnndir ellefu hæir oc xx ad tyunndum oc lysitollum. þar skulu vera prestar ij.

[1]) Hér rúmlega hálf lína auð; [2]) meddal(!), hdr.

þangad liggur eyrirstollur af huerium skattmanni millum audna j kialkafirdi oc kleifua j seydisfirdi.



270. [1377].

Máldagi Maríukirkju í Ögri [er Oddgeir biskup Þorsteinsson setti].

AM. dipl. afskrr. Nr. 962 »ex orig, communicat. a Paulo Jonæ Vidal. [er fra ögri]» með hendi Páls Hákonarsonar eptir transskrr. frá 1451, 9. Sept; AM. dipl. afskrr. Nr. 1417 eptir sama transskr. Máldaginn er eldri en Vilchins. Sú viðbót, sem er í Vilchinsbók, en ekki hér, er eldri en transskr., og ætti því að standa hér, væri þessi máldagi tekinn eptir Vilch. Sbr. Hítardalsbók Cxl, þar sem sagt er að Vilchinsmáldagi sé fyllri en sá máldagi, er stendr í Hítardalsbók.

Kirkia i augri er helgut gude oc guds modur. oc hinum heilaga petri.

hun a stransel. iiij. kugilldi oc xx.

hinn fiorda hvern sel i þernu vik oc ättung i hvalreka.

hinn fiorda hvern sel a hvallatrum.

gelldneyta rett æ fiallcyrar i skotufiörd suo morgum nautum sem sæ æ er kirkiu helldr.

kirkiu messudagur tueim nottum epter olafsmosso fyrri.

þetta æ kirkian innan sik. tuo krossa. tuau alltaris klædi med dukum. mariu skrift. peturs likneski. elldbera. likakrak. kalek. ij. kluckur. merki. sacrarium munnlaug oc handklædi. salltara.

Jtem kýr at erfingium langa bardar.

item steindr kross. alltarisbrik oc paxspialld allt nýtt.

---

271. [1377—78].

Máldagi Helgafellsklaustrs.

AM. 263. Fol. bls. 103 skr. 1598; Landsb. 268. 4to 34b – 36b skr. 1601. Jón Sigurðsson vill heimfæra þenna máldaga til Gyrðs biskups og má það rétt vera, sé hann aukinn síðar, en eptir jörðum þeim, sém hér eru eignaðar klaustrinu, á hann að vera yngri

enn 1377 eða rétt frá þeim tíma, því að komið er inn í máldagann sumt af þeim jörðum, sem klaustrið keypti það ár, en sumt ekki; en eldri er hann en Vilchinsmáldagi; gæti hann því verið frá 1377—1378, þegar Ásgrímr ábóti slepti ábótadæmi, en Guðmundr Arason tók við.

Helgafell [gamall maldage[1]).

Suo mykid goz var ad Helgafelli[2]).

jn primis. Reykianes halftt.
breidabolstadur. cc.
Häls halfur ij merkur.
gvdmvndar eÿiar iiij merkur.
fagureÿ cccc.
hoskylldzey xl veitta skreidar.
þormodzeÿ. xv vætter.
knifsey[3]) mork.
Sörlätur xv vætter.
Selon cc.
Jonsnes iij merkur.
Hofstadir[4]) cc.
Arnarstadir[5]) iij merkur.
Ogurr cc.
þingvollur iij merkur.
geitagerdi c.
Sørar halft þridia hvndrad.
grisabuall cc.
klear[6]) cc.
Selialond v hundrad.
Botn iij merkur.
þorvstadir c.
Olafsvijk halfur fiordi tøghur vætta skreidar.
foss halft þridia hvndrad.
skard cc.
þrandarstadir vij vætter og xx.
Hravnskard ellefv vætter oc xx.
Gufvskalir ij vætter oc xx.
Blafelldur cc.

[1]) [263; [2]) Hér er eins og nokkru hafi verið hleypt úr, sem ætti að ákveða hvonær máldaginn hefði verið gerðr, svo sem: þa er herra Asgrimr aboti slepti en Gudmundr Arason tok med; [3]) kriepsey 268; [4]) hofstadur 268; [5]) arnnarstadur 268; [6]) kleär 268.

Gardar cc.
Brecka iij[1]) merkur.
Melur iij merkur.
Brecka c.
Stakkhamarr[2]) iiij merkur.
Akranes c.
Skallastadir iij merkur.
Laxærbacka iiij merkur.
Langanes c.
Hrisdallur[3]) c.
Hofstadir iij merkur. fæda kuenngilldann vmaga.
Lægafell cc.
Annad lægafell halft annad hvndrad.
Dugfusdalur ccc.
MolldBrecka c.
Hiardarfell ccc.
Yztahravn c.
Midhravn x avrar.
fimtyger hvndrada j rekvm firir swnnan heide oc halfur gaular sandur.

Reki med Akranesi.

a mvnadarnese fiordvng j ollvm hualreka oc fiordvng j ollvm agoda. ad afteknv þuerste oc Beinvm med halfvm fiordvngi.

fiordvng j ollvm reka j þrætu teig oc kiortre j hlidar lannde. attvngur j hvalreka. enn a melvm hinn sextandi hlutur j hvalreka j millvm skardz oc knararnees enn til æross hualreka ad þridiunge. oc j odrv lage settungur j hvalreka mille knarrarness oc æross. er þordur Narfason gaf.

A Reykianesi attvngur j helminge j hvalreka.

At giogre attvng j hvalreka.

fiordvng j ollvm hvalreka gaf Romvndur jngimvndarson stadnvm at helgafelli agodalausan med kleifalande j kallbaksvijk.

J kleifarvyk allann reka.

ā drangsnesi fiordvng j ollvm reka millvm grindar oc kārahafnar ad helminge vid Tvngvstad er þar hinn nijvndi

[1]) iiij, 268; [2]) stackhamrar 268: [3]) hrijsdalur 268.

lvtur j ollvm hvalreka. a kirkiau j hvamme first af ad taka hinn nivnda lut mille hamarsness oc holslækiar.

helming vidreka å kollafiardarnesi. settvngur j hvalreka.

attvngur j hvalreka oc vidreka ollum med agoda oskerdan fra ravf til knararness.

veide alla j straumfiardarã fra fialli oc til siafar.

þessar liggia eyiar vndir helgafell þær er eigi erv bygdar.

Oddznavtar sem taka xx^c^.

Melrackaeẏ oc vallsaxeẏ xl^c^.

Bilzeẏ.

Skealdeẏ.

Hromvndarnavtar xl^c^.

Kjdeẏ.

Skorreyialond xl^c^.

Stravmlond xl hvndrad.

Þetta er kuikfiar med londvm sextigher kugillda oc sex.

Heima ad stadnum xxx kua oc halft annad hvndrad asavdar. nær c veturgamalltt.

xl oc hvndrad vidrelde.

sextighir gelldings med rotvm[1]).

atian yxn þrevetur oc ellre. xx. navt veturgomul[2]). xv tuævetur. xv kalfar.

xxx hross.

Þetta er jnnan kirkiv.

viij kantarakapur hinar betri. sex hinar lettari.

xij sloppar.

fernar dalmatikkur oc suo marger subtilar.

vij kalekar allz oc er einn þar af med gull.

Tabulum firir[3]) alltari oc bryk yfer alltari.

xv. manna messoklædi.

xx hoklar.

ij. smellter krossar oc einn yfer alltari med likneskivm.

marivskrift. Jonsskrift postola.

smeltan kross litinn.

Olafs skrift. Augustinus skrift storr.

---

[1]) rutum 268; [2]) veturgomlvm(!) 263; [3]) yfir 268.

kross stor.
paxblad sæmiligtt.
glodarker. elldbera.
þrennar songbækur per anni circulum.
legendvbækur per anni circulum.
iiij antependia.
iij Alltarissdukar glitader.
skryn oc texti. epistolarius buinn.
ix merkur silfurs j bordbvnadi. oc eitt ker lokad.
hornker ad auk buit med silfur.
skurn lokad buit oc iiij horn bvin.

272. 12. August 1378. á Eyri í Arnarfirði.

Oddgeir biskup í Skálholti kvittar Sigurð bónda Þórðarson um porcio kirkjunnar á Mýrum í Dýrafirði.

AM. Fasc. Lxxiij, 2, frumbréfið á skinni. Innsiglið er dottið frá.

Vmm porcio kyrkiunnar a myrum[1]).

Ollum goodum monnum þeim sem þetta bref sia edr heÿra heilsum ver othgeirr med guds nad biskup j skalhollte med guds quediu oc uærre kunnikt gerande ath þa er ver uærum æ myrum j dÿrafÿrdi j værre visitatione letum ver reikna porcionem kyrkiunnar þa sem fallith hafde sidan sighurdr boonde þoordarson tok þar ath bua oc hann vard eighandi ath jordinne oc saker þess ath suo fanzt til ath hann hafde eigi minne bot lægth æ kyrkiuna oc þat sem hana vardade vtan sik oc jnnan oc þeim part suarar sem hun æ j jordinne en þeim reikninghe gegner þi gerum ver fyrr nefndan sighurd oc hans erfuingia af fÿrr greindre porcione kuittan firir þann tima sem umlidinn er sua ath þar um skal hann eingiss skÿlldughr hedan af. oc til sannÿnda settum ver uært jnnzsighle fÿrer þetta bref skrifuad æ eÿre j arnarfÿrde pridie idus augusti. Anno domini Millesimo. ccc⁰. lxx. octauo.

[1]) Aptan á bréfinu með yngri hendi.

273. [1378].

Máldagi Þorlákskirkju undir Hrauni í Dýrafirði [er Oddgeir biskup Þorsteinsson setti].

Landsb. 268. 4to bl. 95a—b skr. 1601. Sýnist vera eldri en Vilchins, því viðbót er þar, nema hún sé frá seinni biskupum. Mun því þessi máldagi vera Oddgeirs.

Hraun.

Þorlakz kirkia j hrauni a lannd halft ad gautum[1]). skog a kleifum j dyrafirdi. halfa reka j keflavijk. kyr ix oc hundradz hestur. kluckur iij godar oc hin fiorda fornn. refil eirnn. munnlogar. ij. glodaker. skijrnarsär og fonntklædi. lijkakrakur. alltaraklædi ij. kerttistikur iij. med bly. lijka abreidsl. þar skal vera heimilisprestur oc giallda iiij merkur.

þanngad er groptur oc tijunnd or medaldal oc vr selvogum oc af ollum bæium þar j millum.

274. [1378].

Máldagi Jónskirkju skírara undir Núpi í Dýrafirði [er Oddgeir biskup Þorsteinsson setti].

Landsb. 268. 4to bl. 100a—b. skr. 1601.

Wnnder nvpe.

Jonskirkia baptiste vndir nupi a þridiung j heimalanndi skogar hogg a kleifum fyrir vestan j dyrafiardarbotnni oc hun a hina tijundu vætt j serbolz[2]) luta j huaulum oc tyunndu vætt j brek[k]u hluta. tijunnda vætt j breidaboli j skalavijk. oc hina tijunndu vætt j dali j arnnarfirdi. fiordunnginn j reka ollum millum huarfs oc haukslækiar. selveidi sem vill hier j millum. fimm kugilldum beit vnnndann gnupi j nesdal. skipshofnn a skaga tollaus oc eiga jnnstir reit a melum oc skalagiord jnn a brecku. alltaraklædi ij oc ij dukar med. silfurkalek lestann. kerttistikur ij. refla þria forna duka lausa oc eirnn

[1]) þannig; mun eiga að vera: Saurum, eins og í Vilch.; [2]) = sæbóls.

lepp. kyr fiorar. hundrad frijtt oc fiogur ofrijd. klockumalmmur fimm pund er jon ketilsson skylldi sennda til noregs. krossa ij. er annar smelltur. silfurskrijn. munnlog. bok de sanctis ad lesi.

þanngad skal liggia tijunndir af fimm bæium.

þar skal vera heimilisprestur oc taka fiorar merkur j tijdaoffur.

Suo mikid lagdi brigit thil kirkiunnar vnndir gaupi.

in primis messuklædi sæmilig. glodarker. kanntara kāpu oc alltarisklædi med sālun. glerglugg. brijk steinda. kross med lijkneski. paxspialld. sequenciubok. sumarbok ad dominicum oc de sanctis. aspiciensbok a veturinn. fonnt med ollum bunijnge.

## 275. 22. August 1378. á Alandi i Þistilfirði.

Árngeir prestr Jónsson selr Auðuni ráðsmanni á Möðruvöllum fyrir hönd klaustrsins Torfuvík og jörðina á Gunnarstöðum fyrir lausafé, en með því skilyrði að hann eigi forkaupsrétt að hvorutveggja ef klaustrið láti aptr falt.

AM. Fasc. III, 10. Transskript á skinni frá 1385 götugt og illa til reika.

Vm gvnnarstad[i] ok torfu vijk[1]).

Þeim godum monnum sem þetta bref sia edr heyra gærer ek arngeir prestr ionsson kunnigt at ek hefer sellt sira auduni radzmanne aa modruuollum firer stadinn ok klaustrid til obrigdiligrar eignar torbu vik firir nordan reidgotur fra haulkn æ til laxar oss ens forna med rekum ok gognum þeim sem þui æighn ath fylgia ok ek vard eigaundi at med laxardal en ek skilldi fra þa ær ek sellda vigfuse þorualldz syne bædi jord ok reka til sagdra takmarka firir nedann hunndzuatnn. sua æigi sidr med sama skilordi sellda ek stadnum jord aa gunnarstodum med rekum fra forna laxarosi til asdisar mels. allan vidreka ok allar veidar j hafralons æ. med ollum gognum ok giædum til fiallz ok fioru þeim sem þui landi eighu at fylgia ok ek vard eigandi at med flutningum ok hafrextrhe fra þui ær saman ber stein enn stora firir ofan vadla ok asdisar mel ok rettsyne

[1]) Aptan á bréfinu með yngri hendi.

fram j flædi. skilldi þetta forverd iiij [k]yr. iiij asaudar kugilldi. iiij gelldfiar kugilldi. xi hundrat j flytianda eyre. skal vt lukt a fardogum malnytu kugillden ok hundrat i h[a]fnar vad[um] ok þat mæira sem radsmadr vill. en stadrinn áá allt halft þat ær bæʀ aa rekana til fardaga en alt s[id]an. her med hefer [arngeir][1]) lagit áá kaupmala [at hann fai þa jord][2]) ok reka at kaupa fyrst ath iofnu ok ek a kosti at sækia edr þa er saugd jord er fol af klaust[rinu t]il kaupa. Ok til sann[inda her] vm setta ek m[it]t insigle firir þetta bref. gort áá alanndi in octaua assumcionis. anno domini ꝏ⁰. ccc⁰. lxx⁰ octauo. voro þessir menn i hia bergþor bonde hauskullz son þoruardr guduardz son bardi stulluson ok marger adʀer goder menn.

---

276. 4. Oktober 1378. á Sólheimum.

Einar Oddsson selr Bessa Sighvatssyni Auðólfsstaði í Langadal með tilgreindum ítökum og ummerkjum fyrir Sólheima í Sæmundarhlíð með tilteknum landamerkjum.

AM. Dipl. afskr. Nr. 414, afskript gerð eptir transskripti Benedikts Björnssonar, Gísla Brynjólfssonar og Jóns Jónssonar gerðu í Bólstaðahlíð 15. Júní 1637.

Vtskrifft af Audolfstadabrefe.

Jn nomine Domini Amen.

Var þetta kaup þeirra Bersa Sighvatssonar af annare alfu og Einars Oddssonar af annare. lagdest under handaband þetta. ad Einar sellde adurnefndum Bersa jordena a Audolfstodum j langadal. med ollum þeim gognum og hlunnendum sem jordenne atte ad fylgia ad fornu og nyu og Einar vard fremst ad eigande. tilgreinde hrossabeit bonda j Karastada jordu fra veturnottum til sumars og torfskurd so mikinn sem vill bonde skiera lata j Karastada jordu. hafa huorutueggia arlega ef vill. sellde Einar jordena a Audolfstodum med þessum ummerkium vid Gunnsteinsstade hlodugil og ur þvi ʀettsynes upp j Trollaskard. ofan ur gilinu vid lækiar osinn vid sykid. og

---

[1]) gat; [2]) stórt gat.

rædur Karlstada syk ut þadan. eiga Audolfstader Likholm og Vargey j blöndu millum æsestada riettsyne framm ur gilinu j blöndu. ur melshornenu j sionarhol rædur haa öxl. upp þadan Mioadal upp i öxlina. so sem sier kyrkiuna og mann æ gautavirke vid gautzgil. smiorskalargil og þadan riettsyne upp a fiall. a eingiunum uppe fyrer framan in forna arfarvegurinn[1]) upp j sykid. og ur sykinu yfer j melinn. sagde Einar til halfkirkiu skylldar a jordunne og luka ut preste ij merkur. tekur bonde heima kirkiu tiund sina. og sinna heimamanna og lysitolla. skillde Einar af sier fýrnd og abyrgd a kyrkiu og ollum hennar ornamentis er hun a j sier. Hier j mote gaf fyrnefndur Berse jord j Solheimum og Sæmundarhlid med ollum þeim gögnum og hlunnendum sem jordunum atte ad fylgia ad fornu og nyu og Berse vard fremst eigande ad med þessum ummerkium. millum Bersastada rædur gardur nedan ur æ og upp j fiall. tueggia manada beit j Elevaga jord. teigur firir framann Hollt hia Holmans vadle. hefur honum sagdt vered ad þufa og pollur riede firir nordan. enn kielldu sug firir sunnann. skilur Berse af sier alla abyrgd um teig og beit. þott afseigest jordu j solheimum. Sagde Berse þessa skylld a jordu j Solheimum. syng[i]a huorn dag helgdann[1]) og luka ut preste iiij merkur j kaup. prestfylgd epter þui sem a taka heima tiund sina og liostolla. skilur Berse af sier alla fyrnd og abyrgd a kirkiu utan kirkiu og innan og ollum hennar ornamentis. Hier j mille gaf fyrrnefndur Berse mille jardanna Einare x. kugillde med þessum fridleika iij kyr. ij asaudar kugillde. xx. saude veturgamla. ij. naut tuævetur. iij. naut veturgomul. uxa iiij$^{a}$. vetra. gomul edur(!) kyr. ij$^{c}$. j slatrum og hest. luka ut a næstum fardogum vij. kugillde enn standa med xij alna bata þau iij. sem epter eru. þad iij. naut veturgomul(!) og x. sauder veturgamler og uxenn. skal hvor abyrgiast lagariptingar a þeirre jordu er sellde. enn þeir hallda til laga [er keyptu].

Samþýckte Jngebiorg husfru Bersa þetta kaup med handabande.

Samþýkte þorný Bersadotter kona Einars þetta kaup adur med handabanda epter þvi sem þar um giört brief vottar.

---

[1]) þannig.

Voru þesser kaupvottar sijra Andres Finnbiarnarson. Marteirn Bersason prestar. Bryniolfur Biarnason. Hiallte Bergsson. Eilifur Biarnarsan. Tume þordarson. og marger adrer dugande menn.

Og til sanninda hier um setium vier fyrnefnder menn vor jnsigle firir þetta bref. er giort var j Solheimum j Sæmundarhlid in festo Fransisci abbatis sub anno gratiæ ꝏ. ccccᵉ. lxxviij.

---

277. 1378. [á Stað i Reyninesi].

Oddbjörg abbadís á Reynistað felst með samþykki allra konventusystra og klaustrráðsmanns á að Narfi Sveinsson lúki klaustrinu á Stað þrjátigi hundraða, sem eptir stóðu af þeim fjórum tigum hundraða er Örnólfr bóndi lagði með Ingibjörgu dóttur sinni til klaustrsins.

AM. Fasc. III, 9. Frumbréfið á skinni, meirt og lasið. Afskript frá 17. öld í AM. Nr. 280. 4to.

R[eynistaðar] kl[austrsbréf][1]).

Systir othbeyrgh kǫllud abbadis at stad i reynisnesi kunngerir þat godum monnum sem þetta bref sea edr heẏra at ek med samþykki allra conuentv systra ok radz mannz bryniolfs biarnarsonar samþykkium ok stǫdugt gerum at narfi sueinsson luki stadnum þriatigi hundrada med þessum fridleika fim kyr ok fim asaudar kvgilldi tiu hundrath vǒrv ok tiu hundrath i hafnar uád. stendr til leigv burdar i breidabolstad. xij. alner af hueriu hundradi þeirri[2]) sǒmu er hann hefer keypt at aurnolfi bonda ok skal iordin kuitt ok lidug stadarins vegna suo framt sem hann hefer lukt þessa. xxx hundrada. luka ut at fiorum arum. lukti greindr aurnolfr adr tiu hundruth frid. gaf fyrr nefndr aurnolfr þessa fioratigi. hundrada[3]) med ingibiorgu dottur sinni til stadar i reẏnis nesi. er aurnolfr suo framt kuittr ok lidugr af þessi skulld, sem narfi sueinsson iatar med handlagi radzmanni reẏnisnesstadar at luka. Ok til sanninda her um settum uær vart kapitula innsigli firir þetta bref sub anno graciæ ꝏiij⁰. ccc⁰. lxx⁰. viij⁰.

Innsigli abbadísarinnar hefir verið fyrir bréfinu, en er nú dottið frá.

[1]) Skammstafað aptan á bréfinu; [2]) þri, skbr.; [3]) .hʷ., skbr.

278. 13. Januar 1379. á Möðruvöllum.

Arngeir prestr Jónsson selr klaustrinu á Möðruvöllum jörðina Áland í Þistilfirði fyrir lausafé.

AM. Fasc. III, 10. Transskript á skinni frá 1385 götugt og illa til reika.

Jn nomine domini amen.

Þa er lidit var fra hegat burd vars herra ieshu christi þushundrat þriuhundrat siautigir ok niu ar. a gæisladaginn i malstofunne brædranna áá modruuollum j horgardal. staddiz sua fellt iardar kauph millum prior ærlænds audunar radzmannz klaustursins med brædranna samþukt af einne alfu. en arngeirs prests jonssonar af annari. at nefndr arngeir prestr selldi med handlagi klaustrinu ááland i þistilsfirde firir iij kyr iij asaudar kugillde hundrat j kosti. v hundrat j flytianda eyri firir nefnda iord ok reka. áá saugd jord alla iardar eign millum haulknar. ok sandar. land gaugn ok fioru gaugn. ok allan vidreka. en fiordung og attung i hualreka ok flutningum. skal landz verdit vt lukaz áá tuæim arum. enn leiga xij alnum fridum huert kugilldi. þat ær efter stenndr. en ofritt af flytianda eyri. voro þessir vattar hia sira asgrimr gudbiardzson. augmundr asgrimsson prestar eyulfr glumsson þorkell olafsson leikmenn. Ok til sannenda her vm settu þessir menn sin jnsigle med kapitula innsigle brædranna firir þetta bref gort i saugdum stad degi ok ari.

279. 23. Januar 1379. í Ási.

Benedikt Kolbeinsson gefr Þingeyraklaustri jörðina á Gilstöðum í Vatnsdal ásamt þrem kúgildum.

Frumbréfið á skinni í AM. Fasc. Lxxiij, 3, og hefir verið eign Þingeyraklaustrs. Innsiglið hefir verið týnt á dögum Árna Magnússonar. Nokkrar afskriptir eru til af bréfinu, svo sem: AM. Dipl. afskr. Nr. 454 (eptir frumbréfinu); AM. 277. 4to bls. 3—4; AM. 280. 4to bls. 172—73.

Gilstada Brieff 1379[1]).

Ollum godum monnum þeim sem þetta bref sia edr heyra sender benedict kolbeinsson. q[vediu] G[uds]. oc sina kunnigt gerandi at ek gefr klaustrinu at þhingeyrum stadfastliga til fullrar oc efnilegrar eignar jordina a gilstodum med ollum þeim gaugnum oc gięđum sem iordin hefer att at fornu oc nyiu oc ek hefi fremstz eigandi at uordit þar med tuær kyr oc sex ær efter þui sem mitt testamentum bref uattar. skal sagt klaustr at þingheyrum taka at ser til oendalegrar eignar fyrr nefnda iord gilstadi j uadzdal medr þerssum þrimr kugilldum nu j uar a fardogum. oc til sannenda her um setta ek fur þetta bref mitt jnsigli gert j æsi jn profesto babille martiris. anno domini ꝏ⁰. ccc⁰. lxx⁰. ix⁰.

---

## 280. 16. April og 21. Mai 1379. á Miklabæ í Blönduhlið.

Hallvarðr Hallkelsson og Valgerðr Brandsdóttir kona hans selja Guðbjarti presti Eyjólfssyni jörðina Sævarland í Laxárdal með tilteknum hlunnindum.

AM. Fasc. III, 11. Transskript á skinni frá 1385 meirt og götugt; AM. Nr. 277. 4to bls. 31—32 með hendi Guðmundar Andréssonar 1640.

Bref vm jardir j fliotum ok laxardal[2]).

Þeim godum monnum sem þetta bref sea edr heyra senda jon prestr biarnarson biorn brẏniolfsson þorbiorn kollason ari eireksson ok gudmundur aunundarson kuediu guds ok sina kunnigt gerandi at sub anno gracie ꝏ⁰ ccc⁰ lxx⁰ nono. vorum vær j hia sam ok heẏrdum a laugardagin j paskaviku a miklaby j blönduhlid at halluardr hallkelsson ok valgerdr brandzdotter husfru hans selldu ok handlögdu til fullrar eignar gudbiarte presti eyiolfs syni jordina a sæuarlandi j laxardal med ollum þeim gognum ok gædum sem þui landi hafa fẏlgt at fornu ok nẏiu ok þau hofdu fremz eigandi at vordit itolu

---

[1]) Aptan á bréfinu; [2]) aptan á bréfinu með fornri hendi. Árni hefir skrifað aptan á það: »Landamerke mille Sævarlandz og Reykia i Laxardal«. og R[eynistaðar]kl[austurbréf].

lausa nema bænhus skylld ad vndan teknum hualreka ok vidreka hinum stæra fra raufarbergi ok vestr yfer os til motz vid þorbiargarstadi sua langt sem bænhuss krossinn a sæuarlandi bryddir vestr vndan mels horni þar sem môtaz gras ok fiara. her medr selldu fyr nefnd hion halluardr ok valgerdr adr nefndum gudbiarte presti fioru stuf med ollum vidreka ok hualreka fra storu urd til saud ær at vndan teknum smareka ok sa lætr annaz rekann at logum sem backa a ok[1]) vidreka allan fra sauda til gaukstada ar ok attung j hualreka at fraskildum smareka ef skefilsstada menn annaz rekann epter logum. þriggia[2]) attfedminga skurd til saud ár torfa j þorbiargarstada land a hueriu ari æfinliga. eingiar med vmmerkium. þriggia vikna verk edr meiri j skidastada jord upp hoggit gras ok stackgardz giord. sagdi halluardr þessi landamerki at j milli sæuarlandz ok reẏkia rædr hafiallit sudr i midtind a fiallinu. en þadan rettsẏni ofan epter merki holum ok yfer j grohol firer sunnan þorbiargarstadi en firer vestan rædr laxa medan hon fellr j fornum farveg. en árfarvegrinn forni er[3]) firer vestan smidsholm vt j rekamark. her j mot gaf optnefndr gudbiartr prestr þrattnefndum hionum halluardi ok valgerdi halfan fiorda tug hundrada medr þessum fridleika fiorar kyr fiogur asaudar kugilldi atta lambgymbrar tiu saudi vetrgamla tuo naut tuævetr þriu vetrgomol hundrat j slatrum. þriu hundrut j hrossum. vxa firir þriu hundrut. hettu firir hundrat. ellifu hundrat vôru ok fiogur hundrut j hafnarvadum. skilldu a þessu goodzi vera þriggia ara saul ok luka tuttugu hundrut a hinu fẏrsta en fimtan a hinvm tueimr iafn mikit a huaru nema gudbiartr prestr villdi fliotara vt luka. skilldi nefndr gudbiartr prestr hallda skiladomi firir jordina en fyrsogd hion halluardr og valgerdr skylldug honum aftr at luka sitt godz j sinni beztu eign ef nockot riptiz edr af segdiz greindri iordu sæuarlandi. Ok til sannennda vm þetta iardarkaup settum vær fẏr nefnder menn vár innzsigli firer þetta bref gert j sôgdum stad a miklabẏ j blonduhlid a laugardag hinn næsta epter ascencionem domini a sama ari sem fyr segir.

---

[1]) sl. 277; [2]) þiggia(!) 277; [3]) er í 277, en í frumbr. sýnist að eins móta fyrir því.

281. 12. Mai 1379. i Eingey.

Vígslumáldagi Eingeyjarkirkju, þá er Oddgeir biskup Þorsteinsson vígði hana.

AM. 263. Fol. bls. 62 skr. 1598, máldagabókin forna frá Skálholti, en upp í hana hefir þessi máldagi verið tekinn eptir Vilchinsbók, og stendr sem fyrirsögn «Vilchinsmaldage».

Þa er lidid var frä hingadburd vor[s] lavsnara jesv christi þusvndrat ccc. siotyger og ix ar. þrimur nattvm fyrir Hallvardzmessv. var kirkia j Eingeý vigd af herra Othgeire biskupi j Skalhollti hinvm heilaga krossi. heilogvm pislarvottvm. dionysio. thome[1]) archiepiscopo oc olafi konge. heilaga þorlake sancte katerine oc beate svnniue med þessum maldaga.

ad þar skal syngia annann huern dag helgan. oc dag j vikv vmm langa fostv. þann sem bondi vill. fostudag j ymbrodoghum. greida presti ij merkur.

þar skal og vera heimilisprestur ef bondi vill. oc luka þa honum iiij merkur.

Kirkian a kalek oc messuklædi. glodarkier. fimm kyr.

þar skal oc heima takazt oll heima manna tijvnd.

þar er heima manna groftur. half legkavp skvlv heima takazt.

leggur hvstrv Margret Ozvrardotter so mikid til kirkiunnar oc gefur vm fram þad sem adur a hvn.

Jn primis xxx hvndrada j lande j Eingeý. v. kugilldi. ein messuklædi. kantara kapv. ij. Alltarisklæde med dukvm. oc einvm fordukum. lektaraduk. ij kertistikur med kopar oc ij med jarn. kross med vnderstodvm. Marivskriftt. thomas likneski. ein Alltarisbryk. litill texti. einn slopp oc refla vm korinn med glitudvm dukvm.

jtem iij merkur vax oc half mork reykelsiss.

jtem eitt merki. vigdz vatz ketill med tin. ampli. sacrarivm mvnnlavg.

jtem ij biollur.

kirkian a fiordvng j ollvm reka millvm fossvogslækiar vtan a kirkivsandi oc j seltiorn.

---

[1]) thoma, hdr.

jtem selveide vid eidsker oc tuo netlög vestan ad giaholmvm.

Porcio ecclesie vij hvndrat.

---

282. 24. Juli 1379. á Holum.

Urskurðr Einars prests Hafliðasonar um landamerki milli Hvamms og Móbergs í Langadal í Húnavatnssýslu.

AM. Fasc. III, 12. Transskript á skinni frá 1401. Afskriptasafn AM. Nr. 394 (eptir transskriptinu).

millvm hravns ok mobergs vm landamerki[1]).

Ver einar haflidason hola kirkiu officialis giorum ollom godum monnum kunnigt at uær medkennunz[2]) med þessu uoro brefi ath þa er uier hielldvm stefnu a landamerkium millum mobergs ok huams dæmdu tolf menn til vrskurdar uors huor[t] uær uilium seigia til hallz kirkiunne æ holltastaudum edr gudmundi æ mobergi þann jardar teig sem þeir hofdu adr um þrætz ok medr þui at þau prof geingu framar er gudmundr leidde til hefdar. enn þau sem kirkivnne heyrdi thil. þui j guds nafni amen soghdum uær med fullum laga urskurdi gudmundi til hallz sagda jord þar til sem sannara prof gange[3]) þar um odro huoru[4]) til eignar. Ok til sannynda hier vm settum uær firir þetta bref officiolatus jnscigli giort ath holom jn vigilia jacobi apostoli anno dominj ꟿ ccc lxx nono.

---

283. 1379.

Máldagi Jónskirkju í Vík (Reykjavík) á Seltjarnarnesi, er Oddgeir biskup Þorsteinsson setti.

AM. 238. 4to bl. 47b—48a skr. c. 1570 (Bessastaðabók); JSig. 143. 4to bls. 18 skr. 1696.

---

[1]) Aptan á bréfinu með fornri hendi; [2]) skbr. hefir mzuuz (= meðununz); [3]) ganga, skbr.: [4]) huort, skbr.

Vikvr maldagi a Seltiornnarnesi [ꝏ°]. iijc. lxx. ix.

Jonskirkia j vik a land alltt at seli. landsælding og selalatur j erfærisey. sælding j akvreý. rekann allann a kirkivsandi. fiordvng reka j mots vid nes. eýngeý og lavgarnes. vtan seltiornn og lavgarlæk[1]). vikvrholt med skog og selstodo.

xij kyr og[2]) tvenn messvklædi. hokvl lavsann. kantarkapv. slopp. alltarisklædi. v. med dvkvm. iij. marivskripter. ij. krossar. ij. blasivs likneski. klvckur. ij. biollvr. ij. kiertestikv eina. glodarkier. sakrarivm mvnnlavg. kirkiv kola. stola. ij. lectara. xviij tidabækur.

[Þar] skal vera heimilisprestur ef bonde vill.

---

284. [1379].

Máldagi Pétrskirkju á Kálfatjörn [er Oddgeir biskup Þorsteinsson setti].

AM. 238. 4to bl. 47 skr. c. 1570 (Bessastaðabók); JSig. 143. 4to bls. 16—17 skr. 1696.

Hvad sem kirkiann a kalfatiornn a[3]),

Petvr[s] kirkia a kælfatiornn. hvnn a heima land alltt med gognvm ok gædvm. hvn a backa ok fleckv vik. hvnn a allann reka j millvm Hravnnes ok ranga giogvrs ok firr nefnd fleckv[v]ik a allann þridivng j vatzleysv jord. j rekvm. skogi ok hagabeit. fra nýia gordvm ok in at gardi þeim er geingvr ofan vr Hravne fram at sia firir innann akvrgerdi. Advrnefnd kirkia a kælfatiornn a allann reka j millvm mar[k]kletz ok nýia garda.

---

285. [1379].

Vitnisburðr Þorvarðs Arasonar og þriggja manna annara, að Kálfatjörn eigi allan reka milli Hraunness og Rangagjögrs.

[1]) lavgarles(!) 238; [2]) 238 hefir fyrst ritað hér inn xij, en svo sett stryk fyrir ofan og neðan til merkis um, að það ætti að falla burt; [3]) Kalfatiarnarmaldage 143.

AM. 238. 4to bl. 27, Bessastaðabók skr. c. 1570.

Kalfatiorn.

Svo felldann vitnisbvrd bervm vier þorvardvr arason oc þorsteinn jonsson olafur marteinsson oc hallvardvr karason at vier hofvm verit j kalfatiarnar kirkivsokn meir enn xx vetur enn svmer meir enn lx vetur. hofvm vier alldri tvimæli æ heyrt. at eige ætti kirkiann æ kalfatiornn allann reka j millvm hravnnes oc rangagiögvrs. oc alldri hofvm vier heyrt at þar væri hvalreki fra skilldvr. og epter [þessv] vilivm vier sveria ef þvrfa þÿcker.

---

286. 1379.

Vitnisburðr Kára Þorgilssonar og tveggja manna annara um máldaga og reka kirkjunnar í Viðey frá Kolbeinsskor og inn að Hraunnessvötnum í millum Hvassahrauns og Ottastaða.

AM. 238. 4to bl. 27b Bessastaðabók skr. c. 1570; AM. dipl. afskrr. Nr. 1819 (eptir 238); AM. 65. 8vo bls. 46 (kver Bergsteins í Skildinganesi) og á lausum blöðum í 4to bls. 32.

Kalfatiorn.

Svo felldann vittnisburd bervm vier kare þorgilsson. jon oddzson oc olafur kodransson. at vier hofvm heÿrt lesinn maldagann j videy advr enn kirkiann brann. oc firnefndur olafur kodransson las hann sialfur. at kirkiann j videÿ ætti fiordv hvoria vætt vr hval hvar æ land kæme fra kolbeinsskor oc inn at hravnnes vottnvm j millvm hvassaravns oc ottastada nema kæme æ kalfatiarnar reka þeim frateknvm j millvm markkletz oc nyia garda. hier epter vilivm vier sveria ef þvrfa þÿcker.

anno domini ꝏ. iij^c. lxxix ar.

---

287. [1379].

Máldagi Pétrskirkju í Saurbæ á Kjalarnesi [er Oddgeir biskup Þorsteinsson setti].

JSig. 143. 4to bls. 154—55; AM. 238. 4to bl. 112. «Er þetta skrifat effter Hitardalzmäldagabok». þetta er því líklega með vissu Oddgeirsmáldagi 1379.

Maldage kirkiunnar j saurbæ ä kialarnese.

Peturzkÿrkia i saurbæ a kialarnese. ä x. kÿr. xv. ær. gridung tvævetrann. saudur tvævetur. hundrat i haustlagzeyri. hundradz ketel. iij hesta. tolf manada tidabækur. þrenn messuklæde. gilltur silfurkaleikur stendur nærri. ix. aura.

kyrkian a xxx hundrada j heimajðrdunne effter þui sem soru sira Gudmundur gilsson og sira þorkell Haflidason. ad dæmtt hefdi vj prestar. effter bode herra Gyrderz. og þorkell sem þä ätti jðrdena var þar þä fyrer kalladur.

Bru skal ballda ä blikadalzä þar ä millum fiallz og fiðru. er sä vill er j saurbæ bÿr. þa er medalmadur meige bera half vætt. og hafa þar omagann sem bruen er ej giðr. enn ef vautn taka bruna edur fellur af fyrer firnsku saker. þa skal gefa halfmork ä fyrsta missiri. maurk ä ðdru. xij aura ä þridia. sidann skal hann hafa kvengilldann vmaga þar til sem [a er] gior.

þar liggur tijund til millum blikdalzär og [eilifs]dalzär. nema af eyri og mÿdal ef þar bua landeigendur. þa skulu þeir taka sina tijund heima og allra hiona sinna.

---

288. [1379].

MALDAGI Pétrskirkju á Kirkjubóli á Rosmhvalanesi [er Oddgeir biskup Þorsteinsson setti].

AM. 263. Fol. 64 skr. 1598. Hér er ekki talinn fjórðungr í Geirfuglaskeri né viðreki á Skarðaurð, er því þessi máldagi eldri en Magnúsar biskups Eyjólfssonar 1477; gæti verið Oddgeirs.

forn maldage.

Kirkia hins heilaga Peturs postula a kirkiubole a xl hvndrada j heima landi. oc fimtan kyr. þrenn messvklædi. þriv alltaraklædi. Tabulum. eitt glodarker. kalek. brijk sæmiliga yfer alltare. ein kertistika. sacrarium mvnnlavg. fontklædi. ij sloppar. ij kantarakapur. tiolld vond vmhverfuis kirkiu.

Peturs skrift. fimm kluckur. tolf manada bækur allvondur. merki ij. annad med silki enn annad med lerept.

---

289. [1379].

MÁLDAGI Blasíuskirkju á Laugavatni [er Oddgeir biskup Þorsteinsson setti].

AM. 238. 4to bls. 40 skr. c. 1570; JSig. 143. 4to bls. 57 skr. 1696.

Maldagi æ laugarvatni.

Blasius kirkia æ lavgarvatnni æ j heimalandi x^c.

ij. kyr. ix. ær.

Jtem jnnan sig. ij. krossar. marivskript. blasius likneski. iij altarisklædi. altarisdvkur ok annar glitadur. glodarker. ij. klvckur. litil bialla.

porcio ecclesie vm. x. ar. xij. alnar hvort ar.

---

290. [1379].

MÁLDAGI Þorlákskirkju á Reykjum í Mosfellssveit [er Oddgeir biskup Þorsteinsson setti].

AM. 228. 4to bl. 40b skr. c. 1570; JSig. 143. 4to bls. 149 skr. 1696.

Sudrreÿkia maldage.

Torlaks kirkia æ reykivm æ land at vlfa[r]sfelli.

iij. kyr.

Rodvkross. torlaks liknesk[i]v. altaraklædi. sacrarivm mvnlavg. ij. biollur. paxspialld.

porcio ecclesie vm. vij. ar. xij. alnar og. ij^c.

Jtem. vij^c. er failit hafa af kirkivnnar jordv sidann Olafur tok vid jordine.

---

291. [um 1380?].

VITNISBURÐR um landamerki Gaular í Staðarsveit.

AM. 264. 4to bls. 8 skr. 1606; AM. 252. 4to bls. 8—9 skr. c. 1660 (Jón Steindórsson); AM. dipl. afskr. Nr. 1618. Prentað í JPét. Tímarit I. 41.

Gaular landamerke[1]).

þenna eid handlaugdu þau Steirn þorarensson og Vigdijs [Aladotter[2]) mier Gijsla Sijgurdarsyne. ad þa er þau voro j Stadarhrepp oc Liotur þorkielsson atte Gaul oc Ofeigur epter hann. þa atte Gaul[3]) alla jaurd ut fra Groulæk firir ofann gautu oc ut thil Vigraleýkiar[4]) oc sionhending ur Grouhollte fyrer ofann Groulæk [oc ut[5]).

---

292. [um 1380?].

LANDAMERKI Hofstaða í Miklaholtshreppi til móts við jarðir Helgafellsklaustrs, er Þorsteinn taldi.

A.

AM. dipl. afskrr. Nr. 1668, afskript staðfest 27. Maí 1710 í Skálholti af Vigfúsi Jóhannessyni, Þorgils Sigurðssyni og Grími Magnússyni eptir vidisse á kálfskinni gerðu í Snóksdal 18. Maí 1628 af Finni Skúlasyni og Páli Jónsyni eptir transscripto Helga prests Magnússonar, Jóns Jónssonar og Helga Árnasonar frá c. 1500; AM. 381. Fol. afskript á pappír.

þesse eru landamerke a mille Hofstada og Lagafella.

ad gata su skilur. er liggur epter Langhollte. og svo a motz vid Gaularland. steinar ij standa sinumeigen gǫtu hvor. sionhending ur hinum nedra j hinn efra. enn ur hinum efra sionhending j frackaskard. enn ur austanuerda skardinu j stein þann er stendur a þrongubrun. oc þadan j Gialparstapa. og sionhending i Vidilækiar botn ur stapanum. enn firir utan er sionheuding ur Groutiörn j stackgardz brot þat er stendur

---

[1]) 252; [2]) Aladottur 264; [3]) Gamle(!) 252; [4]) vygralækiar JP.; [5]) [sl. 252 og JP.

under saudabolzhollte. enn ur holltinu j kielldu þa er fellur ur floalæk. þa skilur lækurenn upp þar til ad upp kiemvr ad efra floa. og þadan sionhending j stackgardzbrot þad er stendur undir saudabolsas. og þadan eptir asnum upp þar sem hann er hvassastur og j stackgardz brot þad er firir ofan stendur asinn. og þadan sionhending j markgil. enn markgil rædur til uppsprettu þeirrar er þad fellur ur.

Þesse eru ummerke umm Hofstadaland.

ad steirn stendur a Gissurarvöllum. ur þeim steine er sionhending j ostleifahamar. enn sa hamar stendur j austur fyrer sunnan reidgötu. þadan sionhending i saudabolsholllt. þar er hæst er. þadan er sionhending i steina ij. nidur a myrum. ur steinum þeim er sionhending j stackgard a midgötuhollte. ur stackgarde þeim j gilldrubrot a Balkastödum. þadan sionhending j stein vid mastada kielldu. þadan j frackaskard firir utan hanefshola. þadan er sionhending i marklæk. þadan i urdarmula. þa rædur Valla þar ummerkium. er hun fellur j Straumfiardara. þa rædur Straumfiardara. ofann til marks þess er fyrr var ritad. Saudabeit eigu Duggusdalsmenn ut yfer a saudum sinum vj vikur. Hier fyrir þetta jtak leggia þeir einge a mot er heiter Hauagardseinge. Hofstader eiga iiij. einge i Straumfiardarlaund. og þorbiarnarholm um framm. Hofstadamenn eiga og torfristu j Borgarholltz land til þeirra heya. sem i holminum fast. Hofstader eiga allann reka fra Grensa og til Gudlaugs hamars. enn þadan ā[1]) helmingi i stolpa þann. er stendur firir Breckubæ.

Þerse merke taldi þorsteinn um Hofstada land.

---

**B.**

AM. 264. 4to bls. 9 skr. 1606; AM. 252. 4to bls. 9 skr. c. 1660 (Jón Steindórsson); AM. dipl. afskrr. Nr. 1668 og Nr. 1617. Prentað í JPét. Tímarit I, 41—42.

Landamerkie millum Hofstada oc Lagafella.

Þesse eru landamerkie millum Hofstada oc Lagafella.

---

[1]) Þannig; á líklega að vera: at.

at gata su skilr er liggur epter langaholltte. oc suo til motz vid Gaular land. Steinar ij. standa sijnu meiginn[1]) gautu huorer[2]). Sionhending ur hinum nedra j hinn efra. En ur hinum efra sionhending j frackaskard. En ur austanverdu skardinu j stein þann er stendur æ þraungua brun. oc þadan j Gialparstapa oc sionhending j vijdelækiarhotn ur stapanum. Enn firir utann er sionhending j Groutiaurnn j stackgardz brot þad er stendur under [saudaholzs holltte[3]). enn ur holltinu j kielldu þa er fellur j floalæk. þa skilur lækurinn[4]) upp þar til ad upp kiemur ad efra floa. oc þadan j stackgardz broth þad er stendur nedan under saudabolsas. og þadan epter asnum upp þar sem hann er huassastur. oc j stackgardz brot þad er fýrer ofann stendur asenn. oc þadan upp sionhending j markgýl. enn markgýl rædur til uppsprettu þeirrar er þad[5]) fellur ur.

---

293. [um 1380].

Skrá um landamerki milli Lágafellanna beggja í Miklaholtshrepp.

AM. 264. 4to bls. 2 skr. 1606; AM. 252. 4to bls. 10 skr. c. 1660 (Jón Steindórsson); AM. dipl. afskrr. Nr. 1616. Prentað í JPét. Tímarit I, 42.

Landamercki a mille Lagafellanna boggia[6]).

Þesse landamerkie saugdu þeir Olafur Biornsson oc þorlakur Markusson j mille Lagafella[7]). ad ur Valhamri[8]) er stendur firir ofan reidgautur er sionhending ofan j kroklæk[9]). rædur þa lækurinn ofann j Groutiaurnn.

---

294. [um 1380].

Vitnisburðr um landamerki milli Lágafells og Elliða í Staðarsveit.

---

[1]) a, b. v. 252; [2]) huor 252; [3]) [Sődabolzhollte 252; [4]) lækenn 252; [5]) þar 264; [6]) 252; [7]) Lagafellanna beggia 252; [8]) paalzhamre 252(!); r.: Valshamri; [9]) Broklæk 252.

AM. 264. 4to bls. 9 skr. 1606; AM. 252. 4to bls. 10 skr. c. 1660 (Jón Steindórsson); AM. dipl. afskrr. Nr. 1615. Prentað í JPét. Tímarit I, 42.

Landamercki mille Lagafellz og Ellida[1]).

Þesse landamerckie sagde Olafur Biornsson. ad Snorri Biarnarson. oc Jon Bardarson hefdi reiknad so ad hann heyrde j millum Ellida og Lagafelltz. ad þar [rædur[2]) lækur sa er fellur[3]) af bruninne firir austann Ellidatinda. er hann þriklofenn uppe j bruninne[4]). enn hinn jndre[5]) firir nedan brunina oc suo firir utan þann stein er stendur æ hrijsholltte eda deyldar holltte. þuiat þad er kallat huerttueggia. oc ur hrijsholltte ofann j læk þann. er fellur j slattu kielldu firir utan baulluholltt[6]). Suo sagdist hann oc heyrtt hafa sagtt sier elldre menn ad Lagafell hid sydra ætte [t[u]au einge[7]) j Ellida. oc þad bar þorlakur Markusson med honum.

---

295. [um 1380?].

Skrá um landamerki millum Saxahvols og Öndverðarness undir jökli.

AM. 264. 4to bls. 17 papp. skr. 1606; AM. 252. 4to bls. —25 skr. c. 1660; AM. dipl. afskrr. Nr. 1611 og Nr. 1657.

Landamerke a mille Saxaholz og Aunduerdarness[8]).

Þesse eru landamerkie medal Sagsahols oc Aundversness.

ad Aundvertt[9])ness æ sudur med sia til hualsraufur[10]). þadan er sionhending til vijgiz Borgar. enn þadan til Borgar þeirrar sem stendur hia hrakness brunne.

þadan er sionhending til þistilzhellu.

þadan er sionhending j sandvijk[11]) edur skarfsvijk[12]). þuiat hun er kaullud huerttueggia.

---

[1]) 252; [2]) [ad þar rækur, misskr. 264; [3]) ofan b. v. 252; [4]) tindbruninne 252: [5]) jnnre 252; [6]) Bullduhollt 252; [7]) [264; tuð eynge 252; [8]) 252; [9]) Øndnerdar 252; [10]) hualzrôffar 252; [10]) getr og lesist Sauðvík í 264; 252 hefir Sauduijk; [11]) Skarffauijk 252.

296. [um 1380].

Vitnisburðr um selveiði í Kópatjörnum á Snæfellsnesi.

AM. 264. 4to bls. 17 papp. 1606; AM. 252. 4to bls. 25—26 skr. c. 1660; AM. dipl. afskr. Nr. 1610 og Nr. 1657. Sbr. Sv. Níelsson: Prestatal bls. 102.

Witnisburdur wm kopatiarner[1]).

þesse er vitnisburdur Olafs Ormssonar. at hann man þessa menn buid hafa ad Sagsahuole.

Snorre Smidsson. Jon Palsson. Valgardur Sturluson. þorlakur sula. sýgurdur helgason. Jon prestur Ottarsson. Snorre Biarnarson.

oc haufdu aller þesser menn selveide j kopatiornum enum fremrum. oc allann reka sudur ad lendingarlæk. enn halfann reka oc veide oc sauluafiauru j læknum. oc alldri fundu þeir ad sem j Gaurdum biuggu. suo ad hann heyrde. fyrr enn magnus olafsson oc hann heyrde þorstein abota snorrason [hid sama[2]) seigia. [ad kirkiann a Saxahole ætti alla veide j Copatiornum hinum fremrum. og Einar Gellesson[3]) og margann annann. þuijlijkann vitnisburd bar Christin Ellingsdotter. nema hun man ecke jaffmarga mennena bued haffa og eige heyrde hun lýsijng[4]).

---

297 [um 1380?].

Skrá um landamerki á Skogi þeim, er Ögmundr Bjarnarson gaf Helgafellsklaustri, landamerki milli Straums og Setbergs, Straums og Óss, Leytis og Bílduhvols, Leytis og Borga.

AM. 264. 4to bls. 19—20 papp. skr. 1606; AM. 252. 4to bls. 36—37 skr. c. 1660; AM. dipl. afskrr. Nr. 1607.

þesse eru ummmerke a skogie þeim er Augmundur Biarnarson gaf til stadarinz ad Helgafelle. at gata rædur fyrer jnnann su sem ofan geingur fyrir utann vaurdur. Enn Raudalækur firir utann ut fra salltnese. enn mýr fyrer ofann med endilaungu mille kongs skogz oc [þess jtakz[5]).

---

[1]) 252; [2]) [sl. 252; [3]) Einar kynni að vera sonr Gillis (= Gellis) þess, er nefndr er vestra í bréfi frá c. 1350 (Dipl. Isl. II Nr. 526); [4]) [sl. 264; [5]) [þeirra jtaka 252.

Mille straums og oss og setbergs. ad sa lækr rædur sem fellur epter beinagrof ur selstada grof oc suo ofann j setbergsa.

Mille straums og oss ad þar er sionhending ur kattarhamre fyrer ofann nattmalzhæder. oc j uppsprettu þa er lækur fellur ur[1]) firir utann Jllugahāf[2]) oc suo firir utann Nonhol. oc rædur sa lækur þadann ofann j sio.

[3])Þesse landamerkie eru mille Leitis og Billduhuols. [ad Billduhuolz[4]) lækur rædur ofan ur midmundaborg alltt þar til er sionhending er mitt ur læknum j flatsteina[5]). er huer stendur ofan a audrum. oc suo ur steinunum j hinn litla læk. oc rædur hann þa til þess er hann fellur j Billduhuolzlæk. Enn hann rædur þa ofan j sia.

Mille Leites oc Borga. ad kroklækur rædur nedan ur sio. oc upp j Valabiaurg[6]) eda Vætuhamar[7]) þuiat hann er huerttueggia kalladur enn þadan sionhending sudur epter fialli. þar sem þad er hæst sudur j diska oc þadan sionhending j saudtiaurnn. Rædur þa lækur sa er fellur ur gautu vautnum. oc þa sudur j Grænadẏ.

---

298. 18. Februar 1380. á Ytri Bægisá.

Sigurðr lögmaðr Guðmundarson úrskurðar löglegar gjafir Ásgríms prests Guðbjartssonar til sona hans Guðbjarts og Erlends.

ÍBféł. 67. 4to bl. 40b—41 með hendi séra Eyjólfs Jónssonar á Völlum; sbr. MSteph. 60. 4to bls. 10. Það er nokkur vafi á um árfærslu þessa bréfs og er ekki hægt að koma saman lögmannsárum Sigurðar og ríkisárum Hákonar konungs. Væri reiknað frá 1345 yrði 25. ríkisár Hákonar 1370, en þá er Sigurðr ekki lögmaðr. Væri samkvæmt Lögmanns og Flateyjarannál reiknað frá 1350 yrði ártal bréfsins 1375 og svo ætlar séra Eyjólfr á Völlum, en ekki var Sigurðr heldr lögmaðr þá, og auk þess miða norsk bréf ekki ríkisstjórn Hákonar við 1350, heldr venjulegast annaðhvort við 1345 eða 1355, og við hið síðastnefnda ártal miða þau bréf, sem bezt eru og áreiðanlegust. Sé miðað við 1355 verðr ártal bréfsins 1379

---

[1]) sl. 252; [2]) Jllhugahaff 252; [3]) það gæti verið, að það, sem eptir fer, ætti að vera sér; [4]) [sl. 252: [5]) flursteina 252; [6]) Vatnbiörg 252; [7]) Vatnhamra 252.

—80, en ekki er getið lögmensku Sigurðar þau ár, og þá er Þorsteinn Eyjólfsson lögmaðr norðan og vestan; ætti því þetta að koma heim, yrði Sigurðr að hafa verið þetta ár í stað Þorsteins. Um dagsetningu getr og verið vafi. Eptir bréfinu sjálfu getr það verið miðað við 5. Jan. 1380 (Simeon stylites), 18. Febr. 1380 (= Simon biskup, eius og hér er sett), 21. Apr. 1380 (Simon cum sociis) eða jafnvel 28. Okt. 1379 (Simeon & Judas = Tveggja postulamessa).

[Utskript] af orskurdi Sigurdar lögmanns Gudmundssonar uppa giöf sira Asgrims Gudbiartssonar.

Øllum monnum sem þetta bref sia edr heyra sendir Sigurdr Gudmundsson logmann nordan ok vestan æ Islandi kvediu guds ok sina. kunnigt giorandi at æ xx. ok v[a]. æri rikis vors nadigasta herra Hakonar med guds myskun Noregs konungs. iij. nattum fyrir Simons messu at ytri Bęgisæ. kom fyrir mik sira æsgrimr Gudbiartsson. synandi mer bref godra manna med skilvisum innsiglum. hver her eru med bundin þessu minu brefi. eptir þui þau votta um giafir ok avoxt sona hans Gudbiarts ok Erlends ok sakir þess mer var kunnigt ok morgum godum monnum odrum. at sæ var mestr hluti godsa sira æsgrims. er var aflafe hans. ok annars. at mer syndist þessi bref ok giord sira æsgrims skirlig ok skynsamlig. ok eptir riettum lands lögum giort. þui j guds nafni amen. sagda ek med fullum laga orskurdi þessa alla peningagiord ok giafir optnefnds sira æsgrims vid fyʀnefnda syni sina Gudbiart ok Erlend lögliga. eptir þui sem fyʀ greint bref vottar.

Ok til sanninda her um setta ek mitt innsigli fyrir þetta bref. giort j sögdum stad degi sidar en fyʀ segir.

---

299. 23. Marts 1380. i Möðruvöllum.

Arnór prestr Jónsson selr með samþykki klaustrsins á Möðruvöllum séra Arngeiri Jónssyni jörðina Áland í Þistilfirði, er hann áðr hafði selt klaustrinu, en klaustrið skilr nú rekana frá.

AM. Fasc. III, 10. Transskript á skinni frá 1385 götugt og illa til reika.

Inn dei nomine amen.
giordiz sua fellt kaup med sira arnore ionssyne ok arn-

geire presti ionssyne at sagdr arnor selldi med samþykki prior snorra ok annarra convenntu brædra modruualla klausturs nefndum arngeiri aland j þistilsfirde med þeim gognum ok giædum sem hann hafdi adr sellt modruualla klaustri at fra skild[um] ollum rekum þeim sem þui landi hafa fylgt nema sva mikit sem landleiganda ber til at hafa efter logum. gaf þat fyrir adr nefnda jord halft þridia kugillde ok ij hundrad j flytianda eyre. skilldi hann taka abyrgd a sagdri iordu a næstum fardogum. ok þau iiij kugillde sem þar fylgia j skulld sina af stadnum. var þat skilit til brigda vm adr nefnt kauph ef herra jon biskup villdi æigi samþykia. giordiz þetta áá modruuollum j horgardal friadagin j helgu viku þa ær lidit var fra hægad burd vars herra ieshu christi þushundh þriuhundrut ok attatiger ara þessum vattum hia verandum. sira asgrime gudbiardz sẏne hakone diakna anndressyne þorkeli olafssẏne hverer sínn jnsigle settu firir þetta bref med kapitula jnsigli klaustursins. gort j sogdum stad degi ok are.

---

## 300. 3. April 1380. á Holum i Blöndudal.

Kaupmálabréf Þórðar Bessasonar og Járngerðar Gilsdóttur.

Biskupsskjalasafn Íslands Holens. Fasc. II, 1. frumbréfið á skinni; öll innsigli dottin frá. AM. dipl. afskrr. Nr. 4061 «ex originali» með hendi Jóns Magnússonar bróður Árna. Þá var brot af þremr innsiglum fyrir bréfinu.

vm eyvindarstadi[1]).

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia edr heẏra. senda þorlleifr berdorsson. jon biarnarson prestar. þordr asmundarson berdor þorleifsson grimur helgason bergr þorliozson þorkell magnusson leikmenn. q[uediu] g[uds] oc sina kunnikt gerande at ver uorum j hia nordr at stath [j] skagafirde fimtudaghin næsta eptir mariu messo fyrre. at besse branzson ok gilz finnzson keẏptu logligha hiuskaparkaupe medal barna sinna þordar oc jarngerdar. gaf fyrrnefndr besse þorde sẏne sinum heiman jord a eyuindarstodum fyrir niutighe hundratha med þeim

---

[1]) aptan á bréfinu.

jardar spott er fylkt hafde adr bollastodum. aullum skoghe j blondugili med vmmerkium er breckur heita firir ofan [þuergeil[2]) oc afʀiett er heita gudlaugstungur oc aunnur afriett j milli kuisla oc þar a ofuan tuttugu kugillde oc x. hundrut voru edr voruwirtt. sagde þratt nefndr besse þesse landamerke j medal branstada oc eyuindarstada markgardr sa er þar er stendr j medal en þadan ʀiettsyne vppæ midian hals. oc suo sudr j markdæle. en ór markdæle sudr a mitt þrælsfell en þesse j millum oc[3]) bollastada lækur sa er heiter holagils lækr. oc fellr ofuan j ʀuthagha oc framm j blondu. oc vpp or sunnan verdu holagile oc j þrælsfell þar sem þat er hæst. hier j mote gaf fyrr nefndr gils jarngerde dottur sinne jord er vnndir homrum heitir j ʀeẏkiadal med ollu[m] þeim gognum oc gædum sem þi lande hefir fylkt at fornu oc nẏiu fyrir fiogur hunndrut oc tuttugu oc þar a ofua[n] tuttugu kugillde. oc sextæn hundrut voru edr voruvird. ok til sannẏnda hier vm settum ver fyrr nefndir menn fyrir þetta bref vor jnsigle er gor[t] var j holum j blondudal jn profesto ambrosij episcopi et confessoris anno domini ꝏ°. ccc°. octogessimo.

---

## 301. 11. og 12. Juni 1380. á Helgastöðum og Grenjaðarstöðum.

Dómʀ sex presta útnefndr af séra Marteini Þjóðólfssyni um skuldaskipti séra Þorsteins Jónssonar á Grenjaðarstað og séra Bjarna Þorgrímssonar.

AM. Fasc. III, 13. Frumbréfið á skinni. Afskriptasafn AM. Nr. 10 (ekki góð).

malaferli sira þorsteins ok sira biarna[3]).

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia edr heyra senda þorleifr bergþorsson asgrimr gudbiartzson þorkell æiriksson þorleifr hakonarson jon illhugason ok sigmundr gudmundarson prestar quediu guds ok sina. kunnikt geranndi ath þa er lidit var fra higath burd vórss herra. jesu christi þushundrat þriu hundrath ok attatiger ara. a. helgha stodum j reẏkiadal jn

---

[1]) [óljóst; kynni mega lesa: þyar geil; Jón Magnússon les þuer gril(!); [2]) sýnist standa ·j· í frumbr.(!); [3]) Aptan á með fornri hendi.

festo sancti barnabe apostoli vorum wer til nefnder af sira Martæini þiodulfssyne sem skipadr war domari af wórum výrduligbum herra ione biskupi yfer maalum sira þorsteins jonssonar. ok biarna þorgrimssonar. vm goodz greniadarstadar ath dæma huórt ͺôndottzstader vóro lôgligba frambodner af biarna til lýktingbar sira þorsteini edr æigi. Ok saker þess. ath olafr sueinsson kalladi sina eigbn sagbda jord medr akiæru vid sira biarna firer þa grein atb hann misti medr domi datzstade[1]) sem þraattnefndr biarnne bafdi honum fir gefuit. þui dæmdum wer þetta bod biarna. vlauglighbt ok ecki afl hafua. Jtem war dæmt j saughdum stad ok deghi eptir profui teknu af sira Marteini ath ôsk sigburdar dotter war æigi skýlldugh at luka sira þorstæini balft þridia kwgilldi ok æi leigbu af þeim ne af jordunne aa eyiulfstodum sem biarnne þottiz sira þorstæini lukt hafua. medr þui ath hun hafdi alldri sik vnder bundit lyktingb vidr hann. jtem beiddi sira Martæinn biarnna leggia vnder doom buat greniadarstadar kirkia mætti audlatz j sin goodz af þeim kugilldum sem hann Reiknadi j sinne medferd ok baud eid sinn atb hann atte ekki kugilldi skulldlaust en næittadi allt æins atb doomleggia sagda grein. Jtem beiddi þrattnefndr sira þorsteinn ok krafdi sira biarnna luka ser þau atian hundrath sem dæmd vóro af honum ok sua þau sem hann misti aa eyiulfsstodum ok ofrelsadi honum halld wpp aa framar mæir. en þar j mot baud biarnne ofritt virdingbar fee. bædi firer vadmal ok kugilldi ok þar med eýdijord sem langan tima bafdi vbygd verit er ath dyium hæiter en sira þorstæinn næittadi ath taka sua felld goodz firer kwgilldi kirkiunnar þviat fridara var till. en villdi þath taka firer sua mikit sem vadmaala skulld suare. epter mááte ok þui maatum wer epter frumlagi sira biarnna þorsteine till hænda j greniadarstadar goodz balft niunda bundrath j vadmalum. Refuil. tuaa stedia. kaunnu ok tindisk. tuau salser med tin. tuær bækr. vônd ok pallklædi ok sira biarnna skyllldughan ath færa ofuan till greniadarstadar ok afhenda sira þorsteini edr bans laugligbum vmbodsmanne. jtem krafdi sira martæinn optnefndan biarna þorgrimsson ath luka. allt aadr greint goodz greniadarstadar kirkiu. vnder varth máát huar til biarnne

[1]) = dálkstaði(?).

haud ecki framar en aadr segher. Ok til sannenda her vm settum wer waar jnnzsighli firer þetta bref gort a greniadarstødum a saugdu ari deghi sidar en fyʀ greiner.

Sex innsigli hafa verið fyrir bréfinu, enn þau eru nú öll dottin frá.

---

302. 29. Juni 1380. á Holum.

Jón biskup skalli samþykkir prófentugjörning Jóns prests Bjarnarsonar og Oddbjargar abbadísar á Reynistað.

AM. Fasc. III, 15. Frumbréfið á skinni. Afskriptasafn AM. Nr. 337 (að eins upphaf); AM, 280. 4to (afskr. frá 17. öld).

Broder jon med gudzs nad biskup æ holum sender ollum monnum þeim sem þetta bref sea edr heyra q[vediu] g[uds] ok sina kunnikt gerande. ath vær gefum gott orlof till med þessu voru brefue at fru othbiorgh med gudzs nad abbadis ath stad take jon prest biarnarson ok systur hans a profuentu till stadarins med so micklu gooze at stadrinn se skadlauss af ok þi samþyckium ver allt þat lauglikt kaup sem fru abbadis ok sira jon adrnefndr hafua formerat milli sin vm adrgreinda profuentu med skynsamra manna raade þeirra sem j hia þeim eru. ok till sannynda her vm settum uær uort innsigle firir þetta bref skrifuat a hoolum. in festo martirum petri et pauli anno domini ᗰ⁰ ccc⁰ lxxx.

Innsigli Jóns biskups er fyrir bréfinu og er heilt að kalla.

---

303. 9. Juli 1380. i Viðey.

Valgarðr Loptsson selr Páli ábóta í Viðey jörð að Synstu-Vallá á Kjalarnesi fyrir tuttugu hundruð, en ábóti játar að kenna syni hans um sex ár.

AM. 238. 4to bl. 10, Bessastaðabók skr. c. 1570; AM. 65. 8vo bls. 53—54 (kver Bergsteins í Skildinganesi, skr. á 17. öld). Sbr. F. Joh. Hist. Eccl. Isl. IV, 85. Sbr. enn fremr bréf frá 5. Maí 1377 (Nr. 263 hér að framan).

Bref vm sýnztv vallæ.

Jn nomine domini amen.

Var þetta kavp herra pals med gvdz nad abota j videý oc conventvbrædra þess sama klavstvrs af eine alfv oc vallgardz loptzsonar af annari halfv. at vallgardvr gefvr greindo klavstri jord ath sýnztv valla æ kialarnesi firir xx^c. med ollvm þeim gognnvm oc giædvm sem hann hefvr framazt eigandi at

vordit. Hier j moti jatar herra aboti syni nefndz vallgardz er biornn heiter kost oc kiendzlv vm vj ar svo sem gvd vill framazt vnna honvm at hann fai nvmid. innann greindz tima. kann oc svo til at bera edr falla at pilltvrinn anndizt fyrr enn greind[vr] time sie lidin. edvr einhverer þeir hlvter kvnni at berazt med honvm at hann megi eigi firir laga saker fram vigiazt skal herra abotin leysa til sin þann partt jardarinnar sem epter stendur. ath eigi hefur fallit j forgiftt pilltzins vpp a riettann reikninsskap at iiij^c falli firir hann a hvoriv ari. voro þesser kavpvottar hallvr magnvsson. olafvr gvnnlavgsson. hallvr halfdanarson. Og til sanninda hier vm setti herra aboti sitt innsigle med kapitvlari innsigle oc vallgardvr sitt innsigle oc fyrnefnder kavpavottar sin innsigle firir þetta bref skrifad j videy manvdag næsta epter transitvm sancti martini episcopi anno gratie m. ccc. lxxx. ar. a xxv ari rikis vird[v]-ligs herra hakonar med gvdz nad noreges oc svia rikis kongs.

---

304. [1380].

MÁLDAGI Ljósavatnskirkju í Ljósavatnsskarði í Þingeyjarþingi, þá er Logi var þar.

AM. Dipl. afskrr. Nr. 51 «ex pagina pergamena fra Sr. Olafi Stefanssyni. accuratissime». Þetta skinnblað séra Ólafs í Vallanesi var transskript eða öllu heldr óstaðfest afskript fjögra presta frá 19. Apríl 1530. Rithátturinn er að því leyti einkennilegr, að alstaðar er haft tvöfalt a (æ). Ártal máldagans mun vera vilt og muna um heila öld, svo að hér mun eiga að standa 1380 í staðinn fyrir 1480 (sbr. máldagann 1390). Logi prestr, sá sem hér er nefndr, mun og ranglega vera kallaðr Jónsson, því að það mun vera séra Logi Stígsson, sonr Stígs á Ljósavatni, sem nefndr er í Auðunarmáldagabók. Jón Espólín kallar séra Loga Styrsson, en það er villa, sem tekin er eptir miðr áreiðanlegum bréfaafskriptum. Þó gæti Logi Jónsson verið hér rétt ef maðr hugsaði sér að hann væri bróðir Stígs á Ljósavatni og Stígr hefði verið dáinn; hefði þá Logi prestr Stígsson heitið í höfuðið á honum.

Anno domini m^o. kuædringentisimo lxxx^o[1]) Reiknæliist so goz oc jtok liosævætz bæde kirkiunnær oc bæiarinz þæ loge jonsson[2]) wær. xv[3]). kugillde. hundrædz hross oc hundræd[4]) voru til forkirkiu giordær. j heimæ lande. xxx^c[5]). gierde firi

[1]) «Lxxx est, non Lxxxx. ne postea dubitem» (AM,); [2]) þannig; ætti líklega að vera Stígsson; [3]) eins í Pétrsmáld,; [4]) fiogur hundrud, stendr í Pétrsmáldaga, er því þessi eldri úr því kirkjan á hér minna; [5]) «sidarsta x. er oskirt. kynne vera xxv^c» (AM.); eptir Pétrsmáldaga á hér að standa xxx.

sunnænn dyupæ oc lænd æd fliote vt æd gærde er liggur vr bvg æ diupæ med gotu fræ efstæ felle oc æustur j fliot hælf þridiu ey j fliote med hrvthægæ. Rædur diupæ oc liosævætn oc geitæ firi vtænn vppæ fiæll til vppsprettu æuxaræ ællt j fliot æ æuxaræ steckiar stodu oc torfsting sem þærf til steckiar med. um merkium rædur gærdur mille liosævætnz oc æuxaræ sem geingur j lændsudur j æuxaræ enn vpp j blæmel firi ofænn fornmanna leide riettsynis vr þeim mel sudur j æuxaræ æ liosævætn j æuxaræ jordu kolskog j ærndysæstædæ jordu xviij. hrossæ gæungur vmm iiij mænæde oc beit firi nordænn reidgæutur sem liggiæ æustur j fliot fræ felle firir suo mærgt gielldfie fræ krossmessu æ hæust til crossmesso æ vor sem bonde æ liosævætne vill þængæd lætæ þær firir æ fell j liosævætnz jordu xij fetæ torfskurd sem bonde siælfur þær til vijsar ef hann hefur greindæ gielldfiær beit Mænædar teig j finnstædæ jordu vtænn æf tiorn oc þær vpp fræ oc æstædu firi æustænn tiorninæ Teigur j krossjordu med vmmerkium æd læk þeim er fellur i firi sunnænn sæurridu[1])gierde. oc ofænn j merke syke oc rædur syke sudur j dyupæ enn snid gotur firi ofænn mæriu topter enn firi sunnænn steirnn j fiælle so riettsyne ofænn j væd þæd er ridid er vt fræ torfhollte yfer diupæ. j liosævætne veidur iij dægur j huorre viku firi huors mænns lænde oc fære vr ef liosvetningar komæ. Holmæ oc hreidur elft j liosævætne skipstodu oc næust j vætzendæ lænde hælfz mænædar teig j eystre tiærnæ jordu skælægierd oc skipstodu j vijkum vid svijninn[2]) gielldfiær rekstur j nættfæræ vijkur vmm sumær skogar hôgg j barnafellz skoge ærliga enn vid æd þui skæpe þæ skog þrŷtur. gæf þæd jtæk æsbiorn geirsson eigænde bærnæ fellz j testæmentisgiof. vær bærnæfell golldid j vigzbætur xiiij[3]). hundrud æsbirne æf ælfu þorgilz gudmundssonar fylgier heimæ lænde krogsdælur fræ gælltar grof fram æd kidægile. Reki æ fliotz sænde er þar samanridid setbergzklettur og skrydnæfell þar vestur [fræ][4]) skæmmæ reki ij$_c$. fædmæ tuiræd[5]). þæ liosvetningæ reke vestur æd fliotzose motz vid þuerærmenn.

[1]) hér hafði séra Ólafr lesið samtidu, en Árni les sem hér stendr; [2]) hér las séra Ólafr suirann. Arni les sem hér stendr; [3]) «fyrst hefur vered skrifad xiij. sidan bætt vid j. so nu steudur. xiijj. þo er allt med sama bleke og allt falslaust, sem synest» (AM.); [4]) «addendum ni fallor fraa» (AM.); [5]) = tíræð.

305. **16. December 1380.** **að Reynistað.**

Próventu samningr Jóns prests Bjarnarsonar fyrir sig og Guðrúnu systr sína við Oddbjörgu abbadís á Reynistað.

AM. Fasc. III, 14. Frumbréfið sköllótt nokkuð. Afskr. meðal klaustraskjala Árna; AM. 280 4to bls. 8—9 (afskr. frá 17. öld). Hið nýa hald sem hér er nefut, er ekki alveg víst hvað er, en getr verið Maríumessa á Jólaföstu, sem lögtekin var á alþingi 1364, og er hún þá nýust lögtekin hátíð á Íslandi, þegar hér er komið. Þetta bréf skírskotar að lyktum til leyfisbréfs Jóns biskups frá 29. Júní s. á. (Nr. 302 hér að framan) og segir að það sé meðbundið þessu bréfi. Er á því auðséð að bréf biskups er gert fyrri en þetta; í því stendr og að kaupið sé «formerat» þ. e. ráðið, en ekki bréfað. Ef það hefði þá verið bréfað, mundi hafa staðið í bréfi biskups «sem bréf þar um gert vottar». Eg hef rannsakað mjög nákvæmlega um dagsetning þessa bréfs, og ekki fundið annað líklegra en það, sem farið er eptir.

R[eynistaðar]kl[austrsbréf].[1])

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia edr heyra senda asgrimr gudbiartzson jon biarnarson biorgolfr illugason prestar bryniolfr biarnarson eirikr þorleifsson ok magnus grimsson leikmenn. Q[vediu] G[uds] ok sina kunnigt gerande at þa er lidit var fra hegatburd vars herra ieshu christi ꝏ. ccc. ok lxxx ara drottins dag nærsta epter octaua ins nyia halldz at stad j reýnisneýsi[2]) voro vær jhia sám ok heyrdum æ at sua fellt kaup stadfestiz med handa banndi med frv othbieýrgu abbadisi ok sira joni biarnarsyni at hun tok hann med godra manna radi ok samþycki allra sinna conuentu sýstra til æfuinligrar profentu ok systur hans gudrunu a stadinn j r[e]ynisnesi med suo felldo at sagdr sira jon gaf j profentu med þeim vij. ok xx. kugilldi. fimm hundrut j hrossum ok atian hundroth i heyium kosti vidom [buss bahlutum[3]) ok þarfligo godzi [virdu til voru. En[4]) her j mot skillde hann hafa dagligan kost sem radz madr ok sæmeligztu menn a stadnum ok þionuztu sem honum uel þarfaz. Jtem arliga til klæda ser viij alner iarngrátt.

---

[1]) Skammstafað aptan á bréfinu; [2]) þannig, skbr.; [3]) þannig, skbr. [4]) [að miklu leyti molnað út í skbr., tekið eptir afskr. Árna.

cardinales domini pape et sacri collegij camerarij reuerendo in christo patri domino [Jacobo] dei gracia episcopo Bergensi ac venerabibus viris dominis . . . . . . . . . jn ciuitate et diocesi Ollensibus jurium apostolice camere debitorum collectori et subcollectori salutem in domino.

Dudum siquidem quondam domino Johanne episcopo Ollensi regimine dicte ecclesie presidenti sanctissimus in Christo pater dominus noster dominus Bonifacius diuina prouidencia papa viiij cupiens eidem ecclesie cum illa vacaret per apostolice sedis prouidencian vtilem et idoneam presidere personam prouisionem ipsius ecclesie ordinacioni et disposicioni [sue] duxit ea vice specialiter reseruandum[1]) decernentes extunc irritum et inane si secus super hijs per quoscumque quauis auctoritate scienter uel ignoranter contigerit attemptari. Postmodum vero prefata ecclesia per obitum domini Johannis episcopi qui extra Romanam [curiam] diem clausit[2]) extremum episcopatus regimen[1]) destitutata idem dominus noster papa vacacione huiusmodi fidedignis relatibus intellecta ad prouisionem ipsius ecclesie celerem et felicem de qua nullus preter ipsum hac vice se intromittere potuit neque potest. reseruacione et decreto absistentibus supradictis. ne ecclesia ipsa longe vacacionis exponeretur incommodis paternis et solicitis studijs intendens post deliberacionem quam de preficiendo eidem ecclesie personam utilem et eciam fructuosam cum reuerendissimis in Christo patribus et dominis dominis . . . . . . sancte Romane ecclesie cardinalibus habuit diligentem. Demum ad venerabilem et religiosum virum fratrem Petrum Nicolai ordinis fratrum predicatorum professorem penitenciarium suum et in sacerdocio constitutum cui de religionis zelo. litterarum sciencia vite mundacia honestate morum spiritualium prouidencia et temporalium circumspeccione alijsque probitatis et uirtutum meritis fidedigna testimonia perhibentur. direxit oculos sue mentis quibus omnibus debita premeditacione pensata de persona sua eidem domino nostro et prefatis dominis cardinalibus ob dictorum

---

[1]) þannig; [2]) Fateyjarannáll og Gottskálksannáll segja Jón biskup dáinn 1391; Lögmannsannáll segir hann hafi dáið 10. Aug. 1390 (á Laurentiusmessu) og hlýtr það eptir þessu bréfi að vera hið rétta.

suorum exigenciam meritorum accepta eidem ecclesie Ollensi de dictorum dominorum cardinalium consilio auctoritate apostolica prouidit eumque illi prefecit in episcopum. curam et administracionem ipsius ecclesie Ollensis sibi in spiritualibus et temporalibus plenarie committendo prout hec et alia in litteris apostolicis super prouisione confectis quas cum presentibus per discretum virum Matheum Swenonis laicum Roskildensis diocesis, nostrum nuncium in hac parte iuratum vobis mittimus plenius videbitis contineri. Jnfra vnius anni spacium a die dat. presencium computandum etc.

Jn quorum testimonium presentes litteras fieri et sigillorum nostrum iussimus appensione muniri.

Datum Rome apud Sanctumpetrum sub anno domini millesimo trecentesimo nonagesimo primo jndiccione quartadecima die sexta mensis Aprilis pontificatus sanctissimi in Christo patris et domini nostri domini Bonifacij pape nonj anno secundo.

---

## 388. 25. August 1391. í Hvammi.

Björn bóndi Brynjólfsson selr Ásgeiri Árnasyni Sólheima í Sæmundarhlíð með tilgreindum ítökum og ummerkjum.

AM. Dipl. afskrr. Nr. 349; afskriptin sýnist vera gerð eptir frumbréfinu.

Þæim godum monnum sem þetta bref sea edr heyra senda þordr prestr þordarson. jon geirsson. lytinghr hialltason. þorsteinn berghsson. arnne loptzson oc grimr arason q[uediu]. g[uds]. oc sina kunnigt gerande at þa er lidit war fra hegat burdæ warss herra jehsu christi þushundrat þriuhundrat niutigher oc æitt är a bartholomeus messo[1]) dag j gelldinga hollte j skagafirdæ worum wer i hia heyrdum oc säm a hanndaband biarnnar bonda bryniulfssonar af æinni halfu. en asgeirs arnnasonar af annarri ath suo firer skildu j fyrstu at biornn sellde nefndum asgæiri til fullrar æignnar jord alla solhæima j sæmundarhlid þilika til husa oc annarra luta sem hun war þæ wm sik medr ollum þeim gögnum oc giædum iardarinnar sem hann ward fremzst æigannde at firer sextigi hundrada med þessum fridleika fimtan

[1]) þ. e. 24. August.

kýr. fimtan asaudar kugillde. tuau kugillde j veturgomlum nautum. fiogur j tuæuetrum nautum. oc fiogur kugillde j veturgômlu fe. fimm hunndrat j ʀossum woruvirdum oc onnur fimm hafnar vadar vird. Jtem fimm hundrat j slatrum at tiundarlage oc fimm hundrat j hafnarvadum. skillde lukaz vt a fyrsta ari. tuttughu kugillde oc fimm hundrat j hafnarvadum oc fimm hundrat j ʀossum wôru virdum a næsta hausti efter fimm hundrat j slatrum. a næstum fardogum fimm kugillde oc fimm hunndrat j ʀossum. a þridia ari fimtan kugilldæ. skilldæ huert hunndrat þat sem æigi lyktiz vt a næstum fardogum standa med tolf alna læigu kuikfe af kugilldum en vadmal af ofridu. brýsti oc nockut j lyktingh a sidazsta are skillde biornn suo mikit æignaz aftr j iordina eptir godra manna virdingu. skilldæ biornn af sier alla þa kirkiu fyrnnd sem þar til hefdæ a henne vordit vtan oc jnnan oc ollum hennar ornamentis. sagde biornn kirkiuna æiga tuau hundrat vôruvird oc þa skylld a jordunni at þar ætti at syngiaz messa huern loghelgan dagh oc luka presti fiorar merkr kaups oc kosta mann oc hest med honum vm vetr ef þat er skýllt. ʀeiknadi biornn oc sagda jord æiga teigh medr vmmerkium nidri vid holmarsvadil. vpphoggit gras oc gardgiord. oc itak j eliuaga iord manadar beit huart vetr oc sumar. en eliuagar þar j mot slattur j solhæima jord hia audnum. Jtem sagde biornn gelldfear ʀekstr nedan af langhollte j solheima jord slikan sem prouadizst. oc at omaga eyrer þriggia sona arnna geirssonar stædi vpp a jordina slikr sem þeim fiell efter fodr sinn. oc ef þeir villde at iordinni ganga skilldæ asgeirr kiosa huart hann tæki aftr sina peninga iafnfrida edr þessar iarder efter virdingu. vazskard. vazhlid oc valadal. sua mikit sem vndan honum ʀiptizst i solhæimum. kynni oc asgeirr at forfalla vm lyktingh a kugilldum skillde eigi sokn a þeim a fyrstum solum. en standa huert kugilldæ med tueggia fiordunga smiorlæigu. skilldæ biornn abýrgiaz allar lagariptingar a jordum en asgeirr hallda til laga. Ok til sannenda her vm settum wer fyrnefnder menn war jnzcigli firer þetta bref gort j huammi j laxardal. a sama ari deghi sidarr en fýrr seghir.

389. 9. Oktober 1391. á Ásgeirsá.
8. Februar 1392. á Grund.

Sigurðr Þórðarson handleggr Birni Einarssyni þann þriðjung af fiskatollinum í Bolungarvík, er hann fékk af erfingjum Einars Eiríkssonar.

Landsbókasafn Fasc. XXIX, 5, transscriptum á skinni frá 14. Júní 1469; AM. Dipl. afskrr. Nr. 897 «ex transscripto Vatzfiord. accurate».

Ollum monnum þeim sem þetta bref siæ edr heyra sennda halldor loptzson. steinmodr þorsteinsson prestar ok þorlækr sigurdarson. q[uediu]. g[uds]. ok sina kunnigt gerandi. ath sub anno gracie m⁰. ccc⁰. lxxxx. primo mænudaginn sidazta j sumri ath æsgeirsæ sydri j uididal. vorum uær j hiæ sæm ok heyrdum æ. ath sigurdr þordarson. handlagdi birne einarssyni til fullrar eignar þann þridiung j fiskatollinum j bolungarvik sem sigurdr ætti ok hann hafdi feingit af erfingium einars heitins eirekssonar. ok til sanninda her um settum uær ædr nefndir menn uor jnnsigle fyrer þetta bref skrifat æ grund j eyiafirdi miduikudaginn fysta j föstu. ære sidar enn fyr seger.

---

390. 25. Nóvember 1391. á Breiðabolstað.

Vitnisburðr Odds Einarssonar um farveg Svartár í Svartárdal.

AM. Dipl. afskrr. Nr. 3925 «ex transscripto» frá 12. Júní 1454 með hendi Jóns Magnússonar bróður Árna. MSteph. 27. 4to c. 1730.

Þat giorer eg oddr einarsson godum monnum kunnigt at sira hallr mæsson ok jon prestr sigurdarson ok sigurdr fader hans er allir biuggu med eign iardarinnar i bolstadarhlid sögdu suo at svartæ hefde fallit at fornu ofan med holum þeim er sudr eru fra rettum ok suo ofan firir framan retternar ok [hia] klifi þvi er vpp er fra galltagerde. sögduzt þeir eiga holma alla austr fra enum forna farueg med bolstadarhlid. vissa eg ok at sigurdr rak kapla sina i holmana. sogdust ok heyrt hafa þesser gamlir menn at þesse munde forn farvegr sem prestarner sögdu. jvar giafallzson ok andres gape ok skalarbruse. þicke mier ok liklikt at andres finnbiarnarson prestr ok þorvardr

prestr arason mune nærre þessu bera ef þeir erv at kuaddir. og til sanninda hier vm setta eg mitt insigle firir þetta bref giort a breidabolstad i vazdal a katerinarmessu þa er lidit var fra hingatburd vors herra iehsu christi þusund vetra þriv hundrut nivtiger ok eitt ær.

---

390. [um 1391 eða siðar].

Skipan Pétrs Nikulássonar biskups á Hólum um ljóstoll, legkaup, líksaungseyri og ýmislegt fleira.

Skipan þessi er að ýmsu leyti ekki annað en endrnýjun alþingissamþyktarinnar fornu um ljóstoll frá 1265 (Dipl. Isl. II, Nr. 4), og er vant í milli að sjá við hvora statútuna maðr á, og örðugt er að greina milli þeirra. Um aldr statútunnar er þess að geta, að hún veltr á árunum 1391—c. 1398, og er hún sett hér 1391 af því að þar hefir henni verið skipað til sætis áðr og svo gömul getr hún verið.

Um ljóstolla hefir mart verið ritað og opt verið skipað fyrir um þá, sem bágt er að ákveða hvað gamalt það sé eða hvaðan það stafar, svo sem klausur þær er eg nú tilfæri, sem þó ef til vill að nokkru eru tíndar úr Kristinrétti Árna.

I. AM. 181. 4to bl. 145 á pappír skr. 1669; Ny kgl. saml. 1847. 4to bl. 128—29 skr. 1669 á pappír (báðar bækrnar stafa frá Vatnsfirði). Handrit, er Jón háyfirdómari á (afskr. JSig.)

Epter filger vmm liostoll.

Jafnt skylldast ad lwka tijund og liostoll. bulausir menn og bændur. so konur sem karlar.

Enn ef þeir peningar ero j hreppnum, sem þar ä ei tijund af ad gialldast, sem ero lauser peningar, þä skal ä þessa peninga mannelde skifta. so sem logbok vottar. efter þuj sem hreppstiorar giöra räd fyrer.

Jtem ef ei er vax loked j lioztoll lwke xij merkur smiorz[1]) fyrir mann fyrir sunnan. Enn 13 merkur fyrir nordan og vestann.

Eyrer ä ad giallda preste ad syngia yfir daudum manne. Enn xij alner j legkaup efter vnga menn og gamla.

Halfmork vax eiga hion ad giallda j liostoll. enn eyrer lausamenn[2]).

II. AM. 58. 8vo bls. 84—85 með hendi Jóns lögmanns Jóns-

---

[1]) mors JP.; [2]) Hér vitnar 1847 í Kristinrétt, og þar eptir kemr bæði í 181, 1847 og JP. klausa úr Kristinrétti Árna, og þá kemr í 181 1847 alþingissamþyktin forna frá 1265 (Dipl. Isl. II Nr. 4 G).

sonar (1573—1606); er þar á margr samtýningr lögmanns og þar á meðal þessi klausa:

Wm liostolla.

Ef eigi er lucktur liostollur strax þa liwki xiij merkur smiors firir sunnann og austann a Jslandi. en 12 merkur fyrir nordann og westann a Jslandi.

half mork vax hiona liostollur.

[en eyrer[1]) vax firir einhleipinga.

item enn ef j tolki er golldid. veigi 12 merkur oc eina mork fyrir rauken.

---

**A.**

AM. 175A. 4to bls. 58—59 skinnb. c. 1400; AM. 48. 8vo bls. 107—109 skinnb; þetta frá 16. öld. Þessi útgáfa statútunnar er prentuð í F. Joh. Hist. Eccl. II, 223 - 24.

Statutum petri episcopi[2]).

1. Ejndagi a liostollum er friadag[3]) langa. sekr xij aurum huer er eigi lykr. eigi halft profastur en halft kirkiu bondi.

2. Jtem af eydi jǫrdum edr þeirri iordu sem aureigi byr a sa er eigi a liostoll ath luka. lukizst eingi liostollr.

3. Jtem[4]) þar sem madr heldr omaga eyri med laga umbodi lukizst þar liostollr sem hann situr. j huerri kirkiu sokn sem omaginn tekur guds likama ath paskum.

4. [Jtem huort[5]) sem andazst bondi eda huspreyia eptir fardaga ok stendr[6]) bunadr saman framvegis. lukizst ein tiundargiord ok einn liostollr. þo ath arfar uerdi fleire. En ef sundr er brugdit bui [luki huer sinn liostoll ath paskum[7]).

5. Jtem[8]) ef hion eiga x aura eda hundradi minna. ok se huort[t]uegia uinnufert luki einn lostoll. En ef þau eiga hundrat eda hunndradi meira. edr huort þeirra sem a luki tuo liostolla.

---

[1]) [2. aunar, hdr.; [2]) þannig 175; á spássíu: »Statutum petri jn holen«. »þessi skipan war sett af herra petri biskupe at 'holvm« 48; [3]) fostu dag 48; [4]) sl. 48; [5]) En huar 48; [6]) standi 48; [7]) [þa tiundi hverr sitt hlutskipti og luki huer sinn liostoll at paskum 48; [8]) sl. 48.

6. [Jtem olionar[1]) kaup se [xviii alner[2]). ok lukizst j tiundar eindaga en huer er eigi lykur sekizst[3]) vi aurum.

7. Sami eindagi er æ legkaupum ok liksaungs eyrum[4]) og lig[g]r þrig[g]ia marka sekt uidr huert huer er eigi lykr.

8. Tida offur presta segizt[5]) epter hinum[6]) forna kristnum rett.

9. [Jtem þurfasti[7]) bondi ok huspreyia ef hann a x hundrðth. en hun fimm[8]). ok c. firir huern omaga sinn.

10. Ef menn eiga fim hundruth[9]) saman ath bufiarlagi[10]). luki[11]) skipti tiund.

11. Jtem[12]) ef madr æ eitt bu. en er heimilis fastur j odrum stad. lukizst þar tiund sem buith stendr.

12. Jtem er madr skylldr ath syngia frædi sin [um][13]) sinn a tolf manudum firir profasti ef hann [er beiddr[14]) sekr sex aurum ef hann syniar.

13. Jtem[15]) ef madr verdr brottligur med frændkonu[16]) sinne. ath þridia ok[17]) fiorda. sekur xviii[18]) aurum. ok uatnfasti þriatigi natta.

14. Jtem[19]) ef madr sækir eigi tidir [eda sækia lætur[20]) þria sunnudaga samfleytt. sekur vi aurum.

---

## B.

AM. 132. 4to bls. 131 skinnb. frá c. 1430; AM. 43. 8vo skinnb. skr. 1507 af Jóni Sveinssyni; á seinustu blaðsíðu, afar máð.

1. Eindagi[21]) er a liostollum friadaginn langa. sekr. xij. avrum huerr er eigi lykr eigi halft profastur en halft kirkiv bondi.

2. Jtem af eydi jordum eda þeim jordum sem avreigar

---

[1]) [Wlivuar 48; [2]) [atian alnar 48; [3]) «sker» (= sekr) 48; [4]) aurum 48; [5]) sekizt 48; [6]) sl. 48; [7]) [þurfostu nætr aa sumar 48; [8]) hundrut b. v. 48; [9]) ij b. v. 48; [10]) bvfelagi 48; [11]) lvkiz 48; [12]) sl. 48; [13]) vantar í 175, 48; [14]) [beidir 48; [15]) sl. 48; [16]) frænkonu, 48; [17]) e[da] 48; [18]) atian 48; [19]) sl. 48; [20]) [edr lætr eigi sækia 48; [21]) eiginlega skrifað Enindagi (= Enn eindagi?) 132; máð í 43.

bua æ. þeir sem eigi eigu liostoll ath lvka lukiz eingi a þui ari liostollr.

3. Jtem þar sem madr helldur omaga eyri med laga vmbodi lvkiz eingi annar stadar en þar sem hann situr. j huerre kirkiu sokn sem omaginn tekr guds likama ath paskvm.

4. Jtem hvort sem andaz bonde edur huspreyia epter fardaga ok stendur bunadur saman fram vegis. lukiz ein tiundargiord ok einn liostollr. þo ath arfar verde fleire. en ef sundur verdr brvgdit þa tiunde huerr sitt hlutskipte ok luki huerr sinn liostoll ad paskum.

5. Jtem ef hion eiga. x. aura eda hundrati minna ok se huortueggia vinnvfært luke einn liostoll.

6. Jtem oliunarkaup se xviii. alner ok lukiz i tiundar eindaga. en hverr er eigi lykur. sekr. ui[1]). aurum.

7. Same eindage er a legkaupum ok liksaungs aurum ok liggur iij[2]). Marka sekt vid hvert huer er eigi lykur.

8. Tida offur segiz eptir hinum forna kristnum Retti[3]). liggr þar vid half vta Mork[4]).

9. Jtem þurfasti bonde ok huspreyia fostu nætr ef hann a .x. hvndrut en hun v[5]). hundrut ok. i. hundrat fyrir huern omaga sinn. En ef menn eigu. v. hundrut saman ath bufiar lage luke skiptetiund.

10. Jtem ef madr a eitt hu. en er heimilisfastur j odrum stad lukiz þar tiund sem buit stendur.

11. Jtem er madr skylldr ath syngia frædi sin [[um] sinn[6]) a. xij Manudum fyrir profasti ef[7]) hann er heiddur. sekur. vi. aurum ef hann syniar.

12. ef madr verdr brottligr med frændkonu sinni ath þridia ok fiorda sekr xuiij. aurum ok uatnfasti þria tige natta.

13. Jtem ef madr sækir ei tider eda lætur eigi sækia þria sunnudaga samfleytt sekur vi aurum.

---

[1]) sex 43; [2]) þriggia 43; [3]) Tíðaoffr er eptir forna Kristinrétti xij merkr (Thork. útg. bls. 70; Vilh. Finsens bls. 21); [4]) iij merkr í Kristinr. hinum forna; [5]) fimm 43; [6]) [sl. 43; [7]) vantar niðrlagið í 43.

C.

AM. 136. 4to bls. 280—81 skinnb. c. 1480 (Skinnastaðabók). Þetta kemr án línuskils strax á eptir skipan Jóns biskups Haldórssonar frá 20. Júlí 1326 (Dipl. Isl. II, Nr. 365).

vm lio[stoll].

1. Eindagi a liostollum fostudagur hinn langi sekr xij avrum hverr er eigi lykr. eigi halft biskup en halft kirkiubondi.

2. Af eydijordum edur þeirri jordu sem oreigi byrr a sa er eigi greidir(!) lukiz eigi liostollur.

3. Þar sem madr helldr omaga eyri med laga vmbodi. lukiz þar liostollr sem hann sitr j hverri kirkiusokn sem omaginn tekr gudz likama at paskvm.

4. En hvar sem andaz bondi edur hvsfreyia eptir fardaga ok stendr bvnadr saman framvegis. lvkiz ein tivnd ok einn liostollr. þo arfar verdi fleiri en einn. ef svndr er brvgdit bvi. þa tivndi hver sitt. ok lvki sinn liostoll hver at paskvm.

5. Ef hion eigv x avra edur. c. minna ok se hvertveggia vinnvfærtt. lvki einn liostoll. En ef þav eiga .c. edur meira edur hvert þeira sem a lvki ij liostolla.

6. Olivnarkavp se atian alnvm ok lvkiz j tivndar eindaga. hverr sem eigi lykr sekr iij avrum.

7. Sami eindagi er a legkavpum ok liksavngs avrvm ok liggi þriggia marka sekt vid hvert.

8. Tidaoffr ok lvkiz(!) v. dag j fardogvm en sekiz eptir fornvm kristinrett.

9. Þurfasti fostvnætr a svmar bondi ok hvsfreyia ef hann a x hvndrod. en hon. v. c. ok. c. fur hvern omaga.

10. Ef menn eiga. v. c. tueir saman j bvfelagi. lvkiz skipti tivnd af.

11. Ef madr a eitt bv enn er heimilisfastr j odrum stad. lvki þar tivnd sem bvit stendr.

12. Skylldur er madr at syngia frædi sin vm sinn a xij manodvm fur profasti ef hann beidir. sekr. vj. avrvm ef hann syniar.

13. Ef madr verdr brotligr med frændkonv sinni at fiorda manni edur þridia. sekr atian avrum ok vatnfasti xxx. natta.

14. Ef madr sækir eigi tidir edur lætr sækia iij svnodaga samfleytt sekr. vj. avrvm[1]).

[1]) Hér kemr næst á eptir skipan Gyrðs frá 1359.

## D.

AM. 160. 4to bls. 247—49 skb. c. 1480; AM. 238. 4to fol. 142 pappírsh. frá 1570 (Bessastaðabók), og er hér að eins § 13.

her segir vm eindaga a liostollum ok l[egkaupum]. 35.[1])

1. Ejndage a liostollum. skal uera friadag langa. Enn sa er sekur .xij. aurum er ecki lykur. eða hefur rad firir giortt. hafi halft profastur en halft kirkiu bonde.

2. Jtem af eyde jordum eda þeirre jordu er aureige byr a sa sem eigi a liostoll ad luka lukiz einge liostollur.

3. Jtem þar sem madur helldur omaga eyri med laga umbode lukizt þar liostollur sem hann situr j huerre kirkiu sokn. sem omagin tekur gudz likama. at paskum.

4. Jtem huortt sem andazt bonde eda husfreyia epter fardaga og stendur bunadur saman framuegis. lukiz ein tiund og einn liostollur. þott arfar uerda(!) fleire.

5. Enn ef sundur er brugdit bui þa tiundi huer sinn hlut. skipti(!) ok luke huer sinn liostoll at paskum.

6. Jtem oleunar kaup er. xviij. alnum. ok lukiz j tiundar eindaga.

7. Enn huer eigi lykur ok se krafit. þa sekizt hann. vj. aurum.

8. Same eindage er a legkaupum ok liksaungsavrum og liggur. iij. marka sauk uid huer sem eigi lykur.

9. Tidaoffur presta gialldiz epter hinum forna kristenn rett. hafe sumer. iij. alnar. a messo en sumer. ij. alnar.

10. Jtem ef madur a eitt bu. en er heimilisfastur annars stadar. lukizt þar tiund sem buit stendur.

11. Jtem[2]) huer madur er skylldur at syngia fræde sin. ætid a huerium. xij. manudum firir profaste ef hann bydur þat. sekur. vj. aurum ef hann syniar.

12. Jtem ef madur sæker eigi tider. eda lætur sækia skynsaman mann. þria sunnudaga samfleytt sekur. vj. aurum.

---

13. Jtem[3]) at heytollur se lokinn at mariu messo sidare. [id seinzta[4]). Enn sa prestur sem eigi uill taka j[5]) millum[6])

---

[1]) er hér talið sem 35. kap. í Kristinrétti Árna, þó að það heyri þar ekki til; [2]) jtin, skb.; [3]) [sl. 238; [4]) [sl. 238; [5]) hann 238; [6]) Mariu, b. v. 238.

mesna logliga til bodinn. hafi onguan [æ þui are[1]). ok se sekta laust. Enn sa er eigi uill luka j [rettan eindaga[2]). giallde [preste. iij. aura[3]).

14. Jtem at prestur hafe eingen messo klæde nock[ur]ar kirkiu j þing. utan med þess orlofe sem kirk[i]u uardueiter. eda legge halfa mork firir ef hann hefur.

15. Jtem at huer bonde sa sem skylldazt at hafa prest. eda fæda um. xij. manvde. ok hefur suo noga kirkiu peninga at uel uinnizt. þa er hann skylldur at fæda mann med preste fra Michaelsmesso æ haust ok til krossmesso. æ uor. ok iafnnuel þott prestur se ridande. Enn prestur skal hafa þann mann med ser at honum se full fylgd j. ok hann se þa betur fær enn adur. ok sa þione j. messo. Ella fae kirkiu bonde mann til þionustu preste þa er hann fer j þing.

16. Jtem at preste lukizt tida offur eigi seirna enn friadagenn j fardögum. enn ef þa er eigi luktt. þa sekiz sem fyrir annat tiundar halld. þat sem tiundar partt snerttur.

17. Jtem alla opinbera okur karlla hordoms menn. eda fryllu lifis menn. skal þinga prestur ætid mega af kristinna manna samfelage sundra. Suo ok firir bioda þeim kirkiu inngongu. ok gudz sacramenta. nema þeir jate yferbot ok uidskilnad.

18. Jtem at huer prestur kenne sinu þinga folke sin kristilig fræde. fyrst. x. guds laga bodord. Postulega tru ok almenneliga. Credo in deum. ok uora bæn. pater noster. ok eingiliga kuediv. Aue maria. ok þesse. ij. sacramenta. sem er barn skirnar ordin ok helgunar ordin holdz ok blodz uors herra jesu christi. af himna rikis glede ok heluitis kuolum. ok huad skadsamligt at syndin er þeim manni. sem eigi hefur retta trv. Eda huersu lettbærtt þeim ero aller hluter. sem hafa klara trv oc stoduga æ jesum christum.

gud gefe oss at uier eflunzt upp til allra godra hluta. so at uær mættum uora lifdaga leingia. enn allre jlsku tyna. amen.

---

[1]) [sl. 238; [2]) [settan tima 238; [3]) [þeim presti sem hann heldr fyri iij. aura 238.

E.

AM. 151. 4to bls. 277 skinnb. c. 1490.

1. Eindagi a liostollvm friadag langa. sekvr xij[1]) avrvm hver er eigi lykr. eigi halft biskvp enn halft kirkiv bondi.

2. af eydi javrdv eda þeirri jordv er avreigi byr a. sa er eigi neider tivnd. lvkizst eigi liostollvr.

3. þar sem madr helldr omaga eyri med laga vmbodi lvkizst þar liostollvr sem hann sitvr. j hverri kirkiv sokn sem omagi tekr gvds likama ad paskvm.

4. Enn hvort sem andazst bondi eda husfreyia efter fardaga og stendr bvnadr saman framvegis lvkizst ein tivnd og eirn liost[oll]r þott arfar verdi fleire. Enn ef svndr er brvgdit bve. þa tivndi hver sitt hlvtskipti. ok [luki] sinn liostoll hver at paskvm.

5. Enn ef hion eigv. x. avra eda. c. minna og sie hvortvegia vinnv fęrt lvki eirn liostoll. Enn ef þav eiga c. eda meira. edr hvort þeirra sem a. lvke tvo liostolla.

6. Jtem olivnar kavp sex alnar. Lvkizst[2]) j tivndar eindaga. hver sem eigi lykr. sekr sex avrvm.

7. Same eindage er a legkavpvm ok a liksavngs eyri. ok liggi þriggia marka sekt vid.

8. hvert tida offr presta sękizst efter forna kristnvm riett.

9. Þvrfasti a sumar bondi og hv[s]freya a favstv netur ef hann a tiv. c. en hvn. v. c. ok. c. fyrir hvern omaga sinn.

10. Ef menn eiga. v. c. tveir saman j bufielagi. lvkizst skipti tivnd.

11. Ef madr a eitt bv. og er heimiliss fastr j avdrvm stad. lvki þar tivnd sem bvid stendr.

12. Skylldur er madr at syngia fyrir profasti. sekr. vi. avrum ef hann syniar.

13. atian avra sekt frendspell ad þridia og fiorda.

14. Sex avra sekt ef tider erv ei sottar. iij. svnnvdaga samfleytt.

---

15. vtlenzkir menn ok so aller adrer skvlv þar lvka tivnd af

[1]) »i ix«, skb.; [2]) Avkizst(!). skb.

avllvm sinvm afla. og atfavngvm. sem þeir erv j vetrsetv og þeir erv hina helgv nott. nema þeir sie þa j heimbodvm ok j avdrvm stavdvm. þæ snvizst þo tivnd til vetursetv.

Jtem i þui profastdemi leysizst hver ok taki skript fyrir brot sinn sem hann bravt. þo i anars vmbodi verdi opinbert.

---

F.

British Museum Add. 11,242. 4to bl. 62b, Syrpa séra Gottskálks í Glaumbæ skr. 1543—1593.

1. Eindage æ liostollvm friadag langa. sekr xij avrvm hver ei lykr. eigi profastr halft en kirkiubondi halft.

2. Jtem af eydijordum eda þeim jordum sem oreigi byr æ eda prestr lvkiz eingen liostollvr.

3. þar sem madr heldr omaga eyri med laga vmbodi takiz þar liostollr sem hann sitr j hverri kirkiusokn sem omagen tekr gudz likama at paskum.

4. Jtem hvort sem andaz bondi eda husfreyia epter fardaga oc stendr bvnadr saman framvegiz lvkiz ein tivndargiord oc einn liostollr þo arfar verdi fleire. enn ef svndr er brvgdit bve lvke hver sinn liostoll at paskvm.

5. Jtem ef hion eiga. x. avra eda. c. minna oc sie hvorttveggia vinnufært lvke einn liostoll. Enn ef þav eiga. c. eda. c. meira edur hvort þeirra sem æ lvke. ij. liostolla.

6. Jtem olivnarkavp xviij alner ok lvki j tivndar eindaga. en hver ei lykr sekr. vj. avrvm.

7. sami eindagi er æ legkavpum oc liksongzeyri oc liggr iij marka seckt vid hvort sem ei er lvckt.

8. Tidaoffr presta seigiz epter hinum forna kristinriett.

9. Jtem þvrfasti bondi oc hvsfreya ef hann a .x^c^. en hun. v^c^. oc hvndrat firir hvern omaga sinn.

10. Ef menn eiga. v^c^. saman at bvfiarlage lvki skiptitivnd.

11. Jtem ef madr æ eitt bv en er heimilizfastr j avdrum stad. lvkit þar tivnd sem bvit stendr.

12. Jtem er madr skylldr at syngia frædi sin [vm] sinn æ xij manudum firir profasti ef hann er beiddr ella sekr vj avrvm ef hann syniar.

13. Jtem ef madr verdr brottligr med frændkonv sinne at

þridia manne eda fiorda manne sekr xviij avrum oc vatnfaste xxx natta.

14. Jtem ef madr sæker ei tider eda sækia lætur iij svnnudaga samfleytt sekr vj avrum.

---

15. Jn primiz at heytollr sie loken at marivmesso sidare. Enn sa prestr er ei vill taka hann a mille mariu messna logliga tilboden hafi ongvan oc se secktalavst. en sa sem ei vill lvka j settan tima [gialldi] preste þeim er hann helldr firir iij avra[1]).

16. Jtem gialldiz einn heytollr af hverre jordu þo fleire bve a en einn.

17. Jtem j þui profastsdæmi leysiz huer sem hann vard brottligr þoat j annars vmbodi verdi opinbert[1]).

---

## G.

AM. 160. 4to bls. 261. c. 1480 sama skinnbók og **D** hér að framan er prentað eptir. þessi kafli stendr sem niðrlag Búalaga eða næst á eptir þeim. en erfitt er að marka þessu bás og læt eg það því fylgja skipan Pétrs biskups, því að helmingr þess allr kemr heim við skipan hans og ljóstollasamþyktina fornu. Hitt kemr mest heim við skipan Jóns biskups Sigurðarsonar frá 26. Júli 1345 (Dipl. Isl. II, 513). og er hér neðanmáls vísað til hvaðan hvað eina virðist vera tekið. Ákvæðin um matgjafir geta að stofni verið mjög forn. enda frá dögum Staða-Arna (sbr. Bps. I. 701, 706).

Capitulum.

1. M[2])atgiof skal madr luka fyrir sig. og sitt skvllda hion hvertt og firir bornn sin. fra þui at þau erv xiiij uettra. og til þess at þau erv xvj uettra. a huerium xij manudum ef þeir erv heiler menn og megv fasta.

2. Enn þat er skvllda hion hans er þau þurfu med skylldu fyrir at uinna. so sem kallmann ok konu firir vj x'. c'. og lika þo bvskapr sie minne. Enn huer er eigi gelldur. sekur iiij avrum firir hvertt hion og tuigillde matgiofina.

3. Hver kallmadur eda kona þo bulauser sie gialldi mat-

---

[1]) þessi grein er tekin úr skipan Gyrðs 1359. [2]) upphafsstafrinn rangt settr Þ fyrir M, svo að úr því verðr þatgiof (!). — § 1—4 sbr. JSig. C § 47—48, G 11 § 7; Gyrðs 1354 § 6.

giof þegar þau eiga hvortt vm sig ij missera biörg. Enn þat er ij missera biörg. at halft ed iiij. c'. stendur firir kallmanni en halft et iij [firir] konv.

4. Langa friadags uerdur skal gefazt med radi þinga prestsins. og giallda halfa alin firir konv en ij hlute alnar firir kallmann. Enn eigi plagast at giallda firir þær konur sem standa j barneign. Enn firir hinar iij uottnana[r] nætur. matgiafer skulu hreppstiorar skipa a haustvm. med audrum matgiofvm og tiundvm. Enn þat eru ij firir kallmann. enn half onnur alin firir konu.

5. Ef hion eiga c'. eda c'. meira. luki ij liostolla. enn ef hion eiga c'. eda c. minna luki einn liostoll.

6. Einndagi er a liostollvm. friadaginn lannga. xij aura sok ef þa er eigi lukt. eigi halft prestr[1]). en halft kirkiu bondi.

7. Af eyde jordu eda af þeirre jordv sem avreigi byr a. sa er eigi a liost[oll] at luka. lukizt einngi liostollvr.

8. Enn þar sem madr helldr omaga eyri med laga vmbodi. þa skal lvkast liostollur j þeirri kirkiv soknenne sem hann situr. hvar sem omagi tekur gudz likamma at paskvm.

9. Enn hvar sem bonnde eda hvsfreyia anndazt epter fardaga. og stendur bunadur saman fram uegis. þa er ein tiund giord. og einn liostollr. þo arfar sie fleiri.

10. Enn ef sunndur er skiptt. og hver hefur sitt hlutskipti luki huer sinn liostoll. ij aurum uax. eda vj x'. kertta þeir[ra] er c'. stenndur pvnnd. þat erv ij liostollar. hafa þeir morkina þa vm fram af mornum sem kemur firir rokin.

11. Oliunar kavp er atian alnum ok lukist j tiundar eindaga. enn huer er eigi lykur er sekur vj aurum.

12. xij alnum er legkavp. og vj alnvm lik saungs eyrir lika sekt a hueriv firir sig. og lika eindage.

---

[1]) Þess grein stendr í Ny kgl. saml, 1847. 4to bl. 33--34 skr. 1669; þar stendr prófastr. Grein þessi er og í AM. 58. 8vo bls. 84 · 5 með hendi Jóns lögmanns Jónssonar; þar stendr prestr. — § 5 sbr. Pét. § 5; Alþ. 1265 § (A); § 6 = Pét. § 1; Alþ. § 1; § 7 = Pét. § 2; Alþ. § 2; § 8 = Pét. § 3; Alþ. § 3; § 9 = Pét. § 4; Alþ. § 4; § 10 = Pét. § 4; Alþ. § 5; § 11 = Pét. § 6; Alþ. § 5; § 12 = Pét. § 7; Alþ. § 6.

13. Heytollur skal uera luktur presti firir mariu messo dag sidare. enn prestur sa er eigi uill taka j millum messna logliga bodinn. hafi onguan æ þui are og sie sekta laust. Enn sa er eigi uill giallda j settan tima. gialldi presti þeim er hann helldur fyrir iij aura.

14. Wtlenzkir menn og so aller adrer. skulv þar tivnnd luka af aullum afla og peningum sem þeir eru iij uetur samfast. og þeir eru hina helgu nott. nema þeir hafi uerit at heim bodvm j anan stad eda at audrum naudzynivm þa snuizt sv tivnd til vetur setv.

15. Til þeirrar kirkiu lvkist tiunnd af allri fasta eign sem hun liggur j soknninne. ecki æ at svara porcionem nema af fasta eign þeirri er liggur under kirkiuna.

16. Þeir menn sem eigi eru heimilisfaster. lvki þar liostoll. sem þeir taka gudz likama at paskum[1]) ella missi þionvstvna.

---

## II.

IBfél. 113. 8vo á pappír bls. 142—43 skr. c. 1680; IBfél. 114. 8vo pappírshdr. frá 18. öld, að eins § 3. Þetta kemr mest heim við skipan Pétrs biskups, og læt eg það því fylgja henni.

Vmm Liostolla Legkaup og lijksaungs Eyrer[2]).

1. Ef hion eiga saman x aura skulldlaust edur hundradj minna huort þeirra sem ä liukest eirn liöstollur. enn ef þau eiga j c edur hundradj meira huort sem ä liukj 2. liöstolla.

2. af eijde jördu edur þeirrj sem øreige byr ä sa eci ä liöstoll ad giallda liukest einginn liöstollur.

3. Huort sem andast bondi edur husfreyia eptir fardaga og stendr bunadur saman liukist einn liöstollur og ein tijund þo arfar sieu fleijre enn sie skijpt med ðrfum liukj huor sinn liostoll ad paskum.

---

[1]) faskum, skr.; [2]) á spássíu: Christ. Riettur, en þetta er þó að efni til alþingissamþyktin 1265. — § 13 = JSig. C46; GII, 6; Gyıðs 1359 § 1; § 14 = JSig. K7; Eilífs mikla 1323 § 60; § 15 = JSig. A,6; B,6; DI, 4; C,6; F,6; GI,6; HII,6; I,6; § 16 = JSig. A7, B7, C7, DI,6, GI,7; HII,7; I,7.

4. Liostoll skulu menn giallda sem ad fornu huor sem ä v aura j alnar voru og sie hann k[v]ongadur skal hann giallda j mork vax. hafe hann ei vax þa x merkr smiðrs edur 19[1]) merkr mors. so skulu einhleijper menn kallar og konur þo bulauser sieu liostoll giallda sem hiner ef þeir eiga x aura skulldlaust. Enn 2 aura vax edur nijung[2]) vr vax mork edur v. merkr smiðrs edur 7. merkr mørs er eins mans liostollur golldinn friadag langa ella sekur 6 aurum.

5. Eindage ä legkaupe og lyksaungs eijrer fimtudaginn þa iiij vikur eru af sumre. liggur 16 aln[a] sekt vid ef þa er ecki golldit.

6. Ef madr ä eitt bu enn [er] heijmiliss fastur j odrum stad liukist þar liöstollur og tijund sem bued stendur.

---

## 391. 3. Januar 1392. í Vatnsfirði.

Nikulás Jónsson selr Birni Einarssyni tvo hluti af fiskatollinum í Bolungarvík, er hann hafði eignast eptir Einar Eiríksson andaðan.

Landsbókasafn Fasc. XXIX, 5, transskript á skinni frá 1469. AM. Dipl. afskrr. Nr. 897 eptir «transscripto Vatzfiord. accurate» gerðu 1469. Í pappírsafskriptinni í AM. 234. 4to bls. 527 er þetta bréf ranglega árfært til 1395.

Þat gerer ek nikulass jonsson godum monnum kunnigt at ek hefuer sellt birnne einarssyne til fullrar eignar med handabandi þæ tuo hluti j tollinum j boluugaruik sem ek uard eigandi epttir einar bonda eireksson. anndadann. gaf hann mer her firer suo morg hundruth upp j laugabol j jsafirdi. sem mer uel ænægdi ok uid urdum æ sætter. þui gerer ek ædr nefndann biornn kuittann ok lidugann af fyr sogdu skreidhar tollz uerdi. Ok til meire sanninda hier um settu þessir menn er suo heita ok hiæ uðru. gudmundr jonsson. ok einar jonsson sin jnsigle firer þetta bref er skrifat uar j uazfirdi ju octaua stephani prothomartiris. anno domini. ϖ⁰. ccc⁰. lxxxx⁰. ij⁰.

---

[1]) eða 10; [2]) = fjórðung (nijung = mislesning fyrir: iiij ung).

392. 22. Marts 1392. í Bolstaðarhlið

Þorkell Gunnarsson og Björg Sigmundardóttir kona hans selja séra Þórði Þórðarsyni jörðina Mjófadal í Laxárdal fyrir lausafé.

AM. dipl. afskrr. 4063 «ex originali» með hendi Jóns Magnússonar bróður Arna. «Brefed er ä kalfskinn. synast hafa vered fyrer 6. jnnsigle. er ecke epter nema tvö og einn þveingur laus. enn þriu þveingiafðr. annad jnnsigled er mäd og malad upp utann. so eckert siest a þvi hvad vered hafe. ä þvi sidara siest. IOONIS EINAR».

Þeim godum monnum sem þetta bref sea edr heyra senda Marteinn berssason. æinarr finnzson prestar. þorsteinn deakni gunnarsson. biornn bryniulfsson. dalkr einarsson. oc þorgæiʀ boduarsson leikmenn q[ucdiu] g[uds] oc sina kunnigt gerande. ath þa er lidit war fra hingatburde vars herra jeshu christi þushundrat þriu hundrat niutigher oc tuau är j bolstadarhlid fostudagh næsta efter annunciacionem beate marie virginis. worum wer j hia heyrdum oc sam a handaband sira þordar þordarsonar af æinni halfu. en þorkelss gunnarssonar oc biargar sighmundardottur hustru hans af annari. ath suo firir skildu. at nefnd hion þorkell oc biorgh selldu sira þordi till fullrar æighnar jord alla firir miofuadal j laxardal med ollum þeim gognum oc giædum sem sagdri jordu hefuir fylgt ath fornnu oc nyiu oc þau wrdo fremzst æigande ath til þeirra vmmerkia at geirbiarnnargil rædr firir sunnan gegnt skytnadal. ok þadan ʀettsyne austr a gerdehamra. oc þadan ʀettsyni i læk þann sem fellr ofan æfter midium videdal. Jtem ʀædr hölnalækr firir vtan oc vpp j fiallz hornit sydra oc þadan ʀettsyni austr j vididalslæk hinn sama. jtem er landamerki firir vestan ath smiörskalarlæk oc suo vpp a fiall. oc suo vt oc ofuan i öxlina til motz vid audolfsstade. sagde hann skylld a jordunni. at syngia þar annan huern dag helgan oc luka presti tuær merkr kaups. skiliande af ser abyrgd vm fyrnnd kirkiu oc hennar ornamentis. Reiknade þorkell oc at kirkian ætti fiorar merkur woro. hier j mot gaf sira þordr þorkatle oc biorgu. þrettan asaudar kugilldi. tolf kýr. þriuhundrat woro. tuo hundrat worovird. fimm hunndrath j slatrvm at tiundarlagi oc fimm j hafnaruadum. lukaz vt a fyrsta ari tiu asaudar kugilldi. fimm

kyr. þriuhundrat woro. oc tuau hundrat j hafnarvadum. en a tuæim arum þat sem æfter stædi suo mikit a huáro sem þeim semde. oc standa huert hundrad med tolf alna læigu at fra teknvm slatrvm fridt af fridu. en ofridar af ofridu. skillde þorkell abyrgiaz allar lagariptingar a greindri jordo en sira þordr hallda til lagha. oc til sanninda her vm settum wer fyrrnefndir menn war jnnzcigli firir þetta bref gorth j sama stad ari oc deghi sem fyrr seghir.

---

393. 17. April 1392. á Reykjum.

Eyrný Ólafsdóttir fær Sighvati Asgrímssyni jörðina að Bjargastöðum í Miðfirði til eignar, með tilgreindum ummerkjum.

AM. Dipl. afskrr. Nr. 507 «ex originali þordar þorleifssonar». afskriptin er staðfest í September 1712 af Árna Magnússyni, Þórði Þórðarsyni, Páli Hákonarssyni og Magnúsi Einarssyni. Önnur afskript óstaðfest liggr hjá. Þarmeð fylgir og löng skýrsla Árna um bréfið, og kallar hann það «Eyrnýjarbréf».

Ollum monnum þeim sem þetta bref sea edr heyra senda ketill skeggia[sun ok] olafuer skeggiasun[1]) kuediu gudz oc sina kunnikt gerandi at þa er lidit var fra hingat burd vars herra iehsu christi ꝏ⁰ ccc⁰. lxxxx⁰ secundo at reykium j midfirdi varo mer j hia sam oc heyrdum a handaband þeirra eyrniar olafsdottor oc siguatz asgrimssonar at hun fek honum iordina at biargastodum til eignar. lysti fyrnefnd eyrný at kirkian at reykium j fyrnefndom stad ætti oc att hefdi at fornu jord þar firir sunnan biargastadi er hreidarstader heita. skilldi hun þa fra oc akueddi landamerki firir sunnan gardin biargastada[2]) at lækr ein redi. af skilldi hun fy[r]nefndom siguatti þa iord oc oll gædi þau er fyrnefndri jord hreidarstodum fyllgdi. sagdi hun fyr nef[n]drar kirkiunnar iord vera suder att annarr[3]) uattni.

---

[1]) Hér hefir verið eyða í frumbréfið sem fyrir mannsnafni, er færa hafi átt inn á eptir, en fyrirfarizt; [2]) þannig; [3]) þetta orð er fals, því hér var skafið út úr frumbréfinu og þetta sett í staðinn. Páll Vídalín hefir skýrt Árna Magnússyni frá því, að Jón Arason á Mýrum við Hrútafjörð, sem dó fjörgamall 1706 hafi sagt, að menn héldi að hér ætti að vera

munum mer þetta sueria ef þurfua þikkir. Ok til sannynda her vm settom wer fy[r]nef[n]dir men var jnsigli firer þetta bref er gert var a fiorda dag paska j stad degi oc ari sem fyr seghir.

---

## 394. 18. April 1392. á Holum.

Einar prestr Hafliðason, tveir prestar aðrir og þrír leikmenn votta, að Andrés baggi Bergþórsson og Ragnhildr Steingrímsdóttir kona hans hafi handlagt Jóni biskupi skalla «góðrar minningar» alla jörðina Úlfsstaði fyrir fimtigi hundruð vaðmála.

Frumbréfið á skinni AM. Dipl. Isl. Fasc. V, 2; af fimm innsinnsiglum er eptir brot af þremr: Einars prests og tveggja annara. Til eru ýmsar pappírsafskriptir af þessu bréfi, en þær eru alls ónýtar. Espólín hefir bygt á þessu bréfi (Árb. I, 111) að Jón biskup kunni að hafa lifað enn 1392 og að Pétr biskup hafi verið vígðr að honum lifanda og hefir hann það eptir Flateyjarannál, en hvorttveggja er rangt og liggr líklega svo í því, að hann hefir ekki haft þetta bréf sjálft fyrir sér, heldr að eins bréfaskrá Grunnavíkr-Jóns, því að þetta bréf tekr það fram, að Jón biskup sé dáinn. Gottskálksannáll og Flateyjarannáll segja að Jón biskup hafi dáið 1391, og svo hafa menn alment talið, og því hefi eg fylgt í biskupaskránum hér að framan. En annáll Einars prests Hafliðasonar (Lögmannsannáll) segir hann hafa dáið á Laurentíusmessu (10. Aug.) 1390. og það eitt mun rétt vera, því að páfabréf það frá 6. Apríl 1391, sem skipar Pétr Nikulásson fyrir biskup á Hólum og prentað er hér áðr sem 387 í þessu bindi Fornbréfasafnsins, segir blátt áfram að Jón biskup sé dáinn. Hefir því lát hans verið ritað utan með haustskipum 1390 og hefir því sjálfsagt verið mjög nýlega frétt til Rómaborgar í Apríl 1391.

[bref vm vlfs stade.
litere super repingnorandibus 1392[1]).

Þeim godum monnum sem þetta bref sea edr heyra senda einar haflidason. þordr þordarson. Einar snorrason prestar. þor-

---

Hara- eða Aravatn, en Árni segir það geti ekki verið, því að eyðan sé stærri. Páll getr upp á Ketilvatn, en það er líka ofstutt, segir Árni, nema það hafi heitið Ketilbjarnarvatn. Þetta fals er gert mjög snemma og er eflaust eldra en 1449.

[1]) [Aptan á bréfinu.

gæirr boduarsson. sighurdr eẏsteinsson oc þorghæir brandzson leikmenn. quediu guds oc sina kunnigt gerande at þar worum wer j bia j breidastofunni a holum j hiallta dal oc sam a handaband virdoligs herra herra jons biskups æirekssonar. godrar minningar af æinni halfu. en andress bagga bergþorssonar oc raghnhilldar steingrimsdottur konu hans af annari. at suo firir skildo at nefnd hion andress oc raghnhilldr bandlogdu herra joni biskupi alla jord a ulfsstodum kirkiunni a holum oc biskupinum til fullrar eignar med ollum þeim gǫgnum oc giædum sem þeirri iordu hofdu fylgt at fornu oc nẏiu oc þau hofdu fræmz æigande at ordit. her amot skilldu þau taka þa fimtigi hundrada vadmala. sem þa lagu vpp i alla iordina a vlfstodum med þessum fridlæika tuttughu hundrud woro oc þrirtiger hundrada hafnaruada. oc þa fleiri peninga sem biskupinn villde vnna þeim suo þo at andress oc ʀaghnhilldr wæri ska[d]laus af. Ok til sanninda her wm settum wer fyrr nefndir menn war jnzcigle firer þetta bref gert a holum fimta daginn i paska uiku þa er lidit war fra hingat burd wors herra iehsu christi þushundrat þriuhundrat niutighir oc tuao är.

---

5—9. Juni 1392. á Marðarnupi.

395. 29. Januar 1393. á þingeyrum.

Sʀɪᴘᴛᴀʙʀéꜰ eptir Arngrím Þórðarson á Marðarnúpi.

Frumbr. á skinni í AM. Dipl. Isl. Fasc. LXVI, 2; brot af þrem innsiglum er fyrir bréfinu.

[Mardarnups bref og þeirra peninga þar voro epter Arngrim heitin þordarson andadan 1392[1]).

Þeim godum monnum sem þetta bref sea edr heẏra senda Einarr þoruardzson. jon þorualldzson. knutr steinolfsson prestar. ærikr þorleifsson. þorgheirr boduarsson oc þorstæinn berghsson læikmenn. ǫ[uediu] ɢ[uds] oc sina kunnikt gerande. at þa er lidit war fra hegat burde wars herra iehsu christi þushundrat þriu hundrat níutigher oc tuð är at mardargnupe j watzdal a

[1]) [Aptan á bréfinu með hendi frá 17. öld.

næstum fardoghum epter arngrim hæitinn þordarson andadan worum wer jhia wirdum oc ʀæiknadum suo mikit godz til erfdar fallit bǫrnum arngrims hæitins þrimr. ʀafni. olofu. oc jngibiorghu ad afreiknadum skulldum þeim sem þa woru liosar a gozinu en til ʀeiknadum þeim halfum tolfta tighæ hundrada sem hustrv steinvnn ʀafnsdotter hafde þa gefit ʀafni syni sinum. oc afhent sira þordi. j fýrstu wirdizst jordin hæima at mardargnupi med gilæ firir tiutighæ hundrada. haukagil firer seautian hundrat oc tuttughu. hacke firer þriu hundrat oc tuttughu. Eyiulfs stader firer tuttughu hundrat. eidstader firer sextan hundrat. elldiarnsstadir firer þrettan hundrat. þremir firir fiortan hundrat. fiorertiger hundrada j wirdingarfé. niutigher kugillda j kwm. asaud oc gelldfé. oc halfr þride tugr kugillda j ʀossum. werda þíj ʀafns peningar epter þessum ʀeikninge med giofinne stæinunnar modur hans tuð hundrat hundrada oc fimm hundrat. en þikunnar huorrar olofuar oc jngibiargar halfr seaunde tugr hundrada. Ok til sanninda her wm settum wer fýrrnefndir menn war jnzcigle firer þetta bref skrifuat ath þingheýrum tuæim nattum firer festum heate brigide virginis are sidarr en fyʀ seghir.

---

## 396. 7. Juni 1392. [i Reykholti].

Skrá yfir fjármuni Reykjaholtskirkju, þá er séra Ásbjörn Ólafsson afhenti. en Ólafr prestr Kolbeinsson tók við.

Biskupsskjalasafn Nr. 1. Fol. á skinni, tvö blöð úr messubók Reykholtskirkju. AM. dipl. afskrr. Nr. 2217, eptir áðrnefndri skrá: «Ex membrana coæva et authentica Templi Reykholtensis accuratissime etiam quod ad mendas». Hér er fylgt afskript Arna. Skráin er með norsku handarlagi.

Anno domini ⅽⅾ⁰. ccc⁰. xc⁰. secundo friadaghin jnfra octauam ascencionis afhendi sira æsbiorn olafsson svo mikit godz kirkivnne j reykia hollti enn olafr prestr kolbeinsson tok med.

Jn primis. jnnan kirkiv fiora sloppa faný́ta. tuær pellzkap[u]r semilighar oc ein balldrkins kæpa. fioghur kæpu slitti. v. antependia. oc oll slitin. eitt brikar klædi slitid. tuau alltara

klædi med enskan lit er sira ari lagdi til. fernn messv klædi sæmiligh oc þo slitin. fim aunnr miðgh slitin oc brestr j einvm þessvm stola oc handlin. vj corporalia j hwsvm. xij alltara dwkar vigdir oc einn j þessum buin. at auk sprangadur dvkr glitadr. lectara dwkr slitin oc lerepts dwkr ýfver peturs alltari. tueir hauklar lausir bæder ohæfver. iiij calekar oc þrir af þeim lestir. ætta kertistik[u]r med kopar oc lest ein af þessvm enn tuær brotnar. vigzs vazs ketil. sacrarium munnlaug lest. glodar ker. ellbera brot. messv fata kista. iij. kluck[u]r. oc hin fiorda brotin. ij bioll[u]r. skrin [texti buin[1]). kross medr vndirstavdum. krossar þrir smellter. hunzl kerz brot med silfr. solar steinn. iij pæxspiolld. fontr med vmbvninghi oc katli. mariv skript. peturs likneski oc barbaru oc firir þeim þriar kertistik[u]r med jarn. oc dwkar yfver tveimur. graduale. guz spiallabók. epistolarius. collectarius. capitularius. gradall forn. ordo. oc ymnarius. de sanctis bækr tuær æ svmarit. at ottu saungum. lesbækr per anni circulvm de sanctis oc de tempore. eigi efter ordv. erv fim bakr oc siaýtian ſæný tar eingi efter ordv. lectarar. ij. merki. lestr glerglvggvr. bakstr iarnn. ampli med tin. lika kross med rodv. æ sira æsbiorn ath lwka firir ein Messoklædi er sira[2]) hafdi j mold. lika krakr. alltaristeinn bvin.

Þetta j metfe. fiorer reflar. fimtigher ælna oc tuær ælnar varmælltar oc kistu firir barbare. stighi stor. tuau bord atta ælnar oc xx. oc einn bordskvtil oc hit fiorda pallbord. munnlaugh vond. pallklædi vont. pottr stor oc vondur ketill. tuibytnv fat. stranda sæhir tueir storer. oc tunnu hlutr. [stor ker[3]) tuau i jordu oc annat fanýtt oc eitt vppi staudv kerall. lærar tueir. kist[u]r tuær med laumum oc ein lamalaus. hin fiorda læst. strokkr stor. sex trogh. sex uppgerdar keraulld. tihu diskar. oc tihu bord kerolld. sængur tuær slitnar med reykkiuvodvm vondum med brekan oc æbreisli. æklædi sæmilight metid allt saman firir xvij hvndrut. skal sira æsbiorn leggia til hid ætianda þarflight.

[1]) [«hier er utskafid, synest ad hafa stadid: Texti buin» (AM.); [2]) «hier vantar prestz nafnid, sem ovart hefur vered i skriftenne yfirhlauped, eda undan fellt». (AM.); [3]) [‹fyrste bokstafurenn hier synest ad vera skirt þ. annar er skirt o. enn eg giet ei annad hier ur giört enn stor ker. og platzed svarar þvi. þollker mun ecj vera ord» (AM.).

þetta luktizst j kuikfe. sex oc xx. kýr. oc ein gafz til hin s[i]avnda. þriv naut vetur gaumul. grad[un]gur tvævetur. xij [æsau]dar kugilldi. hrutr tuævetur. vij sauder [vet]ur gamler. viij. hundr[a]ds hross oc hid niunda er gafzst til.

---

397. [1392].

Vitnisburðr Einars Þrasa um landamerki Þrándarholts og Hæls í Flókadal.

Biskupsskjalasafn Nr. 1. Fol. á skinni frá c. 1392; á undan er Reykholtsmáldagi frá 1392 og 1394, en þetta er með sömu hendinni og máldaginn 1392. AM. Dipl. afskr. Nr. 2216 stafrétt afskript staðfest í Skálholti 20. Júlí 1711 af Árna Magnússyni og Þórði Þórðarsyni, og er þeirri afskript hér fylgt; AM. 275. Fol. bréfab. Brynjólfs biskups XIV, 383 (transskr. Haldórs prófasts Jónssonar, Odds Eyjólfssonar skólameistara, Torfa Jónssonar kirkjuprests Ólafs lokators Jónssonar, Snorra Sigurðssonar, Eileifs Sveinssonar og Teits Pétrssonar 8. Maí 1664 á Hæli í Flókadal).

[Landamerkia skra Hæls jardar j Flokadal effter gamallri skra skrifadri a messubok Reykholltz kyrkiu[1]).

Þessi sagde einar þrase lanndamerke j millvm þrandarholltz ok hælls.

kelldu dragh vr lavgha tiorn j geilsæ firir nedan lamba kro j nedanverdre hællls jordu er skvle af hæle hafde. oc vr lavgha tiorn j stein þann er stendr sudr j skoginvm oc æ varda oc vr steininvm j tangha þann er geingr framm j blafinzstada vatn oc yfer vatnit þvert j bliksteina þa er standa fyrer vtan ravda læk oc vr steinaunum þvert j ravda læk oc rædr lækor vpp j grendali ena efri oc nordr þadan j steina þa er standa æ savrveitra hollti er hann kallade klofasteina oc þat hyggia menn ath hris eighi allt firir svnnan grønahlid. suo ath hris eigi fyrer nordan þa kvisl er fellr næst savda tvngum oc framm j flokadals æ oc ath hris eighi allar þoreyiar tvnghvr.

---

[1]) [Bréfabók Brynjólfs biskup.

398. 13. December 1392. á Ökrum i Blönduhlið.

BJÖRN Brynjólfsson gerir jafnaðarskipti milli barna sinna Ólafs, Sigríðar og Málfríðar.

Frumbréfið á skinni í AM. Dipl. Isl. Fasc. V, 3; öll innsiglin eru dottin frá bréfinu. Þar við er fest vottorð þriggja presta frá 21. Febr. 1609, að þeir hafi séð transscriptum af þessu bréfi frá 1539, en transscriptum er hér nú ekki.

Akra jtak a Oxnadalsheidi[1]).

Þeim godum monnum sem þetta bref sia ædr hæÿra senda lÿtinghr hialltason. dadi brÿniolfsson. stæingrimur boduarsson. Einarr boduarsson. stulli þorgrimsson oc bærdur gudmundarson kuediu guds oc sina kunnickt gerandi ad þa er lidit war fra heghat burd kriz þushundrad þriu hundrad niutigher oc tuo ær Maghnus Messo dagh a jola faustu ad sydrum okrum j blonduhlid vorum ver j hia sam oc hæÿrdum æ ad biornn bryniolfsson handlagdi olafui syni sinum j iafnadar hlutskipti vid systur sinar sighridi oc mælfridi til fullrar æighnar jardir er suo hæita sydri akrar. ÿtri akrar. brecka oc fiordunghr j vika londum med þilikum rekum sem þeim part til hæÿra. sier hueria jordina vm siigh med ollum þeim gaughnum oc gædum sem saghdar jardir ættu oc haufdu ætt ad fornu oc nÿiu oc nefndur biorn vard fremst æigandhi ad. saghdi biorn sydri akra æigha skoghar part fram a ôxnadals hæidi. hris oc grafua giord vpp ad ræidgôtum fram ad kuskerpiss huammi oc ofuan at æmotum. jtem allan gellnæÿta rextur fram fra wodum oc til kalldbaksær æ oxnadalshæidi af græindum jordum. skilldi biornn æighnazst sialfuur allan avoxt af þessu godzi sem hann tældi halft annat hundrad hundrada þar til sem fÿrr næfndur olafur være af omagha alldri æn saghdur olafur hafua þar imot kost oc klædi oc kennzslu sæmiligha. jtem handlaghdi biornn siighridi dottur sinni til fullrar æighnar j sinn modur arf j fÿrstu alla þorleiksstadi j blonduhlid þar til x kugilldi oc x hundrud j voruuirdu godsi. jtem j iafnat vid þat godz sem hann hafdi adur ræiknat olafui sÿni

[1]) Aptan á bréfinu með hendi frá 17. öld; þar stendr og nokkuð um ártal bréfsins og transskriptarbréfsins frá 1539.

sinum jarder vaghla oc mosagrund firer fioratighi hundrada. bresta siighridi þar til fimtigir hundrada æn mælfridi niutigher. huar firer oft nefndar sÿstur sighridur oc mælfridur skolu taka þessar jardir æf biorn fædir þeira kann fyrr andazst en hann hefuer þeim afhent j odru godsi suo margha peningha sem adur er talt. er þat sydri dalur j blonduhlid. sÿndzsta grund. vellir j væll holmi. ræykir oc dadastadir. allar samt æfter mæti sex skÿnsamra manna. skilldi fimtiger hundrada j iafnat siighridar ecki fÿrr wtlukazt en biorn villdi. Oc til sannÿnda her vm settum vær fÿrr næfndir menn vor jnzsighli firer þetta bref giort j soghdum stad deghi oc æri sem fyrr seger.

---

399. 13. April 1393. á Grenjaðarstöðum.

Þrír menn transskribera úrskurðarbréf Jóns biskups skalla um laxaveiðina í Laxá frá 4. Sept. 1359.

AM. Dipl. afskrr. Nr. 118 «ex originali Greniadarstad. accuratissime».

Ollum monnum þeim sem þetta bref sea edr heyra senda hallr olafsson. biarni arnorsson. prestar. oc finnboghi jonsson. q[ucdiu]. g[uds]. oc sina kunnigkt gerandi ath wer sæm oc jferlasum opith bref wars virdulighs herra herra jons med guds nad biskups æ holum med hans heilu oc vskauddu hanghanda innsighli suo latanda ord epter ord sem her fylgher [Hér kemr úrskurðr Jóns biskups frá 4. Sept. 1359, Dipl. Isl. III, Nr. 99] Ok til sanninda her vm settum ver fyrr nefndir menn vær insigli firer þetta transskriptum gerth æ greniadarstodum j Reykiadal in crastino tiburtij et valeriani. anno domini ꝏ°. ccc°. lxxxx°. iij°.

---

400. 2. Mai 1393. á Holum.

Þorvaldr vasi Ögmundarson selr Haldóri presti Loptssyni alla hálfa jörðina í Kristnesi í Eyjafirði með tilgreindum ítökum og hálfkirkju skyld.

Frumbréfið á skinni í AM. Dipl. Isl. Fasc. V, 5; öll innsiglin eru dottin

frá, nema hvað brot er eptir af innsigli Þorsteins Bergssonar (Thors . . . .); AM. Dipl. afskr. Nr. 155 (eptir frumbréfinu).

Ollum monnum þeim sem þetta bref sea edr heyra senda þordr þordarson. ion magnusson. kari bergþorsson. prestar. þorsteinn bergsson. þorgeirr brandzson. ion bergþorsson leikmenn. Q[uediu] G[uds]. oc sina kunnigt gerande. at sub anno domini ꟿ⁰. ccc⁰. xc⁰. iij⁰. næsta dag firir inventionem sancte crucis heima æ holum j hialltadal. vorum vær i hia oc säm æ handaband sira halldors loptzsonar af einni halfu. en þorualds uasa ögmundarsonar af annari. at sua firer skilldo. at [ögmundr] sellde sira halldori til fullrar eignar alla halfa iörd i kristnesi j eyiafirdi med öllum þeim gögnum oc giædum sem iordvnni hafa fylgt at fornu oc nyv. oc hann vard fremzst eigandi at. reiknadi hann kristnes þessi itök eiga j annarra manna iardir. selför öllu bufe j kuigendisdal fram fra þremi oc tueimr selhofnum. torfskurd j aungulstada jörd arliga sem iordvnni þarfnazst. oc torfstödu æ hol ofan fra aungulstödum. husatorfs velltu ut vndir hola j hialmstada iörd. teiga firer handan æ. kirkiu teigr halfsmanadar uerk. kirkiu holmi fiogra daga slatta. skalarteigr viku slatta. er halfkirkiu skylld æ iordvni. oc lambseldi fra munkaþuera. æfvinlig omaga vist kvengilldum. skilde þorualldr af sier alla kirkiu fyrnd. Her jmot gaf sira halldor þorualldi xx. kugilldi þridiungarfe. kyr. æsaud oc gelldfe. hier til fimm hundrat j rossum at bokar lagi oc hundrat j hafnaruadum. skilldi þetta godz lukaz ut æ þrimr ærum. nema [sira] halldorr villdi fliotara. standa j iördu til leiguburdar þat sem eigi lykiz ut æ fyrsta æri. lukaz xij alner af hveriu hundradi. sua fridar sem innstædan stendr til. skilldi þorualldr æbyrgiaz allar lagariptingar æ iordunni. en sira halldor hallda til laga. frialsadi þorualldr ej sijdr sira halldori þann luta iardar. sem nefndr sira halldor hafdi adr heypt af ioni arnasyni. oc þorualldz mali hafdi a verit leggiandi hann nu af endaliga med handabandi vid sira halldor. Ok til sanninda hier um setium uær fyrnefndir menn var inzcigli firir þetta bref giort i sögdum stad degi oc äri sem fyrr segir.

---

401. 8. Mai 1393. á Miklabæ.

Þorsteinn lögmaðr Eyjólfsson úrskurðar verndarbréf það, er Magnús konungr Eiríksson gaf Ormi biskupi og Hólakirkju, stöðugt í öllum greinum.

AM. Dipl. Isl. Fasc. LXVII, 8, transskript frá 30. Júlí 1542 á skinni; AM. Dipl. afskr. Nr. 586 og Nr. 3697 (eptir transskr.). Prentað í F. Joh. Hist. Eccl. Isl. II, 222 og er þar árfært til 1401 og eins hjá Esp. (Árb. I, 122), en það er rangt (sbr. Safn I, 75).

Þeim godum monnum sem þetta bref sia edur heyra sennder þorsteinn Eÿiolfsson logmadr nordann oc westann æ Jslannde. kuediu gudz og sina. kvnnigt gerande. ad æ fiordaære rijkis vors virduligs herra. herra Eireks med gudz næd noregs suia rikes kongs. jn festo beate johannis bever[lac]-ensis episcopi. æ Mykla bæ j skaga firde æ almenniligre presta stefnu. Birti virduligr herra herra petur med Gudz næd biskup æ holum. mier bref heidurligs herra herra Magnusar med samre næd noregs suia rijkis kongs vnder hans hangande jnsigle huert hier er med fest þessv minv brefi. svo latanda. at hann hefdi tekit heilaga hola kirkiv. allt hennar godz oc varnad j konungligt traust. og sina uernd. so eigi sijdur krafde biskup-inn mic vrskurdar æ huort kirkian æ holum atti þessara næda niotande verda edur eigi. j þvi sialfu male sem þæ var kærtt til Jons geirssonar. Þvi j gudz nafni amen. sagda eg med þeirra bestu manna rædi. sem hia mier woru med fullum laga vr-skurde jon geirsson skulldugan vera at luka kirkiunne æ hol-um halfu aukinn rett sinn. firir þetta kongsens varnadar bref. Med slikum peninga wexti oc solum. sem sira jon magnusson hola kirkiu officialis hafdi adur dæmt einfalldan og kongs brefith stodugt oc obrigdiligt halldannda j ollum þeim greinum oc articulis sem hræra eigi[1], fasta eign heilagrar kirkiu vid huern mann sem at skipta er allt þar til sem rettur noregs konungr þat aptur kallar med sinu opnv brefe. Og til san-inda hier vm setta ek mitt jnsigle firir þetta Bref. skrifat j sogdum stæd oc ære deigi sijdar enn firr seigir.

---

[1]) e', skbr.; hvör er, Hist. Eccl.(!)

402. 8. Mai 1393. à Miklabæ.

Haldor bóndi Arngeirsson kaupir hálfa jörðina Marbæli af Þuríði Jónsdóttur.

Frumbréfið á skinni í AM. Dipl. Isl. Fasc. V, 7; innsigli séra Runólfs er fyrir bréfinu, þó klofið; hin tvö eru dottin frá.

[vmm marbæli j oslandzhliid[1]).

Ollum þeim monnum sem þetta bref sea edr heyra senda Runolfr prestr bergdorsson. þorualldr þorsteinsson. sôlui sôxolfsson oc þorkell þorolfsson quediu guds oc sina kunnigt gerandi ath þar voro ver i hia j stofunni a oslandi j skagafirdi ath halldor bonndi arngeirsson keÿpti at þuridi jonssdottur alla halfa jord marbæli ær fallit hafdi henni j helmingar kaup eptir skapta oddsson bonda sinn. oc ath auk þau sex hundrath er hun sagdi fallit hafa dætrum þremr j arf efter feþr sinn tuð hundrat huerri. gudrunu. biarteyiu. ynguilldi. oc hun hafdi til sin leyst. Reiknadi hun jord eiga gelldfiar Rekstr ollum gelldfenadi j deilldar dals afrétt oc sel lannd fiorþunginn i seliadal. skildi halldor ser alla vidu þa ær jordin atti oc hun vard eigandi at. Reiknadi hun iardar mork ofan ór fialli oc allt ofan j æ bædi firir vtan oc sunnan. selldi hon iorþina nefndum halldori med ollum þeim hlunnindum. gôgnum oc gædum sem iordinni hefdi fylgt at fornu oc nyiu oc hun vard fremzt eiganndi ath firir sik oc dætr sinar fÿR nefndar. her i mot gaf halldor nefndri þuridi þrettan kugilldi med þessum friþleika. fim kyr. fiogur asaudar kugilldi. fiogur gelldfiar kugilldi. utan hann leÿsti þa þegar eitt i kosti. fim hundrat j slatrum. fim hundrat j hafnar uadum. tuð hundrat uðru edr uðru virt oc eitt hross. lýka út a þrimr árum. á þui mest ær halldor uilldi mest. leiga xij alnum huert hundrat ær epter stendr nema af þeim ær hann lykti at hausti. þar skilldi engi leiga af falla. oc at iafnri grein eigi leiga hafnar vadir ef þat yrdi til firer jons messo baptiste. skilldi fyrr nefndr halldorr hallda jordu til laga en þuridr abyrgiaz laga riptingar a nefndri jordu. ok til sanninda her um settu uer fyR nefndir menn var

[1]) [Aptan á bréfinu með yngri hendi.

jnnsigle firer þetta bref gert a miklabæ j blaundo hlijd fimtadaghinn ær fiorar uikur æro af sumri. anno domini Millesimo trecentesimo nonogesimo tercio.

---

403. 12. Mai 1393. à Holum.

Erlingr Snorrason fær Pétri biskupi á Hólum jörðina Rovohól fyrir átta hundruð og þar með tvö kúgildi í sakeyri fyrir það, að hann tók tré, sem staðrinn á Hólum átti.

Frumbréfið á skinni í AM. Dipl. Isl. Fasc. V, 4; innsigli Erlings er heilt, en hin tvö skerð; handarlag og ritháttr þessa bréfs er norskr eða danskr og málið æði norsku (dönsku) skotið; getr verið að það sé með hendi einhvers af sveinum biskups.

[bref vm jordina roofua hool[1]).

Þat se ollom godom monnom kunnigt at ek Ellinghar snorrason kenist þes med þesso mino brefue at ek hefuer loket heidirlighom herra ok andalighom fadur herra petre med gudz ok postolighs sætes nadom biskupe a holom jord mina sem rouohooll heiter firer atta hundrat ok þar med tuau kugildi j þen sakar øyrer sem ek vard honom skylldughar firer tre þat sem ek tok at mik ok staden at holom atte. skall biskupen ok hans efter komandar þessa jord freialslegha eigha ok staden at holom till æuærdalegha eighnara vttan gardz ok innan. Ok till sannenda her vm setti ek mit jnssighli firer þetta bref er gort var a holom j hialtadall festum nerei ok achillei martirum anno domini M°. ccc° xc° iij°. ok till sanzs vittnes burd þa sette sira jon maghnusson ok sira þorder þordasson sem sagho ok hørdo þeirra handa band sin jnssighli med mino firir þetta bref er gort var j stad deighi´ are sem firr seghir.

---

404. 1. Oktober 1393. á Holum.

Pétr biskup Nikulásson staðfestir bréf Orms biskups frá 7.

[1]) Aptan á bréfinu með fornri hendi.

Okt. 1346, þar sem hann fær Þingeyraklaustri jarðirnar Hjaltabakka og að Klifum (Dipl. Isl. II, Nr. 519).

AM. Dipl. afskr. Nr. 445 «ex originali monasterii Thingeyrensis, accuratissime» (AM.); fyrir bréfinu var brot af innsigli Pétrs biskups, og lýsir Árni því. Prentað í F. Joh. Hist. Ecc. Isl. II, 219.

Vær broder petr med guds. oc postoligs sætis nad biskup a holum kunngerum þath godum monnum þetta bref seandum edr heyrondum ath wer styrkium oc stadfestum medr þessu wäru brefwi þetta bref heidrligs herra herra orms godrar minningar med samri nad biskups aa holum huert medr þessu varu brefi er bunndit halldande þat stadugt oc obrigdiligth j ollum sinum græinum oc articulis. fra vpphafi til enda. suo æij sidr bidium wer wara efterkomendr. hæilagrar hola kirkiu formenn. at þeir stoduga hallde þessa wara giord. Ok til sanninda her wm settum wer wart jnzcigle fur þetta bref skrifuat a holum jn festo beati Remigij confessoris. anno domini. m°. ccc°. xc°. iij°.

---

405. 19. November 1393. á Möðruvöllum.

Vitnisburðr Sveins prests Magnússonar ráðmanns á Möðruvöllum, að hann hafi tekið af Árna Einarssyni sjö hundruð vaðmala og þrjú hundruð í slátrum fyrir það tíu hundraða ílag, er staðrinn átti í jörðina Áslaksstaði í Kræklingahlíð.

Frumbréfið á skinni í AM. Dipl. Isl. Fasc. V, 6; innsiglið dottið frá. Sbr. Dipl. Isl. III, Nr. 416.

[bref um æslæks stadi j kræklyngahlyd[1]).

Egh sueinn prestr maghnusson radzmadr a mödruuollum kennizst med þessu minu brefui ath egh hefuer tekit stadarins wegna af arna einarssýni vij hundrat uadmala oc þriu hundrut j slatrum. skildu þessir peningar reiknaz firer þat tiu hundrada ilagh er stadrinn atte adr j jördu a aslaksstödhum i kræklingahlijd er nefndr arni atte. oc til sanynda her wm setti egh mitt inzcighli firer þetta bref gort a mödruuollum j hörgardal in profesto ethmundi regis anno domini m° ccc° xc° iij°.

[1]) Aptan á bréfinu með fornri hendi.

406. 31. December 1393. i Hítardal.

Kaupbréf þeirra séra Hallsteins Jónssonar og Snorra Brandssonar, að Snorri selr séra Hallsteini jörðina Hrafnabjörg í Hörðudal með tilgreindum landamerkjum og alla jörð að Laugum fyrir sextigi og sex hundraða í lausafé.

Tímarit Jóns Pétrssonar III, 1871, bls. 102—103, en það er því miðr ekki hægt að sjá eptir hverju hann hefir prentað, en fyrir oss hefir eigi orðið afskript af þessu bréfi. Eptir hverju sem Jón Pétrsson hefir prentað, þá er auðséð að hann hefir ekki fylgt nákvæmlega stafsetning þess handrits, sem hann hefir haft fyrir sér, nema því að eins að það hafi verið nýleg afskript, þar sem stafsetning hafi verið vikið dálítið við; sér í lagi tekr þetta þó til ô-anna, sem eflaust hafa ekki staðið, nema á þann hátt er eg nú taldi; er hér því alveg vikið frá þeim.

Jn Nomine Domini Amen.

Var þetta kaup þeirra sira Hallsteins Jonssonar af annari halfu. en Snorra Brandssonar af annare. ad adur nefndur Snorri selur honum land allt ad Hrafnabiörgum j Hördudal med öllum þeim gögnum og gædum. sem fylgt hefir ad fornu og nyu og hann vard fremst eigandi ad til vmmerkia þeirra sem adrir menn eigu til mots vid þad. land allt ofan ad markgröf og hana halfua og upp ad kornamuulagili. sambeit a hals til motz vid middalamenn. en land so sem vatnsfoll deila. Laugardal allan badum meiginn upp j botn og ofan til motz vid Lauga. fyrir nordan ofan ad Einhömrum. allt holfiall ofan ad Skialldargili og upp til motz vid Lauga. Miouadal allan so sem vatnsföll deila vr tiorninne midre til motz vid hitdæla badum megin ofan i sópandaskard. Tuttugugelldfiar kugilldabeit i Langavatnzdal. Hrij[s]skog til stecka a vor j Dunkurskog. og trodhrijs til hwsa og undir mat a baust sem þarf. Bænhus a skog allan i pálshollt. Hier med selur hann honum Lauga iörd alla med sijnum vmmerkium. Hrafnabiörg eigu torfskurd i kollugröf i hols land.

Hier i moti gefur sira Hallsteinn sextiu hundrada og sex hundrud med þessum fridleika. halfan þridia tug kugillda. þrettan asaudar kugilldi og tolf kyr. Fimtan haustlags hundrud. halft i saudfie. en halft atta hundrad i nautfie. Tiu hundrud vadmala. halft vara. en halft hvitar hafnarvodir.

þrettan hundrud i gripum. þriu hundrud i hrossum. lukist ut a tveim arum. en eigi sokn a þridia. lukist ut a fyrra ari atta asaudar kugilldi og v. kyr. tiu hundrud vadmala. siau haustlags hundrut. þrettan hundrut i gripum. þriu hundrut i hrossum. A ôdru ari þad sem eptir stendur. Skilldi Snorri sier so mikid fe aptur i iardir sinar. sem honum brysti [i ardinn[1]). Tolf alna leiga skyllldi eptir huert hundrad þad. er eigi lykist a firsta ari sem i landi liggi. halft fridt en halft ofridt. Skylldi snorri alla iôrdina ad hrafnabiôrgum og bænhusit i abyrgd sijra Hallsteins upp fra næstum fardôgum. Skylldi snorri abyrgiast allar lagariptingar a greindum iôrdum. en syra Hallsteinn halda til laga. Skylldi optnefndur Snorri. ad syra Hallsteinn skylldi kaupa at honum Geitastecka ad ôdrum fardôgum. ef hann villde selia fyrir sextan hundrat. vj. kugilldi. x. hundrud i haustlag [i] og vadmalum. En Snorri skylldi selia ôdrum fyrir næstu fardaga. ef hann villdi. og skylldi [sira] Hallsteinn lúka þad vt a þridia ári. en eigi sokn a fiorda.

For þetta kaup fram i hytardal pridie kalendas Januarij Anno Domini m. ccc. xc. iij.

voru þesser vottar vid. syra Hrafnsvartur Skeggiason. Eyolfur Snorrason. Albeidur flosadottir. Gestur Jonsson. Snorre þorarenson og margir adrir godir menn.

Og til sanninda hier vm settum vier fyrnefndir menn vor innsigli fyrir þetta bref med optnefndra manna innsiglum syra Hallsteins og Snorra. Giôrt i stad deigi og ári sem fyr segir.

---

407. 1393—94. á Innra-Hólmi.

Ágrip Árna Magnússonar af afsalsbréfi Þórðar Flosasonar fyrir Skjaldarbjarnarvík til Bjarnar Einarssonar Jórsalafara, en frumbréfið brann 1728.

AM. dipl. afskrr. Nr. 5821 með hendi Jóns Ólafssonar frá Grunnavík, en Árni Magnússon hefir lesið honum þetta fyrir, líklega árið 1729, því að Hafnarbrenna varð í Október 1728, en Árni dó

---

[1]) [i iardinn, hefir staðið í handritinu, en Jón Pétrsson getr þess til að það muni eiga að vera svona.

í Janúar 1730. Það er einginn efi á því, að það er Björn Jórsalafari. sem hér er nefndr, því hann var, eins og sézt af bréfum hér á undan, í óða önn að leggja undir sig jarðir þar vestra um þetta leyti og byrjaði á því að kaupa Vatnsfjörð um haustið 1387, þegar hann kom frá Grænlandi (Dipl. Isl. III, Nr. 344).

Anno 1393—94 eda um þau ar selur Þordur Flosason Birni Einarssyne (puto Jorsalafara) Skialldabiarnarvik, og segist þä jord erft hafa epter son sinn Skula. Enn honum hafe gefed virduligur Herra Magnus (eda Hakon; eg man ei hvert var) Noregs konungur. Brefed er skrifad ad innra Holme (ä akranese).

Originalenn sende mier til eignar frä Jslande Syslumadurenn Ormur Dadason, enn hann brann hiä mier 1728 in Octobri.

Af þessu brefe er ad læra ad fader Odds Lepps lögmanns og Skúla, Þordarsona, var Flosason, og synest lijkast, ad hann hafe sunnlendskur vered, kannske bued ä innra holme. Mig minner ad skömmu fyrer þetta finnest Flose prestur officialis Skalholtensis, hvad ef so er þä giæte hann vered fader Þordar. Enn þetta er ecke nema gäta, þvi margur kynne Flose vered hafa um þä tijd. Enn vijst er þad, ad af betra slags folke hefir þesse Þordur Flosason vered.

---

Það er töluverð eptirsjón í því að þetta bréf skuli vera glatað. Eg hef gert mikla gangskör að því að finna afskript af því, en mér hefir ekki tekizt það, svo að Árni hefir líklega ekki verið búinn að láta afskrifa það þegar það brann, ellegar þá að afskriptin hefir brunnið með frumritinu. Í bréfabókum frá Íslandi hef eg ekki heldr getað fundið neina afskript af því, svo að bréfasafnarar á 17. öld hafa líklega aldrei afskrifað það og ef til vill ekki þekt það, svo að ætla má að eingin afskript hafi verið gerð af frumbréfinu áðr en það fór frá Íslandi. En ágrip þetta er þó mikil bót í máli, því að Árni Magnússon hefir einmitt tekið eptir því, sem hefir verið einkennilegast við bréfið, en það er, að það er lykill að ætt Odds lepps, hvernig hún verði rakin upp til fornaldarinnar, og er auðséð af ættartölubókum, að ættfræðingar á 17. öld hafa ekki þekt bréfið, því að þeir rekja ættina allir rangt, og svo hefir verið gert fram yfir miðja 19. öld, þangað til Jón Sigurðsson ritaði um Odd lepp í Lögsögumannatali í Safni II, 79—80, og hefir hann eflaust bygt á þessu bréfságripi, þó að hann láti þess ógetið, að Oddr hafi verið sonr Þórðar Flosasonar. Getgáta Árna Magnússonar, að faðir Þórðar hafi verið Flosi Jónsson prófastr og officialis (á Stað á Ölduhrygg) er með öllu rétt og

sýnir það bréf frá hér um bil 1350 um Keflavíkrreka (Dipl. Isl. II Nr. 526). Þórðr hefir verið orðinn fulltíða um 1350, því að þá selr hann Helgafellsklaustri Héðaralón (Dipl. Isl. II, Nr. 530). Nú hefir Jón Pétrsson háyfirdómari ættfært séra Flosa (Sýslum. II, 4—5), að minni ætlan með öllu rétt, og telr hann son Jóns Erlendssonar á Ferjubakka, sem hafi verið sonr Erlends sterka og bróðir Hauks, og að séra Flosi sé sá piltr sonr Jóns, er getr um í Þorláks sögu helga (Bps. I, 381), en Jóns Erlendssonar getr i annálum við ár 1310. Kona Erlends var Járngerðr Þórðardóttir, Böðvarssvnar í Bæ af Mýramanna kyni; má það og virðast auðsætt, að Þórðr Flosason hafi átt óðul um kring Borgarfjörð, því í máldaga Gyrðs biskups fyrir Álptaneskirkju á Mýrum frá c. 1354 er þess getið, að Þórðr Flosason hafi búið þar (Dipl. Isl. III, Nr. 50) en í Vilchinsmáldaga (1397) er hans getið í Görðum á Akranesi (sbr. Dipl. Isl. III, bls. 87 nóta 2), og mun hann öllu heldr hafa búið þar en á Innra hólmi. Garðar voru gömul eign í Mýramannaætt og bjó þar leingi Þorleifr bróðir Böðvars í Bæ. Gjafabréf Magnúsar konungs frá 21. Aug. 1374 fyrir Skjaldarbjarnarvík og fleiri eignum til Skúla sonar Þórðar er prentað hér áðr í þessu bindi (Nr. 234) og sömuleiðis staðfestingarbréf Hákonar konungs þar upp á frá 13. Marts 1375, en Skúli drukknaði sama ár. Séra Flosi hefir orðið gamall maðr og er hann enn á lífi 17. Júní 1368 (Dipl. Isl. III, Nr. 198), en hann hefir án efa dáið litlu síðar, og er ártið hans eptir fornri ártíðaskrá 10. Nóv. Þórðr Flosason hefir og verið gamall maðr þegar hér er komið og hafa sumir menn orðið langlífir í þeirri ætt, því Oddr leppr lifði enn 1440 og hefir þá verið fjörgamall. Bróðir Þórðar hefir verið Vigfús Flosason í Krossholti, en systir þeirra hefir verið Álfheiðr, er Eyjólfr Snorrason átti, og seldu þau Helgafellsklaustri 1386 Miðgarða í Staðarsveit (Dipl. Isl. III, Nr. 320). Þau eru enn á lífi 1393 (sjá Nr. 406). Auk Skúla og Odds átti Þórðr son, sem Erlendr hét; hans getr í bréfi 1449. Hann mun og hafa átt son, sem Flosi hét, og mun það vera sá Flosi Þórðarson, sem kemr við bréf 12. Maí 1417, og er þá dáinn. Ásbjörn Þórðarson, er bjó í Görðum á Akranesi 1436, mun og hafa verið sonr Þórðar Flosasonar. Eg hef áðr sýnt fram á það, að Kristín Oddsdóttir fylgikona Lopts ríka hefir verið dóttir Odds lepps (Digtningen på Isl. i det 15. og 16. årh, Kh. 1888 bls. 241—42), og eru af henni og Guðna bróður hennar komnar miklar ættir. Þessi tafla sýnir ljóslegar ættina um þessar mundir, rakta frá Mýramönnum:

Kveldúlfr.
|
Skallagrímr.
|
Egill Skallagrímsson.
|
Þorsteinn Egilsson.
|

Rifla Þorsteinsson.
|
Skúli Riflnson.
|
Þórðr Skúlason.
|
Böðvar Þórðarson (d. 1187). Guðný móðir Sturlnsona,
| d. 1222.
Þórðr prestr Böðvarsson.
|
Böðvar Þórðarson í Bæ. Þorleifr í Görðnm. Mela-
d. 1264. d. 1257. Snorri.
|
Þórðr Böðvarsson.
|
Járngerðr Þórðardóttir á lífi eptir 1312 ∽ Erlendr
| sterki, d 1312.
Jón Erlendsson á Ferjubakka Valgerðr á lífi eptir
á lífi 1310. 1312.
|
Flosi Jónsson prófastr á Staðastað á lífi 17. Júní 1368.
|
Vigfús í Krossholti, Þórðr Flosason á lífi Alfheiðr Flosadóttir á lífi 1393
hefir átt dóttur herra 1397. ∽ Eyjólfr Snorrason.
Ketils Þorlákssonar. |
| Skúli Oddr leppr, Flosi. Asbjörn. Erlendr.
Narfi Vigfússon d. 1375. á lífi 1440.
| |
Erlendr á Ketill prestr Guðni Oddsson á Hóli Kristín frilla Lopts ríka (d.
lífi 1458. á lífi 1440. í Bolungarvík dó úr 1432) (fjórir synir og fjöl-
| bólnnni 11. Dec. 1431 ment afkvæmi).
Erlendr Erlendsson. ∽ Þorbjörg Gnðmunds-
| dóttir dó og úr bólunni
Þorvarðr. Vigfús. Jón. 3. Dec. 1431.
Hólmfríðr. (fjölment afkvæmi).

Flosi Þórðarson, sem eg hefi eptir ágizkan tekið hér npp í töfluna, kemr fyrir í bréfi frá 12. Maí 1417, eins og eg gat fyrr, og er þess þar getið, að þeim systrnm Ragnhildi Pálsdóttur og Ingibjörgu Pálsdóttur hafi fallið bæði fasteignir og lausafé í arf eptir Flosa; er því annaðhvort að hann hefir verið skyldr þeim eða arfleitt þær, ellegar hvorttveggja og gæti eg ætlað að hið síðasta hafi einmitt átt sér stað. Menn hafa alment ætlað, að Jón Pálsson Maríuskáld hafi verið bróðir þeirra systra og þau öll börn Páls Þorvarðssonar á Eiðnm, en því hefir Jón Pètrsson viljað hnekkja (Sýslum. I, 20) af því að þá hefði sumar þær teingdir, er urðu

meðal niðja séra Jóns og Ingibjargar, verið með þriðja og fjórða liðs meinbugum, en eptir heilagrar kirkju lögum (Jus canonicum) var fjórði liðr og allir nærskyldari liðir forboðnir. Er líklegt að klerkavaldið hafi optast gætt þessa, þótt út af hafi getað brugðið. Menn hafa enn fremr ætlað, að Páll á Eiðum hafi verið dóttursson eða sonarson Þórarins eða Odds, Þorvarðssona, Þórarinssonar. Eg ætla að hvorugt sé rétt, en dóttursonarson annarshvors þeirra kynni hann að vera. Eg ætla að Þorvarðr faðir hans hafi verið Pálsson og sé sá, sem nefndr er í bréfinu um Sleðbrjótssand frá 1376 (Dipl. Isl. III, Nr. 253) og er þá dáinn. Í fornri ártíðaskrá frá Vallanesi (AM. 249. Fol.) er þess getið, að Þorvarðr Pálsson hafi andazt 3. Márts og mun það án efa vera hann. Hans er og getið í Vallanesmáldaga hjá Vilchni. Hann hefir hlotið að vera af góðri ætt. Nú vill svo til, að séra Jón Pálsson nefnir í bréfi einu góðu frá 5. Júní 1439 Erlend Narfason í Teigi »frænda sinn«, en því verðr nú einungis komið heim á einn hátt — margir liðir í ættinni eru að vísu ókunnir, svo að eingin vissa er fyrir að sú rakning sé einhlít — og yrði það með því móti, að Þorvarðr á Eiðum hefði verið bróðir Teits Pálssonar og þeir báðir synir Páls Hankssonar. Þorvarðr hefir átt Ragnhildi dóttur Karls Arnórssonar á Eiðum, og dó hún 21. Sept. (Vallanesártíðaskrá). Ættartala sú yrði þannig:

Erlendr sterki.
|
Jón Erlendsson Haukr Erlendsson. Arnórr.
| | |
Flosi Jónsson. Páll Hauksson. Karl Arnórsson. Markús Arnórsson.
| | |
Vigfús Flosason. Þorvarðr Pálsson ∽ Ragnhildr Karlsdóttir.
| |
Narfi Vigfússon. Páll Þorvarðsson.
| |
Erlendr Narfason. Jón Pálsson.

Væri þeir Erlendr og Jón þá óskakkir fimmenningar. Þess má geta, að svo lítr út sem séra Jón hafi átt eignir milli Markarfljóts og Þjórsár. Eptir þessu, ef það væri rétt, hefðu þær þá og verið fimmenningar Kristín frilla Lopts ríka og Ingibjörg kona hans.

---

## 408. 11. Januar 1394. á Reynistað.

PRÓFENTUSAMNINGR Loðins Skeggjasonar og frú Ingibjargar abbadísar á Reynistað, þar sem Loðinn leggr á borð með sér, meðal annars, jörðina Heiði í Gaunguskörðum.

AM. dipl. afskrr. Nr. 5670 «ex originali» með hendi Jóns Magnússonar bróður Arna; þar með er staðfestingarbréf Pétrs Hólabiskups frá sama ári: »Brefenn bæde eru ā kalfskinn, og fyrir þvi fyrra ecke epter, nema tvo jnsigle brotenn, eirn laus þveingur, og nockur þveingiafór. Fyrer þvi sijdara. eitt jnsigle broted og olesande, og er med þess þveing, þad fest vid hitt, fleyre hafa ecke vered þar fyrer». AM. Fasc. V, 10 transskript af bréfinu á skinni frá 3. og 4. April 1609. Bréfið er hér prentað eptir afskript Jóns Magnússonar, því að hún er stafrétt eptir frumbréfinu, en rithάttr transskriptarbréfsins frá 1609 er blandaðr stafsetning þeirri, er þá tíðkaðist; annars er transskriptið gott og mikilsvert, ef ekki væri annað betra til.

Bref vmm heide oc selfôr a Breidstade fra vijk 1394[1]).

Øllum monnum þeim sem þetta bref sea edr heyra senda arnorr jonson. þordr eyiolfsson prestar. biörn bryniolfsson. sturli þorgrimsson. jon þorolfsson. Gudmundr einarsson oc leifr einarsson leikmenn kuediu guds oc sina. kunnigt gerandi. at þa er lidit var fra hegat burd vars herra iehsu christi þusund þriu hundrat niutigir oc fiogor ær sunnudag næsta eptir þrettannda dag iola at stad j reynisnesi vorum vær i hia sæm oc heyrdum a at sua fellt kaup stadfestiz medr handabandi medr fru Jngibiorgu abbadisi oc lodni skeggiasyni at hon tok hann medr godra manna radi oc samþýcki allra sinna conventusýstra til æfinligrar profentu a stadinn i reynisnesi medr sua felldu. at sagdr lodinn gaf j profentu med ser. jordina a heidi j skôrdum til fullrar eignar firir halfan fiorda tug hundrada til þeirra vmmerkia sem þar eigu adrir menn rettliga j moti.

Reiknadi hann itolu j jordina. sua fellda. at benedikt brýniolfsson ætti beit oc selfaur vm tua manadi a sumar árliga vpp fra frafærslu hundradi asaudar. þrimr kuum oc þrimr hrossum. selgiörd oc selstodu a breidstodum. oc þessum fenadi beit og halld firir vestan a. en eigi firir austan nema firir vtan lambá. oc þar medr attfedmings torfskurd oc þar til hrisrif sem þi bui nægir. skolu þeir sem a heidi bua eiga afgang elldividar huert haust.

Jtem sagdi hann bænhus skylld a jordunni. skiliandi af ser alla fyrnd a þui oc þui ollu sem þat ætti vtan sik oc innan.

Greindi hann þessi landamerki.

j fýrstu vid skardz iord. at redi almenningsgotur. vt

[1]) transskr. 1609.

fra lambæ at hestgili. oc þar ofan j æ. En firir vestan æ redi leysingslækr sem fellr firir sunnan langdæla æ. oc sua vestr til motz vid merkigil.

her til gaf hann fim kugilldi.

Skilldi nefndr lodinn ecki a koma profentuna vm næstu sex ær nema stadfesta sik þriar nætr til vistar oc ero þa stadarins eign peningarnir vpp fra þui eptir lofligum vana. en taka vt árliga firir bord sitt oc klædnat ku oc asaudar kugilldi oc hundrat i vadmalum. en at þessum sex arum lidnum radi lodinn huart hann vill setiaz a profentuna edr taka vt vidrlikt a huerio ari. en þa er hann kemr a profentuna skilr hann ser bord sem rádsmadr edr beztu menn j bæ. oc tuituga vad til klæda ser halft huart suarta oc huita. oc tuær alner lerept árliga. þionostu hreinliga oc hirdzluhus vt af skala þat sem vtan ero dyrr á. oc hallda þui sidan a sinn kostnat. oc fa ser sialfr sæng. en stadrinn halldi oc eignizt eptir hann. kiðri lodinn ser leg frammi firir kirkiodyrum at stad huar sem hann andadiz.

oc til sannenda her vm settum vær fÿrnefndir menn medr capitula innzsigli vár innzsigli firir þetta bref giört i sǫgdvm stad degi oc ari sem fyrr segir.

---

## 409. 13. Januar 1394. á Holum.

Pétr Nikulásson biskup á Hólum samþykkir prófentusamning frú Ingibjargar abbadísar á Reynistað og Loðins Skeggjasonar frá 11. Jan. 1394 (Nr. 408).

AM. dipl. afskrr. Nr. 5670, stafrétt afskript með hendi Jóns Magnússonar bróður Arna «ex originali», sem var á kálfskinni.

Uær broder petr med guds ok postoligs sætis næd biskup æ holum kunngerum þat godum monnum þetta bref seandum edr heyrandum ath saker þess ath þat kaup sem jnghibiorg medt[1]) guds næd abbadis ath stad j Reynisnesi hefuer gert medr sinna conventu sÿstra samdÿcki widr lodinn skeggiason vm

[1]) þannig.

hans æfinligha prouendtu til stadarins j Reyninesi litz oss oc audrum godum monnum j alla stadi wel radligt oc greindu klaustri vskadligt wera. þij samdyckiom wer oc stadfestum medr þessu waro brefui þat sama prouendtu kaup medr aullum sinum greinum oc articulis eptir þij sem hier stendr skrifuat j þij brefui sem hier er medr fest þesso waro brefui. ath þat vbrigdiligha halldizt enn þij helldr oc lǫghligar sem wer hǫfuom þetta samdyckt oc stadfestu bref þar til gefuit. Ok til sannenda hier vm settum wer wart inzsighli firir þetta bref skrifuat a holum in proxima die ante octauam epiphanie domini anno domini. ᴍ⁰. ccc⁰. xc⁰. iiij⁰.

haulldum wer þetta bref ecki staudugt utan þat bænhus halldizt vfordiarfat framleidis af klaustrino ath stad eftir þij sem byriar ath laughum[1]).

---

## 410. 15. Januar 1394. á Þingeyrum.

Prófentusamningr Jóns Eyjólfssonar og Helgu Loðinsdóttur húsfreyju hans við Sveinbjörn ábóta og klaustrið á Þingeyrum.

AM. dipl. afskrr. Nr. 459; samfast við kvittan Sveinbjarnar ábóti frá 6. Júlí 1394 (Nr. 415), og segir Arni um þau bréf bæði: «Epter tveimur samfǫstum original-brefum sem fylgia þingeyraklaustri». Árni lýsir stafagerð frumbréfsins og dregr upp innsigli Úlfs Stefánssonar. Afskript af bréfinu er og í AM. 280. 4to bls. 175—77.

Profentu bref vm saudadalsa[2]).

Jn dei nomine amen.

giordizst sua fellt profuentukaup a millum herra sweinbiarnar abota ath þingeyrum med vitand ok samþýkt þers sama klaustrs conuentubrædra af æinni halfu. en af annarri jons eyiulfssonar ok helgu lodinsdottur bustrv hans sem her greiner. j fyrstu at nefnd hion jon ok helga gefua med ser til þingeyra til efuinligrar vistar jarder tuær a uatznesi hueriar

---

[1]) Þessi klausa stendr aptan við bréfið og er henni ekki vísað inn; [2]) aptan á bréfinu með fornri hendi. Þar stóð og: landamerkia bref, en það á ekki hér við; á ef til vill við Þingeyrabréfið frá 1428.

sua hæita saudadalsa oc þremr. medr ollum þeim gôgnum ok giædum sem þau wrdo fremzst æigande ath at jskilldum ollum reka huala ok vida ok þij fleira sem logbok skyrer at sa madr a sem hann kauper reka af lande mannz. sagde jon vera bænhus skÿlld a saudadalsa skiliande af ser alla fyrnd a bænhusinu. her ofan a tiu kugillde edr kugillda virt goðz allt samt firer fimtigi hunðraða. skillde jon starfua reinligan starfua medan hann veri til færr. ganga firir stadar buum: geyma reidingh stadarins. wera ath þurrum heyium eðr hafua annan vidrlikan starfua vetr ok sumar. en helga skillðe vera radskona a stadnum edr stadar buum ef aboti villde sua skipa. medan hun wæri til fær. skilldu þau wera jafnan bædi saman a uetrvm ok taka til klæda ser arliga af stadnum tuituga vad huart þeirra huitt ok suart ok þar til sex alner lerept bædi saman. skilldu þau ser sæmiligt borð af stadnum efter þij sem adrer profuentumenn hefðe ok koma bædi a profuentuna a næstum fardogum. skillde ok stadrinn eiga halft godzit efter handabandit. en allt þa er þau kiæmi a profuentuna. voru þessir kaupa vattar þordr þordarson. æinar þoruardzson ok solui brandzsson prestar. vlfr stephansson ok þorgerr bauduarsson leikmenn huerir til sannenða her um settu sin jnzcigle med jnzciglum herra sueinbiarnar abota ok conuentubrædra firer þetta bref skrifuat at þingeyrum jn festo beati mauri abbatis. anno domini ᴍ° ccc°. xc°. iiij°.

---

## 411. 16. Marts 1394. í Vík í Sæmundarhlíð.

Sumarliði Þorsteinsson kvittar Benedikt Brynjólfsson fyrir verði jarðarinnar Sauðár.

Frumbréfið á skinni AM. Dipl. Isl. Fasc. V, 8; innsigli Guðmundar Einarssonar er fyrir bréfinu; hin eru dottin frá. Afskript frá 17. öld er í AM. 280. 4to bls. 62.

[kuittunarbref benidicz bryniolfssyni vm saudæ[1]).

Ollum monnum þeim sem þetta bref sea edr heyra senda jon geirsson. þorfinnr einarsson oc Gudmundr einarsson. q[uediu]

---

[1]) [Aptan á bréfinu.

guds oc sina. kunnigt gerandi at vær vorum j hia j glaumbæ j skagafirdi at sumarlidi þorsteinsson giordi Benedikt bryniolfsson medr handabandi alþingiskuittan vm allt saudárverd at luktum fiorum kugilldum sira einari olafssyni oc fim kugilldum joni geirssyni. Ok til sannenda her vm settum ver fyrnefnder menn var innzsigli firir þetta bref giort j vik i sæmvndarhlid a iafnleingdardag hins goda gudmundar hola biskups þa er lidit var fra hegat burd vars herra iehsu christi þusund þriu hundruth niutiger oc fiogur ær.

---

## 412. 24. April 1394. á Holtastöðum.

Þórðr Þórðarson prestr á Höskuldsstöðum handsalar Valdísi Helgadóttur ráðskonu sinni ey þá, sem liggr fyrir Syðri- og Ytri-eyjar landi á Skagaströnd til fullrar eignar.

Hér er prentað eptir eptirriti séra Eggerts Briems á Höskuldsstöðum gerðu 10. Janúar 1888 af kopíu á skinni frá 1709, sem nú er í eigu Árna hreppstjóra Jónssonar á Þverá í Hallárdal: «[Riett copierat] epter sinum orginal. sem var á pergament ritadur og nu madur og rotenn. þo med somu jnnciglum(!) upps[ett. til vitnes underskrifud nöfn ad Geir]raudar Eyre vid Alftafiord þann 7. Maj 1709. Eggert Gudmundsson. Joon Grijmsson». Til samanburðar hefir séra Eggert haft afskript frá lokum 18. aldar: «Þetta bref er öldungis samhlioda sinum original sem er a pergamente med 3ur hangandi inciglum. vitnar Biörn Oddsson. Asgrijmur Jonsson». Valdís Helgadóttir gaf Ytriey Þingeyraklaustri 28. Júlí 1403 (AM. Fasc. VII, 13). Sbr. bréf frá 13. Nóv. 1401.

Þat giörum ver finnboge jörvnd[ar]son. Marteinn alfzson oc jsleifr sölvason godvm monnvm kvnnvgt med þessv vorv opnv brefe ath ærvm eptir gudz bvrd M°. ccc°. xc°. qvarto favstvdagenn j pæskavikv. vorum ver j hiæ. sævm oc heyrdvm. ath sira þordr þordarson prestr æ havskvlldstödum æ skagaströnd. lavk oc handsalade til fvllrar eignar a fyrrgreindvm stad þa litlv ey. er liggr j sionvm [firir] framan jardernar sydre oc ytre eÿ æ skagaströnd sinne ræd[e]konv valdise helgadottur. med ollvm eyarinnar kringvm liggiande oc med fylgiande gagnsemdvm, firir tiv kvgillda afgipt af tedrar valdisar eigindoms javrd sydre ey. hveria sira þordur kennest j vavrdslvm haft hafa næstliden sex

ær. Oc til sannend[a] her vm settvm ver fyrgreindir menn vor jncigle fyrer þetta bref [giort i] sama stad oc dag sem fyrr segir.

---

413. 26. Mai 1394. [i Reykholti].

Skrá yfir fjármuni Reykholtskirkju, þá er séra Ólafr Kolbeinsson afhenti, en séra Gunnar Gilsson tók við.

Bisknpsskjalasafn Nr. 1. Fol., samtíða skinnblöð; eru með norsku handarlagi; AM. dipl. afskrr. Nr. 2218, eptir nefndri skinnskrá «Ex menbrana coæva et authentica Templi Reykholtensis accuratissime etiam qvod ad mendas» (AM.). Hér er fylgt afskript Árna.

Anno domini ꝏ°. ccc°. xc°. quarto midvikudaghin j fardoghum afhendi sira olafur kolbeinsson suo mikit gozt kirkiuni j Reykiahollte enn gunnar prestr gilsson tok med.

Jn primis jnnan kirkiu. iiij. sloppa fanyta. ij pellzt kapur sæmilighar oc ein balldrkins kapa. iiij. kapu slitti. v. antependia oc aoll slitin. eitt brikar klædi fanytt. ij altaraklædi med enskan lit er sira ari lagdi til. iiij messu klædi sæmiligh oc þo slitin. v avnnur miôg slitin. oc brestr j einum þessum stola oc handlin. vj corporalia j husum. xij altara dvkar vigder oc a þessum einum slitin brun. at auk sprangadr dvkur. oc lektara dukr slitin. oc lerepzt dukr yfuer peturs altari. ij. hôklar lauser bader whæfuer. iiij. kalekar oc ij. af þeim lester. enn eirn j tueim hlutum. viij. kertistik[u]r med kopar oc ein lest enn. ij fænytar. vigzt vaz ketil. sacrarium munnlaug lest. glodar ker. elldbera brot. messufata kista wlæst. iiij. klokk[u]r oc er af þeim ij. beingur[1]) fornar. oc hiñ. iiij. brotin. ij. bioll[u]r. skrin. [texti buin[2]). kros[s] med vnderstodum. krossar iij smellter. hunzlker[s] brot med silfuer. solar steirn. iij paxspiolld. fontur med umbuningi oc katli. marie skript. peturs likneski oc barbare oc dukar yfuer. oc fyrer þeim. iij. kertistik[u]r med iarn.

---

[1]) «beingur er hier skirt. mun hafa vered kluckunafn. um likabaung, stora klucku i Skalhollte, sem vered hafe þar fordum er tradition, hversu längt heyrst hafi» (AM.); [2]) [útskafið; Árni segir þetta sýnist eigi að standa þar.

graduale. gudspiallabok. capitularius. ordo. de sanctis bækr a sumarit at ottusaungum. allar secundum ordinem. epistolarius. collectarius. gradall. ymnarius. lesbækr per anni circulum de sanctis et de tempore allar eigi eptir ordu. xx bækr fanytar eigi epter ordu.

Jtem lectarar. ij. merki. ij. oc anna[t] fanytt. læstur glergluggur. baxtur iarn. ampli med tin. lika kross med ʀodu. lika krakr. alltaris steirn.

Þetta j melfé. iiij. ʀeflar fimmtigber alna oc ij. alnar varmælltar. kistu fyrer barbare oc stor stigbi. ij. bord atta alnar oc xx. oc eirn bordskutil oc pallbord bit iiij. munnlaugar brot. pallklædis slitti. pottur oc ketill huortueggia fornt. tuibytnu fat. ij stranda sæir er annar vondur oc tunnu blutur. ij. ker j jordu oc annat wnytt. vppistodu kerálld. larar ij oc annar fanytur. fiorar kistur oc eru af þeim iij fãnytar. strockr. sex trog oc oll vond. sex vppgerdar kerolld vond. x. diskar oc x skaler oc flest af þessw ʀifit. [sængur klædi[1]) ij. oc æklædi sæmilikt. metit allt saman fyrer halft. xvja hundrath. skal sira Olafur her til [leg]gia h[alft] iij hundrat.

Þetta luktiz j kuikfé viij. [oc] xx. kyr. iij naut ueturgomul. gradungur. ij vetur. xij æsaudar kugilldi. hrutur. ij vetur. xij sauder vetur gamler. ix hross.

---

414. 26. Mai 1394. á Bægisá.
13. Januar 1396. á Möðruvllum.

Jón Þorbjarnarson selr Böðvari subdjákn Ögmundarsyni jörðina Hallfríðarstaði í Hörgárdal með tilteknum ítökum og landamerkjum fyrir lausafé.

Dipl. Frumbréfið í AM. Dipl. Isl. V, 11, á skinni; innsiglalaust; afskr. AM. Nr. 156 (eptir frumbr.).

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia edr heyra senda gudmundur jonsson. bergþor jonsson. prestar. brandr ormsson.

---

[1]) »hier er skriften afnuen. biled svarar þvi, sem staded kynne hafa: sængur klædi« (AM.)

þorsteinn illugason. nickolas guttormsson oc jon þorgeirsson leikmenn q[uediu] g[uds] oc sina kunnigt gerandi at þa er lidit var fra hingat burd uars herra jehsu christi. m⁰. ccc⁰. lxxxx oc fiogur ær at bægissa sydri miduikudaghinn j fardogum uoru uær j hia sam oc heyrdum æ handaband þeirra bauduars subdiakns augmundarsonar af einni halfu oc jons þorbiarnarsonar af annari at suo firir skildu at hann selldi honum halfua hallfridarstadi j haurgardal med ollum þeim gognum oc gædum sem henni hafdi fylgt ad fornu og nyu oc hann vard fremst eigandi at med þessum ummerkium. rædr gardr firir utan upp j lækinn en steinn stor j midli auxnhols ok hallfridarstada uid sydri skridu oc rettsyni or honum upp oc ofan. reiknadi hann þessi jtauk j annara manna jarder. selfaur j myrkardal arligha. x tigum asaudar. tueimr kum oc tueimr hrossum af allri jordunni. skogr j tungu jordu med þessum ummerkium. uarda a halsinum firer sunnan stigadæli. drangsteinn nidre uid skuggagotu ok rædr hon ut æ hals. her j mot gaf bauduar diakn. xv. kugilldi af þessum fridleika. v. asaudar kugilldi. v. kyr, v. gelldfiar kugilldi oc skilldi þar j þriu uetrgaumaul naut. iiij. hundrut j slatrum. oc hundrads kapall. x. hundrut j uadmalum. lukaz ut a firsta ari. ij. kyr. iij. asaudar kugilldi. iij. gelldfiar kugilldi. a næsta hausti. ij. hundrut j slatrum. v. hundrut j hafnaruadum. æ audru ari fiogur kugilldi. ok. v. hundrut j hafnaruadum. ij. hundrut j slatrum ath audru hausti. æ þridia æri. iij. kugilldi. skildi jon af ser bænhus fyrnd. leyfdi ualgerdr kona jons saulu æ jordunni med handabandi. uid bauduar diakna. skilldi jon abyrgiaz lagariptingar a jordunni en bauduar hallda til laga. Ok til sannenda her um settu uær fyrr nefnder menn uar innsigli firir þetta bref gort æ maudruuollum j haurgardal a geisla daghinn [ij arum[1]) sidar en fyr seger.

---

415. 6. Juli 1394. [á þingeyrum].

SVEINBJÖRN ábóta á þingeyrum kvittar Jón bónda Eyjólfsson

---

[1]) [Afskr. les her «. . . nattum», sem er rangt og eingin hugsun í; frumbréfið er dálítið óskýrt, en þó er þetta víst; talan hefir fyrst misskrifast, síðan verið skafið og skrifað ofan í.

fyrir jörðunum Sauðadalsá og Þremi, er hann hefir afhent ráðsmanni staðarins samkvæmt prófentubréfi sínu (Nr. 410).

AM. dipl. afskr. Nr. 460 eptir frumbréfinu, sem fylgt hefir Þingeyraklaustri; innsigli ábóta brákað. Bréfið áfast prófentubréfi Jóns. Afskript af bréfinu er og í AM. 280. 4to bls. 177.

Vær suæinbiornn med guds nað abothi at þingeyrum medr kennumzst medr þessu waru brefui. at jon bonde eyiulfsson hefuer afhent oss ok warum ʀadsmannj. jarder tuær a watznesi sauðadalsa ok þrȯm ok þar til atta kugilldi. ok tuð hundrat kugillda virð. efter þij sem profentubref jons ok helgu vattar at þau gafu j sina profentu. huert her er med bundit þesso waro brefi. ok þij gerum wer nefnd hion jon ok helgu frialfs lidug ok ollunghis kuitt af allri vtlẏktingu sagdrar profentu. ok til sannenda her vm settum wer uart jnzcigli firir þetta bref skrifuat at þingeyrum tuæim nattum firir festum sociorum in selio quiescentium. anno domini ɱ° ccc° xc° iiij°.

---

## 416. 23. August 1394. á Möðruvöllum.

PÉTR Nikulásson biskup á Hólum kvittar Árna Einarsson um tíu hundraða ílag í jörðina Ásláksstaði í Kræklingahlíð.

Frumbréfið í AM. Dipl. Isl. Fasc. V, 9; á skinni; innsiglið dottið frá. Bréfið er prentað í F. Joh. Hist. Eccl. Isl. II, 220, en eptir lakri afskript. Sbr. Dipl. Isl. III, Nr. 405.

Vær broder petr med guds oc postuligs sætis næd biskup æ holum kunngerum þat godum monnum medr þessu waro brefui ath þat sama tiu hundrada jlagh sem stadrinn æ mȯdruuollum atti j jord a aslaksstaudum j kræklíngahlid þeim til vrlausner sem þat willde gera oc landit atti. hefuer sira sueinn magnusson radsmadr mȯdruvalla stadar. medr waro samþycki ath sier tekit stadarins weghna oc staddan wegh æ gert vidr arna einarsson. ok hann hefuer greind tiu hundrath vth lukt ok af hendt efter þij sem oss wel ænæygher ok þat bref sira sueins wattar sem hier er medr fest þessu waro brefi. þij gerum wer nefndan arna ollungis kuittan vm greindt jardar

jlagh stadarins weghna æ môdruuollum sua firir oss sem warom efter komandum hola biskupum edr kirkiunnar lôglighum vmbodsmonnum. ok honum ok hans erfingium edr eighner monnum greindrar jardar efter hann alla sagda jord frealsa oc akiærulausa vm þratt nefndt jlagh. ok til sannenda hier vm settum wer wart inzsighli firer þetta bref gert æ modruwollum j haurghærdal in profesto bartholomei apostoli. anno domino ϖ° ccc° xc° iiij°.

---

417. [1394].

Skrá um það, hverjar eignir Staðarfellskirkju hafi bætzt síðan máldaga Gyrðs 1354.

AM. dipl. afskr. Nr. 1514; Landsbókasafn 101. 4to bls. 353 skr. c. 1730. Landsbókas. 107. 4to bls. 416. Prentuð í Hist. Eccl. Isl. II, 107 með latínskri þýðing. Þetta fylgir í handritunum máldaga Gyrðs frá 1354 (Dipl. Isl. III, Nr. 40), en ekki finst þessi klausa í Vilchinsbók.

Nv sidan þessi maldagi var gior hefur gefist til kirkiv vnder stadarfelli.

jn primis gaf aurnolfr ionsson andreas likneski. enn guttormr jatti at luka þat elligar iij merckur vorovirdar.

Jtem hefur gefist viij kyr oc eitt asavdar ku[g]illdi. iiij hestar oc ij^c j vadmalvm. kertastikur ij med kopar. sloppur oc patinvr ij. xvj^c vorovird er fallit hafa henni i porcionem æ millvm þess er ornnolfur giordi firir herræ od[d]geire reikningsskap oc hins er guttormr son hans giordi firir herra vilkin hit firsta sinne at hann visiteradi vestfiordu.

---

418. [1394].

Visitazíubréf Pétrs Nikulássonar biskups á Hólum.

AM. 235. 4to bls. 41, bréfabók Jóns biskups Vilhjálmssonar á skinni í frumriti frá c. 1430. Pétr biskup vísiteraði í fyrsta skipti 1394, og reið þá einkum yfir Eyjafjarðar og Þingeyjarsýslur. Mun því bréf þetta vera ritað um vorið 1394.

Visitacionis bref.

Vær broder petr medr gudz oc postuligs sætis nad biskup a holum. Gerum ollum lærdum sæm læikum millum avamula[1]) oc helkundo hæidar kunnikt ath saker skylldu wars æmbettis born ath færmma ok malwm skipa. Etlom wer med gudz vilia ath visitera her med ydhr [i] sumar oc Rida hæiman næsta dagh æfter olafsmæsso fyrri. til vrda j suarfuadardaal. þadan til tiarnar. þa til vfsa. þa til valla oc vera þar tuær nætr. þa til Riseyiar. þa til aarhskogz. þa til haufda. þa til grytubacka. þa til laufas oc vera þar. ij. nætr. þa til flatæyiar. þa til stadar j kinn. þa til helgastadar. þa til Mula oc vera þar ij. nætr. þa til græni[adar]stada oc vera þar. ij. nætur. þa til næs. þa til husavikr oc vera þar. ij. nætur. þa til gardz. þa til hafrafellstungu. þa til hola j gnupasuætt. þa til swalbardz j þistilsfiordh. þa til saudanæs. þadan aftı til sualbardz. þa til skinnastada oc vera þar. ij. nætur. þa til aas. þa til Rækiarhlidar. þa til skutustada. þa til þueraar. þa til Einarsstada oc vera þar ij. nætur. þa til lundarbrækku. þa til Eyiardals aar. þa til liosawatz. þa til haals oc vera þar tuær nætur. þa til illughastada oc vera þar tuær netur. þa til draflastada. þa til swalbardz. þa til munkka þuæraar oc vera þar. ij. netr. þa til modruwalla j Eyiafiordh. þa til saurbæiar oc vera þar. ij. nætur. þa til grundar j Eyiafiordh. þa til Rafnagils oc vera þar ij nætr. þa til hlidar. þa til glæsibæiar. þa til modruvalla j haurgardaal oc oc huilast þar seau nætr. þa til audbrækku edr laugalandz huortt wer æigum hældr gistingh ath taka. þa til myrkaar. þa til bægisaar. þa til backa. þa til sylfrastada. þa til Ripr. þa hæim til hola.

Biodum wer oc aminnom alla oc siærhueria presta oc bændr þa sæm oss æigu gistingar ath halda ath þer firihugsi oss oc[2]) varom swæinum tilheyriligan kost med aul oc ræidskiota oc her med ath þer vppi later firer oss Ræikningh oc skodan aa ydrom kirkiom oc aulli(!) þeirra godzi. gioræir ok þessum manni sæm þetta uortt bref bær þan græida sæm honum þarfuazst sua hans færdi þurfui þar firer æighe ath talmazst.

Ok til sannenda et cetera meiri[3]).

---

[1]) eða: wamula; [2]) j, skb.; [3]) hér eptir kemr í skb. visitaizubréf Jóns biskups Vilhjálmssonar.

419—498. **1394 og síðar.**

MÁLDAGAR Pétrs biskups Nikulássonar fyrir kirkjum í Hólabiskupsdæmi.

Safn það af máldögum, er fer hér á eptir, er það sem venjulega hefir verið kallað máldagabók Pétrs biskups Nikulássonar[1]) og er að því leyti að skoða sem heild út af fyrir sig, sem máldagarnir hafa frá upphafi verið sem einn flokkr, þó að þeir sé nokkuð misgamlir og sumt í bókinni stafi ekki frá Pétri biskupi. Pétr biskup hefir gert hina fyrstu yfirreið um biskupsdæmi sitt 1394 í August og September og hefir riðið heiman frá Hólum til Svarfaðardals 30. Júlí og vísiterað svo um Vaðlaþing og Þingeyjarþing um sumarið eins og visitazíubréf hans hér næst á undan segir til. Ef biskupinn hefði hagað yfirreið sinni alveg eins og visitazíubréfið segir, þá mætti ætla að máldagarnir stæði nú í skakkri röð í máldagabókinni eins og hún er til vor komin, enda er röð þeirra allóeðlileg, því að hverri sýslu er blandað inn i aðra, og gæti verið að afskrifari Þorláks biskups hefði lagt rangt saman arkir. ef frumritið hefir þá verið farið úr bandinu. En þótt svo geti verið, þykir ekki gerlegt að raða hér máldögunum eptir sýslum né heldr eptir því, sem stendr í visitazíubréfinu, því að hæglega gat svo staðið á, að biskup hefði ekki getað komið því við að haga yfirreið sinni á þann hátt sem ætlað var. Af bréfinu má og sjá að biskup hefir bæði ætlað að fara til Hríseyjar og Flateyjar en út af því hefir hann líklega brugðið, því að ekki standa nú máldagar þeirra kirkna í máldagabókinni. En í máldagabókina vantar auðsjáanlega eingan máldaga, sem upphaflega hefir staðið þar, svo að ekkert hefir verið glatað úr henni, þegar Þorlákr biskup lét rita hana upp 1639; að eins hafa einstaka orð verið svo máð, að þau hafa ekki orðið lesin. Af bréfinu sést enn fremr að biskup hefir ætlað að vísitera klaustrin á Þverá og Möðruvöllum, en ekki standa klaustrmáldagar þessir nú í bókinni og hafa víst aldrei verið ritaðir í hana. Þó hefir biskup eflaust komið þar og gert máldaga[2]), en þeir hafa líklega verið ritaðir á bók sér eins og lítr út fyrir að vani hafi verið með klaustrin. Eptir vísitazíubréfinu hefði máldögunum átt að vera skipað svo, og setjum vér hér í sviga hvar þeir nú eiga sæti í bókinni; 1. Urðir (1); 2. Tjörn (3); 3 Upsir (4); 4. Vellir (2); [5. Rísey]; 6. Árskógr (5); 7. Höfði (64); 8. Grýtubakki (66); 9. Laufás (63); [10. Flatey]; 11 Helgastaðir (69); 12. Múli (71); 13. Grenjaðarstaðr (72); 14. Húsavík (73); 15. Garðr (75); 16. Hafrafellstunga (79); 17. Presthólar (47); 18. Svalbarð (78); 19. Sauðanes (48); 20. Skinnastaðir (77); 21. Reykjahlíð (74); 22. Skútu-

---

[1]) Séra Jón Haldórsson í Hítardal kallar máldagabókina «Péturs Regestum» (Biskupasögur hans); [2]) Annálar geta einmitt um visitázíu hans á Möðruvöllum 1394.

Brikena godu ætludu þeir og (sem sagt er) ad flytia burt, enn þar sligudust under nockrer hestar og so blef hnn til baka.

Vid Hola Domkirkiu er bok i 4to a perment, vel skrifud og eigi ny. Eru þar ä qva tuor Evangelistæ (nunc t[ame]n mutilati) versionis Hieronymi, atqve cum illius præfatione. fremra spiallded er utbolad og i cavitate utdrifenn messing, sem hefur vered forsilfrud, hvar ä er Christus in cruce og Joseph og Maria nedan under. vidi.

Hola kirkiu fylger aflangur strimill, bordyradnr ad badum iödrum, og skösidur badum meigenn þä madr leggur hann um halsenn. nedan til i bada endana breidkar hann nockud, og er þar ä bordyrad: Sanctus Petrus ä annann endan, enn ä annann Sanctus Paulus. vidi.

Þeir seigia þad sie linde til ad stytta slopp med, og þad mun so vera.

Hola Domkirkiu fylger ein prydeleg korkapa, af raudu flöjele, kostulega bordyrud nidur ad barminum[1]) beggia vegna, og ä kraganum. seigia menn ad biskup Jon Arason hafi hana til kirkiunnar lagt, og þad truest almennelega[2]). vidi.

Jnnani alltarenu i Hola Domkirkiu er Cavitas, sem kǒllud er enn i dag Karina. Þad seigia menn vered hafa eitt slags fängelse. alltared er af steine og iarnhurd firir bak[a] til.

Dalmadika er utanhafnar messuklæde (so sem fyrer hǒkul) af mislitu silketǒje, eda ǒdru soddan. Er ecki giǒrd eins og hǒkull helldur er hun iafnsid allt um kring, og a mynd sem sidhempa orykt ä ǒxlunum, sem skorin være so hatt uppi badar hlidar, ad stiglen næde allagǒtu upp under handveige. Ermar eru hier vid ǒrstuttar, og eitt halsmäl, sem ganga ä ofan yfir hǒfuded, þvi eckert op er framan ä annad, eda neitt skored ofan i barmin. Einginn er kross ä baki dalmadikunnar eins og ä hǒkli. Ecki er stigl neitt framan edur aptan i bodangana, helldr alleina i hlidarnar upp under hendr, sem adr er sagt. vidi binas. eina ä Holum og adra i Skalhollte.

A þeirri dalmadikunni sem i Skalhollti er, er lagdur breidnr bordi fra ǒxlunum og ofan ad falldi bædi i bak og fyrer. Er þesse borde i einu lage fra falldinum, upp ä ǒxl og so ofan ad falldi hinumeigen. og eru so tvær rader borda a huerium bodange riett nidurundan ǒxlnnum, aptur er lagdur borde yfir um þvert, gengur hann yfir um bakbodangenn allagǒtu upp vid hals maled og so ut ä ermarnar fremst, og giörer so 2 krossa ä ǒxlunum giæter þessa aptan til, enn framan til eru einger krossar[3]), enn framar er þesse borde lagdur, framan til nm halsmaled. (aptantil

---

[1]) ɔ: ä uppslǒgunum framan til (AM.); [2]) þetta mun vera kápa sú, sem fylgir biskupsdæminu á Íslandi eða dómkirkjunni þann dag í dag og biskup skrýðist þegar mest er viðhaft. Annars hef eg heyrt að páfinn hafi átt að senda Jóni biskupi Arasyni þenna kjörgrip að gjöf;
[3] Hér hefir Árni dregið upp bakboðanginn.

vard þad eckj þvi þverbordenn sem gengur ut ä ermarnar tekur þad af) framan um ermarnar, sem eru helldr enn ecki vidar. ofan med þeim storu stiglum beggia meigen, i badum hlidum. og nedan um bada bodangana. Enn þesser bordar minner mig ecki sieu ä Hola dalmadikunne.

Alltaris brikenn (tablan) i Hola Domkirkiu er prydeleg, gefen af biskup Jone Ara syne, ut refertur. vidi. ä henne er historia Christi kostulega giörd, af agiætu Bildhuggerie.

Ample er litil vambarkanna, loklaus, med handar hallde, meinast hafa vered brukad til vatns sem blandadezt i kaleik. Einn fylger Holadomkirkiu, er af silfre. vidi.[1])

A tialldi Hola Domkirkiu med Refelsaum[2]).

Gramur skop hæstra heima
heims fegurd oc kyn beima
frægur hefur sett med sigre
Sigursvalldur skipan alldar
spenur[3]) i sælu sina
sin börn iöfur stiörnu
þvi er elstiller allra
allsannur fader manna[4]).

1594 er tiallded saumad.

Kvennamegin vid alltarid j Dómkirkiunni ä Holum er vængur (tialld) saumadur af lerepte, kvar ä stendur ad ein kona (hver þar nefnest sine anno) hafe hann saumad fyrer Mariu. vidi.

ad lata þennann væng betur describera. habeo 1725.

Jtem tiallded framme i kirkiunne hvar ä stendr:

Gramr skop hæstra heima zc.

Timburstofuna ä Holum seigia menn Audun biskup Raude hafe läted höggva i Noregi og ut flytia ä Eyrum og þadan nordur og

---

[1]) Á fol. 12a stendr þessi klausa, sem sýnist varla eiga hér heima: »Extat hæc eadem Tabula Tomo K. Bartholiniano, exarata manu mea Arnæ Magnæi, et eadem Thormodi Torfæi Apographo«; [2]) Á fol. 14a er vísan með hendi Guðmundar Steinssonar Bergmanns og segir hann: »Vijsan er alldeiliss stafriett efter tialldenu utskrifud, er á þvi skrifad Iofrur. og svo sier hver þau tejkn sem . . . sest her med, enn eingenn fleire.

Gudmundur Bergmann
1722«.

Nafnið er með hendi Árna; [3]) þannig Árni upphaflega; Guðm. les: »spener«, og hefir Árni svo gert úr sínu »spener«; [4]) Vísa þessi er áðr prentuð í Eiglu (Hafn. 1809 bls. 273) og aptan við Snorraeddu útg. Svb. Egilssonar Rvík. 1848, en á hvorugum staðnum er hún alveg rétt. Ennfremr er hún prentuð í riti mínu Om digtningen på Island i det 15. og 16. årh. Kh. 1888 bls. 194.

hafe viderner um veturinn leiged vid Grettis skäla ä midium kiðl. Hun er af heildygrum stockum saman sett. vide Laurentius sögu.

þessa timburstofu liet H[erra] þorlakur skrufa upp i sama sinn sem nya hused.

Nya hused a Holum hefur sal. H[erra] Gudbrandur lated flytia ut fra Kaupenh[afn] stendur ifer þess dyrum þesse inscriptiou:

Hæc domus excisa est Hafniæ sumtu et expensis Reverendi viri, Domini Gudbrandi Thorlacii Episcopi Holensis anno Domini 1587.

Sal. H[erra] þorlakur hefur þad sidan uppskrufa lated.

Jn campana Holensi, qvæ et secundæ magnitudinis:

Hera Olaf heidurs manu
ed hiellt med prydi Holarann
meta kluck innt stadarins torg
meta maka liet[1]) in Hamborch
MVCLviij[2]).

Jn latere ejusdem campanæ sub imagine Christi crucifixi.

J. P. A.
H. B. P.
1556.

Alibi in latere

Hans Altena.

Campanarum Holensium minima, fusa est anno M.ccccc.xxxviii. prout ex inscriptione illius liqvet, qvæ præter hæc et fusoris nomen nil continet.

Jn maxima campanarum Holensinm in Islandia[3]): Jsta campana pertinet sancto Joanni episcopo Holensi in Jslandia facta in Hamborch anno Domini M.ccccc.xx.vi. in dem namen Jhesu Cristi ghoet Hinrick Kock mi. Hæc campana rupta est et nunc ulterius non pulsatur.

Jn tortiæ magnitudinis campana Holensi:

Jsta campana pertinet sancto Johanni episcopo Holensi in Jslandia facta in Hamborch anno Domini M.CCCCC.XX.V. Hinrick Kock me fecit.

Jn marmoreo cippo 3. circiter pedes longo in templo Holensi

---

[1]) fiet eða fiet; rétt er liet. [2]) = 1558. Jón Espólín hefir þessa vísu svo:

Herra Ólaf heiðursmann,
er Hólakirkju stýrir rann,
stóra klukku á staðarins torg
steypa lét í Hamborg.

[3]) þetta mun vera »Líkabaung«, en það er eins og það nafu hafi ekki verið komið upp á dögum Árna, úr því hann getr þess ekki.

(karlmanna megin) Effigies Episcopi, sinistra baculum tenentis, dexteram elevantis. ad pedes illius sculptum:

Joh. bþ. uidi.

putatur esse Johannes Skalle, sed mihi id incertum videtur. Alii Episcopum Holensem natione Anglum ibi jacere referunt. An Johannes Holensium Episcoporum qvidam Anglus fuit?[1])

Jons biskups Arasonar, Ara, og Sr. Biarnar leg eru under kirkiu þreskylldinum, og half i stöplenum. Þä þeir voru grafner, voru þan innan kirkiu, sem sidan minkud er ad framanverdu.

Olafr biskup Rögnvalldzson meinast ad liggia midt ä kirkiugolfinu ä Holum. Þykist Halldor Þorbergsson i sinu ungdæme lesed hafa ä hans legsteine, sem menn þar syna og liggur flatur, nu ölæs.

Mogrioted, sem muren umkring Holakirkiu er af, er tekid ur Rauduskridu, sem er i Holabyrdu firir framan stadinn. Menn seigia Audunn Raudi hafi läted hann byggia, og ætlad ad giöra muurkirkiu, enn ei endst til[2]). Ef þad er satt sem eg annoterad hefi um sepulturam Laurentii Episcopi. þä hefr þesse mur an efa constituerad chorum.

A Vangnum kallmanna-meigin vid alltared[3]).

Heidur sis guds him | num a | hædst loff | frer naad sina ad | hiedann af oss.
Effigies Columbarum.

Gloria Patri et | filio cum sancto | Spiritu in Sempi | terna Secula A.
Effigies Columbarum.

jhssus Marie filins | sit nobis clemens | et Propitius, ora voce | pia pro nobis virgo.
Effigies animalium.

St. Spiritus et fili | us datus est | nobis, laus Deo | Puer natur est
Effigies Cervorum.

Kann eg eigs | ad kiosa . . | . . . a . . . nna . . . | Christur
Effigies Aqvilarnm

[1]) Væri ekki líklegast, að þetta hafi verið mynd af Jóni biskupi helga Ögmundarsyni? [2]) Þad er audsied ä vindaugunum ad þad hefr att múrhús ad verda, þvi þar eru innmuradar iarnsteingur, jtem vindeltröppur, minner mig. (AM.) [3]) það, sem eptir fer, er ekki með hendi Árna. Hann segir um það: »accepi 1725«.

A Vangnum kvenna-meigen vid alltared.

ihs. u. r. i.
Effigies
crucis
Substautibus Johanne et Maria
St. Petrus | Nicholaus. St. johannes | St. Godmundus.
Effigies Petri Effigies Nicolai Effigies Johaunis Effig. Godmundi.
St. Olavns | Magdalena
Effigies Olavi Effig: Magdaleuæ.
þora tumasdotter hefur
sanmad vengena Mariu[1]).

---

[Registra bolastadar. modruualla oc þingeyra oc ʀeynines-stadar. 1396[2]).

Anno domini. ϻ⁰. ccc⁰. xc⁰. vj⁰. næsta dagh firir kross-ϻesso a varit ath giorfum ʀeikningi sira stæinmodar ʀadzmannz oc af ʀeiknudum ollum skulldum þeim er lwkazst attu a næstum fardoghum. enn til ʀeiknadum ollum jnntektum þeim er takazst attu smam | oc storum ʀæiknadizst suo mykit godz kirkiunnar a bolum er virdolighr herra berra petr med guds oc postoligbs sætiz nad biskup a holum biodzst til skips. en sira stæinmodr tok med stadnum oc ollu þui er honum fylgdi vnnder ofuer syn | greindzst herra peturs. þordar þordarsonar officialis. halldors loptzsonar profastz. einars þoruardzsonar. sueins magnhussonar. jons þordarsonar. þorarins suæinssonar presta. jons bakonarsonar. biarnar brÿniolfssonar. jons sigbuatzsonar. eireks jor|undarsonar oc jons hiornssonar[3]) leikmanna.

J furstu sacristia. xx. boklar betri. oc. xx. lettare. kapur. ij. fátt j fimtighi. dalmatikur oc subtilar allt samt betri oc lettare. xl. oc viij. ϻessoklædi. xx. betri oc fern lettari. war þessi skrwdi flestr miok slitinn | gullkalekar. ij. gylldir kalekar.

---

[1]) Þetta er eflaust Þóra dóttir séra Tómasar Eiríkssonar á Mælifelli, en systir Ólafs skálds Tómassonar á Hafgrímsstöðum (d. 1595). Maðr hennar var Jón Grímsson á Ökrum, en móðir hennar var Þóra Ólafsdóttir og Helgu Sigurðardóttur fylgikonu Jóns biskups Arasonar, og hafði Helga átt hana áðr hún tók saman við Jón biskup. Vængrinn er því frá hér um bil 1535—50. [2]) [Aptan á skránni; ártalið með yngri hendi; norðrklaustraskrárnar hafa áðr legið hér með; [3]) þannig frumskráin.

vij. ogylldir kalekar. iij. corporalia betri. x. en. v. lettare. sudaria. iij. budkr oc punkr med Reliquiis. stettarker gylldt. propiciatorium litid. alltaris steinar. ij. bwner. gull. v. silki punkr. kross litill. Racion | alia. ij. silfr amplar. ij. mensura. sylfr budkr. Acera smellt. sylfr sponn litill. glofuar iij. kambr oc busa. amplar ij med tin oc ij. med kopar. munnlaughar. vj. smelltar. fiorar alner strýk. stolubwning[a]r. iij. buningr a dwk. hofudlijn. sto | la. handlijn. mannlikan. ij. gylld med kopar. tannbaghlar. iij. einn koparbaghall. oc einn med sýlfr er herra Petr lét gera. elldbôllr. sandalia fern. mitrvr. iiij. ordinalia. ij. benediccionale. Raketum. handklædi. viij. kniadwkr | mensura med sýlfr. fontz vmbvnadr. skinanda klædi fiorar alner. klædi med balldikinn half sietta alin. pellz klædi half fiorda alin. glodar ker þriu med sýlfr. oc tuð med kopar. koparstickur. v. jarnstickur. v. kirkiu ketill med | munnlaugh brotid huarttueggia. haalltaris klædi. v. wtalltaris klædi. iiij. brikar klædi. v. sessur. iiij. litlar. tapeta. ij. skrindwkar. ij. stafuer. ij. palmadaghs dwkar. ij. lektara dwkar. iij. glitader. textar iiij. oc hinn fimti med | tann. ferda texti. bakstr jarn. v. oc saaða jarn. sloppar x. slitner. hwfur. iij. paxspiolld. v. kistur. ij. jarnstoll nyr. halfr fimti tughr boka j spiolldum. en spialldalausar. lx. allar de sacra scriptura. vtalldar skrar j einu golfui | halfr þriditughr onýttar[1]) tijda skra. biskups bôkr. gradlare. sequenciarium. collectarium. mariu psalltarar. psalltare. brefuer per annum. oc annat vm sumar. Racionale. j chorum fernar tolfmanada tider at song. lesbôkr. v. per annum. les | bok jnsummis oc onnur stor. lesbok ny de sanctis oc títla. gudzspiallabok. formessu bok. alltaris bôkr. iiij. ferdabok biskups. frammistodu bôkr. ij. martirilogium. wersagradall. processionalia iij. collectarium med grôdlum. brefuer. ij. nótud. | psalltarar. iij. goder. ferdabrefuer. ij. notud. vitta patrum.

Þetta j fatabwri. ecclesiastica hýstoria. a tueýmr bokum. dialogus. glosa psalltarij a sæau[2]) bokum. flores virginis. sermocionarij. ij. exposiciones ewangeliorum. formularius. | Þessar de iure. decretales. decretum. gofredus. casus bernardi. casus johannis. clementini. dextra pars. oc sinistra pars. a einni bok. Remundus. decretorum. sextus. decretalium. Gregorij. summa

[1]) þannig; [2]) eða: sæau.

Remundi. jtem gofredus a tueimr bokum. liber job a tueimr bo | kum. psalltarar. iiij. þessar skolabôkr. doctrinalia. ij. brito. a tueimr bokum. huguicio[1]) grecismus. ýsodorus ethymologiarum[2]). proprietarium. strepitus iudicij. þessar soghu bôkr. Mariu sagha guds modur. olafuanna soghur. karla maghnus saga. | thomass soghur. ij. jacobi sagha. anndress sagha. Gudmundar sogur. ij. thorlaks sagha. liber Regum. barlams sagha. Riddara sogur a tueim bokum. postola sogur. jons sagha holabiskups. Suo mikid j sylfri. sýlfr Rosir. xxx. oc. ix. sylfr | spôner. xvj. oc einn brotinn j. bolli med swijk[3]) oc annar minni. bikarar. iij. med einu loki. oc þrir litlir. sýlfr skalir storar. viij. spirur. viij. gylldar oc ero. ij. med loki. huitt skurn gyllt med loki brotid. jons bolli med loki. oc mǫsur|ker. iij. tuô af þeim med lokum. stettarker. v. gylld oc eitt af þeim loklaust. oc þriu ogylld med lokum. spirur. vij. ogylldar. skurner. viiij. swartar oc ein med loki. vatnskarlar. iiij. oc er hinn fimti med tin. laughr. horn. xiij. | bwin. munnlaughar. iij. meta skalir tuennar. bismare. grinda jarn tuenn. borddwkar. vj. skinnfelldr. Reykelsi. xj. merkr. vax. iij. fiordungar oc gullhlǫd nǫckur. aklædi. v. koddar. ij. kullt. v. kistur. v. skuiara[4]) knifua. v. hâr|knifuar. kambr oc skæri. ormstunga buin. Reflar hundrat alna oc morg tiallda slitr. einn Refuill nyþeladr. ein ferskefta. brwner. iij. oc dwkr glitadr. biarnfell. viij. swardreipi[5]) nǫckur. ąalreip. sessur. ij. langar. crvcifixum. fin|graiarn tuenn. iarnstika med skipi. sessur. ij. illar. halsjarn. messubrefuer. ij. ýmnarius nyr. bly af kirkiu oc glergluggabrot. bekfelli nockur.

J skemmu Reckiu klædi. hôghindi. v. oc. xx. med faneytum. dynur. v. oc. xx. oc at auk. vj. | faneytar. Reckiu voder. v. oc. xx. oc. vj. faneytar. skinnbeder. xviij. bolstrar. xviij. abrædzl. xvij. oc huitlar. iij. salwn. v. teflingsver. vij. blæiur. vij. munlaugh. vatnkarlar. ij. woro linlokin oc hôghindis werin oll slitin. kistur ij. læstar. |

Þetta j prestabwri. dynur. vij. hôghindi. vij. bolstrar. vij. skinnbeder. v. Reckiuvoder. xij. abreidzl. v. pottr. munnlaugh. kista stor læst.

---

[1]) huguicō, frskr.; [2]) ethiar, frskr.; [3]) þannig, frskr.; [4]) þannig, frumskr. = skwara = skúara; [5]) swardreidi, hdr.

J bordhwsi morteel. panna. Rist. stæikiteinn. tindiskar med fǫtum. x. salltfǫt. xix. kat|lar. iij. forner. pottr einn oc þrir faneyter.

J skyrbwri storkerolld. ix. at tǫlu. katlar. iiij. forner. pottar. v. skyr. ix. tigher skiolna.

J karlaskala wll mikil oþueghin. boloxar. vj. oc enn annbod nockur oc lausauidr.

J bræidabwri. lxxx. | vétta skreidar. ein kista. hwder. xvj.

J langabwri. smior halft annat hundrad vétta. nauta limer halfr fiordi tughr. sijdur halfr þridi tughr. oc enn aftr Rygger nockurer. krof fimtigher med skammrifum oc enn lausa matr nockur j einum klefua. | morr uel. xx. vetter. flot. xiij vætter.

J kiallara fatkonnur alltz ath tali. xiiij. hæitukerolld. ij. vond. katlar. ij. storer. erv nu vreiknut smabwsgoghn oc annbod heima oc [at]wtbwm oc enn katlar nockurer at stadar bwnum.

Þetta j kuikfee | heima oc at wtbwm. fioghur hundrut kwgillda. xl. oc. iij. kwgilldi. kalfar. lx. En vttan gardz kwgilldi millum hofdahola hrauns a skagha oc vodlahæidar med miklagarde. vj. kwgilldum fatt j. vj. hundrut kwgilldi.

J neÿrdsta vm|bodi hundrat kwgillda oc lxxx. kwgillda.

J fliota vmbodi hundrat kwgillda oc halfr fimti tughr kwgillda.

hross hæima oc at wtbwm fimtan tigher oc vngrÿssi xxx.

J laugh jarda . . . . . .[1]) vón vadmala ath luk|tum ǒllum vitavorskulldum sextighi hundrada.

hæÿ hæima oc vttangardz nærri fiorum tighum fadma taudu. en miogh suo eingi wthæn[2]).

Þetta j skipum feria. oc karfui. huartueggia vont med batum. drangeÿiar far. ackier. ij. oc Reidi med | skipunum.

eru nu oReiknut sum ornamenta kirkiunnar kirkiubrotz. vidrinn. og bwdzu efnit.

Ok saker þess ath wer fyrr græinder menn vissum oc trwm þenna Reikningskap sannan wera allan saman. þui settum wer vór jnnzsighli med biskupsins | jnnzsighli firer þetta jnventarium sem giort var a holum feria sexta post ascensionem domini. a þui áre sem fyrr segher.

[1]) Hér er autt bil fyrir svo sem 15 stafi, og svo er í afskript Þorláks biskups; [2]) = útheyn = útheyin.

512. 27. Juni 1396. i Skálholti.

Skipan Vilchins biskups, er staðfestir skipanir hinna fyrri biskupa Magnúsar Gizurarsonar, Árna Þorlákssonar og Jóns Sigurðarsonar, og skipar ýmsa hluti af nýju.

AMagn. 354. Fol. bls. 64—66, skb. c. 1400; AM. 42A. 8vo bls. 221—22, hér að eins § 4—§ 9; Ny kgl. saml. Nr. 1938. 4to (afskr. af AM. 354. Fol.). Prentuð í F. Joh. Hist. Eccl. Isl. II, 137—139.

Her ero skipaner herra vilkins med guds nād biskups j skalhollti[1]).

Anno domini ϻ⁰. ccc⁰. xc⁰. vj⁰. tueim nattum firir petrs ϻesso j skalhollte. jn synodo voru þessi bod sett af virdulighum herra herra vilkin medr guds næd biskup j skalhollti oc j samþýkt tekin af ollum lærdum monnum.

1. Jn primis at þær constituciones er giört hafua godrar aminningar skalholltz biskupar ϻagnus. arne þorlaksson oc ion sigurdarson sýnazt oss skynsamligar oc vel halldandi. Serliga at prestar late j brottu sinar opinberar barna mödr ok frillur af sino heimile ok þingum innan halfs manadar nesta.

2. Jtem at prestar uande alla lute sem reinligaz til guds þionostu. vin ok bakstr ok adra hlute. ok geými heilaga krisma ok ewcaristiam j hreinligri hirdzlu læstri ok halldi hrein corporalia ϻessuklædi oc sacrarium handklædi. lesi dags tidir heima forfalla laust j kirkiu dagliga. en sýngi helga dagha ok hatidis [ok a]llar tidir ok hallde huer prestr sinne vist. xij. manudi forfallalaust.

3. Jtem at allir prestar predike alla þa daga sem j xvj daga halldi ero. ok j onduerdri iolafostu ok langaföstu ok j mote paskum. heýri innvirdulega skriptamal ok godfuslega ok kenni sinum soknarmonnum huersu þeim beʀ at skriptaz innvirduliga med allri godfysi ok sannri einord med vidrkomningu hiartans ok fullum huga til vid at skiliaz sýndirnar. segi til viku halldz huern sunnodag sua hætt ok skilit at tida soknarmenn heýre. leggi prestar af alla lausung ok leikaraskap bædi j klæda bunadi ok vapna burdi. taki prestar saman romaskatt

[1]) vilkins skalhollts biskups 42.

ok geyme truligha. ok afhendi profastinum allan oskerdan ok vm skipte hann ecki. ok fordiz sua þa pino er pafi leggr þar medr.

4.[1]) Jtem allir prestar þeir sem tuær soknar kirkiur hafua syngi rumhelga daga at vtkirkium ok bônhusum.

5. Jtem at allir prestar ok bôndr þeir sem soknar kirkiur hallda. taki med biskups tiundum ok af hendi sua profastinum[2]) edr þeim sem hann til skipar. halldi kirkiur ok bônhus sæmiligha ok vel geẏmd suo at eigi megi fenadr inn komaz. giorizt[3]) vpp kirkiur ok bônhus innan. xij. manada ella luki iij merkr firir halfkirkiu. en xij aura firir bônhus.

6. Jtem at bondr þeir sem kirkiur hallda se skylldugir at giora Reikning[4]) profôstum af ollum eignum þeim er þeirra kirkiur eiga. tiundum ok ôllum odrum þeirra eignum ok af hendi tiundir kirknanna þa er þeir med skiliaz og sẏni eigi sidr allt kirkiunnar godz þa er þeir skiliaz med iord. Sua[5]) eigi sidr þeir sem vtkirkiur hallda leggi eptir kirkiu tiunder ok se sẏnt kirkiunnar vmbodsmanne edr þeim sem hann til skipar.

7. Jtem at firir launfesting setiz þvilik skript ok fesekt[6]) sem firir opinberan hordom.

8. Jtem at opinherum frillulifuis monnum gefuizt eigi guds likami vtan þeir skiliz vid ok bôti ẏfer.

9. Jtem at þeir menn sem hlaupaz profastdôma j millum stefnizt aftr af þeim profasti j huers vmhodi þeir brutu ok retti sa yfuer þeim[7]).

---

## 513. 27. April 1397. á Bessastöðum.

Kaupmálabréf Vigfúsar Ívarssonar og húsfrú Guðríðar Ingimundsdóttur.

Frumbréfið á skinni í AM. Dipl. Isl. Fasc. V,20; innsiglin hafa verið átta, en eru öll dottin frá.

[kavpmala bref hvstrv gvdridar 1397[8]).

Aullum monnum þeim sæm þetta bref sea edr heẏra

[1]) 42 byrjar hér; [2]) profaustum 42; [3]) Giori 42; [4]) reikningsskap 42; [5]) ok 42; [6]) fepina 42; [7]) sl. 42; [8]) aptan á bréfinu.

sænndæ þorstæinn æyiolfsson laugmadr. arne æinarsson. gunnlögr maghnusson. æinar olafsson. anndres þoralfsson oc helghe biarnarson. bardr arnorsson oc teitur kolbeinsson Q[uediu] G[uds] oc sina kunneght giorannde. ath þaa ær lidit war fra burd wors herra jehsu christi ꝏ. ccc. xc oc vij ær friadaghinn j paska vichu æ bessastödum æ alftha nese worum wær j hia ath ærlighr mann wighfus jfuarsson kenndiz firer oss ath gudrid jnnghimundz dotter hans kærligh husfru æ j hans garde þriu hundrǫth hundrada a jslande eda j noreghe eftir forngilldu marka tale. þar til fiordunngs giof af öllu sinu godze föstu oc lausu. Reichnadi wighfus bonnde þaa sitt godz viij hunndröth hunndrada. werdr þi hennar godz j gardinum allz fimm hunndrath hunndrada. Ogh til sannynda hiær wm settum wær fẏʀ næfndir menn vor jnnsigle fyrer þetta bref giorth j saugdum stad deghi oc ære sæm fẏʀ seger.

---

## 514. 6. Mai 1397. i Garði.

Vitnisburðr Jóns Grímssonar og Arnórs Jónssonar um landamerki Tjarnar og Garðs í Aðaldal.

Biskupsskjalasafn Nr. 3. Fol. bl. 98, bréfabók, sú er Þorlákr biskup lét rita 1641—42, og er bréfið þar tekið eptir transscripto frá 4. Júní 1491; AMagn. Dipl. afskrr. Nr. 39, eptir nefndri bréfabók, að því er virðist með hendi Orms Daðasonar.

Landamerke Tiarnar j Adaldal.

Þetta er vitnisburdur þeirra Jons Grijmssonar og Arnors Jonssonar um jardareign Tiarnar i Adaldal. ad fẏrer sunnann rade gardur sa er geingur fyrer sunnan gierdesvöllenn ad Tiörn. og heim j horned a tungardenum j Garde. og sijdann rædur vallargardurinn. og sa gardur er geingur ur hönum vestur i Gnup er geingur upp ur Marckklett. fyrer vestann Gnup. enn sijdann Marckgata su er geingur fyrer vestann Gnupsenda. austur ad þeirri gautu er geingur ut af Gnupsenda. rædur þa su gata þar til. er hun kiemur nidur a þeirri götu. er liggur ofann til vestre hellu. enn fyrer utan rada hraun. austur ad Sveinum. en ur Sveinum austur i Micklahollt. Micklahollt allt med veide og jardar eign ut i hraun þad. og griot

gard. er geingur fyrer utan holltid. rædur fyrer austan gata su er liggur ofan fra Nese ut ad ytra Selgarde. Sôgdu þeir ad Tiorn ætte þriggia tolffedminga torfskurd i Bruajôrd. og einn i Botar jôrd. ef hiner være adur skorner aller. Saugdu fyrrnefnder menn. ad Tiôrn ætte beit a Hrutalækiar flautu. hvort er helldur villdu manad huortueggia dægur. edur tvo manade annad dægur. Saugdu þrattnefnder menn Jon og Arnor ad þeir vissu ad Hakon Þormodsson og Reginleif soru ad Tiarnar jôrd ætte þessa beit. vissu tijdtnefnder menn. ad þeir Arne Ofeigsson. og Biôrn Arnason soru þann gard mark j millum Gardz og Tiarnar. er geingur ur vallargardenum i Garde. og vestur i Gnup. Sôgdu adur greinder menn ad Tiôrn ætte vj. vickna verck a Eingebacka. Og til sannenda hier um settum vid ockar jnsigle fyrer þetta vitnisburdar bref er giôrt var i Garde i Adaldal drottensdagenn næsta epter krossmessu a vor. þa er lided var fra hingadburd vors herra Iesu christi þusund ccc. niutiger og siô ar.

---

515. [12. Mai?] 1397. i Bólstaðarhlið.

Dómr sex manna útnefndr af Einari bónda Dálkssyni [sýslumanni í] Húnavatnsþingi um erfðamál milli séra Einars Þorvarðssonar og Guðrúnar nokkurrar.

AM. Fasc. LXXIII, 6. brot af frumritinu á skinni. »Þetta eru innsiglareimar undan arfleidslu brefe 3ia dætra Þorleifs Biornssonar og Yngueldar Helgadottur, giôrdu af 9. mônnum 1490 fiorda dag i paskum á Sydrum Aukrum i Blonduhlid. Originalbrefed hefi eg feinged til eignar fra þeim mædgum i diupadal i Blonduhlid. Gudrunu Stefansdottur og Sesseliu Sigurdardottur. Eg hefi þetta uppskrifad hia fyrsôgdu brefi.« (AM.) Aptan á þessar reimar, sem eru límdar á pappírsblað, ritar Árni: »Jnnsigla reimar 1490«.

Ollum monnum þeim sæm þetta bref sia ædr hæyra sænda dalkur æinarsson. þorger boduarsson. þordr bæss[ason]. æinar þorarinsson. æyiulfur biarnarson ok magnus jonsson quædiu guds ok sina kunnight gerandi. ath a atta ari rikiss virdvlighs herra æiræks med guds nad norægs kongs laugardagh næsta fyrir [ . . . halluar?]di martiris j bolstadarhlid j langadal voro ver til næfndir af æinari bonda dalkssyni [syslumanni i] huna-

vadzþingi at dæma millum sira æinars þoruardssonar af æinnæ halfu gudrunar .......... af annari vm þann arf .... .... sinnæ ........

---

516. 15. August 1397. i Reykjaholti.

Kaupsamningr Brands Haukssonar og Guðrúnar Vermundardóttur um jörðina Skáney í Reykholtsdal.

Frumbréfið á skinni í AMagn. Dipl. Isl. Fasc. V,21; fjögur innsigli hafa verið fyrir bréfinu, en eru dottin frá.

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia edr heyra senda steinn þordarson. páll steinsson. gvnnlavgr þorvardzson oc jon halldorsson kvediu gvds oc sina kunnickt gerandi at þa er lidit var fra hígat bvrd vors hera iehsv christi þvsvnd þriv hvndrat nivtiger oc vij ær jn assumcione sancte marie virginis j reýkiahollti j reýkiadal vorv vér j hia sām oc heýrdvm ord oc handaband brandz havks sonar oc gvdrvnar vermvndardottvr. at nefndr brandr handlagdi fýrnefndri gvdrvnv kvitt oc lidvgt æ sinna vegna vm þann mæla hennar sem havkr fadir hans lagdi vpp j jordina at skaneý halfa. ok j sama handabande jatadi þratt nefnd gvdrvn greindvm brandi sinn hluta j jordinne fýstvm til kavps þa hvn villdi selia firir xx kvgilldi oc tiv hvndrat kvgillda virt. Met samri grein skýlldi gvdrvn kavpa af opt nefndum brandi hans hlvta j jordinne ef honum veri favl oc veri hvn vgipt met sama héd oc fridleika eptir rettri tiltavlv. Ok til sannenda her vmm settvm ver fyr nefndir menn vor jnsigli firir þet bref er gört var j sögdvm stad deghi oc æri sem fýr segir.[1])

---

517. 9. September 1397. á Grund i Eyjafirði.

Haldór prestr Loptsson selr Böðvari djákna Ögmundarsyni Krossanes í Kræklingahlíð fyrir Skriðuland og Hallfríðarstaði með tilgreindum landamerkjum og ítökum.

---

[1]) Aptan á bréfinu stendr með sömu hendi og bréfið: her var j hia gvnnar gilsson pall palsson.

Frumbréfið á skinni í AMagn. Dipl. Isl. Fasc. V,19; innsiglin dottin frá.

[Kaupbref krossanes j kræklingahlid 1397[1]).

Þeim godum monnum sem þetta bref sea edr heyra senda þordr hialltason. jon þordarson. hoskulldr hughason oc arngrimr gudmundzson Q[uediu] guds oc sina kunnigt gerande ath þa er lidit var fra higat burd vars herra iehsu christi ꝏ ccc niotighir oc seau ar in profesto gregorij pape[2]) a grund i eyia firde voru uær j hia säm oc heyrdum a handaband sira halldors loptzsonar af einne halfu enn boduars diakna ogmundzsonar af annare ath suo firir skildu ath sira halldor sellde bôduare jordina alla j krossanese j kræklinga hlid med aullum þeim gognum oc gædum er hann vard fremzst eigandi med þessum ummerkium. rædr gardz stadr firir sunnan nedan or sio oc upp j tungard milli krossanesia oc þadan rettsyni upp i sunnanuerda hundatiorn oc þadan rettsyni upp j berghol sunnanuerdan er stendr firir nedan lonith oc þadan í kelldu sogit er geingr sunnan j lonit firir sunnan upptoku enn firir ofan lon er stor steinn oc þadan rettsyni upp j hraukbæiar grafer utanuerdar oc þadan rettsyni upp j steina firir sunnan læk þann er sudr er fra krossaness seli oc þadan rettsyni j hagagard. sidan rædr hann firir ofan oc ut j gardzstad firir sunnan samtyni rædr þa þadan gardzstadr ofan j lon firir utan hrafnabiorg oc sidan lon ut j sio. a krossanes ollo gelldfe rekstr oc lombum j glerardal. eiga þeir at hallda garde med odrum bygdarmonnum þeim sem þagat eiga rekstr. tueggia manada rekstr j annat mal upp j hraukbæiarfiall ollu bufe edr manadar rekstr bæde dægr. sagde sira halldor til halfkirkiuskylldar a iordunni oc s[k]ilde sira halldor a bauduar ath abyrgiazt fyrnd a kirkiunni oc hennar ornamentis oc at svara porcione. her a mot gaf boduarr sira halldori iord alla a nedsta skridulande j auxnadal med aullum þeim gognum oc gædum sem hann uard fremst eigandi ath med þessum wmmerkium. ʀædr firir sunnan wordur ij hia midskridulandz garde oc ur þeim ʀettsyni wpp j fiall oc nidr j æ enn firir wtan lækiar gil rettsyni wpp æ fiall oc yfer j wallargard yttra a skialldarstodum. oc halfa jord

[1]) [Aptan á bréfinu; með yngri hendi: bref vmm krossanes hallfridarstadi oc nedzsta land; [2]) þ. e. 11. Marts.

a hallfridarstodum med ollum þeim gognum oc gædum sem hann ward fremdz eigandi ath oc henni hefer fylktt ath fornu oc nyiu med þessum wmmerkium. rædr gardr firir uttan oc wpp j læk enn steinn storr j millum auxna hols oc hallfridarstada wid sydre skridu oc rettsyni or honum wpp oc ofann eiga hallfridarstader þessi jtok j annara manna jarder selfor j myrkardal arlega tíutigum asaudar. ij kum. ij. rossum af jordunni. skogr j tungu jord med þessum wmmerkium. warda a halsinum firir sunnan stiga dæli oc rettsyni nidr [j] drangstein uid skugga gautu oc rædr hann sidan ut a hals firir nedan forin[1]). sagde bauduarr til bænhu[s]skylldar a badum iordunum enn skilde ath sira halldorr skyllde abyrgiaz fyrnd a badum bænhusunum. skylde huarr hallda til laga þeim jordum er keyptte en þann[2]) suara logripttingum er selde. oc til sannenda her wm settum wær fyrr nefnder menn war jnsigle firir þetta bref giortt j sogdum stad oc are crastino natiuitatis beate wirginis.

---

## 518. 1. Nóvember 1397. á Holtastöðum.

Einar prestr Þorvarðsson selr hústrú Ingiríði Þórðardóttur jörðina alla á Holtastöðum í Langadal með gögnum og gæðum fyrir lausafé.

Biskupsskjalasafn Íslands Hol. Fasc. II, 2, frumritið á skinni; öll innsiglin, sem hafa verið sex að tölu, eru nú dottin frá. Miðbik bréfsins er máð, svo að nú verða ekki lesin nokkur orð í því, og eingar afskriptir hafa orðið á vegi mínum af bréfi þessu gerðar áðr bréfið var orðið slitið sem það nú er, svo að fylla mætti eyðuna eptir þeim, og annars veit eg eingin rök til, að bréf þetta hafi nokkurn tíma verið afskrifað fyrri en nú, en hér er það prentað eptir stafréttri afskript, er cand. theol. Hannes Þorsteinsson hefir gert fyrir mig. Ritháttr bréfs þessa er einkennilegr og svo sem bréfið væri miklu yngra, og uppskafningr. Bréf þetta er því grunsamlegt og varhugavert.

Kaup Brief sira Einars Þoruarsonar oc hustru Jngerijdar þordardotter vmm holtastade Anno 1397.

Þeim godum monnum sem þetta brief sia edur heyra

---

[1]) f°m, frbr. og má gera bæði úr því: förin og form; [2]) svo frbr.

sender Einar prestr snorrason. þorgeir Boduarsson. þorsteirn Ber[g]sson. petur palsson. jon þorgeirsson. þorarinn gudmundsson. leikmenn. kuediu guds ok sijna kunugt giörandi. ad þa er lided var fra hingadburde vors herra jesu christi [m. 3c. 9⁰ og sio Ar[1]) ä holtastodum i langadal ä allra heilagra messu vorum vier [i] hia ok heirdum ok saum a handaband þeirra Einars þornarsonar af eine alfu. enn hustrur jngerijdar þordardotter af annare ad so firir skilldu. ad sira Einar sellde jngerijde jördina alla a holtastodum i langadal. med öllum þeim gögnum ok giædum sem jordunne filt hafa ad fornu ok nyu ok hann haf[d]i fremst eigande ad orded ok petur biskup hafe sier selt. enn kirk[i]unnar eign sieu þessar jardar. huamr. kirk[i]uskard. hamraland ok halfr kagaraholl. eirnenn filge holtastodum ok hennar eignum alt land firir sunnann holsdæld sudr i þann gard sem liggr næst gunnfrijdarstodum ok vpp i tind ok þadan vt a torfhola. ok so i hlondu. eirnenn halfa selueide i hlonduos a mots vid hialtaha[c]ka kirkiu ok ueidesyke i blondu firir vtan hniukakot. jtem reka vt a deple. skogarhogg i hola huamm[2]) . . . . . . hier i mot gaf jngerijdr sira Einare nyutyu hundrud med þessum fridleika. fimtan kyr. fimtan asaudar kugillde. tiju gielldfiar kugildi. halft huort i nautum ok saudum. þrettan hundrud voru. tolf hundrud i hafnarvodum ok tolf hundrud i hrossum ok til þrettan hundrada i slatrum ok skillde þetta vt lukast a þremr arum. nema jngerijdr vilie skiotara vt luka. enn þat sem ecki likist ut skillde standa med tolf alna ahata huort hundrad fritt af frijdu. en ofrijtt af ofrijdu. jtem skillde jngerijdr a sira Einar ad hann skillde lata giora upp kirk[i]una a holtastodum a sialfs sijns peninga kost. og hafa þar firir þaug fimtan hundrud sem geord voru a kirk[i]una ok henar ornament sijdan sira Einar keipte ad herra petre biskupe. enn ef nockud kinne a ad hresta upp a kirk[i]unar bigging þa skillde sira Einar edr hans erfingiar luka jngerijde firsogd fimtan hundrud. sio kugillde. atta hundrud j uoru. skillde sira Einar ahirg[i]ast laga ripting a greindri jordu. en jngerijdr hallda til laga.

---

[1]) [þannig afskr. Hannesar; [2]) [þetta er mjög óljóst í bréfinu, en þó ætlar Hannes, að víst muni þetta standa þar, svo sem hér er lesið, en þar á eptir verðr ekki lesið »eitt orð og ef til vill annað smáorð«.

Ok til sannenda hier umm setium vier firgreinder menn vor incigle firer nedan þetta brief.

---

519. 2. Februar 1398. á Grund.

Jón Hákonarson selr séra Haldóri Loptssyni hálfa jörðina Grund í Eyjafirði með Holti fyrir tilteknar jarðir.

Frumbr. á skinni í AM. Dipl. Isl. Fasc. V,22; innsiglin dottin frá. Afskr. í bréfab. séra Skúla á Grenjaðarstað AM. 255. 4to bls. 300—301. Frumbréfið virðist vera með sömu hendi og Nr. 510 hér að framan (23. Okt. 1395) og mun það án efa vera bönd séra Haldórs Loptssonar, því einginn annar, af þeim sem nefndir eru í bréfunum, kemr við þau bæði.

[grundar Bref gamallt.
kuittantia vm halfa grund Jonz Hakonssonar[1]).

Þeim godum monnum sem þetta bref sæa ædr heÿra senda eirekr þorleifsson. biarni kolbeinsson. þordr hialtason oc þorkell raudr sueinsson quediu guds oc sina kunnikt gerandi ath þa er lidit uar fra bigat burd uærs herra iehsu christi ꝏ ccc xc oc atta ær in purificatione[2]) beate uirginis a grund i eyiafirdi vorum ver i hea sæm oc heÿrdum æ ath þeir sira halldor loptzson oc ion hakonarson kenduzt med handabandi at ion hafdi sellt sira Halldori alla halfua iordina a grund i eyiafirdi oc allt hollt i eyiafirdi med ollum gædum oc hlunnendum sem þeim iordum hefer fÿlkt ath fornu oc nÿiu ath ongu fraskildu þij ion uard fremzt eigandi ath med halfum þrugstungum oc torbskurd i hamar iord meiri epter þij sem þeim þarfar er æ grund bua. kol af nupufellz skoghi sem þarfar bui a grund j mot skogar part er grund hefer ætt j nupufellz skogha oc stodhrossa gongu i grundar iord. sagdi ion til kirkiu skylldar oc ath vera ætti prestr oc diakn oc kuengilldr vmaghi a allri iordinni. her j mot gaf sira halldorr j fÿstu oc hafdi afhent oc uth lukt iord i huammi j skaghafirdi firir fiorathighi hundrada oc iord ath hrauni i slettahlijd firir tuttughu hundrath oc þar til sexthighi kugillda. oc saker þess ath þetta goz var ædr longhu lukt giorde nefndr ion ædrnefndan sira halldor ollungis kuittan af ollum fyrsaugdum iardar verdum

[1]) [Aptan á bréfinu með annari hendi, og stendr neðan við NB.;
[2]) í þessu orði er skrifað latínskt f.

firir sigh oc sina epter komendr j sama handabandi. Ok til sannenda her um oc þess meiri stadfestu setti ion hakonarson sitt insigli med varum insiglum firir þetta bref giorth j saugdum stad deghi oc æri sem fyrr seghir.

---

520. 28. Februar 1398. á Sámstöðum.

Hallr Svarthöfðason selr Jóni Gilssyni jörðina í Kalmanstungu í Borgarfirði, en Jón lætr í mót jarðirnar Sámstaði, Skarðshamra og Kleppstíu, allar með tilgreindum ummerkjum, og fer þetta fram með samþykki kvenna þeirra beggja.

Bisk. Skalh. Fasc. VIII,15, frumbréfið á skinni; AM. dipl. afskrr. Nr. 2602 »er accuratissime confererad vid originalin, sem liggur í Skälhollti og ber ecke ä mille um ord, stöfum, band edr punct«. Afskriptir af bréfinu eru og í AM. 258. 4to bls. 284—89 (gerð fyrir Brynjólf biskup 1. Aug. 1659) og í Landsb 115. 4to I, bls. 201—205 (gerð eptir 258 í Reykholti 28. Sept. 1721).

Jn nomine domini amen.

uar þetta kaup þeirra hallz suarthofdasonar af annari hælfv enn jons gilssonar af annari. ath hallr selr nefndum joni jordina j kælmanztunghu j borgarfirde med ollum gognum oc gædum sem þeirri jord eighr ath fylgia ath fornu oc nyiu oc [ei] er med loghum fra komit oc hallr vard fremst eigandi ath med þessum vmmerkium. ʀædr hafr ær gil or jokli oc framm j huitæ. enn huitæ ʀædr ofan til gunnlaughs hofda enn vestr kuisl ʀædr vpp til hæfa ʀauns. fra hæfa hrauni oc vpp at vidgelmi. fræ vidgelmi oc j gilit firir nedan kleppa skogh. or gilinu oc j hamartiorn. þæ or hamrinum er stendr firir vttan hamartiörn oc j axlartiörn. þæ ʀædr gilit or axlartiorn oc framm j dalsæ. þæ rædr dalsæ oc vpp j þoruardzstada vautn. or þoruardzstada votnum oc vpp j arnarstein. þæ j suinalæk. þæ j vlfsvatnzær lon. þæ ʀædr wlfswatnzæ vpp ath gnupdæla gotum. þæ gnupdæla gautur nordur j lækinn er fellr or leirutiorn enni nyrdri. þæ austr eptir ʀyggium j vorduna firir nordan torfavautn. þæ or vordunni sionhendingh j millum torfa vatnz hit efsta oc hlijdar vatnz fyrir nordan hæuada vatn vpp j vestr hæd. þæ or hædinne austr j endann j ʀettavatni enn

sŷdra. þæ austr epter heidi fyrir nordann ælftavautn j jokulsenda. þæ ræda joklar fŷrer sunnan balljokul j hafrærgil.

Ero þessi jtok j jordina. gilsbacki æ skogh ofuan fræ hæfua Rauni med vestrkuisl. enn fliotz tunghu menn vpp fræ hæfua Rauni oc til Rissgautu gegnt Rafna biargargili oc hrishogg j kleppaskogh annat huart til sels ædr stecka oc eigi lenghr enn kælmanstunghumonnum endiz til sels. sambeit æ fliotztunghu hæls vpp ath læk þeim er fellr or þorgeirs tiorn fram j fliot [eiga biarnarstadir ok halkelsstadir skog[1]) j millum nordr klifs oc skridu vpp af selia tunghu.

Her j mot gefr fŷrr nefndr jon ædr greindum halle jordina sæmsstade j huitær sidu. jordina skardzhamra oc jordina kleppstiu j nordrærdal med ollum þeim gaughnum oc gædum sem þeim jordvm eighu ath fŷlgia ath fornu oc nŷiu oc jon vard fremst eighande ath. Eru fŷrr nefndir sæmsstadir med þessum vmmerkium. Rædr teigs[gil][2]) framm j huitæ. oc vpp j hæfua fellz vatn hit ŷtra. þadan nordr ath gautu þeirri er liggr til Reŷkiaholltzsels af sæmsstada selia gautu. þæ Rædr þuerlækr fram j kiaRæ. fyrir nordan kiaRæ. ofan ath merkigili oc vpp ath grof þeirri er næst er fyrir nedan haukagils sel. oc suo langt nordr æ sem vatnfaull deila. fyrir sunnan æna vpp ath miofua vatnzlæk suo sudr yfir fiall ofuan ath merkigrof. torfskurd ŷfuer j sŷgnŷiarstadanes. oc tueggia torfRossa beit. oc her ofan æ fiortæn kwgillde hælft huart. oc þar til þrettan kŷr oc hælft niunda æsaudar kwgillde. tuau gelldfiar kwgillde oc fiortan aura hins þridia hundrads oc hundrat vôru. vj. Ross. vij. hundrath j voruvirdum vadmælum.

Samþŷcktu þetta þeirra jardarkaup hwsfrwr þrættnefndra manna hallz oc jons. jngigerdr oc katerin med handabande. lagde títtnefndr hallr mæla jngigerdar konu sinnar vpp j sína beztu eighn þæ er hann ætti. ædr eigandi ath ŷrdi. voro þat

---

[1]) [»þesse ord j originalnum ritud med annari hende enn ä hinu er j brefinu, og med gnlara bleke. Hefer hier andsynelega eitthvad utskafid vered, og þetta sett j stadinn þess ntksafna. þo er honden ä þessu utstrikada ad visu gômnl. og kannskie älijka gômnl sem brefed sialft. annars er liklegast hier muni einhverier pretter under bua«. (AM.); [2]) gil, seinna viðbætt; hefir npphaflega gleymzt úr í frbr. Árni segir það muni eiga að standa gil.

ættatighir hundrada. kynni oc nockut at riptaz vpp j jordina æ sæmsstaudum. skilldi hallr ser jafnmörgh hundrut aptur j jordina j kælmans tunghu joni til orlausnar. ædr hans erfingium. helminghar goz. suo oc ei sidr skildi jon sér aptr þilika penningha sem hann lagdi j ef nockur brigd kæmi æ kalmanstunghu. Skal huarr suara lagha riptingum æ þeim jordum er selr. enn sæ halda til lagha er kaupir.

for þetta kaup fram med handabande j reykiahollte j borgharfirde drottins daghinn næsta firir cathedracionem petri apostoli. þessum vottum hiæverondum gunnari presti gilssyne. ærna presti þordarsyni. sælomoni brandzsyni. hauki finnzsýni. halldori pælssýne. pæli steinssyne oc morghum audrum godum monnum.

Ok til sanninda her um settu fýrr nefndir menn sin jnnsigle firir þetta kaupbref. skrifuat æ sæmstodum. fimta daghinn næsta fyrer festum johannis holensis þæ er lidit var fra hingat burd vors herra iehsu christi þushundrat ccc. niutighir oc ætta ær.

---

521. 26. Marts 1398. á Grenjaðarstöðum.

Steinmóðr prestr Þorsteinsson gefr Jóni bónda Björnssyni og Þorgerði húsfreyju hans fult umboð um tólf mánuði yfir öllum eignum sínum fyrir norðan Öxnadalsheiði og sérlega yfir staðnum á Grenjaðarstöðum.

AMagn. Dipl. afskrr. Nr. 3. með hendi Jóns bróður Árna »ex originali«, sem var á kálfskinni; innsiglið var brákað; afskriptin er stafrétt og mjög nákvæmleg.

Øllum monnum þeim sæm þetta bref sia ædr hæyra sænder stæinmodr prestr þorstæinsson kuædiu guds oc sina. kunnigth giörandi ath æk hæfer fæingith minum godum win. joni bonda biörnssyne oc þorgerdi konu hans. med handabandi fullt oc lauglight umbod mitt yfer ollum minum goozsum faustum oc lausum fridum oc ofridum. þeim ær æk a. ædr wærnd yfer hæfer. firer nordan auxnadals hæidi. oc siærligha yfer stadnum a græniadarstödum oc öllu þui sæm þar stændr saman. skal jóón jardir minar byggia oc landz skylldir oc bufiær læighur vppbæra miær til æighnar. oc þar med allar þær skulldir sæm

med laughum æru a mitt goozs hæimtar oc æi sidr. aullum þeim kaupum kaupa sæm honum sýnazst minu bui nýttiligh være. hiær med skal hann. alla þa pæningha. vthæimta sæm adrir menn æru miær skulldughir. bæida oc kræfia oc sakir á gæfa æf halldit ær vriættligha oc æfter kiæra. ath suo fullu sæm æk sialfr þar til sæm fullriætti mitt snærtr. jtem skal jóón hafa vmbod yfer ollum rækum stadarins a græniadarstôdum oc minum huat hælldzt sæm a kann ath bæra. þat mier bær til halldz ædr æighnar. oc hafa af huaulum æf koma kunnu siær til æighnar afhlaup skurda oc mægringar. bæin oc sæými. jóón skal oc hafa suo margha menn a minn kost sæm honum þikir siær hænta huart þath ær hælldur bôrn hans ædr adrir menn. Jtem skal hann mægha umbod fa audrum monnum vt af siær. yfir minum goodzum þar sæm honum þikir þurfa. skolo þeir oc allir kuitter minna wægna sæm hann tækr pæningha wt af. skolo græindir menn joon oc þorgerdr þæssum minum umbodum hallda. um næstu toolfmanadi. oc þat læinghr sæm oss likar. oc standa i aungum abyrgdum um min goodz. utan vm vænda þeim miær til gooda sæm þeim likar oc til sanninda hier um sætta æk mitt jnzigli firer þetta bref giôrth a græniadarstôdum. æinni nátt æpter mariumæssu j faustu anno domini: ᗰ°. ccc°. xc°. viij.

---

## 522. 29. Marts 1398. á Möðruvöllum.

Úrskurðr Steinmóðar officialis Þorsteinssonar um mál Erlends Bergþórssonar, er setið hafði heimildarlaust á Hnúki í Skíðadal, jörð klaustrsins á Möðruvöllum, og þar með haldið ófrjálsum kúgildum klaustrsins.

IBfél. 125B. 4to nr. 192, dóma og bréfabók frá c. 1670—80 mjög fúin. MSteph. 61. 4to bls. 5—6 og fyllir það nokkurnveginn skallana í 125, skr. c. 1800, en sú afskript er í sjálfu sér lakari en 125.

Domzalit ef madr sitr a otekinne jordu.

Þad giorer Steinmodr prestr þorsteinsson Holakirkiu offi-

40*

cialis kunnigt[1]) at anno [ꝏ°. ccc°. xc°. viij°.[2]) fostudaginn firir palmasunnudag a ꝏodru[vollum] kom a stefnu firir mig sira sueinn ꝏagnusson j fullu um[bodi] klaustrsins a ꝏodruvollum oc herra petr biskup af einni alfu enn Erlendr bergþorsson af annare. hverir þar logdu vndir minn vrskurd med handabandi huilikra suara oc sekta greindr Erlendr væri skylldugr klaustrinu a ꝏodruvollum firir þa sok er sira Sueinn kærde til hanz sem var ad hann hefdi setid a stadarinz jordu otekinni ad heimilld er hniukr heitir oc halldid þar med viij kvgilldum heimilldarlaust firir stadnum fra næstkomandi fardogum oc þar til þa var komid. Nu saker þess ad Ellendr gat ongua votta leitt ad. ad sira Sueinn hefde bygt honum þa jord edr kugilldin vm firsagdan t[ima] oc annars ad sira Sueinn sor fullan bokareid med huilikum skilmala hann hefde bygt Ellende sagda jord firra arid oc huert fortak hann hefde þar med sett. huer bygging mer leizt eckert afl hafa Ellende til frelsis edr asetu a sagdri jordu. so oc let sira Sueinn sueria ad hann hefdi krafid oc beidst sagdrar jardar at næstkomandi fardogum er var oc so kugilldanna af Ellende oc ofrelsad honum þad allt til asetu oc medferdar enn feingid þa ecki. So oc var þar svared firir mer at sira Sueinn hefde sagt Ellende vm haustid ad hann villde ecki Ellendr bygge leingr a sagdre jordu enn til næstkomandi fardaga effter. medkendest Ellendr ad hann hefde a firr[nefndri] jordu setid sidan fardaga oc til þess nu er komid oc so stadrinn ætti so morg kugilldi [hia ser sem sira Sveirn sagde. Þvi i guds nafne seige eg med fullum laga urskurde oc[3]) samþycke oc rade þeirra be[stu manna sem hia mer voru greindan Ellend sitia oc setid hafa a[3]) [o]tekinni jordu oc ofrialsre heimilld[arlaust][4]) [jordu Hniuke[3]) oc allar þær landsnitkaner oc avoxtu af [sagdri jordu oc kugilldum oheimilar[3]) haft hafa a þessum tima ollum sem sira Sueinn kæ[rdi um[3]) oc hann[5]) þar firir fallinn j bann af sialfs sins[6]) verkum oc skylldugann [at taka lausn oc[3]) skripter. her med dæme ec Ellend skylldugan ad hafa [flutt] fra jordunne hniuke

---

[1]) Ollum monuum þeim sem þetta bref sia edur heira senda Steinmodr prestr Holakirkiu officialis q. g. oc sina. kunnigt giorande 61; [2]) [1398, 125; [3]) fúið úr 125; [4]) þetta orð vantar í 61; [5]) Ellend 61. [6]) b. v. 61.

med allt sitt jnnan. v. natta hedan j fra enn klaustrinu a Modruvollum dæme ec oll þau hey til eignar oc torf sem saman standa a tedre jordu hniuke oc þar a ofan luke Ellendr klaustrinu xv merkur j sitt fullretti ad næstum fardogum oc xij aura j landnam oc þar til averkabot eptir giord vj manna er ec þar til nefne. Jtem firir hey oc torf þat sem hann hefr gefid oc ellt. skal hann luka stadnum suo marga peninga sem godir menn giora ad þad hefr vert verid þegar sed verdr huersu vitt ad slegin hefr verid jordin oc so torfgrafir huersu vidar vera kunna. skylldu allir þessir peningar vpp lukaz ad [næstkoman]di fardogum. med sama vrskurde sagdi ec Ellend skylldugan ad afhenda sira Sueine oll þau kugillde sem hann hafde med þeirre jordu halldid nu jnnan firsagdra. v. natta heima ad hniuke. enn j avoxtu þar af skylldi hann luka stadnum ad næstu fardogum vetrgamlan saud epter hueria a oc kalf af huerri ku. enn xij alnir fridar af hueriu gelldfiar hundradi oc þar til skyr. smior oc syru oc vll af malnitunne so mikid huert vm sig sem godir menn giora oc nefni til so langan tima sem hann hefr kugilldunum ofrialsum halldid. enn adra peninga her firir ef ecki er skileyrir til. dæme ec adrnefndan sira Suein skylldugan ad vera kominn til hniukz jnnan. v. natta þessa peninga ad med taka nema þeim semi her vm annad sin a millum. Oc til sanninda her vm [setta ec mitt officiolatus jnnsigli firir þetta vrskurdarbref].

---

523. 11. Juni 1398. á Hnúki i Skiðadal.

Sex menn vотta, að þeir hafi verið tilnefndir af Steinmóði Þorsteinssyni, officialis Hóladómkirkju, til að meta hve mikið Erlendr Bergþórsson væri skyldugr klaustrinu á Möðruvöllum fyrir slátt og torfskurð í Hnúksjörð á fyrirfaranda ári.

IBfél. 125B. 4to nr. 193, dóma og bréfabók á pappír frá c. 1670—80 mjög fúin. MSteph. 61. 4to bls. 6—7 ágrip skr. c. 1800.

Su seinne alyktan þessa malefnis[1]).

Þat gerum ver jon þordarson. jndridi asgrimsson. eyiolfr

[1]) Á undan er úrskurðr séra Steinmóðar frá 29. Marts 1398 (= Nr. 522).

Jonsson. prestar. [pe]tr gunnarsson. jon þorgilsson oc þorsteinn botolfsson leikmenn godum monnum kunnigt. at a þvi ari [ↀ⁰. ccc⁰. xc⁰. viij⁰.[1]) fimtudaginn j fardogum at hniuki j skidadal vorum ver tilnefndir af sira steinmodi þorsteinssyni hola domkirkiu official[is] at meta. virda oc alita huersu marga peninga erlendr bergþorsson væri skylldugur klaustrinu at modruvollum firir hey þau oll. er hann hafde slegid a jordu þeirri þat firirfarandi ar oc torf þau [er] hann skorid hefdi a somu jordu oc firir beit. er hann hafdi haft a þeirri jordu fyrnefndan tima. firir hvad alt eitt med odru at ver gerum full xvc. halft voru. en firir averka. sem hann hefir gert a sagdri jordu gerum ver v^c j hafnarvodum edr odru fridvirtu fe. en firir vll af. xv. am oc. x. saudum. viij. fiordvnga vllar. en smior af greindvm am oc. iiij. kum gerum ver. xxxvj. fiordvnga. en skyr xxxix skiolur oc þar til halfa ena fiordv tvnnv syru. en ef allr þessi skileyrir er ekki til gerdum ver þar firir. iij. kugilldi oc. ijc. vadmala. oc verda nu þeir peningar allir eptir vorri giord. sem erlendr bergþorsson er klaustrinu skylldugr halft tolfta kugilldi viijc voru oc halft siovnda hvndrad vadmala edr annad fe fridvirt. ef þessi skileyrir er ekki til. Oc til sanninda her vm [settvm ver fyrgreindir menn vor jnnsigli firir þetta bref][2]).

---

## 524. Sumarið 1398. í Kálfanesi.

Úrskurðr Þorsteins lögmanns Eyjólfssonar um landamerki milli Hróbergs og Víðivalla í Steingrímsfirði.

Pappírsafskript meðal draga Jóns Sigurðssonar til Fornbréfasafnsins, og er hún með hendi Þórðar kammeráðs Guðmundssonar, þá sýslumanns Árnesinga, og mun vera gerð eptir vidimus frá 1737, sem gert var eptir vidimus frá 1695, en það vidimus var gert eptir vidisse Odds Pétrssonar og Andrésar Guðmundssonar frá 1490, sem gert var eptir frumritinu sjálfu og var þá innsigli Þorsteins lögmanns fyrir bréfinu. Afskriptarvottorðin hin þrjú síðustu hljóða þannig:

So látandi Brief sem hier fyrer ofann skrifad stendur hliodandi

---

[1]) 1398, hdr.; [2]) Og til sannenda etc. etc. a Vellum i Svarfadardal 61.

um landamerki á milli Hróbergs og Wydevalla høfum vier sied og yferlesed á kalfskinn nockud lasid enn þó læsilegt med underhangande Jnnsiglum Oddz Peturssonar og Andresar Gudmundssonar til merkis vor nôfn underskrifud og Jnnsigli fyrirfest ad Arnarstapa. Anno 1695 þann 18. Aprilis.

Jacob Benedixsson. Bôdvar Jonsson. N . . . . . . Grijmsson.

þetta hier fyrir ofannskrifad er riett Copie af þvi Forskriftarbriefi a Pergament med tveimur hangandi Jnnsiglum, sem vier sáum Biskupinn Magister Jon Arnason hafde under hôndum i Skalhollte. þad þridia Signetid var i burtu enn annad af þeim sem epter voru losnudu fra þegar verid var ad fara med Briefed og lesa þad saman vid þessa utskrift, so nu er ecke nema eitt Jnnsigli eptir fast vid Pergamentsbriefid, þo skert. Nôfnin tvô skrifud fyrer ofan Jnsiglinu urdu lesenn. so sem her er ritad, enn þridia ecke nema fôdurnafned. Til merkes ad Skalhollte d. 3. Junij Anno 1737.

Runolfur Runolfsson. Einar Jónsson. Olafur Brynjulfsson.

Rétt afskrifad eptir handriti med fornri hendi.

Th. Gudmundsen.

þad giôre eg þorsteinn Eýolfsson laugmann nordann oc vestann ä Jslande godum mônnum kunnugt med þessu minu opnu Briefe. ad ä Stad j Steingrimsfyrde kom firir mig Jon Jonsson og klagade um þann ojôfnud. er hann þottist fa af sira Biarna þordarsyne er þa hiellt Stad j Steingrimsfyrde. um þad hann hiellde og eignade [ser] af sinne jôrdu Hroberge land a mille kugilldislækiar oc Raudaskridu. krafdest eg þa adurskrifadur lôgmann af sira Biarna þordarsyne kyrkiunnar skilrijkis um greind landamerke. hvor hann sagdest eingen hafa utan annara manna sôgn. Lagde þä ädurnefndr Jon Jonsson fram Brief Einars þorbiarnarsonar med hans heilu og oskôddudu hangande Jnnsigle. sem att hefde badar jardernar Hroberg oc Wijdevelle. so latande. ad milli fyrskrifadra jarda Hrobergs oc Wijdevalla riede sa lækur. sem kendur er kugilldislækur. landareign af fialli ofan til reidgatna og sijdann sionhending yfir um þverar eyrarnar i Stadaræ j enn forna farveg oc alldrei seigist hann vitad hafa ônnur landamerki mille greindra jarda. Þvi i Guds nafne amen. urskurda eg greindur lôgmann. med fullum lagaurskurde. þesse landamerke j allann máta skialleg og myndug. oc Jon Jonsson [mega] brúka og býhallda j þrattskrifadan Kúgilldislæk. eptir þvi sem Brief Einars þorbiarnarsonar innehiellt.

Og til sanninda hier nm set eg þráttskrifadur lǫgmann mitt jnncigle fyrer þennann minn laga urskurd hvor skrifadur var j Kälfanese um sumarid þá lided var frá Gudz Burd M. ccc oc ix tyger og viij ár.

525. 1398.

Skrá um góss það, er séra Pontianus Ólafsson tók við og átti Oddr Ásbjarnarson.

British Museum Add. 11,245. 4to bl. 224b (FM. 402), tekið upp í máldagabók Odds biskups frá 1590, eptir mjög rotinni skrá kirkjunnar í Kálfholti (sbr. Nr. 339 hér að framan).

[Kalfhollt].

Anno domini m°. ccc°. xc°. viij°. tok eg vid suo miclu gotzi sera pontianus Olafsson er atti Oddr asbiarnarson.

Jn primis attatijger asauder og tuær ær gielldar. xij sauder tuævetrer. x. gamler med hrutum. xl. veturgamler og einn saudur. iiij. kyr. þreuett naut og annat tuævett. ij. veturgomul. iij kalfar. iij hross og hit fiorda tuævett.

trog. strockur. viij kerolld. ij. askar. einn diskur. iij. skaler. ij. kistur. kambar. veftrie. vog. vond augs. einn liar. þrenn reip. ij. klifberar. ij. hrijfur. litill pottur og einn pottur vnder. einn ketill bættur þrimur botum a botne. einn heill annarstadar. eitt liene og reckiu[1]) leppur vondur.

526. 1398.

Rekaskrá Helgafellsklaustrs.

A.

AMagn. 264. 4to bls. 22—23 papp. skr. 1606; AM. dipl. afskrr. Nr. 1628 með hendi Árna Magnússonar. Vilchinsbók er höfð hér til samanburðar. Sbr. Nr 70 hér að framan.

Helgafellz maldagie umm reka a Straundum.

Þessa reka a stadurinn ad Helgafelle nordur a Straundum.

[1]) Dálítið óljóst, en sýnist þó eiga að vera þetta orð; mun eiga að vera: reckiu vodar.

J Basa halfan ʀeka.

allann j millum hr[ute]ý[ar][1]) kleifar oc merki hamarz.

A kalldadarnese fiordung j aullum ʀeka oc fiordung j aullum agoda ad afteknu þuesti oc beinum med halfum fiordungi oc ad auk kiaurtrie j þrijtuteig[2]).

J hlijdarlandi attungur j hualreka.

Ad melum enn sextandi[3]) hlutur j hual.

Millum skardz oc knarrarness allann vidreka oc hvalreka.

Enn millum skardzaross halfan hualreka. oc ad auk þann þridiung ur helminge er þordur Narfason gaf.

Attung j hualreka oc vidreka aullum med ægoda oskierdan fra ʀauf til knarrarness. er Jon b[ondi] huammur gaf. skilur rekamark sa hinn jnnre[4]) forvadi er geingur [j sio] ut.

æ Reikianese fiordung j vidreka oc hualreka oskierttann. oc at audru[5]) attungur ur þeim fiordungi sem Gudmundur hefur att.

J [Akur]vijk millum [sp]ordz oc Varmalækiar helming j hualreka oc vidreka halfann.

J R[ifskeri]um fiordung j aullum ʀeka.

Ad giogre attungur j hualreka.

J kerzvogie oc fiordungur j aullum reka.

[Ad kambi hinn] sextanda partt j hual.

[J Veidileysu oc] Rekavijk allann reka oskerdan med ægoda.

Tolft[ungur j hualreka] j býrgisvijk oc settung j vidreka.

Attung j Kalldbak [oc Saur]a reka alltt mille kolbeinz ar oss.

[Ad kle]ifum fiordung j aullum hualreka agodalausa[n]. er hromundur jngialldzson gaf.

J Kleifarvijkum allan hualreka oc allan vidreka.

J ey enne [ytre] halfur hualreke oc suo j kasarholme med ar[va sker].

attungur j hualreka j aspar vijk.

attungur j hualreka [j Biarnarnesi].

J Bæ j steingrimzfýrde halfur hualreke oc þridiungur j vidreka.

---

[1]) Hér hefir verið fúið úr Helgafellsmáldagabókinni fornu, þegar skrifað var upp 1606; [2]) þrætuteig, Vilch. og Gyrð.; [3]) sextanda, hdr.; [4]) ysti, Vilch.; [5]) auk, Vilch.

ꝫ drangznese fiordung j aullum reka.
J Akranese allan vidreka oc hualreka.
Laxveidur alla j straumfiardarꝫ.

---

**B.**

AM. 264. 4to bls. 23 papp. skr. 1606. Er þetta hér sem viðbót við rekaskrá Vilchins, og er að nokkru leyti tekið úr rekamáldaga Þórðar Sturlusonar frá 1280 og rekaskrá Gyrðs frá 1355, en niðrlagið er merkilegt. AMagn. Dipl. afskr. 1629.

Jtem a klaustrid þessa reka ad auk þess sem fÿrr seiger.

Jn primis j þ[or]p[um] millum grindar[1]) oc Karahafnar ad helminge vid Tungustad[2]) [hinn tolfta hlut][3]) j aullum hualrekum.

millum hafnarness oc hollslækiar helming vidreka.

[Fyrir Gufu][3])skalum allann reka oc renningar oc flutning.

[Fyrir][3]) Bakka firir sunnann heide fra Hraunzhelle[4]) oc ut þar thil saman liggur [diupsker][3]) oc landzskier. þa er madur stendur ꝫ mel uppi hia stein[um þeim er][3]) sionhending taka j vedrafoss.

Jtem samþÿckti oc stadfeste þennann reka maldaga herra Gyrder biskup j Skalholltte Anno ciↄ ccc l v. Saumuleidiz samþÿcktte hann Sÿgurdur laugmadur ꝫ nijunda are oc þritugasta virduligz herra magnusar kongz[5]).

---

## 527. 21. Juli 1398. í Skálholti.

Þrír prestar transkríbera rekaskrá Helgafellsklaustrs.

AM. 264. 4to bls. 22—23 papp. skr. 1606; AM. dipl. afskrr. Nr. 1628.

Aullum godum monnum þeim sem þetta bref sia edur heyra kunngiaurum vij þorsteirnn prestur Suartthofdason of-

---

[1]) grundar, hdr.; [2]) Tungustadi, hdr.; eingin eyða hér í hdr.; [3]) eyða; máldagabókin forna hefir eigi orðið lesin fyrir fúa 1606; [4]) rétt: Hrafnshelli; [5]) = 1358, sbr. Nr. 70 hér að framan.

ficialis heilagrar Skalholltz kyrkiu Halldor prestur Jonsson Radzmann oc Saulmundur prestur Jonsson. ad vi saum oc ýferlasum j maldagabok kýrkiunnar j Skalholltte Rekamaldaga klausturzinz a Helgafelle suo latande sem her skrifad stendur [Hér kemr sama rekaskráin og Nr. 526A]. Og til sanninda [etcetera]. Skrifad j Skalhollte næsta dag epter þorlaksmesso Anno Domini cıɔ ccc xc viij.

---

## 528. 7. Oktober 1398. á Ási i Holtum.

Runólfr Jónsson, Björg Skeggjadóttir kona hans og Hallr djákni sonr þeirra selja Árna Einarssyni jörðina Gunnarsholt á Rangárvöllum með gögnum og gæðum, ásamt Kotbrekkum og Grákollsstöðum.

AM. dipl. afskrr. 2157, eptir transscripto á pappír frá 26. Apríl 1679; tvær afskriptir; transscr. var hjá séra þorsteini Oddssyni í Holti. Bréfið var lesið upp á Heggstaðaþingi í Andakíl 26. Apríl 1679 og votta það þorvarðr Magnússon, Böðvar Jónsson, Jón Jónsson, Guðmundr Marteinsson, Jón Benediktsson, Snorri Marteinsson og Jón þórðarson.

Jn nomine[1]) Domini Amen.

Giordest so felld[t] kaup j millum Arna Einarssonar af eirne ālfu og Runolfs Jonssonar. Biargar Skeggiadottur hustru hanns. og Hallz diakna sonar þeirra. af annarre. ad nefnder menn Runolfur. Biörg og Hallur. selldu greindum Arna jardernar Gunnarshollt. Kotbreckur og Grakotllstadi[2]). med ðllum þeim gȯgnum og giædum sem þeim jȯrdum eiga ad fylgia og hafa fylgt ad fornu og nýiu. og ej er med lȯgum undan komid. Sagdi nefndur Runolfur ad j Gunnarzhollte ætte ad vera prestur og diakne. og kirkian ætte þar fiordung j heimalande j Kotbreckum og xij. kyr. xxx. asaudar. iiijc. j vadmālum og hrossum. skillde hann og af sier kirkiu Reikning allan smāan og storan. og þad sem ornamentum ber til. um so langan tima sem hann hafde bued j Gunnarshollte. og Oddur Arnason hafde a hann skilid i þeirra kaupe. Hier j mote gaf ādurnefndur

---

[1]) nomini, hdr.; [2]) þannig báðar afskrr.; Grákollsstaðir, stendr í Gunnarsholtsbréfi frá 12. Júní 1475.

Arne xl kugillde og xl$_{e}$ j vadmälum. slätrum og hrossum. allt samt vôru virdt. Skyllde greindur Runolfur taka under sier j landzverdid þad ädurgreint lausagotz sem kirkian ätte. og þad gotz med sem þau hôfdu ädur jätad ädurgreindum Arna. Enn þad meira er skyllde hann utluka a tveimum aarum jafnmikid a hvoru. Sagde og þrattnefndur Runolfur ad Gunnarshollt ætte attrædar torfgrafer til moskurdar ärlega j Helluvadz jôrd. og fiskveide j Hroadzlæk. tvo daga j viku fyrir hvôrs manns jôrdu ofann ur vatne og ut j ä. þä sem sä kys er j Gunnarshollte býr. og stinga torf til vatzupptôku j meire Breckna jôrdu ä vetur j Gunnarshollte sem þarfuast. tveir skogar j Næfurholltz jordu. Fiara med ummerkium fyrer Stackhollte og Backa. eru þau ôrnefne hin eystre: Ellding j millum Biarnareyiar og Ellidaeyiar uppe. Enn hin vestre fiôrumôrk ad Sudurey ä ad brydda framm undan klett. Hellunam er ur Gunnarsholte j eystre Kirkiubæar iôrd sem þarfuar og v. hrossabeit j ytre Kirkiubæiar iôrd ä sumar enn x ä vetur. og gefa alin til geymslu ä hvort hross. Gunnarshollt ä og ey er liggur j Rangä fýrer ofan Baulversfoss. honum hina næstu. Ollu gielldfiar rekstur ur Gunnarshollte j nordurkinn. og hallda þar nautgarde med ôdrum mônnum þeim sem þangad eiga rekstur. og fä mann i safn ä hausted. Skylldu þrättnefnder menn Runolfur. Biôrg og Hallur son þeirra svara ôllum lagariptingum og brigd ef ä kynne ad koma þrätt sagdar jarder. enn greindur Arne hallde þeim til laga.

Var þetta bref giort j Ase j Holltamanna hrepp. manudaginn næstan fyrer vetur. þa lidid var fra hingadburd vors herra Jesu Christi þushundrad. þriu hundrud niutige og atta ar.

Vottar ad þessu ofanskrifudu kaupbrefe voru þar og underskrifader[1]).

Pontianus Olafsson. Eysteinn Þorkelsson.
Þorsteinn Þordarsson. Andres Svartzson.
Halldor Jsleifsson. Magnus Sveinsson.
Olafur Olafsson.

---

## 529. 28. Oktober 1398. á Reynistað.

Steinmóðr prestr Þorsteinsson lýsir því að hann og Ólafr

[1]) Það er mjög einkennilegt, að bréf þetta er undirskrifað í staðinn fyrir innsiglað.

bóndi Sigurðarson hafi orðið ásáttir um það, að Ólafr léti staðinn á Hólum fá jörðina Yzta-hól í Sléttuhlíð upp í það ílag, er staðrinn átti í Sölvanesi, alls tíu hundruð, og nefnir hann menn til að meta jörðina.

Bisk. Hol. Fasc. III. 1, frumritið á skinni, og er eitt innsigli fyrir bréfinu, en annað er dottið frá. AM. dipl. afskrr. Nr. 3569 með hendi Snorra Jónssonar eptir frumbréfinu. Hér er prentað eptir afskript Hannesar cand. theol. Þorsteinssonar, og er af samanburði afskriptar hans við 3569 auðséð að séra Snorri hefir ritað bréfið nákvæmlega. Afskriptir eru í Bisk. 2. Fol. bls. 23—24 og og Landsb. 18. Fol. 33—34, en þær eru hvor annari verri.

Ollum monnum þeim sem þetta bref sæa ædr heẏra sender stæinmodr prestr þorsteinsson hola kirkiu ʀadsmann q[uediu] guds ok sina kunnight gerannde ath saker þers ath olafr bonnde sighurdarson hæfer sellt stadnum a holum jordina a yzta hole j slettahlid ok wid hôfum asatter wordit at stadrinn skal taka hana suo dyrt sem þeir sex menn meta sem ek nefner til j moti þui tiu hunndrada jlaghi sem stadrinn atte j sǫluanes. woro þat tiu hundrath wôru. þui nefnner ek þersa menn til at meta sagda jord a yztahole huersu dyrt stadrinn skal taka hana j moti fyrr græindu jlaghi. þorstæin prest gunnarsson. þorstæin stæinmodsson. asgrim snorrason. stæinþor ormsson. karl olafsson ok arna a midhole. skulu þessir menn til koma græindrar giordar j þann dagh sem fader minn werdr lidugr hæima a yzsta hole. en ef nockurr fyrr sagdra manna kann þa æigi til koma. skal þorsteinn adra j nefna j kirkiunnar wmbode ok mino. ok saker þess at ek olafr sighurdarson kennizst þetta satt wera þui setta ek mitt jnncighli med jnnsighli sira stæinmodar firir þetta bref giort ath stad j ʀænisnesi jn festo simonis et jude. anno domini ꝏ⁰. ccc⁰. xc⁰. viij⁰.

---

530. 9. Nóvember 1398. á Skarði.

Ormr Snorrason vottar um kaup sitt á jörðunni að Hrísum í Helgafellssveit og um landamerki jarðarinnar.

AMagn. 264. 4to bls. 13 papp. skr. 1606; AM. 252. 4to bls. 54—55 skr. c. 1660, sbr. bls. 52 sama handrits, þar sem er ágrip af

bréfinu; AM. 430. bls. 13, séra Jón í Hítardal c. 1730 (ágrip); bls. 15—16 (heilt); AM. dipl. afskrr. Nr. 1565 (ágrip), Nr. 1566, Nr. 1627, Nr. 1640 (ágrip), Nr. 1662.

Kaupbrief firer Hrijsum og suo maldagie þeirrar jardar[1]).

Aullum godum monnum sem þetta bref sia edur heyra sender Ormur Snorrason kvediu Gudz oc sijna kunnigtt giaurandi ad Marteinn bonde Þorleifsson sellde mier landid[2]) j hrisum med natthaga. oc suo hafde eg akallzlaust alla tijma. oc med þui sellde eg Odde Ketilssyne Hris[3]) med natthaga. oc ad Hrijs[4]) atte alla jaurd oc beit firir ofann girdingar[5]) til motz vid Karstadi[6]). Ek keypta oc Suelsaa af fyrrnefndum Oddi. oc fylgde ecke natthage. og med þui sellda eg suelgzaa Magnuse. Ek atta oc Karstade j Alftafyrde oc hellur. oc hefvr eg alldri hellum heÿrtt eignad eingid[7]) hardmagie. oc alldri tuimæli aa ad Karstader ætte hardmaga. Og þetta vil eg framar sanna ef þurfa þiker. Og til sanninda et cetera. giaurtt ad Skardi in festo Theodori martÿris Anno cıↄ ccc⁰ nijetijger oc atta ar.

---

## 531. 10. Nóvember 1398. á Bessastöðum.

Ólafr bóndi Jónsson selr Guðmundi presti Þorsteinssyni jörðina Bessastaði í Fljótsdal fyrir Torfastaði í Vopnafirði með tilgreindum landamerkjum.

AMagn. Dipl. Isl. Fasc. V,23; transscriptum fjögurra manna á skinni frá 20. Apr. 1487. Í Lögþingisbókinni 1779 bls. 17, þar sem geinginn er dómr um reka Refstaðakirkju í Vopnafirði, er getið um »Mældaga Jardarennar Torfustada af Dato 1298. Hvarinne Bænhwsenu þar er eignadur Vidar- og Hvalreke fyrer Liosalande.« Af því sem stendr hér í bréfinu er það auðsætt, að það er sama bréfið og þetta; ártalið er einungis rangritað (rangprentað) 1298 fyrir 1398.

[Vm torfastade j Austfiordum 1398[8])

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia edr heyra senda jon prestur odzsson. jon finbiarnarson. þorkell snorrason. hraf[n] bergfinzson. jon andresson kvediu guds oc sina kunnigt gerandi

---

[1]) 252; [2]) allt, b. v. 252; [3]) hier(!) 252; [4]) Hrijsar 252; [5]) g'dingar, 264; girdijngar 252; [6]) Karstada menn 252; [7]) eyngiar 252; [8]) [Aptan á bréfinu með hendi frá 17. öld.

at þa er lidit var fra hingatburd vors herra jehsu christi ꝏ⁰ ccc. niutiger oc atta ꜳʀ vorum ver jhia. saum ver oc heẏrdum ꜳ sunnudagh næsta firir marteins ꝏesso ꜳ bessastodum j fliotzdal at olafur jonsson selldi gudmundi prest þorsteinssyni med handabande til fullrar eignar jord ꜳ bessastaudum j fliotzdal med vpplage og samþẏcki jngunar husfreyiu sinnar. med ǫllum gǫgnum oc gædum sem fur greindri iordu fẏlgde oc hann vard fremzst eigande at. her j mot gefur gudmundr prestur þorsteinsson fur greindum olafe jonssyni iord at torfhastodum j uopnafirde oc þar med jarder tuær er skalanes heita med ǫllum þeim gǫgnum oc gædum sem ǫllum þessum fur nefndum jordum fylger. oc hann vard fremst eigande at. oc þar ꜳ ofann xx kugilldi. eru þessi landamerke ꜳ mille torfhastada oc liotstada at læk þeim ed fellr[1]) næst firir vtan tungard ꜳ liotstodum oc suo ofan j ꜳ. oc at gǫtum þeim er liggia til asbrandzstada. eru þessi landamerki j mille skalanes ens eystra oc asbrandzstada jnn at draungum þeim sem standa næst firir vtan brunna. seljord j selārdal er leifstader heita. skogarteig j nipsmo enn sydra. elldetorfs jord i liotzstada merke epter þvi sem þeim þarfaz er ꜳ tǫrfastǫdum bẏr. fẏlgia bænhusinu iij kugilldi oc hundrad ofritt. halfr hualreke oc vidreke firir liosalande. stillisveidr j ose j vestra dal firir nipsande. skal fur nefndr gudmundr suara tiundar[2]) ʀeikningi vit kirkiuna ꜳ bessastodum þuilikum sem olafe ber til amedan hann hefer halldit kirkiuna. en suo morg hundrut sem ʀeynazst j torfastodum. eda skalanesium þa skal olafur eda ingun taca suo morg hundrut vpp j bessastade. skal sira gudmundr suara fẏrnd ꜳ kirkiunni ꜳ bessastodum medan olafur bonde hefer halldit. sagdi opt nefndr gudmundr þessi landa mork ꜳ mille fur greindra jarda sem her er skrifat. oc til saninda her vm settu gudmundr prestur þorsteinsson [oc] olafur jonsson sin jnnsigli med vorum jnnsiglum fur þetta bref gert j stad dege oc ꜳre sem fur seger.

---

[1]) fullr, skbr.; [2]) tiunundʳ, skbr.

## 532. 17. December 1398. að Svinavatni.

Haldór Eldjárnsson selr Ívari Nikulássyni hálfa jörðina að Svínavatni á Ásum í Húnavatnsþingi.

AM. dipl. afskrr. Nr. 4064 »ex originali« með hendi Jóns Magnússonar bróður Árna. »Brefed er a kalfskinn. hafa vered fyrer 6. Jnnsigle. eru oll i burt. en epter eru aller þveingerner«.

Þeim godum monnum sem þetta brief sia edr heyra senda eyiolfr biarnason. finnr jonsson. boduarr gilsson. sueinn ionsson. arnbiorn eireksson. snorri gilsson q[uediu] guds oc sina kunnigt gerandi ath þa er lidit var fra hegatburd vors herra iesu kristi þushundrat þriuhundrat niutiger oc átta aar tueim nottum efter festum lucie virginis at svinavatni æ asum vorum ver j hia oc sam áá handaband þeirra jfuars nikulassonar oc halldors elldiarnssonar at suo firir skildu ath nefndr halldor selldi greindum jfuari til fullrar eignar jôrd halfa ath suinavatni med ollum þeim gôgnum oc gædum j jôrdu oc æ er sagdri halfri jôrdu hefir fylgt ath fornu oc ath nÿiu oc halldor vard fremst eigandi ath til vmmerkia þeirra er adrar næstu iardir ááttu þar til mozt ath til reiknadri selfôr undir lôgarhol j audkulustada jôrd oc sambeit vit tungunes iôrd. her j moot gaf optnefndr juar sôgdum halldori j fyrstu niu kugilldi oc atta hundrut vôru oc atta hundruth j hafnarvodum oc lukazt vt áá næstum fardôgum kugilldin ôll oc fiôgur hundruth vôru en áá ôdrum fardôgum efterkomendum þat sem efter stædi oc tolf alner af hueriu hundradi i aabata. skilldi þráttnefndr halldor af sier alla fyrnd vm kirkiu oc kirkiugoz oc jardar oc husum skilldi tijttnefndr halldor suara lapariptingum áá sitt goz ef jôrd rip[t]az en yfuar hallda jôrdunni til laga. Ok til sanninda herr um settum ver fyrr nefndir menn vor innzsigli fyrir þetta bref giôrt i sôgdum stad oc aari tueim nottum sidar en fÿr segir.

---

## 533 19. Januar 1399. á Flugumýri.

Prófentusamningr Arnórs prests Jónssonar og frú Ingibjargar abbadísar á Stað í Reyninesi.

AM. 280. 4to bls. 13—15 skr. af Hákoni Ormssyni c. 1640 (Liber copialis Bessastadensis).

Jn nomine Domini Amen.

Giördest og stadfestist med handabande so felldt kaup millum fru Jngebiargar med Guds naad abbadisar ad stad med samþycke hennar conventu systra aff einnre halffu. enn sira Arnors Jonssonar aff annare. at sira Arnor gaff stadnum med sier til æffenlegrar provendu halffuann fimta tug hundrada. ā þann haatt. ad hann lukte þā þegar þar vt i eitt hundrad og tuttugu sem hann aatte vnder stadnum epter riettum reikninge. og þar til skyllde hann luka a næsta vore epterkomanda niu hundrad. halfft huort kugillde edur vöruvirdt gods. enn fimtan hundrud þaug epterstæde. skyllde hann vt luka eige seirna enn ā þremur ārum. enn halfft huort kugillde edur vöruvirdt gods. skyllde stadurinn eignast æ suo myked aff godsenu sem luckt være huort sem sira Arnor liffde leingur edur skiemur vpp frā þeim deige sem profendukauped for framm. hier i mote skilde sira Arnor sier æffenlega vist a stadnum i Reynisnese og bordhalld sem raadsmadur. og þionustu sem frialsum manne tilbære. hann skyllde og taka til klæda sier aarliga aff stadnum hundrad vadmāla edur tuijtuga vod og sex alner lierept. Sira Arnor skyllde og haffa til stadarins vadmals sæng. og stadurinn halda henne medan hann liffde. enn eiga hana epter hans dag. voru þesser kaupvottar. þordur þordarson. Steinmodur þorsteinsson. Einar Þoruardsson prestar. Þorgeir Boduarsson. asgeir arnason og Gudne Sæmundarson leikmenn. huorier sin jnsigle settu med capitula jnsigle greinds stadar fyrer þetta breff. giördt a Flugumyre j Skagafyrde in festo sanctorum Marij et Marthæ. anno Domini. M°. ccc°. xc° ix°.

---

## 534. 13. Marts 1399. á Möðruvöllum.

Steinmóðr prestr Þorsteinsson endrnýjar það umboð, er hann hafði árið áðr (26. Marts 1398) gefið Jón bónda Björnssyni.

AM. Dipl. afskrr. Nr. 4 »ex originali« með hendi Jóns bróður Arna, og var frumbréfið á kálfskinni; innsiglið var dottið frá; afskriptin er stafrétt og mjög nákvæmleg.

Øllum monnum þeim sem þetta bref sæa ædr hæýra

sender stæinmodr prestr þorsteinsson. Q[uediu]. G[uds]. oc sina kunnight gerannde ath enn framlæidis hæfer ek stÿrkt stadfæst oc enndrnÿiat med handabande oll[1]) þau vmbod sem jon bonde biörnsson oc þorgerdr hwsfreyia hans hafa haft ifuer minum pæningum med ollum sama skilmala oc græin sem þat bref váttar er þau hafua adr af mer haft til vmbodanna vm firirfaranndi tíma ath þui tillogdu at jon skal taka arligha i læigu sina fimm hundrad halft huart fridt edr vfridt oc dughannda hæst. skal þetta hans vmbod stannda vm næstu efterfarande tolf manade oc suo læingi þar vpp af sem wid gerum æigi annan wægh vpp á. oc til sanninda her vm setti ek mitt jnnsighli firir þetta bref gert a modruuollum i horgardal in crastino beati Georgii pape. anno domini. ꝏ°. ccc°. xc°. nono.

---

535. 7. April 1399 4. Marts 1400. i Saurbæ.

Einar Guðmundsson selr í umboði Guðmundar prests föður síns Runólfi Sturlusyni jörðina á Laugalandi í Hörgárdali með tilgreindum ískyldum.

AM. Dipl. Isl. Fasc. V,28, *frumbréfið á skinni; innsiglin dottin frá;* Dipl. afskr. AM. Nr. 157 (*eptir frumbr.*).

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia edr heyra sænda halldor prestr loptzson. eÿiulfr prestr eireksson. biarne prestr brannzson. jonn petursson. jonn olafsson. biornn einarsson leikmenn quediu guds ok sina kunikt gerandi at sub anno domini ꝏ° ccc° xc° ix° in octava pasce j saurbiæ[2]) j eyiafirdi voru viær jhia sam ok heyrdum æ handaband þeirra einars gudmundzsonar af einni alfu en Runolfs stullusonar af annare ath suo firer skildu at einar selldi nefndum Runolfi jordina laugaland j haurgardal j fullu vmbodi gvdmundar fodur sins med ollum þeim gögnum ok gædum er henni hafa fÿlgt at fornu ok nyiu ok sira gudmundr varð fremzst ath eigandi. sagdi hann at jordin ætti halfsm[an]adar teig j audbrecku jord. annan halfsm[an]adar teig j mödruvallastadar nesium ok sagdizt einar ecki uilia æbyrgiazst þott hann uæri spilltr edr brotin af

---

[1]) ollum, *afskr.*; [2]) *þannig:* saurbiæ, *frbr.*

anne. þridia teig fim daga slattu sagdi hann at iord kirkiunar a lögalandi ætti er griott gardr heiter enn j mödru ualla stadar jord ei sidr at jordin lögaland ætti gelldfiar rekstr inn under brottu brecku j hörgardal ok dagslattu af dauda tiorn j mödro ualla stadar jordu. sagdi hann til kirkiu skylldar æ jordunne ath þar ætti at uera prestr annath huert ær ok biskups gisting j annath huert sumar ok at kirkian j glæsibæ ætti manadar rekstur[1]) a sumar j bædi mal bufe ella tueggia m[an]adar rekstr j annath mal. her j mot gaf runolfr fiora tigi kukillda[2]) og grip slikan sem hann uilldi til lata ok luka ut æ þremur ærum. fimtan kugilldi a fÿrsta ari þridiungar fe ok fimtan æ ödro. tiu æ þridia æri allt saman þridiungar fe. leggi tolf alner fridar epter hvert hundrat medan ei uæri allt lukt. Ok til saninda her um settum uær fÿr nefnder menn uær insigli firer þetta bref giort j sögdum stad in crastino translacionis johannis episcopi holensis æri sidar en fÿrr seger.

---

536. 16. April 1399. i Bólstaðahlið.

Þórðr Þórðarson og Steinmóðr Þorsteinsson officiales skipa Þorsteini svart Hallssyni kirkjuhlutann í Knappstöðum í Fljótum.

AM. Dipl. Isl. Fasc. V,24, transskript á skinni frá 13. Júní 1479. Prentað í F. Joh. Hist. Eccl. II, 220—221.

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia edur heyra senda þordur þordarson oc steinmodur þorsteinsson prestar holakirkiu officiales quediu guds oc sina kunnigt giorandi ath saker þess ath þorsteinn suartur hallzson eigur halfa iordena æ knappstodvm j fliotum. þui hofum uid ueitt oc skipath sogdum þorsteine suartt til medferdar kirkiu helminginn j knappstodum oc hunstade oc þar med allt lausa goz sagdrar kirkiu æ þann mata ath hann skal hafa greintt goz sier til nytia oc eignazt æuoxt af. en suara ollum skylldum fyrir kirkiuna oc standa j æhyrgdum vm hana oc hennar goz. skal þessi ockar skipan standa suo leingi sem þorsteinn suartur eigur eignar hlvtann j knappstodum. Ok til sannenda hier vm settum uid officio-

---

[1]) Resktur, frbr.; [2]) þannig, frbr.

latus incigle firir þetta bref giort j bolstadahlid in festo magni comitis anno domini ꝏ⁰ ccc⁰ xc⁰ ix⁰.

---

537. 16. April 1399. í Bólstaðahlið.

**Þorsteinn** svartr Hallsson kaupir hálfa jörðina Knappstaði í Fljótum.

AM. Dipl. Isl. Fasc. V,24; transskr. á skinni frá 13. Júní 1479. Sbr. F. Joh. Hist. Eccl. Isl. II, 221.

[Vm nappstade j fliotom. halfer keypter firir xvj^c. enn kaupa hlute er xxx^c. þui ber þetta enn vitne. ad þar ed nefner j gomlum brefnm halfa jord. þa meina þeir halfan kaupa hluta[1]).

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia edur heyra senda þordur þordarson oc steinmodur þorsteinsson prestar hola kirkiu officiales quediu guds oc sina kunnigt giorandi ath vid hofum sellt til fullrar eignar þorsteine suartt hallzsyni halfa iordena æ knappstodvm j fliotum med ollum þeim gognum oc giædum sem þeim iardar helmingi eiga ath fylgia fremstz ath logum. hier j moti skal sagdur þorsteinn luka kirkiunne þar æ knappstodum æ næstum fardogum atta kugilldi oc atta hundrut uoru edur uoruvirtt goz. Ok til sannenda hier vm settum uid officiolatus incigle firir þetta bref giortt j bolstadahlid jn festo magni comitis. anno domini ꝏ⁰ ccc⁰ xc⁰ ix⁰.

---

538. 29. Juni 1399. í Haganesi.

**Vitnisburðr** Marteins Ívarssonar um landamerki Molastaða.

Frumbréfið í AM. Dipl. Isl. Fasc V,25, á skinni; innsiglið er dottið frá. Prentað eptir frbr. í Tímariti Jóns Pétrssonar I, 37—38.

Vitnisburdur um landamercke molastada 1399[2]).

Þat giöri ek martein ivarsson godum monnum kunnikt at medan ek var heima æ molastodum hia fôdvr minum fra þi

---

[1]) [Aptan á bréfinu með hendi Guðbrands biskups; [2]) [Aptan á með yngri hendi.

sem ek mæ fremz muna ok til þess ek for þadan fulltida hellt ivaR fader minn þessi landamerki ok einghan vissa ek at finna at gardstadr sa er vpp geingr fyrir vtan molastadi nedan fra æ ok vpp at hlidar gôrdum rædr en sidan rettsyni vpp i biarnar gils læk en hann vpp i fiall. en fyrer sunnan rædr lækr sa er ofan fellr or fialli fyrer sunnan miofua rygg ok fyrer vtan hroda gerdi at gardi þeim sem liggr ofan epter myrinni fyrer sunnan Molastada torfgrafuer ok ofan æ hafua backann ok ofan at æ. hafdi fader min steck fyrer nedan langha gardin[1]). fyrer vtan hafua backann torfgrafuer sem sea mæ. nesid smæranes. hýlinn búrhýl ok allar landznytiar med eign i þersum takmôrkum vpp i fiall ok ofan at æ. mæ ek her fullt vitni vm bera ef þyrfa þiker. ok til sanninda her um setta ek mitt inzsigli fyrer þetta bref gôrt i haghanesi sydra æ petrs-Messo ok pals þa er lidid var fra burd cristz. Mccc xc ok niu ær.

---

539. 1399.

Máldagi Hvammskirkju í Norðrárdal.

AM. 257. 4to skbl. þetta er skr. c. 1450; AM. dipl. afskrr. Nr. 2235 með hendi Árna; JSig. 143. 4to. bls. 330 skr. c. 1600.

Huammur j nordurærdal[2]).

Anno domini M°. ccc°. nonagesimo nono. Medkendist hallur suarthofdason. at hann hefdi suo mikit lausagoz tekit kirkiunnar i huammi i nordrærdal sem hier seiger.

Jn primis xv. kyr oc xv. æsaudar kugillde. cccc. hundrut i hrossum.

Jtem sextige hundrada oc halft siaunda hundrat voru eda voruvirt goz.

Jtem lannd æ holi oc froda eingi.

hafa þessar iarder lukzt kirkiani firir adrgreinda peninga.

krokr. harekstader. klepstia [oc half deseý firir fimtige hundrada[3]).

---

[1]) laughagardin, JPétrsson, rangt; [2]) 143; [3]) [sl. 143.

540. 1399.

Bréfságrip um Böðvarsholtsreka í Staðarsveit.

AM. 252. 4to bls. 50, skr. c. 1660; AM. 430. 4to bls. 10, séra Jón í Hítardal c. 1730; AM. dipl. afskrr. Nr. 1567; Afskript séra Þorkels Eyjólfssonar staðfest 24. Febr. 1887 eptir skjölum Staðastaðarkirkju.

Halfur Bǒduarsholl[t]s reke[1]).

Þad vottar Kristijn Gudmundardotter ad Jffar Þordarson haffe lyst firer sier. ad hann haffe feinged og geffed herra Gudmunde abota ad Helgafelle halffann Bǒduarsholltz reka. Þennann vitnizburd gieffur hun vt Anno 1399.

---

541. 9. Juli 1399. i Bæ i Borgarfirði.

Þorsteinn lögmaðr Eyjólfsson staðfestir máldaga klaustrsins á Helgafelli (líklega rekamáldaga Vilchins).

AM. 264. 4to bls. 23. papp. skr. 1606; AM. dipl. afskrr. Nr. 1628.

A[u]llum monnum þeim sem þetta breff [sia edur heyra] sender Þorsteirnn Eẏolfsson laugman nordan oc vestan æ Jslandi Qvediu Gudz oc sijna kunnigtt giaurandi. ad þad sama maldaga bref kirkiunnar ad Helgafelle sem þetta mitt bref er med bundid. sẏnist mier sannligtt oc truligtt. oc obrigdulega halldast eiga kẏrkiunne til halldz oc eignar. þar til er fullkominn fratakzvitne ganga j mote audrum til eignar. Og til þess meire styrckz oc stadfestu etcetera. Skrifad j Bæ j Borgarfirdi næsta dag epter seljamanna[2])messu Anno 1399.

---

542. 26. Juli 1399. i Hvalfirði.

Björn Einarsson Jórsalafari selr Árna Einarssyni ýmsar jarðir í Rangárþingi fyrir jarðir í Húnavatnsþingi.

---

[1]) 430; [2]) þ. e. Seljumanna.

Frumbréfið í ÁM. Dipl. Isl. Fasc. V,26, á skinni, með norskri hendi; brot af þrem innsiglum er fyrir; fimm eru dottin frá.

[jardakaupa bref firir stæri borg 1399[1]).

Jn nomine domini amen.

var þetta kaup þeirra biærnar einarssonar medr samþykt solueighar þorsteinsdottur konu hans af annare halfu en af annare arna einarssonar ath nefndr biorn selldi sagdum arna þessar jarder er sua heita efra hual midhus oc vindaas er liggia j hualʀepp kirkiulæk j fliodzhlid oc næfrlost er liggr j aaveriaʀepp med ollum þeim gǫgnum oc giædum sem þessum jordum hafa fylkt oc fylgia fra fornu oc nyiu oc biorn hafer fremzst vordith eighande med skóghum oc rekum oc odrum lunnendvm engum undan teknvm oc þar med halfan attatugh kugillda med ʀossum oc tutughu hundrad er æinar buttr vard honum skylldughr eppter einar haleggh. Her j mote sellde adr nefndr arne sagdvm birne ytri borgh j vididal oc þar med halft asbiarnarnes þridiunghinn j vazenda þuerar tuær oc Mýr er liggia j vestrhope krossanes oc halfa vik aa vaznesse oc fiordunghin j melalandi med ollum þeim gǫghnum oc giædum sem þessum jordum fylgia oc fylkt hafa fra fornu oc nyv oc arni hefer fremzst eighande ath vordith med skoghum oc rekum oc ollum odrum lunnendum ænghum vndan teknum særdeilis til tekit selfor oc afrett j heydal liggr er borgh skal fylgia firer ofan þuerar oc her til atian kugillde oc tuttughu. Her til skal biornn adr nefndr luka saugdum arna j skakka millum fyrr græindra péngha fimmtan kugillde æ rangharvollum edr fimmtan hundrada jord oc luka firer nefndan arna jorunne biarnardottur tiu hundrad er arni er henne skylldughur. skulu opptnefndir menn biorn oc arni huaar firer sigh suara lagha ʀyptingum firer adr græindum jordum en huar halldi sinv kaupi til lagha oc taka jardinar huaar vm sigh med ollum jskylldvm huart þær eigha j annarra manna jardir edr ligia jskylldir j þær af annara manna halfu osækir huarer vm sigh þo ath ænghi seghi til saker vminniss edr vangoymslu kann oc nǫckur brigd a koma huars jardir vm sigh þaa skulu mætazst oc apptr gangha þeirra þessar bezstu eigner aa badar halfur ef nǫckur riftingh

[1]) [Aptan á bréfinu.

ædr brigd kann aa ath koma en hinar odyrre odyrrum j mote skal þesse allr saman kaupmale haldazst oc standa obrigduligr vndir jafna hand aa badar sidr. vorv þe[ssir[1]) kaupa vaattar sira hosskulldr jonsson. gisli andresson. gudmundr þorgeirsson. krakr jonsson[2]). halldor gunnarsson. ottar·biarnarson huerer sin inzsigli settu med þeirra godra manna biarnar oc arna sem fyrr nefnazst jnzsiglum firer þetta bref er giort var j hualfirde æinne naat æppter jacobs ɱessu deghi sidar en þetta kaup for fram j sagdan stad þa er lidith var fra hingath burd vors herra ieshu christi þushundrad þriu hundrad niutiger oc niu aar.

---

## 543. 10. September 1399. i Vatnsfirði.

Úrskurðr Óla Svarthöfðasonar officialis Skálholtskirkju um hvalreka Vatnsfjarðarkirkju á Almenningum.

AM. Dipl. afskrr. Nr. 898 »ex orig. Vatzfiord. accurate«. Árni segir bréfið hafa verið með norskri hendi; dregr upp innsigli officialis. Tilfærir á lausum miða »diffentiæ ur copiuqverenu Vatzfiardar kirkiu 4to membrana«.

Ollum monnum sem þetta bref sea edr heyra sender sira oli suarthofdason officialis heilagrar skalholz kirkiu [kvediu gudz oc sina kunnigt gerandi] at sub anno gracie ɱ° ccc° xc[3]) nono j vazfirde næsta dagh eppter natifitatem beati(!) virginis[4]) kom aa stefnu firir mik biornu einarsson af einne alfu oc kiærdi til jllhuga gudmundzsonar oc marteins petursonar ath þeir hefde ath ser tekith hual kirkiunnar j vazfirde sem rekith hafdi aa almenningha en æfinligh eign er kirkiunnar j vazfirde fiorer tiger vætta af ollum h[u]aulum[5]) sem rekr aa almenningha en ef minne kemr kiærde biorn ath einghi lagha skippte hefde aa geingit sagdann hual oc þeir ólagum brott fært oc eingi aa hans vegna edr kirkiunnar til lagha skiptis verid. hafdi oc laghligur vmbodzmadur kirkiunar beitt oc kraft nefnda menn lagha skipptis oc feingit æghi. Þij j guds nafni amen sagda ek med fullum domi oc lagha vr-

---

[1]) frá [og út svartara blek; [2]) = Krákr gamli í Skarði; [3]) þannig Copiub.; cx, frbr., sem er rangt; [4]) þ. e. 9. Sept.; [5]) haulum, frbr. (rangt).

skurde kirkiunne j vazfirde fiora tighe vætta til eignar af adr greindum hual oc eppter reittum[1]) reikninkskap[1]) skylldugha ath luka apptr kirkiunne j vazfirde greint huals verd fiorar vætter til hundraz. vtan þeir profi med fullu skilrike at heim hafi komit til vazfiærdar firir fardagha. oc her til rett kirkiunne j vazfirde firer vlaghlegha medferd oc rangligha brottfærslu hualsins þrettann merckr. skal allt þetta goz lukazst aa næstum fardaugum heima j vazfirde eppter ifirsion þe[i]rra godra manna sem ek þar til nefnir. Ok til sannynda her vm sette ek officiolator[1]) jnzsigli firir þetta mitt vrskurdar bref skrifad stad oc ari deghi sidar en fyrr seger.

---

544. 31. December 1399. [á Svinavatni].

Þorfinnr Hallfreðarson selr Nikulási Ívarssyni jörðina Ytri-Laungumýri í Húnavatnsþingi fyrir lausafé og tilgreinir landamerki.

Biskupsskjalasafn Íslands Nr. 2. Fol. bl. 13—14, skjalabók rituð eptir 1693 á pappír. Landsbókasafn 18. Fol. bl. 34—35, skjalabók á pappír rituð á 19. öld. Er hér farið eptir afskript cand. theol. Hannesar Þorsteinssonar af hinu fyrnefnda handriti, en hitt hefir verið haft til samanburðar, og er samhljóða.

Kaup Brief Jvars Nichulassonar og Þorfins Hallfredarsonar ā längamýre. fyrer lausafie. Daterad svijnavatne 1399 D[rottensdag] nærstann epter Michaelsmessu med 4 Jnciglum til forna. Oll glotud.

Þeim Goodum Monnum sem þetta Brief siā edur heýra senda þordur prestur þorlæksson. Elldjärn Eirijksson. Bardur Þorleifsson. Leijkmenn. kuediu Guds og sijna kunnigt giorande þā er lided var fra hijngadburde vors herra Jesu Christi þusundrat þriu hundrud nijtiju oc niju är. Drottensdag nærsta epter Michaelismesso[2]). ad Svijnavatne ā äsum vorum vier i hiā og säum ā handaband þeirra Jvars Nichulassonar og Þorfins Hallfredarsonar. ad so fýrer skyldu. ad nefndur Þorfinnur sellde greyndum Jvare til fullrar eignar jörd er ā Jtre langamýre heiter med öllum þejm gögnum og giædum i jördu og a

[1]) þannig; [2]) þ. e. 5. Október.

er sagdre jördu hefr fylgdt ad fornu og nýu og þorfinnur vard fremst eigandi ad til ummerkia þess[a]ra. ad gardur rædur j mille langamyrar nordann ur Blondu og uppä äs til mots vid dalstörn. enn þesse landamerke utan ad. riettsyne ur midre tiörn. og uppä sand. og þadann sudur epter ase. enn þess a midlum tunguness og längamyrar riettsyne ur Krosshollte og ofan i Blondu. og a upp äsa til mots vid svijnavatn. sagde þorfinnur adurgreindur. ad torfskurdur være úr Tungu til längamýrar attfedmingsskurdur. enn skylldo ecke aʙyrgiast þott meijra jrde.

Hier j mot sagde þrattnefndur þorfinnur ad langamyre ætte Beijt öllu saudfie i tungu jörd ef hus hefde. enn tveggia manada beijt ef eingen hefde hus. sagde hann og til Bænhuss skulldar ä firr sagdre jördu ä langamyre.

Hier j mot gaf opt nefndur Jvar sögdum þorfinne. J fyrstu siö kyr og ellefu asaudar kugillde. tvö naut tvævetur og tiju saude veturgamla. kugilldes hest. Jtem tvö hundrud vöru og tvö hundrud vöruvirdt. tvö hundrud i slätrum. skyllde lukast ut a næstum fardögum. fimm kyr og ellefu äsaudar kugillde og hestur. a ödrum fardögum kyr og gelldfiar kugillde. tvö hundrud vöruvird og hundrad j slatrum ad hauste. a þridia hauste enn ein kyr og gielldfiar kuillde og tvö hundrud vöruvird. hundrad i slatrum ad hauste ad tijundar lage. skyllde hann taka .xij. alner epter huort. c. þad sem ej lýkst nu ad nærstum fardögum. skyllde þrattnefndur þorfinnur svara laga ʀiptingum a fyrr sagdre jördu. enn Jvar skyllde til laga hallda jördenne.

Og til sannenda hier um sagdt jardakaup settum vier fyrr nefnder menn vor Jnncigle fyrer þetta Brief in festo silvestri pape ä äre sem fýrr seiger.

---

545. [um 1400].

Skrá um eignir Helgastaðakirkju, þá er Þórúlfr Bjarnarson tók við.

Stockholm. Isl. membr. Nr. 16. 4to bl. 61b; þetta er skrifað c. 1400 og er með norsku handarlagi og sem bréfahendr frá þeim

tímum. Prentað áðr í Heilagramannasögum útg. af Unger Chria 1877 I, formáli xvij.

Suo mikid ʀeiknadiz godz helgastada kirkiu þa ær þorulfr biarnarson tok med.

jn primis. vij. kyr. vj. asaudar kugilldi. vij. gellda vetr unga[1]) ij. hross fyrir. c. huort. j virdingafæ vj. hunndrad [þat af][2]) þvi ær til fieckz.

jnnan kirkiu mariu likneski. nicholaus likneski. ij. krossar smellter. oc einn vsmelltr. sloppr alluænndr. kanntara kapa. messu klæda læppar vændir med grænum hockli slittnum. alltaris ducar. ij. slitnir oc höfudlin alluænt. alltaraducr uslitin. messuserkr. handlin. corporalia. iij. eitt slitit. fonntbunadr vændr. glergluggar. ij. oc annar brotinn vida oc j brott or glerid. biorar. ij. med sotdrift. tialld uant kalla megin vm framkirkiu. blamerktr dukr slitinn jfir nicholas likneski. brik steind. alltarisklædi. iiij. allvænd. alltarissteinn. kalekr lest[r] oc patæna. jarnstika stor brotin oc adrar. iiij. stikur med iarn. ij. frame oc. ij. innar . elldbere. ker alluannt. klockur. iij. oc ein ʀifin j barminn or hinni þridiu kolbrin oc æ. ij. borur oc hliodlaus. oc litil bialla brotin. sequenciubækr ij. paska bok. grallara skra. enskar bækr. ij. paska hoc oc gudzspialla. j selskinni. sallterar. ij. fornir. nicholas sagha. og enn skrær nockurar. kirkiuketill. glodar ker. paxblad fornt. spialld steinnt. sacrarium handklædi. kistill. stolar. ij. lectarar. oc ʀeliquie j þremr pungum. merki. ij. uænd. saluns leppr.

---

546. [um 1400].

Máldagi og landamerkjaskrá kirkjunnar í Hafrafellstungu.

AM. Nr. 136. 4to bl. 287a—b, skb. Skinnastaðabók af Jónsbók, þetta skr. c. 1500, og er þetta mjög máð sumstaðar og skorið af blaðröndinni að auki. Sama skrá er og á fyrstu blaðsíðu sama handrits, skr. c. 1600. en er þar enn þá máðari og að miklu leyti ólæsileg. Pétrsmáldagi frá 1394 telr kirkjunni fjórðung viðreka í Ormarslóni og afdráttu að auk. Hjá Pétri á kirkjan alla viðreka og þrjá hluti hvalreka í Sandi, en hér alla reka; mun því þessi máldagi vera í við yngri.

---

[1]) máð og óljóst. [2]) gat á blaðinu og auk þess máð.

J Gvds nafni amen.

kirkian j hafrafellstungu er helgud gvdi vorri fru oc Johanne postula.

hun a skoginn j sliettafelli riettsynis vth epter fells lag firir vestan tungu [fra] nonvordu vth [j] branslæk. Enn fur ofan rædur gardur sa er liggur vt vr s[o]mu nonvordu j branslæk sem er smiorhols landamerkis gardur. Enn hafrafells tungu oc arlækiar[1]) landamerki skilur gardur sa er geingur vm þuera tungu j motz vid smiorhols lag j sliet[t]a felli. hun a skoginn j lækiar dals landi. te[i]ga(!) a gnups[2]) myri er leist[ur] heiter. halfs manadar verk. riettsynis vestur fra lomatind j hlass huort uiku verk inn af audru j motz vid gunnsteins stada teig. hun a ormsnes a austara sandi.

Reka med aullum gognum vt a sande. skal þa hafrafell frammi liggia vid gnupinn oc ganga þar til ad frammi er øxlin a sandfelli.

allann reka a huita sandi med aullum gognum.

hun a tueggia hrossa afdratt arliga med vnninn vid j ormarz lonz landamerki vr fiordungs[3]) hol j þuerfell. þadan riettsynis framan vid mosfell austur j sauda. enn hid fremra rædur vrdar as. reyda j motz vid hol a fialli.

---

## 547. [um 1400].

Kirkjureikningr á Eyri í Skutilsfirði.

AM. 249E. Fol. skb. Rímbók með ártíðaskrá frá Eyri í Skutilsfirði. Þetta er á bl. 1a með hendi frá c. 1400.

Suo mikit portio fell a eyri j skutilsfirdi hia kolbeini biarnasyni.

jn primis halfr siavndi eyrir.

annat ar siav avrar.

þridia mork.

---

[1]) ærlækiar, afskr. 1600; [2]) þannig Pétrsmáldagi 1394; gnuds(!) hdr.; [3]) óglögt.

548. [um 1400].

Skrá Holtastaðakirkju um Spákonuarf.

AM. dipl. afskrr. Nr. 504, tvær afskriptir eptir sama frumriti á skinnleingju óinnsiglaðri, og eru báðar staðfestar, önnur í Skálholti 8. Maí 1711 (= a), en hin í sama stað 2. Sept. 1712 (=b). »Þad vottum vier[1]) undirskrifader, ad vier[1]) hofum sied og lesed gamla kalfskins skrä svo hliodande[2]) sem hier firir ofaun og framan skrifad stendur. Var [audsyneligt ad[3]) alldrei hôfdu þeirre skrä nein Jnnsigle fýlgt. Enn af skriftarformenu [virdtist mier Arna Magnussyne og mier Þorde Þordarsyne (vær adrer underskrifader kunnum eigi neitt vist hier um ad dæma)[4]) ad sôgd kälfskinns skrä munde ritud vera hier um Anno christi 1400. eda nockru sidar. Eitt ord i skränne (frä[5]) þæ og hellisvijk) var svo ad seigia olæselegt, og er j þessare nærverande utskrift sett meir epter gätu enn skirre sion. J ôllu ôdru ber þessare utskrift saman vid optnefnda kalfskinns skrä. bædi ad ordum, stôfun, hôndum, strikum og punctum. Þau ord: gaumul skræ um Spakonuarf, sem hier standa ä fyrstu sidunni stodu utan a kalfskinns skränne, skrifud med miklu nýrre hende. enn þeirre sem var ä siälfre skränne innan til. Ollu þessu til sanninda merkes setium vier[6]) vor nôfn hier firir nedan j Skalhollte þann 8. Maij Anno Christi 1711.

Arne Magnusson. Þorleifur Arason. Þordur Þordarson. Grimur Magnusson. Magnus Einarsson«.[7])

Árni ritar ennfremr um þessa skrá: »Skräna sem hier er uppskrifud atte Anno 1711 Biarne Sigurdzson ä Heynese, eigande Holltastada, og hefur sôgd skrä leingi fylgt Holltastadaskiôlum.

Biarna Sigurdzsonar um Spakonuarf.

Skräen er skrifud ä oformeliga skorinn kalfskinns geira, og er audt bil nedan vid skriftena so ad þar af er vist ad alldri hefur su skrä leingre vered. þesse skrä er nu næsta miôg tekin til ad rotna, og forgeingur innan skams. Nedan a hana, til vinstre handar, firir nedan skriftena er, antiquo calamo, rissud figura«, sem Árni dregr upp og var sú neðst niðr við neðri röndina.

»Schedula pergamena Biarna Sigurdzsonar um Spakonuarf, er ritud med sômu hende sem ônnur Schedula pergamena um Spakonuarf, hver fyrrum hefur tilheyrt Hôskuldsstada kirkiu. contuli accurate«.

Þessi skrá Höskuldstaðakirkja, sem Árni á hér við, er enn til í frumriti (AM. Fasc. V, 13) og er frá 1395 (Dipl. Isl. III, 506).

---

[1]) vid, b: [2]) ord eptir ord b. v. b; [3]) [Var á þessu bokfelle audsynilegt, ad alldri hafde skräin leingre vered, en so sem hier stendur, og b; [4]) [syndest ockur, b; [5]) mille b. v., b; [6]) vid, b; [7]) undir b rita að eins Arni Magnússon og Þórðr Þórðarson.

Gaumul skræ vmm Spákonuarf.

J helminga skal skipta spakonuarfe. Eiga þar annan hlut hauskauldzstadamenn ok spakonufellzmenn.

Þæ skal en skipta j tuo stade. Eiga þæ mvnkar. annan hluta.

Þæ skal skipta en j tuo stadi. eiga þeir fra suinavatne ok holltastǫdum annan hlut ath helminge huorer. En eiga þæ marstadamenn annan hlut. En mvkar ok þeir vr huamme halfan ath helminge huorer.

En spakonuarfr er fra fornv vor ok uestur til deilldarhamars.

Þar næst uestur æ mille laxær ok fossær.

Þæ er en spakonvarfur fra raudaskridu til hrafnsær.

Þæ fra hellisvijk til marks vid finnstadi.

Fyrir finnzstǫdum. fimmdeildur. huerfa þrir hluter til spækonvarfs. en tueir til landz.

fyrir ærbacka er spakonv arfur ath ollum hluta.

Þæ næst jnn fræ þollaugardys ok j midia seluijk.

J spakonu arfe æ hauskaulldstada kirkia fimtunge minna en helming.

---

549. 7. September 1400. að Hólum í Eyjafirði.

Jón prestr Þórðarson fær Haldóri presti Loptssyni jörðina Grísará og hálft Nýlendi til fullrar eignar.

AM. Fasc. I, 1. transskript á skinni frá 7. Júlí 1461. Það hefir auðsjáanlega gleymzt hér nokkuð af ártalinu hjá þeim, sem hafa transskríberað bréfið, svo að árfærsla þess er nú ekki alveg viss. En það er víst að ártalið 1300 fær ekki staðizt og að ekki getr bréfið verið yngra en 1403, því að þá deyr Haldór prestr Loptsson, Sennilegast er að hér hafi að eins gleymzt úr eitt c, því að sú misskript gat hæglega orðið.

grisaræ[r] bref[1]).

Þath gere ek jon prestur þordarson godum monnum kunnigt ath ek hefer feingit síra halldore lopzsýni til fullrar eignar jordena grisaræ ok halft nýlende med þeim gaugnum ok giædum er þeim hefir fylgt ath fornu og nýiu ok ek ward fremst eigande ath. Ok til sanninda her wm setta ek mitt jnnsigli

[1]) Aptan á bréfinu.

fyrer þetta bref er giort war ath holum j eyiafirde. ju festo gorgonij martiri[s]. anno domini. ꝏ. ccc[c].

---

550. fyrir 1401 og síðar. á Skarði.

Máldagi Maríukirkju á Skarði á Skarðsströnd um daga Orms Snorrasonar.

Frumrit þessa máldaga er nú að finna í Philipps safni í Thirlestaine House í Cheltenham á Englandi Nr. 10,442 (16,504) Fol., og er hann ritaðr á aptasta (94.) blað fornrar skinnbókar af Postula sögum (Codex Skardensis). Er hér farið eptir stafréttri afskript af frumritinu frá meistara Eiríki Magnússyni í Kambryggju á Englandi, og annari afskript nákvæmri meðal fornbréfaafskripta Arna Magnússonar Nr. 1525 með hendi Árna sjálfs; skrifar hann á hana: »Maldage Skardz kirkiu ritadr aptan vid postula sögurnar þar, med þremur diversis manibus«. »Kynne vidimerast af mier, Þordi Þordarsyne, Pale Hakonarsyne, Orme Dadasyne. legimus enim et contulimus«. Aptan við stendr og: »Vidimus et contulimus Scalholti d. 18. Decembr. Anno 1710. — Arne Magnusson. Þordur Þordarson. Ormur Dadason«. »Framan af þessum maldaga allt ad α (= hér nóta 4. bls. 657) er ritad med einne hende, illa og miög vidvæningslega skrifadre, verdr þo ad vera elldre enn 1400. eda ad visu um þad bil. vide þad sem noterad er um hinar tvær epterfylgiande hendurnar. annars sier hun ei so gamallt ut. hana mun hafa skrifad einhver sem hefur vered ad læra« (AM.). Á sama stað er önnur afskript af þessum máldaga með hendi eins af skrifurnm Árna (Páls Hákonarsonar?), en hún sýnist einungis vera afskript af afskript Árna. Skinnbókin hefir nú geingið af sér síðan um daga Árna og eru því eyðurnar fyltar eptir afskipt hans.

Mariv kirkia ath skardi a skards strond er helgut oc uigd gudi als vandanda. jvngfru sancte marie guds modvr oc hinum blezada petro postola. marie magdalene oc ollum guds heilaugum monnum.

kirkia ath skarde aa halft heimaland med geirmundarstaudum[1]) ok allt land ath aa. Rufeyiar[2]) med kalfum. langey[3]).

---

[1]) »Hier er utskafed eitt ord og þar firir nu eyda i maldaganum. likast hafe i fyrstu misskrifazt og vante so eckert« (AM.); [2]) »Hier er i sama mata litel eyda og utskafed lited ord, mun þo eckert vanta« (AM); [3]) »Hier er og utskafed nockud, kann eigi platsins vegna hafa vered annad enn oc« (AM).

halfa kavngvrs[1])ey. olafseyiar halfar oc sigridar[2])holm allann. avrfyrseyiar halfar. Olafsey in litla half.

þria hlute i vidreka firir þorpum ok hvalreka milli kara- hafnar oc grindar[3]). ath þeim vidreka fraskildum sem felz kirkia oc tungu kirkia eigv. oc [tve[ir] t[o]lf[t]vngar[4]) i hual- reka er annan a tungu kirkia enn annan [huams kirkia][5]) i [greindum][6]) takmavrkum. ok [þeim vid][7]) reka sem bænhvsit a af bænhvsvik i þorpum. eru þath sex alna tre ok þadan af minne. En staduren[8]) i skalholte a fiordung i h[valrek]a[9]) oc i vidreka[10]) i greindu tak[11])marki iafnt vid Skardskirkiu.

Jtem aa kirkia ath skarde halft breckvland i bitrv med hvalreka oc vidreka til hvnz[12])vavrdv ok kiavrtre aa hun a hverium tolf manvdvm vnder gvdlavgs havfda inn til stikv hvar sem kemvr er halldis ath gnip gaf kirkiunni ath Skarde.

kirkia ath skardi aa tvtvgv kyr. fiora tigi asaudar oc tvær ær. vxa fiogurra vetra. hest oc tvav merhryssi. siofæran selabat. fertvgar nætur[13]) copheldar. fiogvr[13]) hundruth alt saman til vadmala oc frids halft hvort.

Þetta aa kirkia firir innan sig. jn primis tvo krossa yfer haaltari oc einn gvllagdan i midiv med altarsbrik. Jtem mariv likneski tvav a kor. petri likneski. jacobi. pauli oc marie mag- dalene[14]) font klædi fornt med crosse. pascha kerte. kertistikvr[15]) tvær fornar aa altari oc lectari oc pax spiold þriv. amplar

---

[1]) »So stendr hier enn eigi kaungrs (AM.); [2]) »sigridridar stendr þar« (AM.); [3]) hér stendr grimdar í skb. og hefir Árni leiðrétt; [4]) [»þetta er raderad, verdr þo audvelldlega lesed« (AM.): [5]) »so er þad skrifad, og verdr vel lesed, enn er þo raderad, oefad med vilia« (AM.); [6]) »þegar menn bera þetta ord saman vid greindu sem sidar stendr, þa verdr þad allæst, annars er þad grautraderad« (AM.); [7]) »þetta er miög so raderad, og þvi varla læst, þo syna redui ductus ad þad hafi so verid« (AM); [8]) »so er þad, enn ei stadren« (AM.); [9]) »þetta ord er ölldungis burt skafed, siest þo grant til h . . . . . a« (AM.); [10]) »þetta [i vidreka] stendr uppi yfir linunni, þo med somu hendi« (AM.); [11]) »hier a mille er raderad, so mikid sem einn bokstafur, hefur ofskrifast, og vered so giort strax i fyrstu« (AM.); [12]) má og lesa huuz, segir Árni; [13]) »so stendr hier enn ei nætr. fiogr« (AM); [14]) »bier eru utskafner 2 bok- stafer. synezt hafa vered mz eda fo« (AM); [15]) »hier er og raderadur burt einn bokstafur. synezt vered hafa oc. hefur vered skafed strax i fyrstu« (AM.)

tveir. lektare j kor. glergluggar fim med hvrdvm. forn tiavld rotin med dvkvm vm framkirkiv. tveir tialda leppar vm kor oc dvkvr[1]) vnder avdrv. klvkkvr sex oc tvær smaklvkkur oc ein bialla. messu fata kista inlæst. Jtem v[2]) fornar bækr vondar per vsvm. Jtem aspiciensbok til nivvikna favstv oc de sanctis nema vm adventv. Jtem bok fra paschvm. ottvsavngvar oc til adventv de sanctis oc de tempore samsett de tempore en ath savng de sanctis. jtem altarisbok med lagasavngvm. missale samsett ad pistlvm. seqvencivm oc gudspiollvm de tempore fra paschvm til adventv. jtem de sanctis bok. missale oc commvne per annvm. Jtem commvne svffragivm med jmnario oc capitulario per annvm. Jtem graduale per annvm de tempore. Jtem seqvencivbok per annvm de sanctis et de tempore. Jtem lesbok de sanctis[3]) et de tempore per annvm. Jtem kirialskuer. Jtem processionall. Jtem a kirkia lagasaungva kver fornt. Jtem salltarar tveir annar stor forn[4]).

skipstodu kvitta i Biarneyum med[5]) budarstod oc hialli [iiij oc xx[6]) manna iferd i saurbæiar fioru. budarstad oc hrossabeit[7]) wid stadaræ i tialldaness landi medan fiorufor stædi yfer er halldora narfadotter gaf kirkiu[8]) þa er hon atte tialldanes.

Jtem steintiaulld wm kor er Brandr gaf wandradsson kirkiunni.

---

[1]) »so stendr þar enn ei dukr« (AM.); [2]) »þesse fignra stendr uppi yfir linunnu millí Jtem og fornar. Eg veit ei hvert þad a ad merkia v. (x) eda og kanske þad þyde ecki neitt þo eg þad ecki ætle« (AM.); hin afskr. sleppir tölunni; [3]) »hier er utskafed heilt ord, og eyda firir þvi i skránne. mun hafa ofskrifast« (AM.); [4]) »hier eru handaskipte; endast hier vidvæningshônden, enn tekr til hônd med krokottnm bokstôfum ei fallega pingerudum. þo get eg ei annad sied enn hun sie de anno 1400 vel circiter, kynne iafnvel ad minum domi, nockrn elldre vera, — enn þo eingen klausa, helldr byriaz skipstodu i sômu linu, sem forn er framan vid, og er eckert bil ä mille nema so sem mille orda« (AM.); [5]) »þetta med stendur yfir linunni, enn undir þvi i linunne stendur. j. liet eg þad nt, þvi þad er manifeste misskrifad« (AM.); [6]) [»þesser numeri eru audsynelega raderader, og med nyrre hendi skrifad i aptur eins og hier er pingerad. falsarenn hefur ætlad til þad skyllde lesazt iiij oc xx« (AM.); [7]) hér stóð i í skránni, sem Árni kveðr ofaukið; [8]) »hier ern ntskafner 2 bokstafer, synist i fyrstu ritad hafa vered kirkiuni« (AM.).

Jtem æ hon hardla sæmiligt salun oc annat þat er hafa skal yfer likum [er ormr gaf[1]). þridia fornt oc rotit.

Jtem biav[rn] fell[2].

Jtem gelld æk ormr hæilagri skardzkirkiu. jn primis fioritigi asaudar oc tuær ær. oc eina ku er af fram hliop af þeirri tolo er fleira war med londum olafs en til berr oc þar til sextigi gælldings gamals. fimm wxar j eyium firir sæx hundrath. enn sætta wxa gælld ægh kirkiunni þann sem bæzstur[3]) er oc þar til þriu kugilldi j weturgomlum saudum. skal þetta mitt gialld suo skilia ath nefndr olafr gwdmundzson skal luka kirkiu ath skardi suo margar kýr oc suo margar ær þat i hueriu [er][4]) kirkian æ. en taka ser til æignar þetta fyrrnæf[n]t goz suo morg kugilldi at hann hafi fulla sina tolu at kugillda tali ræiknar æk hann þa hafa full sæx hundrat hundratha oc heilaga kirkiu allt sitt goz[5]) oc allann reikning af mer. Jtem lýk ek kirkiunni gradan hest er heiter stlædæ[6]) oc tuo merhryssi anat blæickt. anat raut[7])

Anno Domini ꟽ⁰. cccc. primo gaf ormr snorrason oc afhende kirkiunne ath skarde. jn primis postola sogur i norrænu De sanctis bok per annum[8]). byriaz med salutidum. alltaresbok med laga sôngum chotedianis et collectis. ordobok. nyiahallz

---

[1]) [»bæc in margine manu eadem vel admodum simili, certe eiusdem ætatis« (AM.); [2]) [sýndist vera með öðru bleki, og byrjar hér ný klausa; »er þetta nedst a þeim fyrra dalkinum. enn þad sem epter kiemur byriaz efst a þeim eptir fylgiande dalke, er þo med riett hinne sômu hende« (AM.); [3]) »So stendr hier enn ei bezstr. Jtem posterius wetur« (AM.); E. M. segir hér og standa: bæzstur; [4]) vantar i skrána; Árni bætir því við; [5]) »bier a mille hefur eitthvad stutt ritad vered i skranni. og synest vera parad i. so eigi yrdi lesed vantar og ecki neitt i sensum, og ecki trui eg þetta litla ord merki neitt. þad verdr og ecki neitt ur þvi giort nema ef vered hafe jn eda jtem« (AM.); [6]) slede, les AM.; [7]) »Hier endar þessa haund, sem er allt fra α (= hér nóta 4 bls. 657) og get eg ei annad dæmt enn ad hun sie af anno 1400. vel circiter. staferner eru krokotter med aungum ut ur, osetter og a mynd sem illa ritud norska, er þo upp a sina visu accurate skrifud, og nockud i stærra lage. Mille þessa og Anno Domini sem næst epter kemur, er so sem linu bil a bokfellenu audt, stendr þo a sama dalkinum. og er þetta sem epter fylger ritad med annare hende sem manifeste er (so vidt mig skyniar) coæva oc vel skrifud af þvi slage. Eru staferner krokotter med norsku skriftarforme« (AM.); [8]) Hér hefir staðið d eða annað því líkt í skránni, en því hefir verið ofaukið.

kuer. Mariu sequenciur æ kueri. kiriæls kuer. ein messoklæde. Jtem lauk hann j porcionem olafs liknæ[s]kæ. sæx merkr vax. þriar merkr reykælses[1]).

Jtem afhendu arvar orms kirkiunne ath skarde sæx manna Messoklæde ath ollu. eru þar j æin forn bætt oc sliten. tuæn forn osliten. ænn oll onnur sæmælæg. oc erv ein ný j þeim. Jtem ný messoklædæ ovigd hokolslaus med tuænum stolum. Jtem ij. Merke. Jtem allt þat ær stendr j þeim maldaga ær sira Eilifr[2]) hefer skrifat. Jtem ij. god æklæde. Jtem gaf Olof hu[s]freia[3]) orms nýian kalek ovigdan oc afhende kirkiunne[4]).

Var þetta allt goz afhent sira olave kolbeinssyne[5]) ær þa var profastr. æn hann afhende olavæ gudmundzsyne oc þordise modur hans[6]).

---

551. 1401.

Bréf Orms Snorrasonar að hann afhendir fjárhaldsumboð sitt Ólafi Guðmundssyni bróðursyni sínum.

Bréf þetta þekkjum vér nú ekki öðruvísi en í ágripi einu dönsku eins og Magnús sýslumaðr Ketilsson (d. 1803) hefir tekið það upp í rit sitt um kirkjur á Íslandi (Om Kirker), sem nú finst í Raskssafni á Háskólabókhlöðunni í Höfn Nr. 66. 4to og er það þar á bls. 151—52.

Afkaldsbrev paa Pergament, som har alle Kjendemærker til at være authentisk og original — som Lovmand Orm Snorresen lod gjöre 1401, da han overleverede sin Brodersøn Olav Gudmundsen de faste og löse Godse, som han som Formynder, havde havt under Hænder og selv forvaltet. Jeg vælger helst dette Document, fordi det indeholder for det meste Jorder paa Skardsstrand, hvorom jeg har den bedste locale Kundskab.

---

[1]) »hier er aud half lina þvi hier er klausa« (AM.); [2]) »mun þad eci vera maldagenn sem hier er firi framan?« (AM.); [3]) »so stendr þar enn eci freyia« (AM); [4]) »hier a mille er bil a dalkenum so sem tveggia fingra breidt er þo med sömu hendi, þad sem epter kiemur« (AM.); [5]) Ólafr Kolbeinsson var prestr á Staðastað; [6]) »hier endar þetta, og er allt fra γ (= hér nóta 7 bls. 658) med sömu hende, nogu fallegre af þvi skriftarforme, og audsynelega, ad mier virdest, þeirrar tidar. Er so þar af anddæmt, ad hinar tvær firirfarande hendurnar eru ad visu eins gamlar ef ecke elldre. þvi þetta sidasta er sidarst ritad« (AM.).

Efter dette Document forholder dette sig saaledes:
Paa Skardstrands i Dale Syssel.

| | Qvilder i det 14. Aarh. | Qvilder i det 18. Aarh. |
|---|---|---|
| Med Raudseyjum; er nu er af Skards Hjaleier. | 8 | 4 |
| — Saudhúsum | 4 | » |
| — Geirmundarstödum, Skards Hialeie | 6 | 4 |
| — Manheimum, Skards Hialeie | 3 | 2 |
| — Á, Skards Kirkejord | 12 | 4 |
| — Krossi, Böndergods | 4 | 4 |
| — Frackanesi, Böndergods | 10 | 4 |
| — Reinerkeldu, Böndergods | 10 | 3 |
| — Knuk, Böndergods | 9 | 3 |
| — Langeyjarnesi, Böndergods, nu öde | 6 | 1 |
| — Kvennahvoli, Böndergods | 12 | 4 |
| — Langey, Böndergods | 8 | 3 |
| — Arney, Böndergods | 6 | 3 |
| — Dögurdarnesi, Böndergods | 6 | » |
| — Svíney [= Purkey] | 4 | 4 |
| — Arnarbæli, Böndergods | 10 | 4 |
| — Vogi, Böndergods | 12 | 2 |
| I Strande Syssel. | | |
| — Einfætugili, Böndergods | 8 | 3 |
| — Hvítuhlíð, Böndergods | 10 | 3 |
| — Brecku, Böndergods i de Tider | 10 | 3 |
| — Kollafiardarnesi, Böndergods | 7 | 4 |
| — Hvalsá, Böndergods i de Tider | 5 | 2 |
| — Þorpum, Böndergods | 10 | 5 |

Med Skard regnes ingen Qvilder, »thi det have altsammen været Kirkeqvilder«.

---

## 552 12. Januar 1401. i Vatnsfirði.

Björn Einarsson selr Sighvati Ísleifssyni jörðina Fell í Kollafirði fyrir áttatigi hundraða með forgangsrétti til kaups, ef aptr verði seld; skyldu Kálfárvellir koma upp í fjóra tigi hundraða.

AM. dipl. afskrr. Nr. 771, með hendi Jóns Magnússonar bróður Arna: »Ex originali. Brefed er ä kalfskinn med 2. Jnnsiglum og einum lausum þveing. Jnnsiglenn eru lijtel, og einginn skal utannum, bæde so oskir, ad ä hverigt verdnr lesed«.

Jn nomine Domini amen.

war þetta kaup þeirra biarnar æinarssonar oc siguatz jslæifssonar ath biorn æinarsson sælldi nefndum siguati jordina fell j kollafirdi med aullum þeim gôgnum oc gædum sem henni hôfdu fylgt ath fornu oc nyiu fyrer attatighi hundratha. j suoddan mæta ath greindr biorn lauk fyrsogdum siguat her ut af fioratighi hundratha fyrer iordina a kalfarwôllum sæm hann feck honum fÿrr æn þa fioratighi kugillda sæm þa stodu epter. skyllde hann wt luka a næstum fardôghum en þau sæm þa yrdi æigi lukt skylldu standa med tutthugo alna abata. skildi tittnefndr biorn wpp a fyrrsagdann sighuat aull þau kirkiuspell sæm þa woru wordin a kirkiunni. suo hann skylldi eingha tiltolu hafua þar wm til nockurs manz huerr sem þeim ætti ath suara. æn bæta kirkiuna wpp a sina peningha. skilldi oc sagdr sighuatr æinghum manni selia edr gefua græinda jôrd fell wtan þrattnefndum birni þa er hann þyrfti edr villdi selia. taladi hann oc wel wm fÿrer handaband þeirra ath biorn skylldi aftr eigha sagda jord þa er hann willdi fÿrer lika peningha.

woru þessir kaupwottar. liotur jonsson. þordr þorleifsson. jslæikr tæitsson oc bessi þorstæinsson sæm sin jnzsigli med ockrum jnzsiglum sættu fyrer þetta bref er gert var i watzfirdi æinni nott firir geisladagh anno Domini ϖ° quadringentesimo primo.

---

553. 22. Marts 1401. i Ytra-Djúpadal.

Dómr tólf manna um Dalsskóg í Eyjafirði milli Bjarnar Einarssonar og Magnúsar Hafliðasonar.

AM. Fasc. VI, 1, frumbréfið á skinni; tólf innsigli hafa verið fyrir bréfinu, en þau eru nú öll dottin frá. Fasc. VI, 2b, annað frumrit á skinni, sem hefir verið innsiglað; hefir það einhvern tíma verið haft til bókbands og er nú skorinn af því helmingrinn þvert yfir (= b).

Domur wm Dalss skog j Nupufells skogi[1]).

Þeim godum monnum sem þetta bref sea edr heyra senda arnnorr sturluson. þoralfr[2]) eilijfsson. ϖaghni egilsson. æirekr gudmundzson. gizorr juarsson. þorsteinn ϖartæinsson. haralldr audunarson. beornn sighuatzson. þorsteinn jonsson. hallr þorhallzson. grimr eÿiulfsson ok gunnstæinn ϖartæinsson quediu guds ok sina kunnikt georande. At þa er lidit var fra hegath burd

[1]) Aptan á b með hendi frá c. 1600; [2]) þorhalfr b.

uors herra jehsu christi þushundrath fioghur hundrat ok æitt ær freadagh næsta eftir upptôkudagh jons hoolabiskups j dals skoghe er stendr a gnupufellz jordu. vorum uær til nefndir af birnne æinarssyni er þar hafde laght lôghfestu ok fimtarstefnu vid Magnus haflidasson ath virda vithne sin þau sem hann tede oss vm halld ok æighnn a greindum dalskoghe. Ok sakir þess ath þeim funduzst æinghe lôghligh motikôst þau ath þeir mætte æigi vithne bera j greindu málefne. hins ok annars ath sagdr beornn leth sueria tuo skilrika uotta ath hann hefde lôgfæst greindan dalskogh til þeirra yzstu vmmerkia sem hann hafde ádr godum monnum sýnt ok laght þar eftir fimtarstæfnnu vid ádr nefnndan Magnus eftir þij sem [lôgh gera[1]) ʀæd firir. Þij mátum vér og dæmdum hans lôghfæstu ok fimtarstefnu huorth vm sigh lôghlight ok beornn frealsligha taka megha ôll þau prof sem hann hefde ser til frelsis ok æighnar vm sagdan skogh. Suo æigi sijdr um auerka þa sem metnir hôfdu verith a ofth nefnndum skoghe. Ok ath þessu fram fôrnnu bæidde ofth nefnndr beornn tuo skilrika votta er suo hæita jon þorgilsson ok þorgils þorarinsson er þar soru fullan bokaræid. ath stefan gunnlaugsson hafde sællth æinare bearnnarsyni jordina j ytra diupadal j eyiafirde ath til ʀæiku-adum þæim skoghe er stendur a gnupufellz jordu. efter þij sem æinar mætte fremzst æighande ath werda ofthnefnndum skoghe efter loghum. sagdizst stefan æinghe endimork [uita ônnur[2]) j þeim skoghe en þau fornn Môrk sem hann hafde adr godum monnum sýnt. Ok j þij sama handabande hand-lagde olof æinarssdottir þrætt nefnndan skogh fôdur sinum til fullrar æighnar [eftir þij[3]) sem hôn vard fremzst æighande ath. Ok a þeim sama deghe hefde æinar sellth birne sýne sinum adr greinda jord j dal medr þij fremzsta sem hann var þa æighande ath vordinn.

Jtem j annnarre grein soru tuæir skilrikir vottar er suo hæita þordr andresson ok arnne gudmundzson med fullum bok-areide ath þridea dagh næsta eftir Mariu Messo sidarre j fyrra sumar. þa er tittnefnndr beornn var bodinn af jone olafssyne ath sýna Mork mille dalskoghs ok gnupufellzskoghs j umbode sighurdar ok maghnus eftir þij sem þeir kennduzst[4]) huer um

---

[1]) [bok gerir, b; [2]) [ônnur vita, b; [3]) [med ôllv þvi, b; [4]) allir b. v., b.

sigh ath nefnndr beornn hefde saght ok sýnt suo felld Mork skilia greinda skogha. Ath steinakross ʀedr firir vtan ath ofanuerdum skoghinum ok þadan ʀettsýne wth ok ofan eftir midium holunum j gardstad er gengr ofan j môdruualla gothu hina fornnu. ʀædr þadan nefnd gatha sudr ok upp j jardkross ok þadan ʀettsyne upp j klofastæin ok suo upp j lambastæina gôthu er sijdan[1]) ʀædr alla læid wth j stæinakross.

Jtem hafde ok suo felld Mork vottat opith bref olafs bonda petrssonar mille þræth greindra skogha þath sama sem Magnus bonde oft nefnndr leth lesa þann sama dagh ath adr nefnndr olafr bonde hafde frealsath gunnlaughe stefanssyne tijth nefndann skogh eftir godra manna tilsôghn þa er hann bio j gnupufelle firir sigh ok sina erfingea.

Jtem ath Maghnus lýsti þar ath þath sama bref helldr hann firir fullt skilrike ok sidan hefde Maghnus [lýst allann þenna skogh sina æighnn vera ok leth sina menn hôggua þann sama dagh ofth nefnndan skogh. en beornn firirbaud[2]) ath hoggua skoghinn nema hann sýnde ath hann ætthe hann eftir lôghum.

Jtem soru fýrr greindir menn þordr ok arnne ath sex skýnsamir menn hefde metith þann auerka sem Magnus hafde þa hoggua latith j dals skoghe firir tuær Merkr annars hunndraths vôru edr vôruuirthu godzse. En hinn sidarre auerki er Magnus[3]) hafde vinna[4]) latith j dals skoghe þeim er hann lýste sina æighnn vera en[5]) birnni var suarinn sidann hefde Metinn verit af vj skýnsomum monnum firir halft annath hundrath vôru edr uôruuirth godz. æigi Mæirr en æinn grip til hundrads en annan til x aura.

[Ok ath þessum profum teknum let ofth nefnndr Magnhus lesa[6]) þar sin skilrike ok uottade huorke vm sith[7]) nokkurnn part þrætuskoghs jnnan greindra skoghar takMarka med nôkkurum vmmerkium ok æigi helldr uændizst hann nokkurum profum þar vm suo ath ver heyrdim.

---

[1]) þadan, b; [2]) [. . . . . . . . . . . heyrdv þeir ath biôrnn las þat bref. at stefan hafde sellt einari fôdur hans iôrdina j ytra dinpadal at . . . . . . . . b; [3]) kenndizst ath hann b. v., b; [4]) hoggua b; [5]) sidan . . . . b; [6]) [Jtem heyrdvm vær at magnns las b; [7]) óljóst í a; skorið úr b; sýnist vera ofankið.

Jtem krafde[1]) tijth nefnndr beornn ok bæidde oft nefnd ann Maghnus ath nefnna halft Mæt edr doma huert vm sigh ef hann ætti þath med lôghum ath geora en Maghnus næitade þij þuerligha. ath finna uottum serhuerium ok domsmonnum loghlig motikost ef þeir mætte æigi vithne bera edr dom sithea j þessu male ath lôghum. huath er ver heyrdum æigi Maghnus framme hafa ath þij sinne.

Ok þij krafde ok bæidde þrattnefnndr beornn oss alla saman ok serhuern nefnndra domsmanna ath dæma. huorth hann mætthe med lôghum æighnazst titt nefnndann skogh med greindum auerka botum ok landnamum edr æigi. edr huilika Rettu hann skyllde framar a taka greindum skoghar auerkum.

Nu med þij ath lôgbok vottar ath nyuerk [ma iafnnan sækia þau er verda[2]). hins ok annars ath [þar er madr brýtr loghin er hann j þeim greinum æigi verdughr þeirra priuilegia ath niota. sýnntizst oss ok[3]) [þessir domar[4]) med firirfarande proftôkum vera til fridar ok sættar mille þræth nefnndra manna bearnnar ok Maghnus. þess hins þridia ath oss læitzst beorn fullth·prof ok skilriki læitt hafa ser til frælsis a tijtt græindum dalskoghe. Ok þui dæmdum ver samþykkiligha tijtnefnndan dalskogh birne æinarssyne adr skrifadum til halldz ok fullrar æighnar eftir sua felldum profum ok Magnhus haflidason skýlldughan hæim at flytia til ýtra diupadals j eyiafirde jnnan fim natt ath dominum heyrdum alla þa auerkaboth huora um sigh sem metin hefir verith af skýnsômum monnum a greindum skoghe med þeim uexste ok fridlæika sem suarith var ok adr er skrifath. En half Môrk j landnám a huorum auerk[a] ok luka j saurbæ a næstum fardôghum j voru edr voruvirdu godze. En huilikann Retth edr Retthu beornn skal a hafa sôgdum auerkum dæmdum ver til loghmannz ath hann seghe þat med orskurde j môghulighan tima.

Ok til sannýnnda her vm setthum ver fyrr nefnndir menn uor jnnsighle firir þetta bref er gorth var j ytra diupadal j eyiafirde æinne natt eftir benedictus Messo a þui are sem fyrr seghir.

---

[1]) ok beiddi b. v., b; [2]) [þau er verda ma iafnan sækia, b; [3]) [sl. b; [4]) [þessi domr, b.

554. 9. April 1401. á Skarði.

OTTAR Bjarnarson handleggr Ormi Snorrasyni til fullrar eignar þau tuttugu hundruð, er hann átti að heimta »í vor« af staðnum í Reyninesi, og verið skyldi hafa forgipt Brigitar dóttur hans, ef hún staðfestist þar í hreinlífi.

Frumbréfið í AM. Dipl. Isl. Fasc. Lxxiij, 5a (= VI,5) á skinni, morkið og götugt; fyrir því eru tvö innsigli, en fjögur dottin frá; afskript frá 17. öld er í AM. 280. 4to bls. 15—16, og eru eptir henni fyltar eyður frumbréfsins.

[Orms bref Snorrasonar 1401.
R[eynistaðar]kl[austursbréf][1]).

Þeim godum monnum sem þetta bref sia edr heyra. sender ottar biarnar son q[vediu] g[uds] oc sina kunnegt giorande at ek kennunz med þessu minu brefe at ek hefi han[d]lágt ormi snorasyni til fullrar eignar þau xx hundrud [er ek atta ut[2]) at heimta i uor af [st]adnum reyninesi oc uerit skylldi hafa forgipt brigitar dottur minar ef hun hefdi þar inn geingit oc stadfest þar sitt rad j hreinlifi. eru þat v æsaudar kugilldi oc tiu hundrut uoru oc v [h]undrut i hafnaruodum. tuær [hafnar]uoder firir huert hundrat. er stadrenn atte mer at luka. jattade ormr mer her jmot [fimm a]saudar kugilldi [oc x kugillde o]skerd oc v hundrut j hafnar vodum iafnfrid. oc þui giorer ek adr nefndann [stad j reyne]nesi [oc hans vmbod]smenn ollongu[3]) kuitta oc liduga firir mer [oc] minum erfingium af ollum fyrr greindum [peningum oc] þui [gotse er eg heffer] stadnum af hent. ok af hende latid minna vegna j forgipt nefndrar brig[itar] oc[4]) [vtann kalls ne kiærur]. voru þesser vottar vid sigmundr marteinsson. halldor gudmunzson. þordr ingialldzson. þo[rgei]r samsson oc marger adrer goder menn. oc til sannenda her um sette nefndr ormr oc fyrr nefnder menn med minu incigli sin incigli firir þetta bref er giort uar at skardi a strond laugardagenn j paska uiku þa [er

[1]) [Aptan á bréfinu; ártalið og seinni línan með hendi Árna; hitt með sömu hendi og bréfið; [2]) [tvískr. í frumbr.; [3]) ollongu, frbr.; ollungis, afskr.; [4]) sl. í afskr.; eptir oc kemr í frbr. ecki, sem svo er strykað yfir.

li]dit uar fra holldgan uors hera iehsu christi þusvndrat fiogur hvndrat oc eitt ar.

555. 13. April 1401. á Skarði.

Ormr Snorrason gefr guði allsvaldanda, hans signuðu móður og öllum guðs heilögum mönnum þau tuttugu hundruð, er Óttar Bjarnarson hafði honum selt, og sem hann hafði átt að staðnum í Reynisnesi.

Frumbréfið AM. Dipl. Isl. Fasc. Lxxiij, 5b (= VI,6), meirt og götugt; innsiglið er dottið frá; afskript frá 17. öld er í AM. 280. 4to bls. 16—17.

Þat giorer ek ormr snorrason godvm monnvm kvnnigt þeim sem þetta bref sea edr heyra oc vardar at vita at ek hefer gefit gvde allzvalldanda ok hans signvdv modvr ok ollvm gvds helgvm monnvm þau tvttvghv hvndrvt er ottar bear[nar]son hefer mer sællt oc hann atti ad stadnum i ræynisnese sem bref hans þar vm giort vottar oc ek hefer þetta mitt bref med bvndit svo at stadrinn j reynisnese skal þessa peninga eiga ęfinliga. ok med samri grein þav tiv hvndrvt sem ek lagde til fyrnefndz stadar til fvllrar eignar j forgipt brigidar ottarsdottur huort sem hvn stadfestiz i hreinlife eda ægi oc fader hennar hefer forvndt stadnvm a trvskap a minna veghna. ok til sanninda her vm sett[a] ek mitt inzsigl[e] firer þetta bref er giort var at skardi a strav[n]d midvikvdaghinn næsta epter pascavikv. þa er lidit var fra holldgan vars herra iehsv christi þvshvndradh fiogur hvndrad ok eitt ær.

556. 2. Juni 1401. á Þingeyrum.

Tólf menn votta, að Einar prestr Þorvarðsson hafi ættleitt börn sín Magnús, Arngrím og Guðrúnu til alls fjár eptir sig, feingins og ófeingins, og skyldu öll taka jafnmikið.

AM. Fasc. VI, 3, frumbréfið á skinni; tólf innsigli hafa verið við bréfið, en þau eru nú dottin frá, nema 1. 3. 5. og 8, sem eru enn við, en meira og minna bráknð. AM. dipl. afskrr. 1446 (eptir frumbréfinu).

arfblæidingarbræfit Anno 1401[1]).

þeim godum monnum sem þetta bref sea edr heÿra senda þordr þordarson. arngrimr snorrason. saului brandzson. eyolfr aslaksson prestar. einar dalksson. jon jonsson. sniolfr gudmundarson. vlfr steffansson. jon skalle jonsson. olafr arason. steinn jonsson ok arnor gudmundzson leikmenn. quediu guds ok sina kunnigt gerande ath þa er lidit var fra hegath burd vars herra iehsu christi þushundrat fiogur hundrat ok eitt ár manadaghinn j huítasunnu viku ath þingeÿrum j vazdal vorum vær j hia sam oc heyrdum æ ath sira einar þoruarzson ættleidde baurn sin sua heitande Magnus. arngrim ok gudrunu til allz fiar sins feingins ok ofeingins ok arfs eptir sig aull til jammikils. suo ath sinn þridiung skillde huert þeirra taka [u]r arfinum. Stodu þesser menn aller firer kirkiudÿrum j adr greindum stad ok helldu aller æ einne bok. sira einar þoruardzson er ættleiddi. jarngerdr ok gudrun systr adr nefndz sira einars skilgetnar er lofudu ættleidingina ok þa voro hans laugharfuar ok baurnin opt nefn[d]z sira einars Magnus. arngrimr ok gudrun er ættleidd voro. Talade þratt nefndr sira einar suo felldum ordum.

Ek ættleider her j dag born min þesse Magnus. arngrim ok gudrunu til fiar þess er ek gef þeim ok allz arfs eptir mik til giallz ok til giafar til sess ok til sætis ok til allz Rettar þess er ættleidingr æ ath hafua ath laugum gefande serhueriu barninu sæmilighann grip j ættleidinginni. Magnusi silfrbikar. arngrimi silfrkross med virnum. en gudrunu sylgiu.

Tiundade sira einar þa ær þesse ætleiding for fram tuau hundrat hundrata ok halfan fimta taug hun[drada]. En leÿsti adr allann arfinn med handabande vid jarngerdi ok gudrunu systr sinar adr nefndar firer siau tigi hundrata ok tuau hundrut j fridu fe halft huorre þeirra. Samþykte ok narfi bonde palsson med handa bande vid sira einar þessa arflausn firer haund gudrunar hustru sinnar.

Ok til sannenda her vm settum vær fÿR nefnder menn vár jnzsigli firer þetta æt[t]leidingar bref skrifath j fÿr saugdum stad jn festo corporis christi æ þij ære sem fÿR segir.

---

[1]) Aptan á bréfinu með nokkru yngri hendi.

557. 3. Juni 1401. á Hólum.

Steinmóðr Þorsteinsson officialis heilagrar Hólakirkju úrskurðar löglega þá fimtarstefnu af kirkjunnar hálfu, er Björn Einarsson stefndi Magnúsi Hafliðasyni og eins réttarprófin í máli þeirra um Dalsskóg, þó að þetta hafi fram farið á langaföstu.

AM. Fasc. VI, 2, frumbréfið á skinni. Innsiglið er dottið frá. Bundið saman við Fasc VI, 1. frá 22. Marts 1401 (Nr. 553 að framan).

Ollum monnum þeim sem þetta bref sæa eðr hæyra senndir steinmodr prestr þorsteinsson hola kirkiu officialis quediu guds ok sina kunnight gerannde at ek hæfir séd ok ifuirlesit opit bref godra manna huert her er med bundit þesso mino brefui j hueriu vattar at biörn einarsson hafui stefnt maghnusi haflidasyni fimtarstefnu j langa föstunni firir þau malafelli sem j dómsbrefuino stannda. nu sakir þess at mer leizst kristinn Réttr fýlliliga akueda at þuilikar sakir sem maghnus hafde vid biörn gert firir auerka j skoghinum þann er j langaföstunni war giör megu vel sækiazst j þeim sama tima med þeim ollum mala tilbunade sem biörn hafde þar vm fram farit. Þess annars at biörn bæidde mik orskurdar a huart þessi fimtarstemfna war j moti kirkiunnar löghum edr æigi. þui j guds namfni amen sagdi ek med fullum lagha orskurðe sagda fimtarstefnu kirkiunnar veghna med loghum giörfua ok hana æigi megha aftr segiazst ne vnytiazst af nockurum kirkiunnar vmbodsmanne. ok ei sidr Rettar proftokur ok doma j þessum malum eftir loghum hafua mátt fram fara j alla staðæ sakir græindz tima. ok til sanninda her vm setti ek officialatus jnnsighli firir þetta bref gert a holum jn crastino marcellini ok petri. anno domino ᴍº. quadringentesimo primo.

---

558. 1. Juli 1401. á Þingvelli.

Þorsteinn lögmaðr Eyjólfsson úrskurðar löglega ættleiðing þá, er Einar prestr Þorvarðsson hafði ættleidd börn sín Magnús, Arngrím og Guðrúnu.

AM. Fasc. VI, 4 frumbréfið á skinni; innsiglið er dottið frá. AM. dipl. afskrr. 1447 (eptir frumbr.).

Vrskurdur þorsteinz l[ogmanz] vm ættleiding Anno 1401[1]).

Øllum monnum þeim sem þetta bref sæa eðr hæyra sendir þorstæinn eyuulfsson loghmann nordan ok austan a jslandi Q[uediu] G[uds] ok sina kunnight gerannde. at þa er lidit war fra burd vors herra jehsu christi þushunndrat fiogur hunndrat ok eitt ar næsta dagh eftir peturs Messo a alþingi kom firir mik sira stæinmodr þorstæinsson j vmbode sira einars þoruardzsonar. bæidande mik orskurdar a huart su ættlæiding væri logligh eðr æigi sem sira einar hafde ættleitt born sin. maghnus. arngrim ok gudrunu ok at ættleidingunni af mer jnnuirduligha skodadre leizst mer hon eftir ollu laghanna formi gior wera fra vpphafi ok ennda. þui j guds nafni amen sagde ek med fullum lagha orskurde ok samþycki allra loghréttu manna adr sagda ættleiding j alla staðe lôghligha ok vbrigdiliga halldazst eigha vm alldr ok æfui ok maghnus. arngrim ok gudrunu alltz þess rettar niotande eigha at werda sem loghin lofua fræmzst þeim sem eftir loghum er ættleiddr ok þat bref stadught med sinum græinum ok articulis sem her er med fest þesso mino brefui. ok til sanninda her vm setti ek mitt jnnsighli firir þetta bref gert a þinguelli deghi sidar en fyrr seghir.

---

559. 27. August 1401. i Helsingjaborg.

Eiríkr konungr af Pommern lýsir gjöfum Margrétar drottningar Valdemarsdóttur til ýmsra klaustra og kirkna í Svíþjóð og Noregi. »Datum Helsingborgh Anno Domini MCD primo Sabbato proximo post diem beati Bartholomei apostoli«. Meðal fjölda stórmenna, sem eru við þenna gjörning, eru nefndir »Biscop Pædher af Holla af Jsland« og »Biscop Wilchen af Schalholt«. Bréfið kemr Íslandi ekki við að öðru leyti.

[Prentað í Doktors promotions progr. í læknisfræði fyrir Lauritz Walter Hafn. 1796. Fol. og Nye Danske Magazin V, 2—8, eptir frumritinu á skinni, götugu og sködduðu, sem áðr var meðal danskra frumbréfa Arna Magnússonar Fasc. XXIII, 1, en er nú fyrir laungu komið í Ríkisskjalasafnið].

---

[1]) með yngri hendi aptan á bréfinu.

560. 10. Oktober 1401. á Gnúpi i Dýrafirði.

VITNISBURÐR um hálfkirkjuna í Alviðru í Dýrafirði (Falsbréf).

AM. dipl. Isl. Fasc. VI, 8 á skinni, sem er uppskafningr, og er bréfið falsbréf; er það með sömu hendi sem bréfið frá 18. Febr. 1390 (Dipl. Isl. III, Nr. 375). Árni Magnússon fer þessum orðum um bréfið: »Jnnsiglen eru gômul. brefed sialft er falsbref. Er skafen gamla skriften, og skrifad so â aptur med nyrre hendi. Ecki vil eg tilgeta ad E[ggert] H[annes]s[on] L[ôg]madur hafi þetta giort. enn æred liker eru ductus þo þetta sie affecterud hônd ad fingendam antiqvitatem«. Nöfnin eru hin sömu og staðið hafa í hinu forna bréfi, því að sömu innsiglin eru notuð.

bref sem seiger ad halfkirkian i aluidru eigi fiallaskaga[1]).
[1401 f[als] b[ref].[2])

Þad gijorum wijer sijra ppall bijarnarson sijra Magnus bijornsson. ijon þorgijlsson. þordur þorleijfson. sueijrn ijonsson. Helge steinolbson. godum monnum kunnijgtt med þessu woru brefij ad sub anno Gracije M° cccc° pprijmo festum gereonis martirijs worum wijer þar wijd stadder saim(!) og heyrdum þar vppa ad Are bondij gudmundson galltt og greyddij hustru þorgerdij olafsdottur kuijnu synne fyrer þær hennar ijarder sem hann hafdij ij burtu feijngijd gnupp og aluijdru ij dyrafirdij og þar med alla ijordena fijallaskaga sem halfkirkian ij aluijdru war þa eijgandij ad wordijn eppter þuij sem bref þar vmm vtuijsadij skylldij og koma wppij gnupp og alluijdru tijlgijof og bekk[i]argijof hustru þorgerdar olafsdotter. for þessij gijornijngur framm wnder gnuppij ij dyrafijrdij og tijl sannijnda hijer vmm þa festum vijer fyr skrijfader menn vor ijncijglij fyrer þetta gijornijngs bref huertt skrijfad var ij fyrgreijndum stad a sama are og deijgij sem fyrr seger.

Annað og þriðja innsiglið er dottið frá; hin eru fyrir bréfinu.

---

561. 30. Nóvember 1401. á Gnúpi i Gnúpsdal.

SÁLUGJAFABRÉF Margrétar Þorvaldsdóttur.

AM. Fasc. VI, 7 transskriptarbréf á skinni frá 30. Mai 1487,

---

[1]) Aptan á bréfinu með annari hendi; [2]) [með hendi AM.

sem komið var frá Torfa í Flatey til Árna Magnússonar 1712. IBfél. 126. 4to qls. 23—24; Landsb. 18. Fol. bls. 36; Landsb. 115. 4to bl. 71—72.

J nafne favdvr ok sonar ok heilax anda gerir ek margret þorvalldzdottir heil ath samviszkv þetta testamentvm firir mier ok minne sæl sem hier fylgir.

j fyrstv er ek gef mic ok mina sæl j vernd ok geymslv vorvm herra jesv christo ok til arnadar ordz vorri frv sancte Marie gvdz modvr ok hinvm heilaga thoma minum hinvm elskvlegazsta patrono kiosanda minvm likama huilld ok legstad ath gnupi j nupsdal hia jone minvm gefande þar kirkiune med mier. iiij. vodir ok. j. salltara. preste þeim er mic oliar ok sýngur til molldar hvndrat. gefur [ek] ok halfvan allan rekan er firir moskogvm er hvals ok vidar ok flvtninga vr midri latvrholavik inn til mozt vid ýszta mo mariv minne magdalene ok hennar bænhusi ath reykium j flokadal þvi til vpphelldis. backa kirkiv j avxnadal .ij. vodir .ij. vodir arna jonssyne. ij. hvndrvd fatækvm monnvm. hvndrat havskaullde brodr minvm. iij. hvndroth svanhillde. hvndrat.[1]) þvride hvndrad. beide ek alla god[a] menn sierliga modvr mina ok brædr ath þier firirlatet mier ord edr verk ef ek hefe j mote ýdr giort. vil ek avllvm firirgefa ef j mote mier hafa nockot giort.

Ok til sanne[n]da her wm setta ek firir þetta bref mitt jncingle(!) giort a gnupe j nufsdal jn festo andree apostoli. anno domini. Mº. ccccº. jº.

---

562. 1401. á Auðkúlu.

Tveir menn transsskríbera úrskurð um landamerki Hvamms og Móbergs frá 24. Júlí 1379.

AM. Fasc. III, 12. Frumtransskriptið á skinni. AM. dipl. afskrr. Nr. 394 (eptir transsskr.).

Þath giorum uith arnor biornsson ok jon teitzson aullum godum monnum heyrinkunnikt med þesso ockro brefi ath uith hofum sied ok yfer lesed suo latande bref sem hier seiger med

---

[1]) þannig.

heilu ok oskoddo hanganda jnscigli [Hér kemr úrskurðr um landamerki milli Hvamms og Móbergs 24. Júlí 1379, Dipl. Isl. III, Nr. 282]. Ok til sannz uitnisburdar hier vm þa setium uith fyrr skrifadir menn ockr jnnscigli firir þetta transkriptarbref er skrifat uar æ audkulu j suijnadal arum efter hijngatburd uors herra ieshu christi þusund cccc ok eitt ær.

Innsigli Arnórs er dottið frá, en innsigli Jóns er enn við og heilt að mestu.

---

## 563. 8. Marts 1402. i Hróarskeldu.

Bróðir Augustinus de Undinis, legáti og syndalausnarsali páfans, leyfir Vigfúsi Ívarssyni birðstjóra á Íslandi og hundraði manns, karla og kvenna, í fjarrum hlutum Noregsveldis, að velja sér skriptaföður, er leysa mega af öllum syndum, en mælist um leið til, að þeir leggi nokkuð til styrktar heilagri kristni, og hafi goldið það í Hróarskeldu fyrir lok Maímánaðar eða leggi það ella til guðsþakka, og að þeir gangi í samfelda sjö daga til fjögurra kirkna.

Dipl. Norv. V,415 eptir afskript frá 15. öld í bréfabók Vadstenaklaustrs í Svíþjóð, og er hún nú í Konungsbókhlöðu í Stockhólmi.

Pro illis qui personaliter venire ad indulgencias nequeunt vel eciam ad legatum apostolice sedis — indulgenciarum litera.

Frater Augustinus de Vndinis ordinis sancti Benedicti apostolice sedis nuncius ac extra Romanam curiam sanctissimi domini nostri pape penatenciarius. dilecto[1]) in Christo filio[2]) Wichfrido[3]) Ywari illustrissime principisse domine Margarete Dacie Swecie et Norwegie regine jn Jslandia prefecto. salutem in eo qui est omnium vera salus.

Supplicasti nobis quatinus pro salute anime tue et eciam centum aliarum personarum vtriusque sexus. quas asseris in remotis partibus regni Noruegie precensialiter habitare. adeo quod gracie consequende plenissime indulgencie ad nos personaliter durantibus nostris commissionibus venire non possunt, dignaremur auctoritate apostolica qua fungimur iuxta nostrorum

---

[1]) dilectis, hdr.; [2]) filiis, hdr.; [3]) þ. e. Wichfuso.

priuilegiorum tenorem. tibi et ipsis eligendi proprios confessores plenarie concedere facultatem. Nos autem vt anime tue et ipsarum per te eligendarum animabus salubriter consulatur. tibi et ipsorum cuilibet eligendi proprios confessores ydoneos. qui peccatis vestris diligenter auditis absoluant vobisque penitenciam salutarem et condignam iniungant et alia que de iure fuerint iniungenda. nec talia forent propter que sedes apostolica merito fuerint consulenda. et illam plenissimam indulgenciam et remissionem omnium peccatorum vestrorum concedant. quam ecclesia dei concedere consweuit proficiscentibus vel subsidium ministrantibus in auxilium Terre sancte. auctoritate apostolica. qua in hac parte fungimur plenaria. tenore presencium concedimus facultatem. committentes eisdem confessoribus vestris per te et ipsorum quemlibet eligendis secundum tenorem nostrorum privilegiorum apostolicorum hac vice semel duntaxat totaliter et plenarie vices nostras. super quibus omnibus ipsorum confessorum in predictis consciencias oneramus. Volumus tamen quod omnes et singule persone. quas sic duxeris eligendas. pro subsidio christianitatis mittant huc, videlicet in Roskildis. ad cistas et loca deputata illud quod commodose possunt secundum facultates suas et deuocionis effectum per totum mensem Maji inclusive. quod si nequiuerint prout perfertur infra dictum terminum destinare. volumus. quod illud quod mittere debuissent distribuant pauperibus Christi et in alia opera pietatis secundum suorum consilia confessorum. Jnsuper volumus quod tu et dicte centum persone per te eligende visitare debeatis septem diebus continuis quatuor ecclesias in signum vere peregrinacionis et penitencie presentibus post totum mensem Maji minime valituris.

Datum Roskildis anno domini m° cd° secundo die octaua mensis Martij nostris sub officij sigillo presentibus appenso pontificatus sanctissimi domini nostri Bonifacij pape noni anno terciodecimo.

---

## 564. 6. Mai 1402. á Sólheimum.

Vitnisburðr tveggja manna um landamerki Valadals í Skagafirði.

AM. Fasc. VI, 12 frumbréfið á skinni; annað innsiglið er fyrir bréfinu. AM. dipl. afskrr. 282 og 746. (eptir transskr. frá 1603).

þath giorum vid biarne jonsson ok skegge ionsson godum monnum uiturligt med þesso ockru brefe ath uid medkennumzt þath ath vid heyrdum ockur ellre menn sueria at ualadalur ætte kuarinngsdal ok selfavrena med er þar stendur ok suo ok ei sidur heyrdu uid ath ormur prestur magnusson hefde leigt selfor j adur greindan kuarinngs dal ath ualadalsmonnum þeim saumum sem honum bygdi þar þa samtida ok lukte leigur eptir þa hann hafde. Suo ok medkennumzt uid ath uid heyrdum ath ualadal uar eignat framyfir klupter ok þorleifr arnason sem gud hans sæl hafe eignade sier ok lede þangat hrisrif bændum ur suartardal ok uestr a fiall til moz uid þa sem uestan eiga ath. myrena fyrir nedan eiriksstada sel ok rettsyne ut j mitt arnarvatn ok suo þadan at læk þeim er er fellur ur arnarvatne ok j uazhlidarvatn ok ath læk þeim sem fellur ur hlidaruatne ok ut gegnt uazskarde ok ur utedyrunum a uazskarde ok þuert yfir j fiallz auxlena.

Ok til meire sanninda hier um settum [uid] fyrrgreinder menn ockur jnzsigle fyrer þetta uitnesburdarbref skrifat j solheimum j sæmundarhlid a laugardaginn næsta eptir ascencionem domini. anno domini ɱ° quad[rin]gentessimo secundo.

---

## 565. 17. Júní 1402. að Ærlæk í Öxarfirði.

Úrskurðarbréf Þorsteins lögmanns Eyjólfssonar um ferju á Jökulsá í Öxarfirði.

AM. Dipl. afskrr. Nr. 4384. Hér eru fjórar afskriptir bréfsins allar gerðar um sama leyti: a, »Epter apographo sira Skula ä greniadarstad og seger sira Skule ad þad sie riett skrifad epter origiualnum. communicavit Jonas Einari« (AM.); b, »þetta ä tveimur bladsidum fyrer framann og ofann er riett samhlioda þvi Transcriptarbriefe, sem vid underskrifader säum og saman läsum ad Laufäse vid Eyafiord d. 3. Julij Anno 1708. Til merkess. Marchus Jonsson manus propria, Jocbiem Jonsson m. e. h.« »Vidisse þad, sem þesse copia er epter skrifud, sende sira Geir Markusson Mag. Birne ä alþing 1708« (AM.); c, »Brief þorsteins Eyolfssonar Lögmans nordann og vestann ä Jslande. Vmm feriu og flutnijng ä Jokulzä. Daterad Ærlæk i Øxarfirde 1402. a sialfa Botbolfsvoku. sem innfellur 17 Junij Transcriptad efftir þvi Briefe sem liggur ä Greni-

adarstǫdum«. Þessi tvö blöð eru í 4to og er á blaðatal 33—34, svo að það mun vera partr úr skjalasafni. Utan á því stendr: »Urskurdur Þorsteins Lǫgmanns uppa feriuna ad Jǫkulsaa«; d, óstaðfest afskript frá sama tíma og hinar afskiptirnar. Í Svartskinnu Magnúsar konferenzráðs Stephensens Nr. 27. 4to í safni hans er á bls. 423 afskript af þessu bréfi frá c. 1730 og er þar ártal bréfsins rangt 1410; er auðséð að Espólín hefir haft þá afskript fyrir sér (Árb. II, 6), enda er bókin komin úr eigu Jóns sýslumanns Jakobssonar föður hans.

feriubrief Þorsteins Eyiolfssonar lǫgmannz 1402[1]).

Ollum mǫnnum þeim[2]) sem þetta bref sia edur heyra sendir Þorsteirn Eyolfsson lǫgmann[3]) nordan og vestan á Jslande kvediu guds og sina[4]). kunnugt giorandi. ad þa ed[5]) lidid var fra hingadburd vors herra Jesu Christi [þusund fiǫgur hundrud og tvǫ[6]) ar næsta dag fyrir botolfsvǫku[7]) a Skinnastodum j Oxarfirde komu a stefnu fyrer mig sira Steinmodur Þorsteinsson Hola kyrkiu officialis og profastur i þingeyarþinge af eirnre halfu. en þeir hreppstiorar or Oxarfirdi af annare. kærdi sira steinmodur kirkiunnar vegna a holum og[8]) almugans ad[9]) feria og flutningur a Jǫkulsæ i Oxafirdi halldest ei epter þui sem vera ætte ad lǫgum. Nu saker þess ad aller adurgreinder menn logdu med handabandi sattsamliga under minn orskurd. huorsu greind malefne ætte ad fara. þess annars ad lǫgbok vottar so. ad bændur eru skyllduger ad giǫra færa vegu um þver herǫd og endelǫng. þess þridia ad christfied[10]). bæde jǫrd og kugillde. sem til heyrer fluttningunum[11]). liggur i Oxarfirde. og ferian hefur af þeim bændum. sem þar bua. halldest og skipast bæde ad fornu og nyu. Þui i guds nafne amen. sagda eg med fullum laga orskurdi og samþycke allra þeirra[12]) bestu manna er [nær mier[13]) voru. alla hreppstiora i Oxarfirde skyllduga ad hallda upp ad giǫra og byggia jǫrdena ad Vadi i Oxarfirde. og allt þad lausagotz sem til heyrer feriubackanum og ei sidur lǫgferiu a[14]) Jǫkulsæ a þann hatt ad hid sama skip skal ei leingur a vera enn þriu ar. þeir skulu og [fa mann til skipsfluttningsens þann[15]) vel sie til fær bade[16]) vetur og

[1]) Árni ritar þessa fyrirsögn utan á afskriptirnar; [2]) sl. a, b, d; [3]) lǫgman, a; lǫgmǫnnnm(!) c; [4]) hier med, b. v. a, d; [5]) er, c; [6]) [M CCCC ij, a, c, d; [7]) = 16. Júní; [8]) ad, a, d; [9]) sl. a, d; [10]) christfie, b; [11]) flutningnm, b; [12]) sl. a, c, d; [13]) [nærre, b; [14]) ad, b, c; [15]) [mann tilskicka flutningsens sem(!), b; [16]) bædi, b, c, d.

sumar under lika[1]) toll sem ad gömlu vered hefur af ollum utan hierads mönnum. J sama urskurde sagda eg alla bændur rika sem orika i[2]) millum Ormarsar a[3]) sliettu og fialla i kellduhuerfe skyllduga ad leggia til feriugiörđarinnar halfan fiordung smiors hvor[4]) þeirra hid þridia hvort ar. og afhenda hreppstiorum i Oxarfirdi edur þeim sem giöra rad fyrer og og skulu greinder bændur þar fyrir flytiast kauplaust og þeirra varnadur nær sem þeir þurfa. Hreppstiorar i Oxarfirde skulu og ad sier taka hid gamla skiped til eignar jafnan þa er[5]) um skiptest. enn bæta upp feriubackann og hallda uppe[6]) husum leigufærum. og ei sidur lausa gotzunum oskerdum. enn þann skada og oriett sem a hefur orded þessu ollu saman hingad til skulu þeir sækia sem fuller eignarmenn [a þa sem ad lögum eiga ad suara[7]).

Skipar[8]) eg ad þetta mitt orskurdarbref ligge jafnan a Greniadarstödum [i Reykiadal[9]) under þess geymslu sem þar byr. en bændur i Oxarfirdi og kellduhverfe hafe transscriptum hia sier hier ut af þeir sem vilia.

Og til sanninda hier um setta eg mitt jnsigle fyrer þetta orskurdarbref. giört ad Ærlæk [a sama are[10]) deige sidar enn fyrr seiger.

---

## 566. 13. November 1402. á Höskuldstöðum.

Reikningskapr séra Þórðar Þórðarsonar og Valdísar Helgadóttur barnamóður hans.

AM. Fasc. VI, 9 frumbréfið á skinni; sex innsigli hafa verið fyrir bréfinu, en þau eru nú dottin frá, nema hvað eptir er 2., 3. og 6. innsigli meira og minna brákað. Landsb. 18. Fol. bls. 39—40; Landsb. 107. 4to bls. 57—59; Bisk. 2. Fol. bls. 83—84, en allar þessar afskriptir eru verri en ónýtar.

eyarbref[1]).

Þeim godum monnum sem þetta bref sia edr hæýra senda æyiulfr ok biorn aslaks synir prestar. þorstein bergson. þorger

---

[1]) likan, a, c, d; [2]) sl. a, c, d; [3]) ad, a, d; [4]) til(!) b; [5]) ed, b; [6]) upp, b; [7]) [sl. a, d; [8]) Skipa, a, c; [9]) [sl. b; [10]) [sl. a, c, d; [11]) aptan á bréfinu með yngri hendi.

brandzson. æyiulfr gammur biarnarson. arnor gudmundarson ok Jon þorgersson quediu guds ok sina kunnickt gerande ath þa er liðet var fra hegat burd vars herra iehsu christi þushundrat ara fiogur hundrat ok tuau ar. þridiudagh næsta eftir allra hæilagra Messo[1]) a hoskuldzstodum a skagastrond varum vær j hia ok heyrdum a reiknings skap þeirra sira þordar þordarsonar ok valdisar helgadottur barnamodur hans.

j fystu reiknade valdis ath sira þordr hefðe tekeð landskylld af jorðu hennar sydre æý vm en uæstu atta ar.

j annare grein ath hun hefde onguan auoxt tekid af halfum fimta tighi kugilda vm morg er ar sira þordr hafde með fareð.

kendezt sira þordur þetta ok satt vera ath hann hefde ath ser tekeð eda rað fyrer giort læiguburd af jordunne ok kugilldunum vm sua langan tima ok micklu læingur kugillda læigurnar. æigi siðr þottez valdis peninga verd fyrer forgang sinn en sira þordur þottez hafa klætt hana þar fyrer. vissu ver ok þath sannynde vera ath sira þordur bygde iafnan jordena fyrer sex hundrud frid þa er hann lieðe hana æigi þi j þessa peninga landskylldernar lauk sira þordr valdise með handabande til fullrar æignar alla jorðena at ýtre æý fyrer þriathige hundraða med ollum þeim gognum ok giædum sem jordunne hafde fýlkt ath fornu ok nýiu ok hann hafðe fremst æigande ath orðet. þar til fimm kugillðe. kendezt sira þordr ok j handabandenu ath longu fýr hefde hann lukt henne til fullrar æignar með handabanðe j fornar kugillða læigur þa litlu æý eða holma er þar liggur fyrer iordunne. sagðe þo ath valdise brast miket j sinn Reiknings skap ok liezt betra mundu þo ath sidar være. vard nu skullden sira þordar vid valdise fimtheger kugillða. sagde sira þordur með jordunum þessum stanða siau kugillðe ok tutthogu ok þath sem þar yrðe gillt af a fardogum þa skillde valdis taka þat fyst j sina skulld ef hun villðe.

Jtem kendezt sira þorður ath þuilikt kuenglys sem hun hefðe ath gæima j klædnaðe eða brendu silfre þat ætte hun sialf einn silfurbikar ok alliten bolla. her med fiorar kistur. þetta jnnan veggia. ketil. tua potta. þriu storkerolð. vppgiordar kerolð sex ok tuthogu. trog fiortan ok hefer hun sialf gæymslu

---

[1]) = 7. Nóv.

yfer þessu. munlog ok kamba. stodhross ok hesta nockura er hun hefer j sinne abyrgð ok fim sængur.

Ok til sannenda her vm settum uer fyrr nefnder menn var inzigle fyrer þetta bref skrifath a hoskulldstodum jn festo beati brikci episcopi a þi are sem fyrr seger.

---

550 20. November 1402. á Mel i Miðfirði.

KAUPMÁLABRÉF Jóns Gunnlaugssonar og Þóru Ketilsdóttur.

AM. Fasc. VI, 10 frumbréfið á skinni; öll innsiglin eru dottin frá. AM. dipl. afskrr. 357 (eptir frumbréfinu).

Gamallt kaupmala breff[1]).

Jn nomine domini amen.

Var sua fellt kaup stadfest a reykium j midfirdi millum jons gunlaugssonar ok jons brodr hans af einne halfu enn ketills skeggiasonar ok þoru dottur hans af annari at suo fyrir skilldu at adr nefndr ketill skilldi kiosa fyrir hônd þoru dottr sinar huort honn uæri helmingarkona eda malakona af suo miklum peningum sem fÿrr nefndr jonn reiknadi seir[2]) til kaups vid þoru ketillsdottr. uar þat fimtigir hundratta tíundar uirt. her j mot gaf ketill þoru dottr sinne jord halfa a torfustodum j midfirdi fyrir halfan þridia tog hundrada. jtem reiknadi jonn seir[2]) þriu born at hann ætti. borgadi jon brodr hans þessa omagda[2]) a sina peninga enn ef hans misti skilldi þau eiga jordinna grof j sokkolfsdal med fiorum kugilldum. þui med suo felldum skildaga kiori ketill bondi skeggiason þoru dottr sina hellmingarkonu j gard jons af feingnu fe og ofeingnu. skilldi þora eignaz yfir helming ef þau dei barnlaus beckiargiof sina. uirdtist hann þar þa af iij monnum. xij. hundrut kugillda uirt. uoru þessir kaupuottar[3]) a brudlaupsdegi sira grimr þorarinsson. þosteinn skeggiason. jonn[4]) magnusson prestar. oddr þordarson. oddr kolbeinsson. magnus sôluason ok olafr marteinsson leikmenn.

Ok til sanninda her settum vær fyrnefndir menn vor jnn-

---

[1]) Aptan á bréfinu með hendi frá 17. öld; [2]) þannig; [3]) tvískr.; [4]) eiginl. skr. jañ.

manns Þorsteinssonar [frá 1346, Dipl. Isl. II, 514] með heilu innsigli, þó að það sé nú fyrirfarið.

AM. 238. 4to bl. 36b skr. 1570—80 (í transskr. frá 1475); AM. dipl. afskrr. Nr. 1790 (eptir 238); AM. 65. 8vo (eptir 238).

Eg broder jon med gudz nad aboti j þÿckvabæ gervm godvm monnum kvnnigtt med þessv minv brefi at þetta bref herra gríms þorsteinssonar riddara. sem hier er med bvndit sa ec ok yferlas vnder hans heilv ok oskoddv hanganda insiglle. þo at þat sie nv fyrer farith ok hier epter vill ec sveria ef þvrfa þicker.

Og til sannenda hier vm setta ec mitt insiglle firir þetta bref skrifad j hvalfirde æ jacobs Messo dag anno domini M°. cd°. v. ar.

---

## 582. 26. Juli 1405. i Hvalfirði.

Fjórir menn votta um jarðaskipti og jarðakaup þeirra Þorgils Jónssonar og Ingunar Brynjólfsdóttur konu hans, Benedikts Brynjólfssonar og Bjarnar Einarssonar.

AM. Fasc. VI,16, frumbréfið á skinni. Fjögur innsigli hafa verið fyrir bréfinu, en þau eru öll dottin frá, nema 2. innsiglið, sem þó er brákað.

vm kirkivbol j jsafirdi ok fleiri jardir adrar[1]).

Aullum monnum þeim sem þetta bref sea edr heÿra sænnda jon wfæigsson. juar haflidason. Eyuindr ketilsson. olafr æinarsson quediu guds ok sina kunnigt geranðe ath þar vorum wer j hia saam ok heyrdum æ j badstofunni a vidimÿre j skagafirdi. vm vorit eftir pæskir þa er lidit war fra burd vors herra jehsu christi þushundrat fiogur hundrat ok fiogur ær att þau þorgÿls jonsson ok jngunn kona hans bryniulfsdottir sælldu benedikt bryniulfssyni suo margar jardir j jsafirdi sem her sægir.

jn primis kirkivbol j langadal. backa ok annan. brecko ok annan backa. laagadal. nauteÿri. hafnardal. vnadsdal ok sandeyri.

---

[1]) Aptan á bréfinu með fornri hendi.

med ollum þeim gognum ok gięđum sæm þessum jordum fÿlgt hefir fra fornu ok nyiu.

Hær j mot skylldæ nefndr benedigt gefa sogdum þorgylsi ok konu hans jnguni þær jardir jafndyrar nordan lanz sem hann villdæ.

jtem her eftir keÿpti biorn einarsson af benediktt bryniulfssyni med handabande allar fyrr sagdar jardir. en biorn gaf honum j mote þessar jardir hol. ʀafnstade ok garzhorn j fulakinn. ok þar til skÿllde biorn til leggia suo marga pæninga sæm til kuæmi eftir ʀęttum ʀæikningi. woro þau þa oll j æinu handabande benedik[t]. biorn. þorgÿls ok ingunn sæm samþÿcktu þetta þeirra kaup.

jtem skiptu þeir vm xxx kugillda. skyllde biorn taka vestr æn bænedikt nordr. suo ok skiptu þeir vm smer ok busgagn þat sæm huorr til hefde biorn nordr en benediktt vestr vpp[a] ʀættan ʀæikningsskap. skÿllde huor odrum trva þat sæm sagde vpp a sinn sanÿ[n]de þat sæm huar sægde þat sæm hann tęke. æn huargi odrum æida silia[1]). skylldæ ok huor taka þar sæm stæde þa pæninga sæm þeir vm skipto þott ængin afuændi.

Ok till sannynda her wm sætta egh wer[1]) vor incigli firir þetta bref gertt j hualfirdi næsta dagh eftir jacbsmesso anno domini ꝏ⁰ cd⁰ quinto.

---

583. 17. Oktober 1405. á Valþjófstöðum.

Kaupmálabréf Arnodds Brandssonar og Sigríðar Guðmundsdóttur.

IBfél. 67. 4to bl. 41, með hendi séra Eyjólfs Jónssonar á Völlum (d. 1745). MSteph. 60. 4to, ágrip með sömu hendi.

[Utskript] af kaupmælabrefi Arnodds Brandssonar og Sigridar Gudmundardottur.

Jn nomine domini Amen.

Var þessi skilmali lystr ok fullgior æ brudkaupsdegi þeirra Arnodds Brandssonar ok Sigridar Gudmundardottur æ Valþiofsstôdum j fliotsdal sunnudaginn næstan fyrir Calixtusmesso[2])

[1]) þannig frbr.; [2]) = 11. Okt.

anno ꝏ. cccc. ok. v. ꜳr. at sira Gudmundr Þorsteinsson kiðri Sigridi dottur sina malakonu i gard arnodds brandssonar. ok gaf henni. lxc. j sina heimanfylgiu med þessum fridleika. jordina a Vidivöllum hinum ytri j fliotsdal. ok þar til. xxc. j bufe. en arnoddr af. j cc. sem hann atti ok hann til kaups hafdi med Sigridi. gaf henni j tilgiöf. xxxc. ok þar til. xxc. j brendu silfri ok klędnadi. ok .xc. j morgingiof. skal þetta allt saman vera virt ok reiknaz in summa hennar mæli j gard arnodds til eignar og fevaxtar. at utreiknadri heimanfylgiu. bekkiargiöf. tilgiöf ok morgingiöf. j cc. lagdi arnoddr brandsson þa alla peninga uppi sina beztu eign þa er hann ꜳtti edr eigandi at yrdi. fasta ok lausa. henni til eignar. þar til hun hefdi sinn fullan mala.

voru þessir vitnismenn og brudkaupsvottar. Jon þorgrimsson. Oddr þorsteinsson. Jon þorsteinsson. arngrimr magnusson. oddr sigurdarson. prestar. Olafr brandsson. Jon Sævarsson. einar hallvardsson. leikmenn. hver er settu sin innsigli med sira Gudmundar og arnodds innsiglum fyrir þetta kaupmalabref. giort ꜳ Valþiofsstödum j fliotsdal laugardaginn næstan eptir Calixtusmessu ꜳ sama ꜳri sem fyʀ segir.

---

## 584. 5. Februar 1406. á Ósi í Miðfirði.

Einar Daðason selr Ásgrími Snorrasyni alla jörðinu Kirkjuhvamm í Miðfirði með gögnum og gæðum og tilgreindum landamerkjum fyrir lausafé.

Biskupsskjalasafn Íslands 4. 4to, dóma og bréfabók á pappír með hendi Guðbrands biskups, skr. fyrir 1611. Bréfið er prentað í Tímariti Jóns Pétrssonar I, 1869, bls. 36—37.

Bref vm kirkiuhvam vestra.

Jn nomine Domini Amen var þetta kaup þeirra Einars Dadasonar og Asgrims Snorrasonar med handabanndi. ad nefnndur Einar selldi adur greindum Asgrime jörd alla j kirkiuhvamme j midfirdi med ollum þeim fonngum og giædum. rekum og hlunnendum sem jordenne hafa filgt ad fornnu og nyiu. og hann vard eigenndi ad. ad onnguu fraskildu. Sagdi Einar ad være j Hvamme graptrar kirkia og fæda prest. og giallda. iiij.

merkur og tiunnd biskupe annadhvortt ar. og ætti kirkian. vj. kyr og. vj. ær. vjc. voru. iij. hross. Jtem sijdan Einar kom gafst kirkiunne. ij. kyr. ix. ær og. ij. hestar. iijc. voru. Jtem j portione ecclesiæ er reiknnast. iiijc. voru enn fyrstu. ix. ar. er einar bio og ad auk hunndrad er sijra grimur gaf. og skildi fyrnefndur einar af sier alla þa fyrnd og hrornan sem ordit hefdi a so lonngum tijma og alla abyrgd a kirkiunne.

Hier j mot gaf fyrgreinndur Asgrimur fimmtige hunndrada med þessum solum og fridleika ad næstum fardogum. xxx. hunndrada. og taka under sialfum sier þau. xxx. hunndrada sem Einar var kirkiunne skylldugur eptir þui sem adur vottar j brefinu og Asgrimur batt sig unnder ad luka so fellda peninnga kirkiunne sem Einar var henne skylldugur. hier a ofan skylldi þrattnefndur Asgrimur luka einare. vj. kyr og. v. asaudar kugilldi. vc. j slatrum tiundarvirtt og. vc. j vadmalum og skreid og lukast ut j. iij. arum. leigia tolf alnnum epter hvortt hunndrad sem eigi lukast j fardogum enum næstum.

Sagdi einar þesse lanndamerke mille synsta hvammz. ad lækur sa riedi ad fielli j mille nausta ofan j sio og upp riettsyne j lækiarbug. og vr lækiarbug j hagagardz ennda og þadan ut j a. enn aen upp þadan a fiall. og kirkiuhvammur ætte manadar beit a veturinn ollum fienadi j synnsta hvammz jord. enn synnsti hvammur ætti hier j mot beit fyrir ofan kelldu j kirkivhvammz fiall annad hvortt dægur ollu bufe krossmessnna a mille a sumarid. Jtem sagdi einar at efsti hvammur ætte tveggia attfedminga skurd a hvammsholltt j hvamms kirkiu jord og þar være þinngstadur.

skilldi einar svara laga ryftingum a jordunne j hvamme enn Asgrimur hallda til laga.

For þetta kavp framm a þinngeyrum j vatsdal þrettannda dag jola. þa lijdid var fra hinngadburd vors herra Jhesu Christi þushunndrud. iiij. hunndrud [oc]. vj. ar. þessum monnum hia veronndum[1]) Brodur asgrime vigfussyne profaste. loptur guttormsson. Eyolfur þorvardsson.

Og til sanninnda hier umm setti Einar Dadason og as-

[1]) heyronndum JP.

grimur Snorrason sijn innsigle med vorum jnnsiglum fyrir þetta bref er skrifad var ad ose j midfirdi jn festo agate[1]) virginis a sama are sem fyrr seiger.

---

585. 28. Marts 1406. á Helgafelli.

Vermundr ábóti á Helgafelli og officialis heilagrar Skálholtskirkju staðfestir þá skipan Gyrðs biskups, séra Snorra Þorleifssonar og séra Ola Svarthöfðasonar, að af níu bæjum sunnan Hítarár megi færa lík til Akra, þegar eigi sé fært í Krossholt, og gjalda lýsitolla og hálft líkaoffr til Akra.

AM. Fasc. LXV.17, transskript á skinni frá 1. Apr. 1513; AM. dipl. afskrr. 1671 eptir transskr.

Brodir vermundur med Gudz nad aboti a helgafelli. heilagr ar skalhol[t]skirkiu officialis. Giorir godum monnum kunnugt.

Gudrun styrsdottir kom fyrir mic. oc tiedi mier bref sijra þorlakz narfasonar oc halfdanar prestz Guttormzsonar huortt suo var ]ætandi. ad herra Gyrdr godrar minnijngar. skalholltzbiskup. hefdi þuijlijkan mældaga giortt millum krossholltzkirkiu ok akrakirkiu. j suo mata. ath af þeim niju bæum. er fyrir sunnan hijtara eru. sem til krossholltzkirkiu liggia skylldi færa lijk til akra jafnan er ei vel er færtt til krossholltz. oc helmijngur skylldi leggiast til akra af ollum hlunnindum sem fylgia lijkum af þessum bæum huortt sem færd e[r]u. oc til akra skylldi leggiazt allır lysistollar af eyriks[stodum]. jsleifarhusum. hualseyum. wr vogi ok skutilzey. wr laxarhollti ok hømrum. skijdzhollti ok kalfalæk.

J annare grein tiedi hun mier bref sijra snorra þorleyfssonar er þa var heilagrar skalholltzkirkiu officialis. huortt suo var latandi ad su giord herra Gyrdar skal standa obrygdulig epttir þui sem nefndir prestar bera vitnni vm j sijnu brefi. þar til er skalholltz kirkiu biskup vill adra skipan a giora. kallandi aptur þat bref sem hann adur hefur þar wt vm gefit.

J þridiu grein tiedizt oss bref sijra ola suartthofdasonar heilagrar skalholltzkirkiu officialis huort suo er latandi ad hann skipar stadfastliga j sijnu brefi ad ædur greindar skipaner herra Gyrdurz ok snorra skulu obrygdanliga standa.

---

[1]) agati JP.

Nu sakir þess ad þilijkir formenn heilagrar skalholltz kirkiu. furst biskupinn. sijra snorre ok sijra ole. hafa ecki viliad adra skipan æ giora enn ædur hefur giord verit. þui skipar ok stadfesti ec ad lysitollar ok lijkaoffur af furnefndum. ix. bæum skal lukazt til akrakirkiu oc obrigduliga standa þar til sierligur formann heilagrar skalholltzkirkiu vill adra skipan æ giora. nema adrir mældagar finnest serligir j skalhollti. Skulu bændur af adurgreindum bæum sektalaust sækia tijdir til akra. ad vndanteknum hinum stæstum hætijdum.

Oc til sannenda hier vm setta ec officialis jnncigli fur þetta bref skrifat æ helgafelli quintta decima[1]) kalendas aprilis anno domini ᗰ⁰. cccc⁰. sexto.

---

586. 8. Mai 1406. á Munkaþverá.

Logi prestr Stígsson og fimm menn aðrir votta að þeir hafi séð sálugjafabréf Steinmóðar prests Þorsteinssonar og tilfæra úr því kafla.

AM. Fasc. VI, 20, frumritið á skinni. Sex innsigli hafa verið fyrir bréfinu, en þrjú af þeim eru nú dottin frá.

vm testamentum[2]).

Ollum monnum þeim sem þetta bref sæa edr heẏra senda sira loge prestr stigsson. officialis heilagrar holakirkiu. ærlendr ormsson. kare bergþorsson. prestar. finbogæ jonsson. gamle martæinsson ok arnæ einarsson leikmenn quediu guds ok sina kvnight gerande ath vær sam ok ifuir lasvm opit testamentum bref steinmodar prez þorsteinssonar ᗰed hans heilu ok vskǫddu hanngannda inncigle huert er þuilika aʀticulos hafde j sær sem hæʀ sæger.

j fẏʀstu. at hann kiore sinum likam legstad heima æ holum j hialltadal þar vt j kirkjugardinum sem kirkiunnar formadr giorir ʀad firir sem hann andadiz a islandæ fvrir vestann edr svnann auxnadals heidæ. en æf hann andadizst firir nordan ædr austan græinda heide villde hann vera grafinn heima æ gʀeinadarstǫdum mitt nidri vndir stauplinum. gaf hann kirkiunne æ holum horn buit þat bezta horn eʀ hann atte. spiru

---

[1]) detima, transskr. r: quinto decimo; [2]) aptan á bréfinu.

gylda med loke. skurnn suarta med huitu silfurloke. ræfil sem æ er nickulas saga med glitudum duk. kǫnnur fiorar þær er hann atte bezstar ok þar til skipade hann holastad til eignar af sinu goze tuttugu kugillde. tuttugu hunndrat vadmala ok tuttugu hundrut j slatrum med þeirri grein. ath ef hans erfingiar kynne kirkiunne nockura peninga skylldugir verda j Reikninghskap eftir han skylldu þessir sex tigir hundrada þar fÿRst vpp j suaraz enn ella gefaz kauplaust.

Hinum hæilaga Martino ok stadnum a greniadarstǫdum gaf hann alla þa bot sem hann hæfir giorth þar vtan kirkiu ok innan ok allth þat er hann hefir til laght kirkiunnar fyrr edr sidar þar til sæm hann skildiz vid stadin med þeim skilmala sem Registrum hola kirkiu ok bref þar vm giort votta. jord at holmavade med fim kugilldum gaf hann kirkiunne þa hun var vigd en nu skipar hann henne til eignar jordina j yzta huami ok sellatr ok sker a̋ breidavik.

Modruvallaklaustri silfrskal er vegur Mörk.

Ok til sannynda her vm settum vær fyrr nefndir menn vor inciglæ firir þetta þetta bref. skrifuat ath munkaþuera in profæsto translacionis nichulai aRchiepissopi anno domini M°. quadringentesimo sexto.

---

587. 19. Mai 1406. à Grenjaðarstöðum.

Afhendingarbréf Loga officialis Stígssonar fyrir staðnum á Grenjaðarstöðum, þegar Þorleifr Árnason slepti, en Rafn Guðmundsson tók við.

AM. dipl. afskrr. Nr. 119 »Ex original. greniadarstad. accurtissime« (AM.). Árni lýsir frumritinu mjög nákvæmlega og eru orð hans á þessa leið: »Þetta Loga Stigssonar bref er ritad med skrift helldur enn eigi krokottre þo ecki so sem norsk bref eru, helldur med nockru settare hendi. Nedan ä brefinu er eingin plica, helldr er innsiglisreimin skorin nedan af brefinu, og hanger föst vid þad til vinstre handar. Jnnsigled er kringlott, ecki illa stungit. Er ad vexti, giord, og bokstafa forme allt eins og Jnnsigle Jons abota a Þingeyrum, officialis Holensis, de anno 1452. og ä eg þad sama innsigle Jons abota, officialis, afrissad. Nockur differentia virdest mier vera a mille innsiglanna, hveria eg annoterad hefi hia Jons abota officialatus innsigle. Skriften ä þessu sira Loga innsigle hefur vered + S OFFIC[I]ALATUS HOLEISECCE. + S er nu burt broted. El er nu oskirt, er þo synelegt ad so hefur þad vered, enn

eigi EN. CCE. er nu, so ad seigia olæselegt. allt annad in inscriptione er skirt og liost«.

Ek loghe prestr stighson officialis heilagrar hoola kirkiw kvnngiorer ollvm godvm monnvm þeim er þetta bref sea edr heẏra at ek hefver afhenntt ʀafnne gvdmvndzsyni þa er hann tok greniadastad er þorleifr arnnason slepti.

j fẏrstv tvav hvnndroth æsavdar. halfr fiordi toghr kva. gellfiar kvgilldi fimtigi ok atta. tiv hross. tiv kvgilldi er arnne einarsson gaf.

Þetta j lavsa godzi. martinvs refill med bior. fiorer vender j stofw. tveir vaunder refiar. þriv pællklædi. tveir pallkoddar. seav konnvr. þrir vatzkallar. þrir tindiskar. saltfat. mvnnlavgar tvær. sextan liaer. þriar kolvr. tveir pælar. fiorer hardsteinar. hnodhamar. fiskasleggia. þriar rekvr. eirnn pvnndari. ravda smidia at ollv. fiorar avxar. nafar. tvær erkr. fimtigher vætta smior. sex kistvr. einn stockr. þriar smiorkistvr. stockaker eitt. norænntt fæt. sex storkiorolld. selia. byttvr tvær ok tveir strockar. fimm pottar. halfr fiordi toghr trogha. halfr þridi toghr vppgiordar kerallda. fimm kattlahrof.

Þetta j sænngarklædvm. fiorar dynvr ok xx. hæginndi tvav ok xx. niw aklædi jslensk. þriw æklædi þẏversk. þrir bolstrar. einn skinnbedr. eirnn hvitill. reckiwvader xvij. eitt beds ver.

virtizst þetta lavs[a]godz fra teknnw kvikfie nivtigher hvnndrada ok þriv hvndroth. geck adr greindr ʀafnn j borgan at lvka stadnwm æ greniadastodvm þessa somv penninnga edr adra jafnngooda ef þesser væri eigi til þa er hann skildizst medr opt greindan stad æ greniadastodvm.

Ok til sannennda her vm setta ek officiolatvs jnnsigle fẏrir þetta bref skrifvat æ greniadastodvm jn festo dvnstani episcopi et confessores[1]) anno domini ꝏ⁰. cccc⁰. sexto.

---

## 588. 22. Mai 1406.

Jón Geirsson lýsir landamerkjum Seilu í Skagafirði fyrir Steinmóði presti Þorsteinssyni.

AM. 255. 4to bls. 244—45, bréfabóka séra Skúla Þorlákssonar á Grenjaðarstað, skr. 1687—89. Það er alment talið (Esp. Árb.

[1]) þannig.

I, 124; sbr. og Nr. 586 hér á undan), að Steinmóðr prestr Þorsteinsson dæi í svartadauða 1403; er því annaðhvort að bréfið er gert nokkru síðar en áreiðin var gerð, ellegar þá að séra Skúli hefir ranglesið ártalið á þann hátt, að hann hefir lesið uj úr iij.

Annad[1]) vitnissburdarbrieff vm landamerke Seilu.

So felld landamerke sagde Jon Geirsson sira Steinmode þorsteinssyne vm jordena ad Seilu. þa er þeir ridu vm kring heima jordina.

J firstu sagde hann rada fyrer sunnan nidri vid kuisl sandeingiss skurd og þadan riettsyni vpp j steinen j ʀeik[i]arhole. og þadan riettleide vestur yfer Vijdemýraraa. þar sem hann sagde vered hafa klofasteina og þa ofan fallna. og þadann j fuglstafa[2]) þufu j hole fyrer nedan jpisshol og þadan j hollted fyrer vtann forna steckiu[2]) staudu fra Jpisshole og so riettleidiss j landgrafar horned sýnsta fra fialle og þadann reittsyne vestur j Sæmundaraa. og so vt med anne til vadsgatna fyrer vtann Skardsaa og þadann heim med selgőtunne fra gielldingahollte fyrer sunnann Selshollt og þadan j gardstad j hollte og so þadan riettsýne a brunena fyrer sunnan Bardarstade jafngiegnt gardstadnum og so sudur med brunenne. j gardstad fyrer vtann Seýlu og þadan j lækenn ofann. en þa sagdest Jon ei vilia abirg[i]ast. huort stadurenn edur Seyla ætte brottgeýra þann er geingur millum læk[i]arens og dælldar þar fyrer sunnan. og þa sagde hann enn rada lækenn sudur j skiplæk og hann ofan j Selseyarsijke. enn sijkid ofan j holltskuijsl. og kuijslena alla leid sudur j Sandeingis skurd þar sem til tekur j firstu. og enn sagde hann Seylu eiga holma nockra þa sem standa j holltskuijsl. sagde hann og at Seyla ætte halfa laxveide vnder fosse j Sæmundaraa. enn fiall þar j mot ætte fedmings torfskurd eda tueggia arlega j Seylujord. Sagdest Jon hafa sellt sira Steinmode halfa Seylu med þessum vmmerkium. vm jardernar heima. enn jatade. at rijda j Reýkiaskard. og seigia þar merke vm Seylu eign þegar sira Steinmodr villde.

Voru þesser vottar hier vid og rydu ā oll morkenn med þeim. Þiodolfr prestur arnorsson. Þorgeir Sugurdarson. Kolbeinn Þorgeirsson. Jón Sæmundsson. Halldor Biornsson. Þor

[1]) Á undan er bréf frá 1563 um sama efni; [2]) þannig.

steirn Jonsson. are Eyrijksson. og Gunnar Hakonarson. huorier sijn jnnsigle settu hier fyrer. M. iiijc og vj laugardæginn næstann epter vppstigningardag.

---

## 589. 25. Mai 1406. i Odda.

Arfskiptagjörð þeirra Vigfúsar prests Þorbjarnarsonar, Þorleifs Árnasonar og Jóhannness Arviðssonar eptir Gunnar Eyjólfsson.

AM. Fasc. VI, 17, transskript á skinni frá 20. Sept. 1508.

Audbreckobref[1]).

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia edur heyra senda jon gudlaugsson. guttormur juarsson. brandr jonsson. gvdmvndur þordarson. dadi odsson ok jon grimsson quediu guds ok sina kunnigt gerande at sub anno domini[2]) ɱ°. cccc°. vj. æ uppstigningar dag j odda æ rangaruollum uorum uær j hia saum ok heyrdum æ ord ok handaband þeirra sira vigfus þorbiannarsonar af eirne alfu þorleffs[3]) arnasonar af annare. johannes arvidssonar j umbode jngunar gunarsdottur konu sinnar ok gudrvnar systur hennar af þridiv ad suo fyrir skildv ath þeir skipptv sin j mille eignar skippti æ ollum þeim arfui sem falled hafde epter gunnar eyiolfsson. arna einarssyni til erfdar ok ragneidi sæmvndardotter j fyrstu en sidan þorleifvi epter favdur sinn en sira þosteine. biarna ok adur nefndum systrvm jngunne ok gudrunu epter ragneide modur sina en sira uigfvse epter gvdrvn[v] dottvr dottvr sina en dottur biarna þan arf allan sem nefndum biarna fallid hafdi.

jn primis tok þolleifur halfa audbrecku. halfan kirkiulæk ok halfa steinstade ok lausa goss til helftar æ ollu saman.

jtem tok johannes ath sig j erfd epter sira þostein heitin fiora tigi hundrada j audbrekku en sira uigfus tuttugu hundrud j audbrekku fyr nefnndre ok halfan kirkiulæk.

jtem tok iohannis[3]) ath sig a'uegna fyr nefndra systra xv hundrud j steinstaudum ok þriatigie hundrada j lausagose. hueria þorleifur skylde afenda af fyr greindum arfe.

---

[1]) Aptan á bréfinu, og á það við öll bréfin sem eru í transskriptinu; [2]) domino, skbr; [3]) þannig.

jtem medkendist iohannis ath hann hafde selt þorleife þa fioretije hundrada sem hann ad sig tok uegna sira þosteins j audbrekku en sira uigfus samþygte þessa iardarsaulu stadlega æ þann mata ad iordin adur greind skylde uera þolleifs eign vbrigdileg en iohannes fyr greindur skyldvgur ath luka sira uigfuse fioretigie hundrada jord eda suo miked lausa gosz ef han leiddi ei þau prof ath sira þostein hefde lifad biarna.

jtem selde adur greindur sira uigfus nefndum þolleifi tuttugu hvndrud j audbrekku en greindur þolleif[ur] gaf med halfan kirkiulæk skyldu þui iardernar uera quanta lausar badar sira uigfuse tittnefndum allur kirkiulækur en þratt greindum þorleife aull audbrecka ok ath þessu aullu hauldnu gaf huer þeirra vm sig annan avldungis kuittan fyrir sier ok sinum erfingium vm fyr greindan arf.

Ok til sannenda hier vm settu fyr nefnder menn sira uigfus þorleifur ok iohannes sin insigle med uorum insiglum fyrir þetta brief[1]) skrifad j odda æ þridia dagin i helgu viku a sama are sem fyr segier.

---

## 590. 9. December 1406. á Hólum.

Jón prestr Broddason kvittar Kolla bónda Magnússon fyrir að hafa goldið hálfa Skálá með tilgreindum hlunnindum í prófentu Ingibjargar Þorláksdóttur húsfreyju sinnar **(falsbréf).**

AM. Fasc. VI, 21, uppskafningr á skinni og er bréfið falsbréf, enda ritar Árni Magnússon aptan á það »fb«. Fyrir hinu forna bréfi, sem upp hefir verið skafið, hafa verið þrjú innsigli, það sýna förin, og er það eitt ærið til að sýna að hér er fals, því að eptir því sem bréfið hljóðar nú ætti hér ekki að hafa verið fleiri manna innsigli fyrir en Jóns Broddasonar. Falsarinn hefir og verið svo illa að sér, að hann hefir ekki vitað hvenær Jón Broddason, sem hann kallar í öðru orðinu Boddason, var uppi og árfærir því bréfið svo sem nær einum mannsaldri áðr en séra Jón fæddist. Falsbréf þetta er auðsjáanlega gert nálægt 1600. Það, sem Espólín segir um Skálá (Arb. II, 82) mun stafa frá þessu bréfi.

Skalarbref.

Þad giore Eg Jon prestur boddason officialis holabiskupsdæmis Godvm monnum kvnnvgt med þessv mynu brefe at ec

---

[1]) breif, skbr.

med kennvnst at kolli bonde magnusson luckte og mier afuente holadomkirkiv vegna suo vordna pening J profenttu yngibiorgar þollakxdottur hvsfregu sinar er þad J fyrstu iordenn half skala j sletta hlid er liggur j fellz kirkiu sokn firir xx hvndrud med ollvm þeim gognum og giædum ʀekum og hlunnendvm sem greindre jordu hefir fylgt at fornu og nyiu og hann uard fremz Eigande at med til Greindvm ʀeka skalarkirkia æ fra hladherge sem er inn fra ɱyravik ed næsta og at skarfasteine bæde hualz og vidar J annare grein lukte hann mier og hola kirkiv x malnyta kugillde og xij hvndrvd j gelldvm peningvm þvi gef Eg adur nefndur Jon prestur broddason fyr nefndan kolla bonda Magnusson olldungiss kvittann og akiærulausan um fyr greinda peninga hola kirkiv uegna firir mier og ollvm ʀiettum domkirkiunnar formonnum og eptirkomendvm og til saenda(!) hier um set Eg mitt officialis innsigle firir þetta kuittanarbref skrifa(!) æ holum j hialtadal nyvnda dag desembre(!) manadar [ɱ cccc vi[1]).

---

## 591. 28. Januar 1407. á Hólum.

Þorvaldr Eiríksson vottar að hann heyrði Einar Þorbjarnarson lýsa því í Fornhaga í Hörgárdal pláguárið (1403) að Ingiríðr Böðvarsdóttir gaf Hólakirkju í Hjaltadal jörðina Kelduland í Skagafirði.

AM. Fasc. VI, 22, frumbréfið á skinni; innsiglið er dottið frá.

Kiellduland giefed Hoolakirkiu[2]).

Þat gerir æk þorvalldr eiræksson godvm monnvm kvnnigth þetta bref seandum edr heyrandvm ath þar var ek j bæa ok hæýrdi æk æ plágværeth j fornhagha j hörgardal ath einarr þorbiarnarson lýsti þij firir mer ath hann samþýkti þa testamentvm giöf sæm ingirid bodvarsdottir modir hans gaf heilagre hola kirkiv iordina kelldvland j skagafirde ok hana j allann mata logligha ok vbrigdilega hallda ok æi sidr samþýkti þorlavgh nikvlæsdottir kona hans sagda giof. vil æk her sveria

---

[1]) [með móleitara bleki, og auðsjáanlega bætt við seinna; [2]) aptan á bréfinu með hendi frá 17. öld.

eftir ef þvrfa þickir. ok til sanninnda her vm sætti æk mitt jnnzsigli firir þetta bref giorth ath holum j hialltadal friadagh næsta eftir pálsmessv þa ær lidit var fra higath bvrd vors herra jehsv christi þvshvndrat. cccc. ok vij. ær.

---

592. 26. Mai 1407. i Núpufelli.

Árni Einarsson fær Höskuldi Runólfssyni til fullrar eignar jörðina Grísará í Eyjafirði og kvittar fyrir andvirðið.

AM. Fasc. VI, 23, transskript á skinni frá 7. Júlí 1461. Dipl. afskrr. AM. 135 eptir transskr.

vm grisaræ[1]).

Þath gerir ek arne einarsson godum monnum kunnigth med þessw minu brefe ath ek hefir feingith hauskullde runolfssýne til fullrar eignar jordina grisaræ j eyiafirde med aullum þeim gaugnum ok giædum sem ek ward fremzst eigande ath. hefir hann mier hier fulla peninga fyrir wnnth suo mier wel anægir. Ok þui giorir ek fyr greindan hauskulld aulldungis kuittan fyrir mier ok minum erfingium afh aullu fyrr nefndo jardar uerde. Ok til sanninda hier wm setta ek mitt jnsigli fyrir þetta bref giort j nupufelli. jn festum corporis christi. anno domini. ꝏ°. quadringentesimo. wij°.

---

593. 30. Juni 1407. á Þingvelli.

Hallr Kálfsson lýsir því, að hann hafi verið við í Haga á Barðaströnd, er Filippus Gíslason lýsti því bæði fyrir honum og Narfa lögmanni Sveinssyni, að hann hefði einga peninga lukt Þórði bróður sínum Gíslasyni fyrir hálfan Haga.

AM. dipl. afskrr. Nr. 1094 »Ex orig. frā Haga ā Bardastrond, accuratissime« (AM.). »Þesse vitnisburdur er med þveingnum samstunginn vid bref Narfa Sveinssonar lögmannz« [(AM.); = Nr. 574 hér að framan]. Arni lýsir innsigli Halls.

Þath gerer ek hallur kalfsson ollum godum monnum kwnn-

---

[1]) Aptan á bréfinu með fornri hendi.

igt med þesso mino brefe at ek var hia j haga æ bardastrond ok heẏrda æ æ sama vættwanghe er narbe bonde sveinsson loghman fyrir avstan ok svnnan æ jslande heẏrde lẏsingh filippus gislasonar at hann lẏsti fẏrer badum ockur ok fleire godum monnum hiaverondum ok æheẏrondum at hann hafde eẏngha peningha lwckt þorde gislasyne brodur sinum fẏrer halfa jordina hagha æ bardastrond.

Ok til meire stadfesto ok til sanninda her vm minnar nærvero ok heẏrnar setta ek mitt jnzcighle fẏrer þetta vithnisbwrdar bref er giort var æ þinghwelle fimtodagh næstan epter peturs Messo vm sumarith anno domini M°. cccc° vij°.

---

594. 26. April 1408. à Reynistað.

Afhending Reynistaðarklaustrs undir yfirsýn Loga officialis Stígssonar, þegar séra Björgólfr Illugason lét af ráðsmensku, en systir Þórunn Ormsdóttir og systir Þuríðr Haldórsdóttir tóku við staðnum.

AM. Fasc. VI, 27, frumbréfið á skinni, fúið og sköllótt, og er það. sem í eyðu er þar, fylt eptir AM. 280. 4to bls. 17—20 skr. c. 1640 með hendi Hákonar Ormssonar, og AM 277. 4to bls. 23—25 skr. 1640 af Guðmundi Andréssyni (»skarnrangt skrifad«, segir Arni). Á seðli sem liggr við frumbréfið segir Árni: »Þetta bref (Juventarium) 1408 er ölldunges klárt, og accurate afskrifad, etiam sigilla diligenter annotata. Eg þarf þad alldri optar ad skoda«. Afskript sú er meðal fornbréfa afskripta Árna Nr. 333.

Anno domini M°. cccc°. viij°. jn festo marci ewangeliste Reiknadvzst svo mikil goz klavstrsins j Reẏnisnesi þa ær sira biorgolfr jllvgason liet lavs Rædin þar en systir þorunn ormsdottir ok systir þvrid halldorsdottir med tokv stadinn til forstodv ok ollvm klavstrsins eignvm.

in primis jnnan kirkiv. x. manna messvklædi. v. hôklar sæmiligir. iij. liettare. iiij liettazstir. vj. kantarar kapur betri ok liettaræ. dalmatica. svbtill. x. altarisdvkar. erv þar af. vij. bvnir en iij vbvnir. alltarisklædi. iij. brikarklædi. iij. lektara dvkar. iij. er einn vslitin en. ij. slitnir. corporalia. ix. betre ok liettaræ. kalekar iiij. ok en fimtæ lestr. glodarker. iij. med kopar. bakstrjarnn tvenn. klockvr. vj. biôllvr. ij. gvll. vij. ok eitt fingrsilfr. silfrskaler ij. ok adrar ij. lestar. bikar. spira gýlld med

loki. krossar. ij. litlir med sýlfr ok slitnvm festvm. hornker med silfrstiett ok eitt salvn vont. pvndare ok klofavóg. tannbagall bvinn med silfr. solarsteinn. skælir og met. spegill ok iij koffr semiligh. vilar. vij. vslitnir. adrir. vij. slitnir ok ǫngv hæfir. mǫttvlsleppr slitinn ok skorinn. vatnkarl fotbrotinn. mvnlavgar ij. heilar ok. iij. lestar. iij. kistvr læstar. en x. vlæstar. kavgvr slitinn. Reflar. ij. med lindvkvm. vj. alnir ok xx. badir samt sæmiligir ok þo vida slitnir. brvnir. ij. med vllþel dvklausar .xvj. alnir badar saman slitnar ok fanytar. Reflar ij. med vllþelvm. xviij. alnir badir samt slitnir. Refiltǫtvr. xij. alna. Refilfai. xij. alnir. pallklædi med vll atta alna.

Þetta j sængar klædum. iiij. dynvr fornar ok. vj. vfærar. xij. hægindisleppar ath tǫlv. v. hvilvvodir. iij. abreizl forn ok. ij. slitin ath avk. ij. bolstrar. iij. hægindisver forn ok oll oflitil. ok en eitt slitith. iij. aklædi ok [ei]tt fornt ok felavst.

þetta j bvsgagni. xl. troga fært ok fiortan vfær. vppgerdar kerolld halfr fiordi tvgr [en] erv. xiiij. vfær. strockar. iij. med einne bvllv. diskar halfr fiordi tvgr allt saman fahæft. ker ok bollar. vij. hæft. stafaskr ok. iiij. smaaskar. xx. bollabrot ǫngv nýt xj. spænir ok. iij. silfrspænir ok enn fiordi brotin. ein kanna ok. v. brotnar. tin[diskar. iiij. salsier. iij.] pottar heiler ok. ij. handarhǫlld. pottr bættr ok pýtla. þrenna[1]) kamba brot ok einir færir. v. vættir fiska. smior. xvij. vættir. flot ok mavrr .viij. væ[tter. iiij. kolvr.] einn ketill litill ok bættr ok. ij. stærri botnlavsir. fiskasleggia. pæll. torfskeri. brythǫgg. vidaravx ok mannsox[2]). eitt hardsteins brýne. vakabroddr staflavss. xij. merkr jarnn.

þetta j kvikfiam [ky]r. xxij. oxar gamler. ix. ok. xx. vij. navt tvévetr ok. ix. vetrgǫmvl. kalfar. vij.

þetta med jordvm. kyr. viij. ok. xx. ok ellifv asavdar kugilldi. en j landskýlldir ath heimta halft sionda hvndrath.

þijlikt vtan gardz.

hea haflida kvgilldi.

hea ereki j vik kvgilldi.

hea eireki þorleifssýni kvgilldi.

hea arnfinne. v. kvgilldi.

hea joni a silfrastodvm. viij. kvgilldi.

Ok sakir þess ath vær brodir æsbiorn vigfvss son ok hos-

[1]) þannig; [2]) þ. e. mansöx.

kvlldr prestr hakonarson. geirr arnason. olafr eyolfsson. eyolfr þorvardzson ok jon landbiartzson leikmenn vorvm til nefndir af sira loga officiali heilagrar hola kirkiv nærr at vera skoda gozin ok heyra reikningin hvath er vær giordvm firir hans bæn ok med þvi ath ver hyggivm hann riettan ok sannann settvm vær vor jnnzsiglæ firir þetta inventarivm klavstrsins ath stad j Reynisnesi giort a sama are deghi sidarr en fyrr segher.

---

28. Mai 1408. i Eingihlið.
595. 22. April 1412. à Skarði i Langadal.

Einar Bessason kaupir að Gunnari Gunnarssyni þrettán hundruð í jörðunni Finnstöðum, 28. Maí 1408, og votta það fimm menn fjórum árum síðar.

AM. Fasc. VI, 26, frumbréfið á skinni; öll innsiglin dottin frá. AM. dipl. afskrr. 588.

finnstadabreff[1]).

Þeim godum monnum sem þetta brief sia edr heyra senda eyiolfr Þorualdzson. gizur biarnarson. ion ionsson. arnor ionsson. ion snorason kuediu guds ok sina kunnigt giorandi ad þa er lidit uar fra higatburd uars herra iesu kristi þushundrad fiogur hundrad ok viij[2]) ar uorvm uer i hia sam ok heyrdum a i eingihlid i langadal manadaginn epter gagndaga viku ad einar bessason keypti ad gunnari gunnarssyni ok vilborgu petursdottr þretan hundrud i iorduni æ finzstavdum ok gaf vid siav hundrud er stod under þeim sialfum ok þriv kvgilldi til. uoru þesser aller adurnefnder menn i einv hanndabandi oss hiaverandum. skilldi einar hallda iordunni til laga en gunnar suara lagariptingum ef a kynni falla. ok til sanninda hier vmm setu uer fyrr nefnder menn uor inzigli firir þetta brief skrifad ad skardi i langadall sunnudag næsta firir ionsmessv hola byskvps fiorvm arvm sidar en fyrr segir.

---

596. 29. November 1408. i Ytra-Djúpadal.

Árni Einarsson og tveir menn aðrir votta, að Valgerðr Erlendsdóttir handfesti séra Höskuldi Hákonarsyni fullan bókar-

---

[1]) Aptan á bréfinu; [2]) þannig les Arni Magnússon; talan er annars svo óljós að afskriptin les: níu.

eið, að hún var hjá pláguárið, að Ingiríðr Böðvarsdóttir gaf kirkjunni á hólum í Hjaltadal jörðina Kelduland í Skagafirði.

AM. Fasc. VI, 25, frumbréfið á skinni með öllum (þrem) innsiglum.

bref vm keldulandh[1]).

Ollum monnum þeim sem þetta bref sæa ædr heÿra sennda árne einarsson. hæringr gvdmvndarson ok jon þordarson quediu Guds ok sina kvnnigth geranndi ath þar vori[2]) vær j hea sám ok heyrdvm a næsta dagh firir anndressmessv postola j ytra divpadal j eyiafirde er valgerdr erlendzdottir handfesti sira hoskvlldi hakonarsÿne fvllan bokar eid ath þar var hvn j hea plágværeth j fornhagha j hörgárdal ath ingiridr bödvarsdottir gaf kirkivnne ath holvm j healltadal jordina a kelldvlandi j skaghafirdæ med þeim fasteignvm sem þar fÿlgdi. svo ok ei sidr sagdiz hvn bera vilia med fvllvm bokar eidi ath einar son nefndrar jnghirídar ok logligr arfi lysti þij ath hann villdæ þessa giof hallda ok samþÿckia vbrigdiliga vid kirkiuna. Ok til sannenda her vm settvm vær vor jnnzsigli firir þetta bref skrifat j sögdvm stad ok deghi þa ær lidith var fra higatbvrd vórs herra jehsv christi þvshvndrat. cccc. ok viij ær.

---

## 597. 19. April 1409. i Görðum á Grænlandi.

Eindriði Andrésson officialis á Grænlandi og séra Páll Hallvarðsson votta, að þeir hafi lýst í kirkju þrjá sunnudaga hjúskaparbandi milli Þorsteins Ólafssonar og Sigríðar Björnsdóttur, og hefði einginn vitað þar á neina meinbugi.

Ríkisskjalasafn Dana, Supplem. Grænland Fasc. I, 1, afskript frá 1625, staðfest af Oddi biskupi Einarssyni. Prentað í Grönlands hist. Mindesmærker III, 148—150.

Þess kennunst ek sira Eindridi anndresson offissialis ā grænlande. og sira Paal Halvardsson. at wit hofum lýst hÿuskaparbande millum þeirra Þorsteins Olafssonar oc Sigrijdar Biörnzdottur i heilaghre kyrkiu iij sunnudaga mörgum dandemanne ahørande bade vtlendskum oc jnnlendskum. var sa enge

---

[1]) Aptan á bréfinu. Þar stendr og: »bref kielaland«; [2]) þannig.

þar. at nokkorra meinbughe viste þar vpa. ogh ad þat mætte ege med gudus[1]) lǫgum samanbinda. Ogh þil[2]) sannenda hier vmm settu vid okkur jnnsigle fyr þetta breif[2]). er giort var i gǫrdum. friadaghinn nęsta. eptir Magnusmessu. þa er lidet var fra burd vorz herra jehsu christi þw[s]hundrut aara. oc iiij hundrut oc ix är.

þetta bref er lijka skrifad a Bokfelle. suo sem þad fyrra[3]). og samslnnged med þni.

---

598. 6. Júni 1409. á þingeyrum.

Fjórir menn votta, að Höskuldr Runólfsson seldi Jóni Sighvatssyni 1404 jörðina að Hvoli í Vestrhópi fyrir Tungufell í Svarfaðardal.

AM. Fasc. VI, 15, frumbréfið á skinni. Fjögur innsigli hafa verið fyrir því; hið fyrsta er dottið frá; helmingrinn er eptir af öðrn; þriðja og fjórða eru heil.

tungufell einsomul 1404[4]).

Jn dei nomine amen.

Var þetta kavp þeirra hoskulldar runolfssonar ok ions sighvazsonar ad adr nefndr hoskvlldr selldi fyʀ nefndvm ioni med

---

[1]) þannig hefir staðið í frumbr. því afskr. setr ! fyrir ofan þetta orð; [2]) þannig; [3]) þ. e. bréf frá 4. Sept. 1424. Jón Guðmundsson lærði (d. 1651 eða 1658) getr þess i »Tídsfordríf» 1644, að hann hafi séð öll þessi bréf á skinni í Skálholti hjá Árna Oddssyni 1625. Arni Magnússon hefir þýtt þetta bréf á þýzkn og er þýðing hans svo:

(Ríkisskjalasafn Suppl. Grænland Fasc. I, 1, með hendi Arna Magnússonar 1725).

Das gestehe ich Herr Eindrid Andreassohn, officialis auff Grônlandt, nnd (ich) Herr Panl Halwardsohn, dass wir haben abgekündiget das Ehe-verlobniiss zwischen diesen (persohnen) Thorstein Olafsohn und Sigrid Biörnstochter in der Heiligen kirch. an dreyen Sonntagen, in gegenvart vieler Ehrlichrer männern so ansslä ndischen als einheimischen. War niemand da, so einige hinderniissen darin wüste, oder dass diese (Ehe) nicht könte nach Gottes gesetze zu-sammen gebnnden werden. und znm Schein der warheit hie von. setzten wir nnsere Jnnsiegele vor diesen brief, der gemacht ist in Garde, den freytag nähisten nach Sancti Magni (comitis orcadensis) als von gebnrt nnsers Herrn Jesn Christi vergangen waren tansend Jahr nnd vier hnndert und neün Jahr.

[4]) Aptan á bréfinn með hendi frá 17. öld.

handabandi iordina at hvoli i vestropi med ollvm þeim gognvm ok giædvm sem iordvnni hefir fylgt at fornv ongv fra skildv. Her i mot gaf nefndr ion iordina at tvngufelli i svarfadardal med ollvm þeim gognvm ok giædvm sem iordvni hefir fylgt at fornv ok nyu[1]) ok hann vard fremz eigandi at ongo fra skildu. sagdi ion til þessara itaka at kirkian at wrdvm ætti attfedmings torfskurd i tvngvfellz iord firir utan þvergard en kirkian ä vǫllvm lambseldi ok at tvngvfelli veri bænhvskýlld. keyptv fyʀ nefndir menn þessum iordum[2]) iofnvm. skylldi huer svara lagariptingum a þeirri iördv sem huor selldi odrum ok huortveggi hallda til laga þeirri iǫrdv sem hielldi. samþýckti gudny þosteinsdottir hustrv þratt nefndz hoskvlldar med handabandi[3]) þetta iardakaup er hoskulldr selldi. for þetta kaup fram at mardargnupi i uazdal fostudagin i paschavikv er lidit uar fra hingat bvrd vorss herra þvshvnd fiogur hvndrat fiogur ār[4]). þessvm monnvm hia uerendvm solmvndi gvdmvndzsyni. einari dadasyni. hogna þorsteinssyni ok odda ionssyni huerir er sin incigle settv firir þetta iardakavpsbref er gert var at þingeyrum i vazdal a festvm corporis christi fimm arvm sidar en fyʀ segir.

---

599. 3. Juli 1409. á alþingi.

Úʀsᴋᴜʀᴅʀ Odds lögmanns Þórðarsonar um flutning á konungs gózi til Noregs með kaupskipum frá Íslandi.

Ríkisskjalasafn Dana »Island og Færöe« Fasc. I, 1 og I, 2 í transskripti á skinni frá 13. Júlí 1409 (Nr. 601) og 13. Sept. 1409 (Nr. 602). Prentaðr í Safni til sögu Íslands II, 169—170.

vm konungsdelen j jslandsfarer[5]).

Ollum godvm monnum þeim sem þetta bref sia edr heyra senndir oddr þordar son lôghman avstan ok fyrir svnnan a jslandi Q[uediu] gvds ok sina kunnight geranndi. at Anno domini. ɱ⁰. cccc⁰. nono. a tysdaghinn næsta eftir peters ɱesso j lôghrettv krafdi mik ok beiddi ęrlighr mann ok velborin vighfus jfuar son hirdstiori yfir allt jsland lagha orskvrdar vm mins herra kongsins parta huort hann ætti þeim at missa edr eigi. en godz hans læghi her j landit eftir ok forgengi ok forsomadizt svo at þat

---

[1]) nyi, skbr.; [2]) hér er klest ofan í eitt orð sem virðist vera ofaukið; [3]) handabanda, skbr.; [4]) þ. e. 4. Apríl 1404; [5]) Aptan á transskriptinu.

mætti eigi fram komazt. er þat ollum godum monnum vitrlight ok kunnight at minn herra kongrinn eighr fiordunng j hueriv skipi þui sem geingr j millum jslandz ok noreghs þeghar þat hefir geingit sina fyrstu reisv.

þvi at til kðlludum ok nefndum hrafni bonda loghmanni fyrir nordan ok vestan a jslandi ok þeim beztvm monnum sem ek til nefnda med mer sem sidar meir nefnazt j brefinu samþyckianndi. Seghir ek oddr lðghmadr fyr nefndr. J gvds nafni Amen. med fullum lagha orskurdi minvm herra konginvm ok krunvnni j noreghi j hueriv jslandzfari þvi sem liggr her j landith ok gengith hefir sina fyrstu reis[u] j milli jslandz ok noreghs kongsins godz eigha þar j at leggiazt vtan þeir syni sem hallda at minn herra kongrinn hafi þeim vnnt eda hans lðghlighr vmbodsmadr.

Ok til meiri stadfestu ok sanninnda þessv minv orskurdar ok doms [brefi] settu þessir godir menn med mer til sanninnda sinnar samþycktar her vm er svo heita

hrafn gvdmvnds son fyr nefndr lðghmadr.
gisli andres son. hallr olafs son.
þorsteinn sighurdar son. Þorkell maghnus son.
avdvn salomons son. Jon gils son.
arni arna son. arni einars son.
olafr eygiolfs son. guþþormr biarna son.
arni hergeirs son. kavpmenn.
Einar heriolfs son. Jon dekn Þordar son.
solmvnndr gudmundz son. olafr Jons son.
Jon biartz son. Jon biorns son.
sighurdr þordar son. Mattevs peturs son.
Jon hallz son. bardr odds son.
havardr peturs son.

sin jnsighli med minv jnsighli fyrir þetta mitt orskurdar bref. giort j stad deghi ok ari sem fyrr seghir.

---

## 600. 7. Júli 1409. i Þerney.

Úrskurðr Odds lögmanns Þórðarsonar um flutning á konungs gózi frá Íslandi með kaupskipi, sem konungr átti part í, en var öðrum leigt.

Ríkisskjalasafn Dana »Island og Færöe« Fasc. I, 1 og I, 2,

transskript á skinni frá 13. Júlí 1409 og 13. Sept. 1409. Prentaðr í Safni til sögu Íslands II, 171—72.

Ollum godum monnum þeim sem þetta bref sia edr heyra senndir oddr þordar son lǫghmadr avstan ok svnnan a jslandi. Q[uediu] gvds ok sina

kunight geranndi at lavghar dagh hinn næsta fyrir seliv manna vauku. Anno domini. ꝏ⁰. cccc⁰. nono. j þerney kom fyrir mik a almenniligha stefnu nær veronndum heidarlighum herra ok anndalighum fedr herra joni med guds nad biskup j skalhollti af einni alfu ærlighur mann ok velborinn vighfus jfuar son hirdstiori yfir allt jsland. en annari helgi biorns son löghliga fyrir komnir. kærdi þa vighfus jfuar son vpp a helga biornson fyr nefndan vm þann kongs part sem hann hafdi j þorlaks sudinni ok sira biorn svmmars þorp korsbrodir at krist kirkiu j berguin hafdi honum byckt[1]) sem hans bref þar vm gert vottar ok fyrir mik lesit var. þvi beiddi mik ok krafdi adr nefndr vighfus lagha orskurdar ok doms huort fyrr sǫghd bygginng mætti med loghum halldazt edr eigi en kongsins godz læghi her j landith ok forsomadizt ok forgenge. þvi med radi ok samþyckt þeirra godra manna ok fleiri annarra er sidar meir nefnaz j brefinv sem ek til kallade med mer at skoda vm ok dæma þetta. huat er þeim ok mik synndizt bref helga biörnsonar eigi fulla makt hafa til loghlighrar heimilldar vm adr sagdann part af þvi at loghbok vor seghir svo. at einginn skal annars vmbod til skada hafa. huat er oss syndizt kongdominvm ok krunonne j noreghe stor skadi vera j gerdr ok olavghliga at byggia svo burt mins herra kongsins parta at hans godz liggi her j landit farlavst ok forganngizt. þess ok annars at helgi biorn son oft nefndr hafdi eigi ne tedi fyrir oss vors herra kongsins bref vpp a oft nefndann part eda þess sem af konginvm sialfvm hafdi löghlight vmbod til at byggia hans part honum til nytta.

Þvi j gvds nafne amen seghir ek oddr þordar son loghmadr sama stada[r] minvm herra konginvm j noreghe oft sagdann part ok hans godz þar j eigha at leggiazt med þvi at hans heimilld synndizt oss eingva makt hafa til laghligrar heimilldar vm partinn. Ok þo helga biorn syne þratt sǫgdvm settar eid ofvan a at hann þeinkti at sira biorn fyrr nefndr være honum fullr heimilldar

[1]) = bygt.

mann fyrir partinum. svere eidinn eftir lôghvm. en eidinvm svornum ok fram komnvm þa orskurdar ek ok dæmir tittnefndan helga biorns son kuittan vm medferd a partinvm til þessa daghs.

Ok til meiri stadfestu ok sanninnda her vm setto þessir godir menn er svo heita.

sôlmunndr gudmunnds son. olafr jons son.
sighurdr þordar son. ormr jorunndar son.
havkr kolbeins son.

Jtem radmenn j bergvin jon biartz son ok jon egils son ok þessir kavpmenn.

jon erlindz son. þordur vebrandz son.
þorstein ragnar son. jon kerling olafs son.
arni grims son. ok þorlakr jons son.

er samþycktv þenna minn orskurd ok dom met mer loghliga til kalladir af hirdstioranum ok med sin jnsighli med minv jnnsigli fyrir þetta mitt orskurdar bref sem giort var j stad deghe ok are sem fyrr seghir.

---

## 601. 13. Juli 1409. á Bessastöðum.

ÞRÍR menn transskribera tvo lögmannsúrskurði frá 3. Júlí og 7. Júlí 1409 (Nr. 599 og 600 hér að framan).

Ríkisskjalasafn »Island & Færöe« Fasc. I, 1., frumtransskriptið á skinni. Innsiglin eru dottin frá. Fasc. I, 2 transskript af þessu transskripti frá 13. Sept. 1409 (= Nr. 602).

Øllum godvm monnvm þeim sem þetta bref sia edr heÿra senda jon biartzson radmann j bergven þordr vebrandzson oc jon olafsson Q[uediu] gvds oc sina kunight gerandi. at sub anno gracie. ꝏ⁰. cccc⁰. nono. Vorum ver j hia sam oc heyrdum ÿfer lesit [bref] med heilvm oc vskavddvm hanngannđvm jnnsighlum ꝏargretar ꝏesso dagh a bessastavdum a alftanesi svo latanda ord fyrir ord sem her segher.

[Hér kemr úrskurðr Odds lögmanns Þórðarsonar frá 3. Júlí 1409, Dipl. Isl. III, Nr. 599].

Ok til sanninnda her vm settvm ver fyrrnefndir menn vor jnnsighli fyrir þetta transtriptvm bref er giort [var] j stad dæghi oc ari sem fÿrr segir.

Øllum godum monnum þeim sem þetta bref sia edr heÿra

senda adr fyrr nefnder menn Q[uediu] gvds oc sina kunight gerandi j sama stad deghi oc ari sæm fÿrr segher.

[Hér kemr úrskurðr Odds lögmanns Þórðarsonar frá 7. Júlí 1409, Dipl. Isl. III, Nr. 600].

Ok til sanninnda her vm settvm ver fyrr nefnder vor jnnsighle fyrir þesse transskriptvm bref er giord [voru] j stad dæghæ oc ari sem fyrr segher.

---

602. 13. Sepember 1409. i Björgvin.

Fjórir menn transskríbera transskript frá 13. Júlí 1409 af úrskurðum Odds lögmanns Þórðarsonar frá 3. og 7. Júlí 1409.

Ríkisskjalasafn »Island & Færöe« Fasc. I, 2, transskriptið á skinni með öllum innsiglum.

Transscriptum aff twimr norusche breff som ludde vm jslandsfarer[1]).

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia edr heyra sender amundi suarson. þorer birgisson. jon gudlaugsson oc sighfuss palsson Q[uediu]. G[uds] oc sina kunnækt gerandi ath wer saghum oc yfirlasum opin bref þerssara godra manna er sua heita jon biartson radmann j bergwin. þordr vebrandson oc jon olafsson med þeirra heilum oc oskaddum hangandum jnsiglum suo latanda ord eftir ord sem her segher.

[Hér kemr Nr. 599, 600 og 601 hér næst á undan].

Ok til sannenda her vm settum [ver] fyrr skrifuadir menn wor jnsigli fyrir þersse transkriptum bref er giorr voru j bergvin a kross Messo aptan vmm haustit. anno domini M°. cd°. ix°.

---

603. 16. Októbér 1409. á Þingeyrum.

Vottorð tveggja manna um peninga þá, er Guðrún Sæmundardóttir erfði eptir Þórð prest Þórðarson.

AM. Fasc. VI, 28, frumbréfið á skinni. brot af síðara innsiglinu er fyrir bréfinu.

vitnisburdarbref um peninga gydrunar sæmundardottur[1]).

Þat giorvm uid biorgolbr prestur illugason og gudmundr

---

[1]) Aptan á bréfinu.

landbiarzson godum monnum viturligt med þessu ockru opnu brefi at þa er lidit var fra hingat byrd vors herra jehsu christi þusund fiogr hundrut ok níu ǻr. ǻ þridiudagin næstan eptir kalixtusmessu ǻ holavade j vadzdal vorum vid j hia ok heyrdum ǻ at þat var suarit af tueimr skilrikum vottum fyrir Rafni gudmundarsyni logmanni. at þordr prestur þordarson hafde tiundat sina peninga at af reiknudum annara manna peningum þeim hann hafde vmbod yfir þat sama haust er hann deẏde eptir vm veturin tolf hundrut hundrada. Enn gudrunu sæmundardottur hafde fallit j arf ok til fullrar eignar fiordungurinn j burt or ollum arfi þeim sem fiell eptir adr greindan þord prest eptir þvi sem orskurdarbref Rafns gudmundarsonar logmanz þar vm giort vottar. Ok til sanninda hier vm settum vid fyrr nefndir menn ockr insigli fyrir þetta bref giort æ þingeẏrum í hunauadzþingi æ sama áre en degi sidar en fẏrr segir.

---

## 604. 16. Nóvember 1409. á Hólum.

Sigurðr Þorvaldsson selr Ólafi Hallsyni hálfa jörðina Brúarland í Deildardal fyrir fjórtán kúgildi.

AM. Fasc. VI, 29. frumbréfið á skinni; sjö innsigli hafa verið fyrir bréfinn, en nú er hið þriðja og hið sjötta dottið frá.

brvarland[1]).

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia edr heyra senda hôskvlldr prestur haconarson. eirækr þorleifsson. asgrimr snorrason. arne gudbiartzson. gudmundur asmundarson. þoruardr olafsson quediu gudz ok sina kvnnight gerandi at þa er lidit var fra hegatbvrd vorrs herra iehsv christi ꝏ. cccc. ok ix ǻr þridia dag hinn næsta eftir marteinsmesso at hofi æ hôfdaströnd vorvm ver j hia sám ok heyrdvm æ at sigurdr þorvalldzson ok olafr hallzson tokv hôndvm saman at svo firir skildv at nefndr sigurdr kendiz at hann hefdi sellt greindvm olafi halfa iordina at brvarlandi j deilldardal med ollvm þeim gôgnvm ok giædvm sem halfri iordinni hafdi fylgt fra fornv ok nyiv sem hann vard fremzt eigandi at firir fiortán kvgilldi ok þa væri lvkt svo at honvm vel ænægdi þi gerdi oft nefndr

[1]) Aptan á bréfinu.

sigurdr þratt greindan olaf ølldvngis kuittan ok lidvgann firir sagt iardar verd. Ok til sannynda hier vm sette tidt nefndr sigurdr sitt inncigle med værvm inciglvm firir þetta bref gert æ holvm j hialltadal æ sama ære fiorvm nættvm sidar en fyrr seger.

---

## 605. [1410.]

Bréfságrip um Hellu og Örlögstaði, er Helgafellsklaustr fær í prófentugjöf.

AM. 252. 4to bls. 51, skr. c. 1660; AM. 430. 4to bls. 12, séra Jón Haldórsson c. 1730; AM. dipl. afskrr. Nr. 1568 og Nr. 1643.

Hella og Ørlögstader[1]).

Jon Ønson[2]) og Järijdur[3]) þordardotter kona hans gaffu abota Vermunde og klostrenu med sier j proffhentu tuær jarder Hellu og Ørlögzstade firer XXc. og XXc j lösafie Anno 1400[4]).

---

## 606. [um 1410].

Vitnisburðr Þorleifs Snorrasonar og Þorvalds Auðunarsonar um landamerki Sælingdalstungu.

JSig. 143. 4to bls. 298, á pappír skr. c. 1600. Helgi Guttormsson dó 1427 (Nýi annáll).

So felldann vittnisburd handlegdu þeir þolleifr Snorrason oc þorvalldur Audunarson Helga Guttormssyni vottum hiaverande Einare Dadasyne oc þorde Jonssyni. Halldoru Snorradottur oc Helga þorvalldzsýni. ad þar voru þeir j hiæ oc heyrdu œ ad Ketill bonde Asgrijmsson[5]) eignade sier oc atte ad sögn

---

[1]) 430; [2]) Audunarson 430; [3]) þannig hdrr. = Jóríðr?; [4]) þannig hdrr., en það er vilt, því Vermundr varð ábóti 1405; hér er að ágizkun sett 1410; [5]) Ketill mun vera sonr Ásgríms Snorrasonar, er bjó í Sælingsdalstungu 1337; Ásgrímr hefir þá hlotið að vera ungr (f. c. 1312 eða svo) og orðið gamall maðr; það gæti verið hann sá Ásgrímr Snorrason, sem nefndr er í bréfi 1373, og hefði þá Ketill verið fæddr seint (svo sem 1360). Helgi Guttormsson hefir án efa verið sonr Guttorms á

sier elldri manna Suijnadal allann bædu meigin fræ sneisargili oc vestur j miosyndi ad rauda steini. lýsti kietill ad hann ætti alla riett oc riettarstad j Suijnadal hiæ miosyndi oc hiellt fyrer løgriett sijna oc huamsueitinga. heyrdu vid hier ecki tuimæle æ ad nockur madur eignadi sier eda tilkall veitti þessari jordu edr riett j suijnadal nema kietil. en þat gil er kallad sneisargil er skilur landamerki millum tungu oc leysingiastada ad er fyrer nedan er samann koma suijnadalsæ oc diupadalsæ leysingiastada meigin. eru þat xxx. vetur eda leingur ad vier heyrdum ønguann mann akall veita æ þessa jörd eda sier eigna nema kietil Asgrijmsson. oc hier eptter suerium vid ef þurfa þiker ok þessa jord eignadi hann sier oc atti oc Sælingsdalstungu ad sögnn sier elldri manna.

---

## 607. [um 1410].

VITNISBURÐR Þorleifs Snorrasonar og Þorvalds Simeonssonar um landamerki Sælingsdalstungu.

*JSig. 143. 4to bls. 300—301 á pappír skr. c. 1600.*

Þetta er framsögnn þolleifs Snorrasonar oc þorvalldz Simeonssonar. ad þar voru þeir j hia [oc] horfdu vppa. ad kietill asgrijmsson eignadi sier allann suijnadal bædumeiginn fræ sneisargili oc vestur j miosyndi. lysti kietill Bondi ad hann ætti alla riett oc riettarstad j suinadal oc hielltt firir løgriett huammsueitinga oc sijna heyrdu vid fyrrnefndir menn hier ecki tuijmæli æ ad nockur madur eignade sier eda tilkall veitti þessari jördu eda riett j suijnadal nema kietill. Enn þat gil er þui kallad sneisargil. ad er firir nedan æmot er rennur diupadal leysingiastada meiginu. eru þat xxx vetur edur leingur ad vier heyrdum ønguann akall veita þessari jordu eda sier eigna nema kietill asgrijmsson.

Og hier eptter vilium vid sueria ef þurfa þiker ad þessa jörd eignadi hann sier oc Sælingsdalstungu.

---

Staðarfelli, Örnólfssonar, en faðir Þórðar, föður Sturlu, föður Orms lögmanns, og hefir hann tæplega verið mjög gamall maðr þegar hann dó 1427, þó gat hann hafa verið um sextugt eða rúmlega það.

608. **10. Marts 1410.** **í Skálholti.**

Jón biskup í Skálholti samþykkir og staðfestir bréf Vermundar ábóta á Helgafelli frá 28. Marts 1406 um sóknarskipti milli Akra og Krossholts (sjá Nr. 585 hér að framan).

AM. Fasc. LXV, 17, transskript á skinni frá 1. Apríl 1513; AM. dipl. afskrr. 1671 eptir transskr. — Vér skulum, af því að Jón biskup þessi kemr lítið við íslenzk bréf, nota hér tækifærið til að skýra nokkru gjör frá honum eptir norrænum bréfum, og getum vér þar með komizt hjá því, að taka upp sitt á hverjum stað hér í safninu, tilvísan til þessara bréfa. Öll hin eldri biskupatöl alt fram til Finns biskups hafa slept þessum biskupi, en Nýi annáll skýrir tiltölulega vel frá honum, og getr þess, að hann hafi verið »ábóti at Munklífi í Björgvín«. Vér finnum Jóns biskups fyrst getið í bréfi frá 20. Maí 1385 og er hann þá orðinn ábóti í Munklífi; vottar þar »brodhir Joon medh gudz nad abote at Munkalifue i Biorgwin« ásamt konventubræðrum um prófentugjöf Ögmundar Ögmundssonar til klaustrsins (DN. XII, 115; Cod. Munk. Christianiæ 1845 bls. 58). Hinn 23. Júní 1388 geingr dómr Ívars lögmanns Sveinssonar um jörðina Straumland á Lista, milli Þormóðar Hallvarðssonar og »erlighen herra herra Jon abota at Munkliue i Biorgwin« (DN. XII, 117; Cod. Munk. bls. 118—19). Hinn 18. Okt. 1391 útgefr Jakob Björgynjarbiskup jarðaskiptabréf »medh heidhirligom manne herra Jone medh gudz miskun abota at Munkliue« (DN. XII, 121; Cod. Munk. bls. 65). Hinn 13. Júlí 1399 skýrir Petrus Haghedorp notarius frá aflátsbréfi Bonifacii páfa hins IX., og standa þar þessi orð um Jón biskup: »coram religioso patre videlicet domino Johanne abbate monasterij Munkliue ordinis sancti Benedicti«. (DN. XII, 132; Cod. Munk. bls. 91–92). Þann 19. August c. 1400 votta þrír menn um samning »erligx herra herra Jons abota at Munkliui oc Olafs Haldorssonar« (DN. XII, 134; Cod. Munk. bls. 32). Hinn 3. Nov. 1402 lýsa tveir menn vitnisburði Elínar Erlingsdóttur fyrir »heidhirligom manne herra Jone medh gudz nadh abota at Munclifue i Biorgwin« (DN. XII, 137; Cod. Munk. bls. 92—93). Þann 26. Apr. 1403 votta tveir menn um nokkrar jarðir, er Þjóðhildr Helgadóttir gaf »heidhirligom herra herra Jone medh gudz nadh abota at Muncliui i Bergwin« (DN. XII, 138; Cod. Munk. 97—98). Hið síðasta bréf, er hann kemr við í Noregi áðr hann yrði biskup í Skálholti, er frá 8. Júlí 1405, þar sem »brodhir Jon aboth at Munkliui medh gudz nadh« vottar um afhending nokkurra húsa Munklífis, er það átti í Feðju (DN. XII, 140; Cod. Munk. 67). 1408 segir Nýi annáll, að Jón biskup »er verið hafði ábóti at Munklífi í Björgvín«, hafi komið út og sungið fyrstu messu sína í Skálholti in nativitate gloriosæ virginis (= 8. Sept.), og þá hafi verið haldin þar veizla mikil, en einginn ábóti er nefndr í Munklífi sem eptirmaðr Jóns fyrri en 5. Sept 1410 (DN. XII, 145; Cod.

Munk. bls. 71—72), að þar er kominn Steinn ábóti, en ráða má þó af verndarbréfi Eiríks konungs af Pommern fyrir klaustrið frá 29. Okt. 1408 (DN. XII, 142; Cod. Munk, bls. 16) að þá hafi Jón með vissu verið farinn og annaðhvort áhótalaust klaustrið eða Steinn ekki enn vígðr, því að nafns ábóta er látið ógetið í bréfinu. 1409 getr Nýi annáll þess, að Jón biskup hafi riðið í vísitazíu norðr um land og verið vel tekið. Á Íslandi kemr og Jón hiskup fyrst við gjörning, svo að vér nú vitum, 7. Júlí 1409 (sjá Nr. 600 hér að framan) og þar næst hinn 10. Marts 1410, og er það eptirfaranda bréf. En 5. September 1410 í Björgvin dæmir Áslákr Bolt erkibiskup Munkalífsklaustri 18 mánaða matahól í jörðinni Vang í Sogni, er Sigurðr Björnsson hafði haldið í fjórtán ár: »spurdhum ver þa han hwat beuiisning hann hafdhe fire sek till førnempda iordh klostirsens. sagdhe þa werdhe[li]kin herra Jon biscopp j Scalaholt hafdhe giorth eith skifte medh honom þa han aboth var j Munklif i þesso matho at han gaf honum þe førnempda iordh fire eina tuft som Griisen heitir oc liggir í Marteins kirkiu sokn i Bergwin«. En ekki sagðist Sigurðr hafa bréf fyrir þessu en lifandi votta (DN. XII, 145; Cod. Munk. bls. 71). Hinn 9. Oktoher 1410 lýsir Jón Eiríksson kanoki í Niðarósi kaupi Eiríks Rögnvaldssonar föður síns »gudh hans sall hafue« »vidh erlighin herra oc andelighan fadhir herra Jon medh gudz nadh biscop i Scaalholte a Jslande« á jörðunni Dúfuhúsi í Björgvin, er ábóti lét, en gjörningrinn var aldrei bréfaðr (DN. XII, 147; Cod. Munk. hls. 53—54). 1411 getr Nýi annáll um Oddamál, þar sem allar eignir séra Vigfúsar Þorbjarnarsonar voru dæmdar undir Jón hiskup og presti ger suðrganga. Hinn 12. Febrúar 1412 transskríherar Jón hiskup í Skálholti með fleirum mönnum máldaga Breiðahólstaðar í Fljótshlíð frá 1371. Hinn 14. Febrúar 1413 í Björgvin er enn gefið út bréf um það jarðaskipti (»Grisen«), »som longo adhir giort var mellom vyrdheligx fadhirs hiscop Joons i Skallholte a Jjslande som þa ahothe var i adhir nempdo klostre« (ɔ: Munklífi; DN. XII, 150; Cod. Munk. hls. 74—75). 21. Aug. 1425 er enn gefið út bréf um þessi jarðaskipti, en þar er Jón ekki nefndr (DN. XII, 179; Cod. Munk. bls. 72—74), og aptr er enn 18. Okt. 1426 gefið út bréf um sama jarðaskipti »medh andelighom fadhir brodhir Jone medh gudz nadh abota i Munklifue gudh hans saall hafue« (DN. XII, 182; Cod. Munk. bls. 74). Nýi annáll getr þess, að Jón hiskup hafi dáið 1413, en á lífi var hann 25. Júlí 1413, því að þá gaf hann út bréf um reka Viðeyjarklaustrs. Eptir því sem ráða er, virðist Jón biskup hafa verið röggsamlegr maðr.

Wier brodir Jon med gudz nad biskup j skalhollti heilsum ollum þeim sem þetta bref siæ edur heyra med gudz quediu ok vorri. kunnugt giorandi at gudrun styrsdottir kom fyrir oss oc tiedi fur oss opid bref herra vermundar æbota med samri nad abota a helgafelli. j huoriu ad stod. ad hann henni hefdi skipat. þæ hann var j heilagrar skalholltz kirkiu officialis

starfi. hafandi fur sier skipan og giord herra gyrdz godrar minnijngar skalholltz biskups vorz foruerara fordum. ad kirkiunni a økrum skylldi obrygduliga fylgia. hafa ok hallda þann mældaga. sem hanz bref þar um giortt wtskyrir ok greinir sem med þetta vort bref er fest med øllum sijnum greinum oc articulis oc þeirra fleyra heilagrar skalholltzkirkiu formanna skipan oc giordir hier vm votta j þeirra brefi oc sijdan j þessu voru nefnast.

Nu af þui ad þessi hans skipan oc giord synest oss ecki j nockrum hlut oskiallig vera. oc eingin loglig motkost hafa fur oss komit hier j moti af nockrum manne oc ei finnum vær sialfir eda megum hier j moti læta koma annat sanara enn sem fur nefnd Gudrun tiedi vm þetta mæl. þui stadfestum vier med þessu voru opnu brefi. fur nefntt bref herra vermundar abota med ollum sijnum greinum oc articulis sem vottar vm maldaga millum krossholltz oc akra kirkiu. huorsu þat greinir nefndra kirkna j millum. huat huor þeirra skylldi eiga til Renttu. af þeim bæum sem þar til skyliazt med lysitollum oc lijkaoffrum. er suo heita. Eyriksstodum. jsleifarhusum oc hualseyum. wr vogi oc skutilzey. vr laxarhollti oc hømrum. skijdzhollti oc kalfalæk. þui skipum vier enn ad nýu biskup jon med þessu voru opnnu brefi. og stadfestum giordir oc skipaner vorra forverara heilagrar skalholltz kirkiu formanna. furst biskupa. sijra snorra oc sijra ola. sem ecki hafa viliat adra skipan æ giora enn ædr hefur verit. ad lysitollar oc lijka offur af furnefndum bæum skal lukast til akra kirkiu æuenlega hiedan af vm alldur oc æfi obrigdanliga standa skulandi j suo mæta sem til skilur j optnefndu brefi herra vermundar abota tijttnefndz[1]) hier med festu vndir bannz pijnu oc jnngøngu heilagrar kirkiu oc afsetnijngu hennar sacramentorum huorium sem þessa skipan oc giord dyrfast ad riufa. hindra eda talma afløgliga fur nefndri akrakirkiu. skulu furnefndir bæir sækia tijdir til akra sektalaust vndan teknum enum stæstum hætijdum. Skipum vier oc med þessu voru opnu brefi ad ecki skal meyra lukast j afgialld af akra kirkiu enn vj aurar æ huoriu ari hiedan af vm alldur oc æfi til krossholltz kirkiu obrigduliga fast oc stødugt standa skulandi.

---

[1]) tijttznefndz, transskr.

Oc til meiri sanninda hier vm. setium vier vortt jnnsigle fur þetta bref er giortt var j skalhollti manudaginn næstan fyrir Gregoriusmess anno ꝏ cd decimo[1]).

---

## 609. 3. April 1410. á Hrafnagili.

Dómr sex manna útnefndr af Rafni lögmanni Gudmundssyni um arf eptir Guðrúnu Þorgilsdóttur, og dæma þeir, samkvæmt réttarbót Hákonar konungs frá 23. Júní 1305, Þorkel Bergsson og Guðrúnu löglig hjón og börn þeirra skilgetin og eiga að setjast í arfinn.

AM. Fasc. VI, 30, frumbréfið á skinni; hafa verið 6 innsigli fyrir því, en þau eru nú öll dottin frá. Um bréfið segir Árni: »Anno 1715 feinged fra Monsr. Þorsteine Sigurdzsyne, hier i Kaupenhafn. Enn hann hafdi feinged nordan ã Jslande, af Sr Sæmundi Hrolfssyne«. AM. dipl. afskrr. 609 (eptir frumbr.).

domr[2]).

Þeim godvm monnvm sem þetta bref sea edr heyra senda gamle marteinsson. finnbogi jonsson. arni einarsson. steffæn gvnnlavghsson. Rvnolfr sturlvson ok hallr olafsson kuediv gvds ok sina kvnnigt gerranndi at þa er lidit vær fra hegat bvrd værs herra iehsv christi þvshvndrath fiogvr hvndrad ok tiv ær midvikvdag næstan fyrir ambrosivs Messo at Rafnagili j eyiafirdi vorvm wer j dom nefnndir af Rafnne gvdmvndz syni logmanne at dæma j millvm þorleifs bonda arnasonar j logligv vmbodi gvnnlavghs teitzsonar ok þorbiargar gvdmvndardottvr er sier kollvdv allann arf eptir gvdrvnw þorgilsdottvr en af annaRe halfv þorkels bonda bergssonar er þar var lögliga fyrir stefnndr.

jtem j fyrstv grein let nefndr þorkell sveria tva skilrika vatta er sva hietv eyiolfr þorsteinsson ok eirekr gestson at þeir vissv firir fvll sannendi at þat vorv ellefv vetr fra þvi er nefndr þorkell kom æsamt med gvdrvnv þorgilsdottvr ok til þess er hvn andadizst. vissv þeir ok at þav hielldv sigh firir loghlig hion wm allann þann tima æ millæ er hann var hier æ landi. var þorkell her æ jslandi enn tivnda vetrin ok woro

---

[1]) detimo. trannssk.; [2]) aptan á bréfinu.

þav þa enn æsamt. heyrdv þeir þat alldri býgdarfleýgt vera at hwn veri hans frilla edr horkona helldr heyrdv þeir þat marga menn segia at þav veri loglig hion. vndir somv grein sor nefnndr eirekr at hann heýrdi þorolf biarnarson þvi lysa fyrir sier at hann hefdi heýrtt þorgils bonda petrsson þvi lysa fyrir sier ad hann hefdi hia verit at þorkell bergsson hefdi fest gvdrvnv þorgilsdottur heima æ þoroddzstodvm.

j þridiu grein sor gvdmvndr steingrimsson at hann hafdi heýrt þorgils bonda petrsson þvi lysa fyrir sier ad opt nefndr þorkell hefdi fest gvdrvnv dottur hans ok þav veri logligh hion.

j fiordv grein sor jon sigvrdarson ath þar hefdi hann hia verit sied ok heyrtt æ æ þoroddzstodvm æ svalbardz strond j skælanvm at tittnefndr þorkell festi gvdrvnv þorgilsdottur sier til eighinkonv at gvds logvm þessvm monnvm hiaverandvm þorgilsi bonda fodvr hennar. þorolfi bonda biarnarsyni. klærw ormsdottvr ok þorbiorghv gvdmvndardottvr ok fleirvm odrvm godvm monnvm.

Nw sakir þess at rettarbot hakonar kongs[1]) seghir svo at þav hion er æsamt erv tív vetr ok hallda sigh fyrir logligh hion ath þeirra bornn skolv j arfb setiazst ok halldazst fyrir skilgetin ok þvi dæmdvm vær bornn þorkels bergssonar þav er hann hefvir ætt med gvdrvnv þorgilsdottvr skilgetin ok logligha til arfbs komin eptir fodvr sinn ok modvr ok adra frændr sina eptir þvi sem loghbok giorir ræd fyrir j erfdatæli ok skilgetnir menn eighw ath taka.

Ok til sannenda her vm settvm wer fyʀnefndir menn vær jncigle fyrir þetta domsbref er giortt var j sama stad ok ære deghi sidar en fyʀ segir.

---

## 610. 19. Juni 1410. á Grund i Eyjafirði.

Jón Jónsson vottar, að Hálfdán Einarsson gerði testament sitt í Kristnesi í Eyjafirði og gaf Katli syni sínum hálfa jörðina Nes í Höfðahverfi, en helminginn Hallgrími syni sínum.

AM. 255. 4to bls. 484. Bréfabók séra Skúla þorlákssonar á Grenjaðarstað skrifuð á árunum 1687—89.

---

[1]) Sbr. réttarbót 23. Júní 1305 § 6 (Dipl. Isl. II, 344).

Vitnissburdur Jons Jonssonar vppa Testamentissgiof Halfdanar Eynarssonar Katle og Hallgrijme sonum sijnum giefna 1410 effter sinn dag.

Þad giore eg Jon Jonsson godum monnum vitanlegt med þessu mijnu opnu briefe. ad þar var eg j hia. sä eg og heyrdi eg ä ad Halfdan Eynarsson giordi sitt Testamentum j Kristnese j Eyafirde. og gaff Katle syne sijnum jordena halfa nes. er liggur j Hoffdahuerffe j laufass kyrkiu sokn. og þar til tiju malnitu kugillde. og suo þar med tye. suerd og hanska. hest og Reidskap. En annann helmijng jardar gaff hann Hallgrijme syne sijnum og þar med tiju kuillde med þeim skildaga. eff fir nefndur kietill lifdi Hallgrijme leingur þa skillde Kietill eignast alla jordena Nes. Enn þaug xc sem Haldan gaf Hallgrijme skillde falla afftur til erffingja. og hier effter vil eg sueria fullann bokareyd. ef þurfa þiker. Og til sannenda hier wmm setta eg mitt jnncigle fyrir þetta vitnissburdar brieff. skriffad a Grund j Eyafirde. fimtudagenn næstann fyrer Jonsmessu Baptistæ Anno Domini ϖ. cd. x.

---

## 611. 31. December 1410. að Sauðhúsum.

Bjarni Ljótsson vottar, að hann var hjá, þegar Filippus Gíslason gerði sitt testamentum, heill að vitsmunum, en kránkr í líkam, og lýsti því, að Þórðr bróðir hans skyldi ganga að hálfum Haga og samþykti Guðný Þórðardóttir kona hans það; kvað hann og Þórð eiga meiri peninga í sinn garð, ef reiknað væri.

AM. dipl. afskrr. Nr. 1096, eptir frumbréfinu. Árni lýsir innsiglinu. »Skriften a brefenu er krokott, alika og i norskum brefum« (AM.).

Þath gerer ek biarne liotzson godum monnum kwnnigt med þesso míno brefe ath ek var j hia j hagha æ bardastrond þæ er filepus gislason gerde sitt testamentum heill at vitzmvnum en krankur j lijkam. lyste hann þvi þa fẏrer ollv þvi godo folke sem hia var at hann hefde eẏnghva peningha feingit þorde gislasyne brodur sinum fẏrer halfa jordina hagha æ bardastrond fẏr nefnda. gerde hann þæ ok suo Ræd fẏrer ath þordr gislason broder hans skwllde gangha aptur at jordu sinne

optnefndum halfvm haga æ bardastrond ok þessa hans gerd samþýckte gwdný þordardotter hwstro adrnefnds fylipus gislasonar ok gisle son hans sem þæ var komin til æra sinna. gerdo þav þetta oll saman med handabande at þordr gislason skwllde eiga tijttnefnda jord halfan haga æ bardastrond frialsa ok ækeýrolavsa ok aller hans erfingiar fýrer optnefndum fijlipus ok ollum hans erfingivm. lýste fijlepus gislason þo þvi at þordr broder hans ætte meire peninga j hans gard ok hans erfingia vm ef hann villde reikna. vil ek adr nefndr biarne her epter sveria ef þýrfa þicker. Ok til sanninda her vm þenna minn vithnisbwrd setta ek biarne liotzson mitt jnzcigle fýrer þetta bref sem gert var at savdhwsum j laxardal æta kvelld jola anno domini ꝏ⁰ cccc⁰ x⁰.

var ek adr nefndr biarne nær þvi at þordr gislason feck gisla brodursyne sinum halfan haga til kvonarmundar j svo mata at hann skilde sick aptur jord sina vm ef gisle deýde barnlavs.

---

## 612. 10. November 1411. á Vaðli à Barðaströnd.

Dómr sex manna útnefndr af Ara Guðmundssyni »kongs umboðsmanni yfir Vestfjörðum að Gilsfirði og Hrútafjarðará«, þar sem þeir dæma að Sigurðr Þórðarson hafi stefnt Jörundi Þórðarsyni löglega stundarstefnu, og að Guðrún Þórðardóttir mætti bera Sigurði Þórðarsyni sannindavitni, ef hún vildi.

AM. dipl. afskrr. Nr. 1099, eptir frumritinu. Voru þrjú innsigli dottin frá, en þrjú voru fyrir og lýsir Árni þeim og dregr upp innsigli Auðunar Magnússonar; er í því hægri hönd er heldr á öxi.

Þeim godvm monnum sem þetta bref sia edr heyra senda bavdvarr rafnsson. olafr brandsson. þordr svartsson. avdvn magnusson. jon þordarson ok hallr kalfsson q[ueditu] G[uds] ok sina kunnigt gerandi ath ver vorvm j dom nefndir af ara gvdmundssyni kongs vmbodsmanni yfver vestfiordvm ath gilsfirdi ok hrvtafiardaræ ath vadli a bardastravnd a almenniligv heradsþingi at dęma hvart sigurdr þordarson hefdi stefnt javrvndi þordarsyni lavgliga stundarstefnu eda eigi ok þui saker þess

ath kongs umbodsmadr hafdi fengit fýʀ nefndum sigurdi vmbod med handabandi ok vottvm demdvm ver adr nefnder menn stefnv[na] lavgliga.

Jtem j annari grein voro ver tittnefnder menn j dom nefnder af kongs vmbodsmanni ath dęma hvart gvdrvn þordardotter mętti bera sigurdi þordarsyni sanninda vitni eda eigi. þui saker þess ath ver vissvm hvarki frendsemi ne avnnvr venzl j millvm þeirra dęmdvm ver optnefnder menn fyʀnefnda gvdrvnv mega bera fvllann vitnisbvrd ef hon villdi. Ok til sanninda her vm settvm ver fyʀnefnder menn var jnsigli firir þetta domsbref gert a vadli a bardastrond þridiadag nęsta firir marteinsmesso anno domini m⁰. cccc⁰. xj.

---

## 613. 10. November 1411. á Vaðli á Barðaströnd.

Vitnisburðr Þrúðar Árnadóttur og Guðrúnar Þórðardóttur um að Þórðr Filippusson lagði Þórði Gíslasyni aptur hálfan Haga, sem hann hafði feingið föður hans til kvonarmundar, en hálfan lét hann fyrir peningamissa, og samþykti það Guðrún Snorradóttir og Jórundr Þórðarson, sonr hennar, sagði fyrir handabandi þeirra.

AM. dipl. afskrr. Nr. 1100, eptir frumritinu. Innsigli Ara og Ólafs Brandssonar var fyrir bréfinu, en hin voru dottin frá. »Brefed hefr alldrei vid neitt annad samanstungid verid. a þvi er krokott skrift älika sem finzt i norskum brefum«.

Jn primis er þetta vithnisbwrdr þrwdar arnadottur ok gwdrunar þordardottur at þær sa̋ a̋ handaband þeirra þordar gislasonar og þordar fijlipussonar. ĩalst þat vnder þeirra handaband[i] at þordr fijlippusson lagde aftur halfan haga þann sem þordur gislason hafde feing[it] fodur hans til kvonarmundar en halfan hæga feck fýrnefndr þordr fijlippusson þorde gislasýne fýrer þann peninga missa er tittnefndr þordr hafde haft sijdan fijlippus broder hans gifthizst til æfinligrar eignar honum ok hans erfingium. geck her til handabandz ok samþýcktar gwdrvn snorradotter er þa̋ var ʀettur erfinge þordar fijlipussonar ok jorundur þordarson fýrersagde handabande þeirra modur sinnar ok þordar gislasonar ok samþýckte alla þessa fýrnefnda gerd. lyste ok fýrnefndr þordr filippusson þvi at þordr gislason

ætte meire peningha j hans gard ef hann villde ʀeikna oc suo hefde hans fader honum sagth. var opt nefndr þordr fijlippusson þæ heill at vithe ok vizmunum þa er hann gerde þenna gerningh. beidde are gwdmundsson sýslomann jorund þordarson at leida sin prof þav hann til hefde ok ædr nefndr jorundr hafde adr heim vænzst j herad af logþinghe ok baud sick til at tacka a þeim. en titt nefndr jorundr sagdizst þar eingin vithne hafa ok þvi soru fýrnefndar kwinnur þrudr arnadotter ok gwdrun þordardotter fwllan bokareid fyrer ara gwdmundssyne sýslomanne ýfer vestfiordum epter þvi sem þeirra fýrr skrifadr vithnisbw[r]dr til seger.

Ok til sanninda her um setta ek are gwdmundsson kongs vmbodzmann mitt jnzcigle ok olafr brandzson. boduar ʀafnsson. þordr suartzsson ok hallur kalfsson sin jnzcighle med mino jnzcigle fýrer þetta vithnisbwrdarbref sem gert var at vadle æ bardastrond týrsdagh næstan fýrer marteins ϻesso anno domini ϻ⁰. cccc⁰. vndecimo.

---

## 614. 17. November 1411. à Reykhólum.

Hallr Kálfsson og Bjarni Ljótsson votta um vitnisburð Þormóðar Önundarsonar og Þrúðar Árnadóttur, sem kemr hér næst á eptir.

AM. dipl. afskrr. Nr. 1101, eptir frumritinu. Árni segir að innsigli Halls Kálfssonar hafi verið fyrir bréfinu, en innsigli Bjarna hafi verið slitið frá.

Þath gerer[1]) vid hallur kalfsson ok biarne liotzson godum monnum kwnnight med þesso ockro brefe ath vid vorum hia sam ok heýrdum æ ath þormodur aunondarson ok þrudr arnadotter handlogdo sigurde þordarsyne suo felldan vithnisbwrd sem sw skra til seger sem her er med bvndin þesso ockro brefe. Ok til sanninda her vm settum vid ockur incigle fyrer þetta bref sem gert var æ ʀeýkholum æ ʀeýkianese týrsdag næstan fyrer octæuo sancti martini episcopi et confessores[1]) anno domini ϻ⁰. cccc⁰. xj.

---

[1]) þannig.

615. [17. November 1411. á Reykholum].

Vitnisburðr Þormóðar Önundarsonar og Þrúðar Árnadóttur, að þau hafi verið í skálanum í Haga á Barðaströnd manndauða haustið »seinnara« og heyrt á, að Þórðr djákni Filippusson gerði sinn reikningsskap heill að viti og skynsemi, og gjörning þann, er hann gerði við Þórð Gíslason föðurbróður sinn, gerði hann áðr hann væri olíaðr, og lofuðu þau að eiðfesta framburð sinn, ef Sigurðr Þórðarson krefði.

AM. dipl. afskrr. Nr. 1102. »Ex avthentica pagina pergamena« (AM.). »Under þessare skrä hafa alldregi nein innsigle vered, helldr hefr hun i öndverdu samanstungin verid vid vitnisburd Hallz Kalfssonar og Biarna Liotzsonar dat. ad Reykholum tyrsdag næstan fyrer octavo sancti Martini Episcopi et confessoris 1411 (= Nr. 614). Samanstungin, seige eg, ä þann màta, ad þveingerner i þeirra innsiglum ganga i gegnum nedsta iadarinn ä skrånne. Sidan hefr hun ä ny saman stungin vered vid vitnisburd Magnuss Hallzsonar, Hallz Kalfssonar, Þorsteins Gudmundzsonar og Jons Helgasonar um þad sem fram for a Berufiardarþinge 1412 þridiudagin næstan fyrir Jonsmessu baptiste« [(AM.) = Nr. 621].

Jn primis er þetta vithnisbwrdr þormodar onundarsonar ok þrudar œrnadottur ath þau saugdozst verit hafa j skalanum j haga æ bardastrond mandeyda haustit seinnara friadagh næstan fÿrer mario Messo sijdare vm haustit[1]) ok hia verit ok heÿrtt œ at þordr di[a]ckne filippusson gerde sinn Reikningsskap heil at vithe ok skÿnseme en krankur j lijkama ok allan þann gerningh sem hann gerde med þord gijslason fodurbrodur sinn ok suarin vætte hafa vmgeingit gerde þordr fijlippusson fÿr en hann var olijadur ok her epter sogdozst fÿrnefnder menn þormodr ok þrudr villdo sveria ok lofodo sigurde þordarsyne sinn vijtnisbwrd her vm þegar hann þeim med logum til beidde med fwllo handabande.

Jtem ok eÿnghua gerd gerde þordr di[a]ckne epter þath er hann var olijadr wtan hann gaf sira œrna eyiolfssyne einn borinn voskÿrtil ok hetto ok hosur sick til bænahalldz.

[1]) mun vera 5 Sept. 1404.

616. 18. November 1411. à Reykholum.

Ari Guðmundsson sýslumaðr yfir Vestfjörðum og þrír menn aðrir votta, að Jörundr Þórðarson og Sigurðr Þórðarson höfðu handsöl að því að koma á næsta vorþing, sem Ari setti þeim, með öll sín vitni og próf og svo skyldi þeir koma til næsta alþingis eða umboðsmenn þeirra í lögréttu næstan særan dag eptir Pétrs messu og Páls, undir dómnefnu lögmanns.

AM. dipl. afskrr. Nr. 1097, eptir frumritinu. »Fyrer brefinu hafa vered 4 Jnnsigle, eru nu ǫll burtu« (AM.).

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia edr heyra senda erligur mann are gwdmundsson syslomann yfer vestfiordum olafr brandsson. boduar Rafnsson ok hallur kalfsson q[ediu] g[uds] ok sina kwnnigth gerande ath manodagh næstan fyrer marteins messo[1]) at vædle æ bardastrond anno domini m⁰. cccc⁰. vndecimo æ almenneligho heradsþinghe vorum vær hia ok sæm [ok] heyrdum a at þeir hielldo hondum saman af einne alfo jorundr þordarson en anare sigurdr þordarson. falzst þat vnder þeirra handabande at þeir lofodo sick bæder æ þat næsta vorþingh sem are gwdmundsson sette þeim þegar sigurdr kvæme sunnan um land. skwlldo þeir þa bæder þar komner sem stefnder med oll þau vithne sem þeir til hefde ok þeim matte til bata verda j þeirra malaferlum ok eighe voro adr teckin en þau sem þar være þa eighe komin ok j herade mætte leidazst þæ skyldo þau æ huorga sido seinar meir heyrazst ok ecke afl hafa.

Jtem lofudo fyrnefnder menn jorundr ok sigurdr ok logdu sick j sama handabande til næsta loghþinghis j logretto næstan særan dagh epter petursmesso at sumre komanda vnder þann dom sem loghman þar yfer nefnde ok hans o[r]skurd med oll þau prof og skilrike sem þeir framazst til hefde vm þeirra mal en oll þau þar være þæ eighe komin þa skwllde þeim forskothit ok ecke sidar meir heyrazst eigha. Være suo ath þeir mætte sialfer ecke til þings komaz sacker forfalla þa skwlldo koma þeirra loghliger vmbodsmenn suo þar mætte til alsættis

[1]) þ. e. 9. Nóvember.

vegur ꝏ gerazst titt nefndra manna j millum jordundar ok sigurdar.

Ok til sanninda her um settum vær fẏrrnefnder menn vor jnzcigle fẏrer þetta bref skrifat ꝏ ꞃeykholum ꝏ ꞃeẏkianese miduikodagh næsta fẏrer ceciliomesso ꝏ þvi ꝏre sem fẏr seger.

---

## 617. 16. December 1411. à Hólum i Hjaltadal.

Logi prestr Stígsson officialis heilagrar Hólakirkju leggr hálfa jörðina á Torfalæk til Reynistaðarklaustrs af því að klaustrinu hafi hingað til eingir peningar komið fyrir hana, og bannar hann Ólafi Loðinssyni að nota hana.

AM. 280. 4to bls. 21 skr. c. 1640 með hendi Hákonar Ormssonar; AM. 277. 4to bls. 40 skr. 1640 af Guðmundi Andréssyni; JSig. 143. 4to bls. 385 með hendi Hákonar Ormssonar c. 1640. »Novum festum« sbr. hið nýja hald. Dipl. Isl. III, Nr. 305.

Torffalækur[1]).

Eg Loge prestur Stigsson Holakirkiu officialis kunngiörer godum mönnum þetta breff siaendum og heyrendum.

Saker þess ad önguer peningar haffa fyrer komed stadnum i Reyninese fyrir halffa jördena ad Torffalæk epter þui sem loffad var fyrr sögdum stad. þui skipar eg aptur fyrrgreinda halffa jörd Torffalæk optneffndum stad og klaustrenu til fullrar ejgnar og notar og stadarins eign vera og vered haffa upp frä þui er hönum var gieffenn og ei voru peningar fyrer lukter. Þui fyrerbyd eg þier Olaffur Lodensson ad haffa eda haffa laata tijttneffnda halffua jörd þier til nockurrar notar. vpp fraa heyrdu þessu minu breffe nema radsmadur þrattneffnds stadarins vilie frelsa þier. Býd eg Þorde Hraffnssyne ad lesa þetta mitt breff fyrer neffndum Olaffe Lodenssyne. vottum hiaverandum.

Og til sannennda hier vmm setta eg officiolatus jnsigle fyrer þetta breff. skriffad a holum i hialltadal in ocktafa nofi festi[2]) Anno Domini M⁰. cccc⁰. xj⁰.

---

[1]) Torfalækiarbref 143; [2]) festus(!) 280: bendir það á, að Hákon Ormsson muni ekki hafa verið latínulærðr.

## 618. 12. Februar 1412. i Skàlholti.

Jón biskup í Skálholti, tveir prestar og þrír leikmenn transskríbera máldaga Breiðabólstaðar í Fljótshlíð.

AM. dipl. afskrr. 2110 »ex originali Breidabolst. Fliotzhlid«. þrjár afskriptir.

Avllum monnum þeim sæm þetta bref sia æðr hæẏra senða broðir jon visitator ẏfuer allt jslanð. jon þorstæinsson radzmann j skælhollti. broðir þorfinr bæinisson. prestar. jon egilsson. grimr egilsson oc snorri jonsson leikmenn kveðiu guds oc sina kunnigt gerandi ath wer sæm oc yfuer læsum mælðaga kirkiunnar æ bræiðabolstað j fliotzhlið suo sem hann stendr skrifuaðr j mælðagabok kirkiunnar j skælhollti oc suo lætanda orð epter orð sem hær segir. [Hér kemr máldaginn frá 1371, Dipl. Isl. III, 223].

Ok til sannenða oc mæiri auðsyningar hær vm setti vorr virðuligr herra oc anðaligr faðir herra jon meðr guðs næð biskup j skælhollti sin jnnzsigli med worum innzsiglum fir þetta mældaga bref gert j skælhollti pridie ẏdus februarij anno domini ꝟ°. cð°. duoðecimo.

---

## 619. 22. Juni 1412. à Reykholum.

Ari Guðmundsson kongs umboðsmaðr í Vestfjörðum vottar, að bæði hann og Sigurðr Þórðarson hafi krafizt Jörundar Þórðarsonar eða hans löglegs umboðsmanns á þingi, eptir því sem þeir Sigurðr og Jörundr höfðu skuldbundið sig til að mæta, en af því Jörundr mætti ekki og einginn fyrir hans hönd, tók Ari eið af Halli Kálfssyni og Þormóði Ólafssyni.

AM. dipl. afskrr. Nr. 1098 eptir frumritinu. »Jnnsigle ara gudmundzsonar fylger brefene og hafa med þvi bæde þesse bref samanstungin vered« (AM.). Þ. e. þetta bréf og bréfið Nr. 616. Um þau bréf önnur, sem með þessu bréfi hafa bundin verið, fer Árni þessum orðum: »þesse eidur Hallz Kalfssonar og Þormodar Olafssonar, sem vid þetta bref Ara Gudmundzsonar hefur samanstunginn vered, er nu burt fra brefenu, og solundadr. hafa so i fyrstu 3 brefen samanfest vered med innsiglesþveing Ara. 1. Bref Ara, Olafs, Böðvars og Hallz (Nr. 616). 2. Eidurenn sem nu er burtu. 3. þetta bref Ara dat. 1412«.

þat gerer ek are Gvdmundsson kongs vmbodsmann vm vestfiordo godum monnum kwnnigth med þesso míno brefe at anno domini ꝏ⁰. cccc⁰. dvodecimo þridiudagh næstan fẏrer jonsmesso baptiste[1]) j berofirde a almennilegho þinghe þvi sem ek setta jorunde þordarsyne ok sigurde þordarsyne at leida sín pro[f] þau sem þeir mætte j herade leida ok þeir fẏrnefnder menn hofdo adr med handabande med lofadzst því beidde ek ok krafde jorundar þordarsonar edr hans loghligs vmbodsmanz svo ok ei sidr beidde ok krafde sigurdr þordarson jorundar þordarsonar edr hans loghligx vmbodsmannz. nu medr þvi at þar kom ecke ofthnefndr jorundr ok einghe hans vmbodsmann til at finna loghmætar saker þeim vottum sem sigurdr baud þar fram ok bad mic þar tacka ok þvi tok ek af halle kalfssẏne ok þormode olafssyne suo felldan bokareid sem þeirra bref er liodande sem her er med bwndith þesso mino opnu brefe.

Ok til sanninda her vm setta ek mitt jnzcigle fẏrer þetta bref sem gerth var a Reẏkholum a Reykianese deighe seinna ok a sama are sem fẏr segher.

---

## 620. 22. Juni 1412. á Reykholum.

Sex manna dómr útnefndr af Ara Guðmundssyni kongs umboðsmanni í Vestfjörðum, þar sem þeir dæma, að Þormóðr Önundarson, sem hafi meðkent frændsemi við Jörund Þórðarson, en sem sé í eingum sifskap né frændsemi við Sigurð Þórðarson, sé Sigurði fullgilt lagavitni.

AM. dipl. afskrr. Nr. 1104, eptir frumbréfinu. Árni lýsir innsiglunum. »Brefed er ritad med krockottum oiðfnum stöfum, alika sem er i norskum brefum« (AM.).

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia edr heẏra senda besse helghason. boduar rafnsson. magnus hallzson. hallur kalfsson. audun magnus[son] ok þorsteinn gwdmundarson q[ediu] g[uds] ok sina kwnnigth gerande at anno domini ꝏ⁰. cccc⁰ duodecimo þridodagh næstan fẏrer jonsmesso baptiste vm sum-

[1]) þ. e. 21. Júní.

arit[1]) j berofirde æ almennilighо þinghe vorum vær j dom nefnder af heidarligum manne ara bonda gvdmundssyne sem þæ hafde kongs vmbod vm vestfiordo at dæma huort þormodr aunondarson matte gangha sigurde þordarsyʀe fyrer lægha vott edr eighe j malaferlum þeirra jorundar þordarsonar. nu saker þess at fyrnefndr þormodr kenndizst frændseme med ædr nefndan jorund en vær vissum huorke frændseme ne sifskape med þeim sigurde þordarsyne og þormode aunondarsyne ok þui dæmdo vær þormod tittnefndan megha Ꝏed retto bera sigurde þordarsyne fwllnadarvithne eftir þui sem hann hafde adr sigurde lofat ef hann villde bera.

Ok til sanninda her vm settum vær fyrnefnder menn vor jnzcighle fyrer þetta bref sem gert var æ reykholum æ reykia nese deghe sidar ok æ þvi ære sem fyr segher.

---

## 621. 23. Juni 1412. á Reykholum.

Magnús Hallsson og þrír menn aðrir votta, að Þormóðr Önundarson og Þrúðr Árnadóttir handfestu Sigurði Þórðarsyni vitnisburð sinn frá 17. Nóv. 1411 (Nr. 615) og vildu sverja, en hvorki Ari Guðmundsson kongs umboðsmaðr né Árni prófastr Eyjólfsson vildu þessi próf taka.

AM. dipl afskrr. Nr. 1103, eptir frumritinu. Fjögur innsigli hafa verið fyrir bréfinu, en ekki voru eptir nema innsigli Halls Kálfssonar og Þorsteins þegar Árni lét afskrifa bréfið. »2 af þessum innsigla reimum nefnelega þess 2ars og 3ia eru stungnar i gegnum þa skrã er fylger vitnisburdi Hallz Kalfssonar og Biarna Liotzsonar, so ad hun fôst er vid þesse tvenn originalbref, og þesse 3 bref so samfôst« (AM.).

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia edr heyra senda magnus hallsson. hallur kalfsson. þorsteinn ɢwdmundarson ok jon helgason ǫ[uediu] ɢ[uds] ok sina kwnnigt gerande at þridiudagh næstan fyrer jonsmesso baptiste vm sumarit[1]) anno domini Ꝏ⁰. cccc⁰. dwodecimo j berofirde æ almennilighо þinghe sæm vær ok heyrdum æ at þormodr aunondarson ok þrudr arnadotter handfesto sigurde þordarsyne svo felldan vithnisbvrd sem sv skra er liodande sem her er med bwndin þesso voru

---

[1]) = 21. Júní

brefe ok þau fyr nefndir menn þormodr ok þrudr voru þar til Reido æ þinghino at sueria epter sinum frambwrd fwllan bokareid þvi sigurdr þeim þar med logum til beidde en are bonde Gvdmundsson kongs vmbodsmann villde þesse prof ecke tacka þvi hann sagde til bera kirkiunar vmbodsmanne at taka profin ok þæ beidde sigurdr þordarson ara gvdmundsson nefna dom ýfer hvort honum bære til at tacka pro[f]in edr eige. en hann villde þat ecke. þæ beidde sigurdr þordarson sira arna eyiolfsson profast at hann segde o[r]skurd yfer hvort honum bære til at tacka tittnefnd prof edr eighe enn hann villde þat ecke ok sagde sick þo ecke til bera at tacka profin ok þvi soru eighe optnefnder menn þormodr ok þrwdr at hvorge villde þeirra eid tacka are bonde Gvdmundsson edr sira arne eýiolfsson profastur.

Ok til sanninda her vm settum vær fýrrnefnder menn vor jnzcigle fýrer þetta bref sem gert var æ Reykholum æ Reykianese fimtodag næstan fyrir jonsmesso baptiste æ þvi ære sem fýr seger.

---

## 622. 1. Juli 1412. á Öxarárþingi.

Alþingisdómr tólf manna útnefndr af Hrafni lögmanni Guðmundssyni, þar sem Sigurði Þórðarsyni er dæmd jörðin Hagi á Barðaströnd til æfinlegrar eignar, en öll próf og skilríki Jörundar Þórðarsonar dæmd ónýt og ekki heyrast eiga héðan í frá.

AM. dipl. afskrr. Nr. 1105 eptir frumritinu. Arni lýsir innsiglunum, sem hafa verið tólf og stafagerð bréfsins. »Hönden a þessum badum brefum er riett hin sama, skriften er osettt, eg likare norsku skriftarforme« (AM.); var þetta bréf stungið saman við úrskurð Rafns lögmanns frá sama degi (Nr. 623). AM dipl. afskrr. Nr. 1107, eptir transskripti frá 25. Aug. 1412 (Nr. 624); ber þessum afskriptum ekkert á milli, nema smávegis í rithætti. Transskriptið hefir t. a. m. Sigurðr, en frumritið Sygrðr.

Ollum monnum þeim sem þetta bref sea edr heýra sennda audun salomonzson. asgeir arnason. geir arnason. mattheus petrsson radmann j berguin. þorsteinn syg[u]rdzson. eyiolfr þoruardzson. einar bergþorsson. illhugi biorgolfzson. ion jonsson. olafr eýiolfsson. biorn audunarson ok arni gudbiartsson kuediu

guds ok sina kunnikt gerandi ath sub anno domini ꝏ⁰. qcccc⁰[1]) duodecimo fimtadag næstan efter petrsꝏesso æ auxarærþingi vorum ver j dom nefndir uth af logrettu af erlighum manni ok velbornum hrafni bonda gudmundssyni logmañni nordan ok vestan æ jslandi ath dæma lög ok rett millum þeirra iorundar þordarsonar af einni halfu ok sýg[u]rdar þordarsonar af annari vm þa akiæru ok tiltolu sem adrnefndr sýg[u]rdr hafdi til iardarenar haga æ bardaströnd ok þeir fýr nefndir menn hofdu adr med handabandi undir lagt nottum hiauerun̄dum til lögrettu æ alþingi med oll þau prof og skilriki sem þeir adrnefndir menn iörundr ok sýg[u]rdr hefdi edr þeirra umbodsmenn sig til bata vm fýrgreind malefni ok þui at teknum ok skodudum ollum þeirra profum ok skilrikium dæmdum ver fýrnefndir menn optnefndum sýg[u]rdi þordarsýni jördina haga æ bardaströnd til æfinligrar eignar kuitta ok ækiærvlausa firir adrnefndum jorundi þordarsyni ok ollum hanz efterkomindum ok erfingium nu at næstum fardoghum ok ollum profum jorundar þordarsonar ok hanz erfingia forskotith ok ecki heýrazt eiga hedan j fra vm opt nefnda jord haga æ bardaströnd. Ok til sanninda her vm settum ver fýr nefndir menn uor innzsigli firir þetta domsbref skrifath æ þinguelli æ sama ari degi sidar enn fýr segir.

---

## 623. 2. Juli 1412. á Öxarárþingi.

Hrafn lögmaðr Guðmundsson staðfestir alþingisdóm tólf manna um Haga (Nr. 622), þar sem hann er dæmdr Sigurði Þórðarsyni til eignar.

AM. dipl. afskrr. Nr. 1106 eptir frumritinu. - »Jnnsigle Hrafns lögmannz hefur fyrer brefenu verit og hefur med þess þveing 12 manna domurinn samanstunginn vered vid þenna lögmannz urskurd. Nu er innsigled slitet fra brefenu« (AM.). AM. dipl. afskrr. Nr. 1107 eptir transskripti gerðu 25. Aug. 1412 (Nr. 624) og ber þeim ekkert á milli, nema lítilsháttar í rithætti.

Ollum monnum þeim sem þetta bref sea edr heýra sendir hrafn gudmundsson logmann nordan ok uestan æ jslandi kuediu guds ok sina kunnikt geranndi ad sub anno domini ꝏ⁰. qcccc⁰.[1]) duodecimo fimta dagh næstann efter petrsꝏesso j

[1]) þ. e. quadringentesimo.

logrettu æ alþingi kom firir migh syg[u]rdr þordarson og beiddi migh ok krafdi laga orskvrdar vpp ꝏ þann tolf manna dom sem ek adr vthnefndi af logrettu ath dæma log ok rett j millum þeirra jǫrundar þordarsonar af einni hálfu ok adrgreinds sýg[u]rdar af annari vm jordina haga æ bardastrǫnd ok saker þess ath sýg[u]rdr þordarson hafdi leitt þau prof heima j heradi firir ara gudmundzsýni kongs umbodsmanni ath þordr philippusson sem rettr erfingi var ath haga ꝏ bardastrond efter fodr sinn ok modr ok sýstkin sin lagde aptr halfan haga ꝏ bardastrǫnd þordi gislasyni fodrbrodr sinum er þordr gislason hafdi led filippus brodr sinum til kuonarmundar en halfan firir þann peninga missi sem tittnefndr þordr gislason hafdi haft sidan filippus brodir hans giftizt til æfinlegrar eignar honum ok hans erfingium at næruerandi ok uppleggiandi med fullu handabandi gudrunu snoradottr sem þa stod næst til erfdar efter þord diakna philipusson ok iǫrundr þordarson firirsagdi handabandi ꝏodr sinnar gudrunar ok þordar gislasonar ok samþýkkti alla þeirra gerd þessa ok þui ath til kǫlludum ok samþykiandum þeim bezstum monnum er hia migh voro j logrettu sagda ek hrafn gudmundzson logmadr j guds nafni amen med fullum laga vrskurdi adrgreindann doma j alla stadi logligann ok obrigdiliga halldazt eiga þann sama sem her er med bundinn þessu minu orskurdar brefi. Ok til sanninda her um setta ek mitt innsigli firir þetta mitt orskurdar bref sem gert uar ꝏ þinguelli sama ari degi sidar en fýr seger.

---

## 624. 25. August 1412. á Eyvindarstöðum.

Vigfús Ívarsson hirðstjóri og fimm menn aðrir transskríbera tvö bréf um Haga á Barðaströnd frá sama ári.

AM. dipl. afskrr. Nr. 1107, með hendi Árna Magnússonar eptir frumritinu. »Under þessu transscripto hanga. 1. Jnnsigle Vigfuss Jvarssonar Hirdstiora, hvar i sperra med 2 stiǫrnum. og brennande hiarta, sem synest. 2. S. IOHANIS. KARONIS. PRESBI. er oval, af minna slage, þar i Sanctus einhverr i hussdyrum. 3. 4. innsiglen eru burtu. 5. S. ASBERNI THOD. 6. S. SIGVRDI HAFL. Þessi eru litil og vel stungin. Brefed er ritad med krokottu osettu skriftarlage, eige olikre norskre skrift. sem um þä tid og nockru fyrr brukanleg var« (AM.).

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia edr heyra senda erligr mann ok velborinn vighfus bonde juarsson hirdstiorer ýfer allt jsland. sira jon karason. andres arnorsson prestar. steinþor andresson. asbiorn þordarson ok sigurdr haflidason leikmenn Q[uediu] G[uds] ok sina kwnnight gerande at vær sꝏgum ok yferlasum opith bref xij loghrettomanna ok loghmanz o[r]skurd þar med bvndin hverir ath seinar nefnazt i þesso brefe med þeirra heilum ok oskoddum hanghanda jnzciglum suo liudanda ord epter ord sem her seger.

[Hér kemr:

1. Alþingisdómr frá 2. Júlí 1412, Nr. 622.

2. Úrskurðr Rafns lögmanns frá 2. Júlí 1412, Nr. 623].

Ok til sanninda her vm settum vær fýrnefndir menn vor jnzcigle fýrer þetta transskriptabref sem gert var ꝏ eyuindarstodum ꝏ alftanese fimtha dagh næstan epter bartholomeus messo æ sama are sem fýr j brefeno seger[1]).

---

625. 21. Oktober 1412. að Myrká.

SIGURÐR Jónsson selr Þorleifi Brandssyni hálfa jörðina Hleiðrargarð í Eyjafirði fyrir þrjátigi hundraða.

AM. Fasc. VII, 1. frumbréfið á skinni; fjögur innsigli hafa verið fyrir bréfinu; hið síðasta af þeim er dottið frá.

Umm Hleinargard j eiafirde[2]).

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia edr heyra senda biorn jonsson. steingrimr bergfinzson. jon þordarson. ok þorir einarsson Q[uediu] G[uds] ok sina kvnnikt gerandi. at vær vorum i hia sæm ok heyrdum æ handaband þeirra sygurdar jonssonar ok þorleifs brandzsonar med sua fyrir skildu at fyrnefndr sigurdr selldi adr nefndum þorleifi jordina halfa hleidrargard j eyiafirdi med ollum þeim gögnum ok gædvm sem þeirri jordv fylgir ok hann vard fremzst eigandi at. her j mot gaf þorleifr þriatigi hundrada. vorv þat fyrst fimtan hundrat er stodv vnder honvm sialfvm. ok þar til fimtan kvgilldi med sua felldvm frid-

---

[1]) þ. e. í alþingisdóminum og lögmannsúrskurðinum; [2]) aptan á bréfinu. Þar stendr og »Num. 229«.

leika. fim asaudar kvgilldi. fim kýr. þriu gelldfiar kvgilldi. cc. vadmala. lvkazst vt æ þrem ærum nema þeim sealfum semdi odru vísv. sagdi sýgurdr til bænahvs skylldar a jordvnni. skylldi sygurdr suara lagariptingum a sagðri jordv en þorleifr hallda til laga. Ok til sannenda her vm settvm vær fyr nefndir menn var jnzsigli fyrir þetta bref skrifat at myrka j horgardal fostvdag fyrstan j vetri. anno domini ᴍ⁰ quadringentesimo dvodecimo.

---

626. 21. Juli 1413. i Skálholti.

Jón biskup í Skálholti staðfestir máldaga Viðeyjarklaustrs frá 1284 (sbr. Dipl. Isl. II, Nr. 119) og skipar um reka klaustrsins.

AM. 238. 4to bl. 35—36 skr. 1570—80 (í transskr. frá 21. Júní 1475); AM. 65. 8vo (ártal 1530!) bls. 1—7; AM. dípl. afskrr. 1791 (eptir 238); IBfél. 126. 4to; Landsb. 108. 4to bls. 310—12 (ártal 1430, en *leiðrétt*) og bls. 309—310 (ágrip); British Museum Add. 11,154. 4to, bók með hendi Hákonar Ormssonar skr. c. 1640, er átt hefir »herra Olafur Gislason« (biskup); ártal 1430. Þar er og ágrip bréfsins.

Vær broder jon med gvdz nad biskup j skalhollti heilsum ollvm godvm monnum þeim sem þetta bref sia edvr heýra med gvdz kvediv ok vorre.

vær villivm ýdvr [vitvrligtt giora[1]) at vær stadfestvm ok samþyckivm med þessv voro opnv brefi med radi ok samþycki þeirra godra manna sem sidar nefnnazt j þessv voro[2]) brefi þann maldaga sem brodir biarne med samri[3]) nad aboti j videy [birte[4]) firir oss ok liet lesa ok skoda af sogdvm godvm monnum. er samhliodande [er vid[5]) vora maldaga ok vorrar kirkiv [i Skalhollte[6]) er svo vottar:

Þesse jtok æ stadvrinn j videý j jardir annara manna. fiordvng j hvalreka j krýssvvik. hellming vidar ok hvala med hravns laudi j grindavik.

hier medvr samþyckivm vær [eigi sidvr[7]) med þessv vorv sama brefi at samreke sie j millvm [greindrar halfrar[8]) jardar: halfs hvalreka [at hravns lande adur sogdv epter jardar magni

---

[1]) [vita láta 108; [2]) opnu b. v. 108; [3]) guds b. v. 108 (eflaust ranglega); [4]) [byrte 108; AM. hefir fylt út eyðuna í 238 með: hafdi; [5]) [hornið rifið af 238; [6]) [i Skalhollte, b. v. 108; [7]) [ecke ad sijdur 108; [8]) [halfrar greindar 108.

vidvr[1]) adrar vorar jarder j adursogdvm stad hvar sem þar rekvr sem adur hefer þar vane logligvr ok nýr til verid af avllvm þeim jordvm sem þar liggia annara manna[2]) sem vorra[3]) æfinliga hiedann af firir oss ok alla vora logliga epterkomendur. Greindvm herra biarna abota j videy ok avllvm hans loglıgum epter komendvm þess klavstvrs til æfinligrar eignar ok frials for[r]ædis. Enn þeir rekar sem biarnne aboti þickizt meire eiga nær greindvm takmorkvm blifi ok veri epter þeirre skýring ok vnderstodv sem þetta bref vottar er medvr þetta vortt bref er fest. vtann oss ok vorre kirkiv berizt odrv vis sidar meir med lavgvm ok riettv vm alla greinda reka þeim vitnvm[4]) forskiotvm vier eigi æleidis.

og til meire[5]) stadfestv ok sanninda[6]) hier vm settvm[7]) vær vortt[8]) insiglle ok þessir goder menn sin insigle med vorv. stadfestv sinnar[9]) samþycktar[10]) med vorre er svo hietv: brodur[11]) vermundur med samri nad aboti [ad Helgafelli[12]). vigfvs jvarsson hirdstiore yfer alltt Jsland. oddur jonsson. Einar havksson vor radzmadvr. þorstein svartthavfdason. liotur andresson ok pall biarnnason prestar vorer firir þetta bref er giortt var j skalhollte fostv dagenn næsta epter translatio sancti thorlaci [episcopi et confessoris[13]) anno domini ꝏ° cd°. xiij ar.

---

626. 10. Oktober 1413. i Lýbiku.

JÓHANNES biskup í Lýbiku vottar, að hann hafi í umboði Jóhannes páfa 23. vígt Árna [Ólafsson] til biskups í Skálholt í dómkirkjunni í Lýbiku í viðrvist tveggja nafngreindra biskupa og margra annara góðra manna.

AM. Fasc. Lxvi, 5 í transskripti Jóns Hólabiskups á skinni gerðu í Björgvin 28. Sept. 1414. Aptan á bréfinu stendr með fornri hendi:

»Exemplar literarum continentium promotum quendam Episcopum Schalaltensem ab episcopo lubecensi«.

---

1) [og triä med laudi ädur sǫgdu efter iardar megne vid 108; 2) manna b. v. 108; 3) voru(!) 108; 4) vitninn 108; 5) meira(!) 238, »vitmeire« 108; 6) skr. »haninda«(!) 238; 7) setium 108; 8) vor 108; 9) hinnar(!) 108; 10) samþyckter(!) 238; 11) broder 108; 12) [ad Helgafelle 108; j videy 238(!); 13) [sl. 108.

Árni ritar. aptan á bréfið: »Johannis Episcopi lubecensis litteræ testimoniales de consecratione Arneri Episcopi Schalholtensis in Islandia 1413 transsumtæ per Johannem Episcopum Holensem 1414.« AM. 22. Fol. bl. 135, afskr. á pappír skr. c. 1600.

Episcopus scaleholtensis consecratus ab episcopo Lubecensi[1]).

Vniuersis et singulis ad quos presentes nostre litere peruenerint Johannes dei et apostolice sedis gracia episcopus Lubicensis salutem in domino et presentibus fidem indubiam adhibere. noueritis quod nos sub anno domini Millesimo quadringentesimo tercio decimo jndictione sexta. pontificatu sanctissimi in christo patris et domini nostri domini johannis diuina prouidencia pape vicesimi tercij anno quarto die uero dominica qua cantabatur in ecclesia dei Justus es domine et cetera que fuit decima dies mensis octobris in ecclesia nostra kathedrali Lubicensi missarum sollemnia celebrantes. ex commissione et licencia prefati sanctissimi domini nostri domini johannis nobis super hoc generaliter factis in multorum fidedignorum presencia et specialiter Reuerendorum in christo patrum et dominorum videlicet Detleui Ratzeburgensis ac fratris Marquardi Galliopolensis ecclesiarum eadem gracia Episcoporum protunc nobis assistencium et consecrancium. venerabili viro domino Arnero per prefatum dominum nostrum papam alias ad ecclesiam Scalotensem electo atque promoto iuxta formam et consuetudinem sancte Romane ecclesie in talibus obseruari consuetas Munus consecrationis impendimus jpsumque in episcopum duximus consecrandum sibi per ordinem insignia pontificalis dignitatis et ordinis conferendo.

Jn cuius rei testimonium et dicti domini Arneri cautelam has nostras patentes literas exinde sibi fieri fecimus quas nostri pontificalis sigilli iusimus appensione muniri.

Datum et actum anno jndictionis pontificatu die mense et loco preexpressis.

---

628. 28. Oktober 1413. á Reynistað.

SIRA Björgólfr Illugason gefr í klaustrið á Stað í Reynisnesi

[1]) 22.

undir reglu hins heilaga Benedicti Steinuni dóttur sína og Sigríði Sæmundardóttur frændkonu sína og gefr klaustrinu fimm tigi hundraða í forgipt.

AM. Fasc. VII, 2 frumbréfið á skinni. Þrjú innsigli hafa verið fyrir bréfinu, en þau eru nú dottin frá. Árni segir að þetta sé Reynistaðarklaustrsbréf.

Jn nomine domini amen.

gerdiz sua fellt kaup millum klaustrsins a reynisnesi af einni halfu ok sira biorgolfs jllöghasonar af annarri halfu. ath sira biorgolfr gaf j klaustrid steinunni dottur sina. ok sigridi sæmundardottur frændkonu sina til þess ath þær skylldu verda systr vnder reglu hins heilagha benedicti. gaf nefndr sira biorgolfr klaustrinu adr nefndu fim tighi hundrada j forgift fyrir fyrgreindar sinar frændkonur. halfr þridi tögr kugillda. fimtan hundrath j slatrum. sex tighi vætta skreidar. luka vth æ þrimr ærum. var ok sua fyrir skilt þo ath meyiarnar deydi jnnann þriggia ara skilldi klaustrid eignaz þessa peninga. sua ok þo ath steinunn dottir hans uili venda sigh aptr til veralldar lifs þa er hon kemr til sinna æra sua at hon æ sialf ath ræda ser skal klaustrid godz sith eignaz sem fyrr segir. skildi sira biorgolfr þikunum læring af klaustrinu. ok tuitögha hafnar vod huarri þeirra til klæda ser ærligha. var ek broder jon officialis heilagrar hola kirkiu nærri heima ath holum æ ærtidardagh hins goda gudmvndar[1]) sub anno domini ꝏ°. cd°. xiij°. þa er þessi gerd for fram ok systir þorunn ormsdottir var priorissa fyrir greindu klaustri. ok margir adrir dughandi menn lærdir ok leikir samþyckiandi alla þessa gerd. Ok til audsyningar ok meiri stadfestu her vm setta ek officialatus jnsigli. ok systir þorunn kapitula jnsigli. ok sira biorgolfr sitt jnsigli fyrir þetta bref scrifuath j reynisnesi jn festo sanctorum apostolorum simonis et iude. æ sama æri sem fyrr segir.

---

## 629. 30. Januar 1414. i Helsingjaborg.

Árni biskup í Skálholti og Steinn ábóti í Múnklífi í Björgvín transskríbera vitnisburð Magnúsar Beintssonar um erfðarétt

[1]) þ. e. 16. Marts.

